*ÚRVAL þetta úr ritum og ræðum séra Jóns Bjarnasonar, dr. theol., er gefið út á aldarafmæli hans af Hinu Evangeliska Lúterska Kirkjufélagi Íslendinga í Vesturheimi.*

# JÓN BJARNASON
# RIT OG RÆÐUR




WINNIPEG, MANITOBA, 1946

# FORMÁLI

*Fimtánda nóvember 1945 voru hundrað ár liðin frá fæðingu Jóns Bjarnasonar. Eins og eðlilegt og sjálfsagt er, þá fann Hið evangeliska lúterska kirkufélag Íslendinga í Vesturheimi til þeirrar skyldu, að minnast bæri þess mæta manns og mikilhæfa leiðtoga við þau tímamót á sérstakan og minning hans samboðinn hátt.*

*Um ýmislegt gat verið að ræða í því sambandi, og um ýmislegt var rætt. En á kirkjuþingi lúterskra manna, sem haldið var í Argyle-bygð í Manitoba 1944 kom fram ákveðin tillaga frá þingnefnd, sem mál það var falið til athugunar, og tillagan var sú, að hundrað ára fæðingarafmælis Jóns Bjarnasonar yrði bezt minst með því að gefa út úrval úr ritum hans, þó erfitt væri að taka þar eitt fram yfir annað, því svo vel væri gengið frá öllu því, sem frá penna þess manns hefði komið.*

*Á kirkjuþingi því, sem á er minst að framan, vanst ekki tími til að útkljá málið, og var það því falið stjórnarnefnd kirkjufélagsins til frekari athugunar og afgreiðslu. Eftir ítarlega athugun féllst stjórnarnefndin á tillögu þingnefndarinnar með bókarútgáfuna, en þó ekki fyr en stjórnarnefndin hafði leitað til mentamálaráðs Íslands og biskups Íslands um væntanlega sölu á slíkri bók á Íslandi, sökum sívaxandi erfiðleika með sölu á íslenzkum bókum í Vesturheimi. Undirtektir bræðra vorra á Íslandi voru svo ágætar, að ákveðið var að gefa bókina út, eins fljótt og unt væri og fjögra manna nefnd kjörin til þess, að undirbúa útgáfuna. Í nefnd þeirri eru séra Valdimar J. Eylands, Séra Sigurður Ólafsson, Sigtryggur O. Bjerring og Jón J. Bíldfell.*

*Réttlátt mun þykja og viðeigandi, að gjöra grein fyrir því hvers vegna að bókarútgáfan var valin til minningar um þennan einkennilega Íslending, frekar en aðrar tillögur, sem fram komu í sambandi við það minningarmál, en það*

*var sökum þess, að nefndin, eftir ítarlega athugun, komst að þeirri niðurstöðu, að engin táknmynd til minningar um Jón Bjarnason tæki mynd þeirri eða myndum fram, sem hann hefði sjálfur eftir sig látið í ræðum sínum og ritum, og að engin minning væri honum samboðnari en sú, að hinn skarpi skilningur hans, mynda-auður og meistara stíll, sem ritverk hans bera svo ljósan vott um, mætti geymast í sem fullkomnastri heild að föng eru á.*

*Jón Bjarnason var fæddur að Þvottá í Álptafirði, hinu forna heimili Síðu-Halls, 15. nóvember 1845. Foreldrar hans voru Bjarni Sveinsson stúdent og síðar prestur á Kálfafelli í Fljótshverfi í Suður-Múlasýslu, og að Þingmúla í Skriðdal, og kona hans Rósa Brynjólfsdóttir prests í Eydölum í Breiðdal og voru þau Rósa og Gísli prestur Brynjólfsson á Hólmum í Reyðarfirði, faðir Dr. Gísla Brynjólfssonar skálds og kennara í Kaupmannahöfn systkini. Ólst Jón upp hjá foreldrum sínum, aðallega í Þingmúla, því þar átti hann heima frá því að hann var sjö ára til seytján ára aldurs, og hefir því skapgerð hans og lífsviðhorf mótast þar að allmiklu leyti. Eg hefi fyrir satt, að Jón Bjarnason hafi verið bráðþroska og að hann hafi öðlast róttækar og ákveðnar lífsskoðanir þegar á unga aldri. Hann var alvörunnar maður frá því að fyrst fara sögur af honum, en skapgerð hans, eins og annara, var að sjálfsögðu meðfæddur eiginleiki, sem þroskast hefir við heilbrigt og hamingjusamt heimilislíf, og áhrifamikla og stórfenglega náttúrufegurð. Jón var ungur þegar hann kom í lærða skólann í Reykjavík — ekki fullra 16 ára, og er hann þá svo þroskaður og sjálfstæður, að hann fer sinna eigin ferða eins og sá, sem færan finnur sig í sjóa alla.*

*Skólalíf Jóns Bjarnasonar er ekki að sjá söguríkara að mun umfram það almenna. Hann var námsmaður ágætur, því "hann var gáfumaður með afbrigðum" segir prófessor Eiríkur Briem, og ástundunin og reglusemin eins og bezt varð á kosið.*

*Samt getur það ei fram hjá manni farið, að Jón Bjarnason hefir ekki notið æskugleði þeirrar, er skólalífi er víðast samfara, og þá auðvitað líka á Íslandi, og hefir það efalaust stafað frá óvanalega þroskaðri lífsskoðun og skapgerð. Að þessi íslenzki drengur hafi þegar á skólaárum sínum verið í*

*alvöru farinn að hugsa um það, sem honum stóð stuggur af í lífi þjóðar sinnar, bendir atvik eitt á, sem hann sjálfur segir frá í fyrirlestri er hann flutti í Winnipeg 1909, og hann nefnir sjálfsvörn: "Man eg eftir því eitt sinn á haustför minni einni úr hinum íslenzka austurvegi allra syðst eða vestast í Skaftafellsþingi (fyrir vestan Steigarháls í Mýrdal) að eg í þungu skapi nam staðar, sté af hestbaki og fleygði mér niður á jörðina grátandi, með sárri tilfinning út af því að eg ætti eins og hvergi heima. Með þeim döpru hugsunum lá eg um hríð þar á víðavangi; þá þreifaði eg á því, hve mjög eg þurfti á guði að halda — nærri því eins og Jakob forðum í Betel. Svona var fyrir mér miklu oftar." Skyldi þessi mynd eiga sér marga líka í skólalífssögu Íslendinga? Þegar þetta kemur fyrir Jón Bjarnason er hann á leið heiman frá sér, og til Reykjavíkur til að ljúka latínuskólanámi. Hann, sem enn hefir ekki náð tvítugsaldri, er sjáanlega kominn í andstöðu við venjur, siði og hugsunarhátt sinnar eigin þjóðar og í andstöðu var hann alt sitt líf — andstöðu við alt hið lága, ódrengilega og ósanna í lífi þjóðar sinnar.*

*Jón Bjarnason útskrifaðist frá latínuskólanum í Reykjavík árið 1866, með heiðri. Frá Prestaskólanum útskrifaðist hann 1869, með þeim bezta vitnisburði, sem nokkur nemandi hafði hlotið í 48 ár, eða á meðan að fyrirkomulag það, sem þá var, hélst. Þrátt fyrir það, þó hann þyrfti með "fullu og öllu að vinna fyrir sér, og fékst mikið við kenslu og prófarkalestur," segir prófessor Eiríkur Briem.*

*Eftirtekt vakti Jón Bjarnason á sér þegar í skóla, bæði fyrir gáfur, einurð og réttsýni. Einn af skólabræðrum hans, Eiríkur Briem, segir þannig frá honum: "Séra Jón var einarður maður og kjarkmikill, svo að af mönnum, sem eg hefi þekt, er það varla nokkur annar en Jón Sigurðsson, sem jafnast við hann að því leyti, og kom það fram hjá honum á unga aldri. Þegar við vorum í latínuskólanum var Bjarni Jónsson skólastjóri og höfðu lærisveinarnir mikinn beig af honum; sá eini af þeim, sem mér voru samtíða, er eg vissi að hafði fulla einurð við hann, var Jón Bjarnason; sami kjarkurinn kom einnig fram gagnvart félögum hans, hvort sem straumurinn var með honum eða á móti, hafði það*

*aldrei þau áhrif á hann, að hann beygði sig fyrir því, er honum eigi þótti rétt."*

*Jón Bjarnason var búinn að fá það álit á sig er skólanámi hans var lokið, að hann væri prýðilega vel gefinn maður, sem væri til nokkurra dáðríkra og nytsamlegra hluta líklegur.*

*Að loknu prestaskólanámi tók Jón prestsvígslu tafarlaust, því svo stóð á, að faðir hans lá þá veikur, og fór séra Jón austur honum til aðstoðar. En eftir ár batnaði séra Bjarna, föður séra Jóns, svo hann var fær um að gegna embættisverkum í prestakalli sínu sjálfur, og fór séra Jón þá aftur til Reykjavíkur. Árið 1870 kvæntist hann Láru Pétursdóttur Guðjóhnsen, ágætiskonu, sem stóð við hlið hans og studdi í blíðu jafnt sem stríðu, með hugprýði og hetjuskap, í gegnum alt hans líf.*

*Um þriggja ára skeið bjuggu þau séra Jón og frú Lára í Reykjavík, en fluttu vestur um haf til Ameríku árið 1873, og settust fyrst að hjá Norðmönnum í bænum Decorah í Iowa-ríkinu, þar sem til orða hafði komið, að séra Jón tækist á hendur kennimannlega stöðu í kirkjufélagi Norðmanna, sem þó ekkert varð af sökum þess, að allmikið bar á milli, í trúarlegum efnum, á milli hans og leiðtoga norsku kirkjunnar — svo mikið, að um kennimannlega samvinnu gat ekki verið að ræða fyrir eins einarðan, sjálfstæðan og einlægan mann og séra Jón Bjarnason var. En kennarastöðu við latínuskóla Norðmanna í Decorah þáði hann, og gegndi henni í tvö ár, unz hann sagði henni lausri og sleit sambandi sínu að fullu og öllu við Norsku sýnóduna. Eftir tveggja ára veru sína í Ameríku er séra Jón kominn í ákveðna andstöðu við trúarlegar skoðanir og stefnu Norsku sýnódunnar í Bandaríkjunum, og heldur en að lúta áleitni leiðtoga hennar og áróðri, fer hann úr þjónustu þeirra — segir skilið við þá allslaus í efnalegu tilliti og án þess að hafa nokkra von og því síður vissu um lífvænlega atvinnu. Sjálfstæði og hreinlyndi séra Jóns Bjarnasonar rís þegar á öndverðri verutíð hans í Ameríku upp yfir allar torfærur og erfiðleika.*

*Þegar séra Jón gjörist fastur kennimaður á meðal Vestur-Íslendinga og leiðtogi þeirra, þá er það sérstaklega þrent, sem vakir fyrir honum. Fyrst, að sameina þá. Annað,*

*að bægja frá þeim illum utan að komandi áhrifum. Þriðja, að vekja og glæða trúarlíf þeirra. Ekkert af þessu var auðunnið verk. Íslendingar voru dreifðir hér út um alt og því erfitt að ná til þeirra og þegar til þeirra náðist, var áhuginn oft lítill. Þeir voru nýsloppnir út úr ríkiskirkjunni á Íslandi og kærðu sig víst lítið um að undirgangast nokkur þvingunarlög eða reglur í þeim efnum. Svo nýjan, kirkjulegan grundvöll varð að leggja — nýtt og alfrjálst, kirkjulegt fyrirkomulag varð að mynda og fá Íslendinga hér í landi til að sameina sig um, sem gjörði verkið óendanlega miklu erfiðara og vandasamara heldur en ef hinu forna fyrirkomulagi, sem fólkið var vant við, hefði verið hægt að fylgja. En þrátt fyrir nýbreytnina og nývirknina, tókst þetta vonum fremur. Séra Jóni Bjarnasyni var lánuð sú list, að geta skýrt og sannfært menn um ágæti áhugamála sinna flestum samtíðarmönnum sínum betur, því auðvitað var hann lífið og sálin í öllu þessu verki, þó hann nyti stuðnings margra góðra manna, því annars hefði það verið ókleift. Hann hugsaði málin og jafnvel skipulagði, en þrengdi sér sjálfum aldrei fram. Söfnuðir voru myndaðir í flestum bygðum Íslendinga hér í landi, sem hann átti meiri og minni þátt í, en það var fólkið sjálft sem myndaði þá, en ekki séra Jón. Hans var að sýna fram á þarfirnar og vekja áhugann. En það var altaf fólkið sjálft sem framkvæmdi. Slík var stefna hans í starfsmálunum og það var óbifanleg sannfæring hans að svo þyrfti það og ætti að vera. Um sjálfan sig hugsaði hann aldrei öðru vísi en sem verkfæri í hendi guðs, til þess að gjöra eins mikið gott í lífinu og kraftar hans frekast leyfðu.*

*Séra Jón var allra manna skarpskygnstur á það sem að var í lífi manna, og hann áleit það heilaga skyldu sína að benda á það, vara við því, verja fólkið, sem hann hafði tekið að sér að leiðbeina fyrir illum áhrifum þess og ekki aðeins fólkið, sem honum var áhangandi sem leiðtoga og kennimanni, heldur alt íslenzkt fólk, sem orð hans heyrði eða las. Þessi þátttaka hans í veraldlegum og andlegum málum Íslendinga var engin uppgerð eða látalæti. Það var knýjandi innri þörf. Séra Jón gat ekki horft upp á ill og eyðileggjandi öfl læsa sig um líf þjóðbræðra sinna og systra, án þess að fletta ofan af þeim, vara við þeim, segja þeim*

*miskunnarlaust stríð á hendur, opinbera þau svo, að allir gætu varað sig á þeim. Að þegja við þeim og leyfa allslags öfugstreymi í huga og hegðun manna óátalið, var honum ekki aðeins andstygð, heldur var það líka blátt áfram svik, við drengskap, réttlæti og dáð. En við þær dygðir miðlaði hann aldrei málum.*

*Séra Jón Bjarnason gjörði meira en að benda á það, sem að var í lífi Vestur-Íslendinga og íslenzku þjóðarinnar, hann benti og með skýrum orðum og andans afli á meðalið, sem meinin gæti bætt, og það var Jesús Kristur og hann krossfestur. Hann var meina bótin. Hann var ljósið, sem lýsa þurfti og lýst gat fálmandi hugsunum mannanna. Hann var eldurinn, sem brenna þurfti, og brenna átti í hjörtum þeirra. Hann var aflið, sem gaf vonum mannanna svif, og sá eini óyggjandi leiðarvísir þeirra í lífi og dauða, sem til væri. Þetta var óbifanleg trú og lífsskoðun séra Jóns Bjarnasonar.*

*Á öllum tímum hafa menn með róttækum skoðunum og ákveðinni lífsstefnu átt sterkri mótspyrnu að mæta, og er það eðlilegt, því mönnum, fjöldamörgum mönnum er illa við ákveðnar skoðanir og fastar stefnur. Þeim finst að þeim fylgi nokkurs konar valdboð, ófrelsi, sem standi í vegi fyrir hinum frelsissjúku lífsnautnum þeirra, og þetta er satt. Skoðana- og stefnufesta gjöra einmitt það, þegar þær ná þroska eða valdi á hugsun og lífi manna.*

*Þegar séra Jón Bjarnason kom til Kanada alkominn og tók að sér forustu á meðal Íslendinga, var hér sundurlaus, stefnulaus og þekkingar snauður hópur íslenzkra manna og kvenna. Hans verk var að sameina þá í sem heilbrigðasta og samfeldasta heild að föng voru á, en til þess varð að taka ákveðnar stefnur — stefnur, sem sýndi fólkinu hvert halda ætti, stefnur, sem bundnar voru við þau verðmæti fólks, er það gæti aðhyllst og borið virðingu fyrir. Þetta skildi og sá séra Jón í byrjun, og því var sjálfsagt að setja markið svo skýrt, að enginn viltist á því, og svo ákveðið að enginn þyrfti að misskilja það, og á þeim grundvelli safnaði hann saman með aðstoð góðra manna, stærri hóp Íslendinga í félag — Hið evangeliska lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vestur-*

*heimi, en dæmi voru áður til í sögu íslenzku þjóðarinnar, utan vébanda ríkiskirkjunnar íslenzku.*

*Eins og kunnugt er, gengu ekki nærri allir Vestur-Íslendingar í þetta félag — kirkjufélagið, þó að áhrif þess og áhrif séra Jóns næði til þeirra flestra eða allra. Sumir stóðu utan þess af einskæru hugsunarleysi; aðrir sökum þess, að þeim fanst að stefna séra Jóns og kirkjufélagsins vera of ákveðin, og því þar of þröngt um sig, andlega talað, og í tilbót þá væri séra Jón of einstrengingslegur og ráðríkur.*

*Séra Jón hafði það eitt unnið til slíkra ásakana, að hann stóð fast við stefnur þær í trúmálum og almennum málum, er hann í upphafi tók og opinberaði öllum lýð. Hann varði þær hreint og djarflega, hver sem í hlut átti og hvernig sem á stóð. Ef slíkt er ófrelsi og ráðríki — ef menn mega ekki segja meiningu sína og standa við hana, án þess að vera brennimerktir með fangamarki ófrelsisins, þá er vesaldómurinn orðinn manndygðunum yfirsterkari, því dygð er það víst, að hafa andlegt þrek til þess að standa við lífsskoðanir sínar í lífinu sjálfu, lifa þær í augsýn annara, verja þær fyrir óvinum þeirra og óvinveittum árásum, hvort sem mönnum líkar betur eða ver, en það var einmitt það, sem séra Jón Bjarnason gjörði og gjörði allra manna bezt. Hann var maður, sem aldrei tók hinn minsta krók á sig, til þess að afla sjálfum sér eða málefni sínu fylgis. Ef að kjarni orðsins, sem hann flutti, ekki megnaði að vekja skilning, vilja og samhygð, þá var málefni því, sem hann var að flytja enginn styrkur að meiningarlausum fjölda. Höfðatala án sannfæringar var í hans augum eins og spilaborg, sem hlyti að hrynja við fyrstu hræring, eða fyrsta andvara og skilja auðnina eina eftir, en í svoleiðis lífsþróun var séra Jón ófáanlegur til þess að taka þátt, eða að ljá lið sitt. Hann blátt áfram gat það ekki, því hann var of skýr og of hreinhjartaður til þess að gera nokkrar gælur við hálfleik eða hræsni.*

*Ekki gat hjá því farið, að eins skyldurækinn, einarður og andlega heilbrigður maður og séra Jón Bjarnason var, lenti í andstöðu við menn og málefni, fremur þó málefni en menn. Sumir hafa nefnt hann deilugjarnan bardagamann, en slíkt er misskilningur, sem þeir einir gjöra sig seka í, sem ekki kunna eða nenna að gjöra greinarmun á orðunum "deila"*

*og "vörn." Séra Jón var í eðli sínu ódeilugjarn maður — vildi helzt aldrei deila. En hann var varðmaður, er frá morgni til kvölds stóð á verði í Ameríku á meðal dreifðra landa sinna, og svo allra Íslendinga, um ágæti andlegra verðmæta þjóðar sinnar, sem frá hans sjónarmiði, löndum hans hér í Vesturheimi og þjóð hans allri var lífsspursmál að vernda og halda dauðahaldi í, og þegar á þau var ráðist, þá varði hann þau eins og mikilhæfum og trúum varðmanni sæmdi og sæmir ávalt að gjöra.*

*Varðmannsrödd séra Jóns hefir ekki heyrst nú í 32 ár. Hún er samt ekki þögnuð, en lifir og talar til íslenzkra manna og kvenna í ritum hans og ræðum, um ókomnar áraraðir, sí-vekjandi, sí-kennandi og sí-bendandi til hreinni og hollari menningarþroska í veraldlegum skilningi og óyggjandi eilífðarvistar fyrir handan haf dauðans. Menn höfðu gott af að kynnast þessum ákveðnu hugsunum og kenningum séra Jóns, þegar þær voru bornar fram og þeir hafa gott af því enn. Þær eru í jöfnu gildi nú og þær voru þá, eiga jafn brýnt erindi til allra hugsandi Íslendinga nú og þær áttu þegar þær voru fyrst bornar fram, og í tilbót er það heilsusamlegt, að láta hugann dvelja af og til við hugsanir og kenningar þess manns, sem var þeim dygðum búinn, að standa við þær í lífi sínu, hvort heldur að með blés eða móti.*

*Séra Jón Bjarnason var mikils metinn á meðal leiðandi manna lútersku kirkjunnar í Ameríku, er sjá má af því, að árið 1910, á tuttugasta og fimta aldursafmæli kirkjufélagsins evangeliska og lúterska í Vesturheimi, sæmdi einn af skólum þeirra hann doktors-nafnbót (Doctor divinitatis honoris causa) í viðurkenningarskyni fyrir frábærlega vel unnið starf í þarfir kristni, kirkju og menningar.*

*Séra Jón lézt að heimili sínu í Winnipeg 3. júní 1914.*

JÓN J. BÍLDFELL.

# EFNISSKRÁ

# Jón Bjarnasón

sonur Bjarna Sveinssonar prests á Stafafelli í Lóni
er fæddur 15. november 1845 á Þvottá í Suðurmúlasýslu
hann naut fyrst heimakennslu, en kom hingað í Reykjavíkurskóla haustið 1861, og settist þá í 2 bekk.

Fyrir gáfur á hann . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável-vel
— iðni - - . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . ágætl.
— hegðun - — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . ágætl.

Eptir að hann hafði verið 2 ár í 3. bekk, gekk hann undir fyrri hluta burtfararprófsins árið 1864, og er hann hafði verið 2 ár í 4. bekk, gekk hann undir síðari hlutann. Í prófum þessum fjekk hann einkunnir þær í hverri tungu og vísindagrein fyrir sig, er nú skal greina.

Í íslenzku fjekk hann . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- dönsku — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- þýzku — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- latínu skriflegri — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- latínu munnlegri — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- grísku — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- trúarfræði — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- mannkynssögu — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- landafræði — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- talnafræði — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável
- rúmmálsfræði — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . ágætl.
- eðlisfræði — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . ágætl.
- náttúrusögu — — . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . dável

og fjekk þannig fyrstu aðaleinkunn með 93 tröppum.
Ebresku var hann undanþeginn.

Með því hann hefur leyst af hendi burtfararpróf sín, eins og þegar var sagt, fer hann nú burt úr skólanum með þeim vitnisburði, að hann hafi náð þeirri almennu menntun og þeim sálarþroska, sem nauðsynlegur er hverjum manni, til þess að geta notað tilsögn í æðri skólum.

Reykjavíkur-skóla. 30 d. júní mánaðar. 1866.

Bjarni Johnsen
skólans rektor.



Kandidat Jón Bjarnason kom á prestaskólann haustið 1867, og hefur síðan næstliðin 2 ár með stakri alúð og kostgæfni hagnýtt sjer alla þá kennslu, sem þar er veitt með fyrirlestrum og skriflegum og munnlegum æfingum. Hið fyrirskipaða próf í forspjallsvísindum tók hann 24ta júnímánaðar í fyrra með einkunn: dável+.

En í nýafloknu burtfararprófi fekk hann:

Fyrstu aðaleinkunn,

en í hverri kennslugrein svolátandi vitnisburð:

| | |
|---|---|
| Biblíuþýðing . . . . . . | Dável |
| Trúarfræði . . . . . . | Afbragðsvel |
| Siðafræði . . . . . . | Afbragðsvel |
| Kirkjusaga og kirkjurjettur . . . | Afbragðsvel |
| Prjedikun . . . . . . | Dável |
| Framburður . . . . . . | Dável |
| Barnaspurning . . . . . . | Dável |

Hann hefur sjerlega góðar og farsælar gáfur, og er mesti siðprýðis- og reglumaður. Sökum þessa og vegna óþreytandi ástundunar sinnar hefur hann verið oss einkar kær lærisveinn. Einsog hann að guðfræðislegri þekkingu reyndist í burtfararprófinu svo vel að sjer, að hann vantaði aðeins eina tröppu til að fá ágætiseinkunn, eins er það full sannfæring vor, eptir þeirri þekkingu sem vjer höfum á honum, að hann sje efni í duglegasta og uppbyggilegasta embættismann. Þannig er hann með bezta orðstýr og vorum beztu heillaóskum útskrifaður úr prestaskólanum.

Þessu til staðfestu eru nöfn vor og innsigli prestaskólans.

Reykjavík, 4. August 1869.

S. Melsted. H. Hálfdánarson. H. Árnason.



Vitnisburðarbrjef
Kandidats Jóns Bjarnasonar

Eg Pjetur Pjetursson,

# BISKUP yfir ÍSLANDI,

Dr. theol. og Riddari af Dannebroge,

**Gjöri kunnugt**, að með því heiðarlegur og vel lærður *Candidatus theologiæ* Jón Bjarnason er af prestinum til Stafafells safnaðar í Austurskaptafells prófastsdæmi, Síra Bjarna Sveinssyni með minni vitund og samþykki kallaður, til að vera kapellan hans og aðstoðarmaður í prestlegum verkum innan tèðra sókna, og með því eg eptir afstaðna yfirheyrslu í lærdómi trúarbragðanna hefi fundið hann þar til hæfilegan, þá hefi eg vígt hann í dag með handanna uppáleggíngu og fyrirskipuðum *caerimoniis* til hins heilaga prests og prèdikunar-embættis, og með því hann þannig er rèttur aðstoðarprestur í tèðu prestakalli, ber honum samkvæmt eiði þeim, sem hann hefir fyrir mèr þar að unnið, trúlega og kostgæfilega að rækja embætti sitt, og hegða sèr óstraffanlega og uppbyggilega í líferni sínu og framferði, sem og breyta í hvívetna eptir rítúal, lögum og tilskipunum konúnglegrar hátignar, kenna söfnuðinum guðs orð hreint og klárt, meðhöndla hin heilögu og háleitu sakramenti skírnar og kvöldmáltíðar drottins eptir fyrirskipaðri reglu og með lotníngu, eins og fyrir guðs augliti, eptir því sem sjálfur Kristur hefir þau innsett, framfylgja kirkju-aganum með sóknaprestsins umsjá, eins og lög til standa, með röggsemd og alvörugefni, en undir eins hógværð og sannsýni, stunda af fremsta megni uppfræðíngu hinna úngu, vitja kostgæfilega sjúkra, ala önn fyrir fátækum og munaðarleysíngjum, og í öllum greinum kappkosta að fullnægja sínum embættisskyldum, þó svo, að hann taki sèr ekkert mikilvægt fyrir hendur án sóknaprestsins vilja og vitundar, vera honum hlýðinn og auðsveipur og sóknamönnum sínum til góðrar fyrirmyndar í öllu, og til aðstoðar í þeirra sáluhjálparefnum heimuglega og opinberlega, nær sem þeim áliggur, og þeir hans leita.

Hins vegar tilsegi eg sóknaprestinum samastaðar að meðtaka velnefndan kennimann, Síra Jón Bjarnason sem sinn rètta kapellan, meðbróður og aðstoðarmann í prestlegum verkum, en söfnuðinum þar að meðtaka hann eins og sinn rètta sálusorgara, virða hann og hlýða honum, eins og sóknarprestinum, í öllu því, sem hann leggur þeim fyrir guðs og embættisins vegna, hjálpa honum eptir megni og aðstoða hann í því, sem hann kann með að þurfa.

Að svo fyrirmæltu óska eg bæði söfnuðinum og prestinum náðar, friðar og blessunar af guði, vorum föður, vegna drottins vors Jesú Krists.

Þetta mitt brèf, sem presturinn lesi eður lesa láti fyrir söfnuðinum, styrki eg með undirskrifuðu nafni og hjásettu innsigli.

Skrifstofu Biskupsins yfir Íslandi, 29. dag August mán. 1869.

P. Pjetursson.



**Vígslubrèf**

fyrir

*Candid. theologiæ* Jón Bjarnason.

# Biskupsvottorð

Islands Bispekontor i Reykjavik
Den 28de August, 1873.

Efter Anmodning af Herr Pastor Jon Bjarnason bevidnes herved, at han i Aaret 1869 af mig er ordineret som Capellan hos sin dengang syge Fader, efter at han, der er födt 15. November 1845, havde erhvervet kongelig Bevilling til at maatte modtage præstelig Ordination uagtet han ikke havde fyldt sit 25de Aar. — Efterat han i Aaret 1866 var dimitteret fra Reykjaviks lærde Skole med 1ste Charakteer som den överste i bemeldte Skole, absolverede han 1869 Embedsexamen ved den herværende geistlige Dannelsesanstalt, ligeledes med 1ste og meget rosværdig Charakteer, hvorpaa han som ovenmeldt samme Aar af mig blev ordineret som Præst. Da imidlertid Faderen snart efter kom sig efter sit Sygdoms Tilfælde og han ikke længer trængte til Sönnens Assistance, flyttede denne her til Byen, hvor han siden har ernæret sig ved Informationer, deels som Timelærer i Latinskolen, deels ved at forberede unge Mennesker til Optagelse i samme, deels endelig som Lærer ved den herværende Börneskole.

Herr Pastor Jon Bjarnason er en velbegavet, exemplarisk ordentlig, stræbsom og energisk Mand, hvormed han forener en i alle Henseender hæderlig, retskaffen og agtværdig Charakteer. Uagtet jeg derfor ikke kan andet end beklage, at han paa Grund af de stedlige Forhold finder sig foranlediget til at forlade sit Födeland, er det mig dog en Tröst at kunne nære det velbegrundede Haab, at han ved en tro Anvendelse af sine Kræfter ogsaa andetsteds vil kunne virke til Guds Riges Fremme, hvortil jeg önsker ham Herrens Velsignelse, ligesom jeg paa bedste Maade anbefaler ham til alle dem, der maatte have nogen Indflydelse paa hans fremtidige Livsstilling.

P. Pjetursson,
Biskop over Island, Dr. theologiae,
Ridder af Dannebrog og Dannebrogsmand.

## Köllunarbréf frá Gimli

Gimli, Nýja Íslandi, Keewatin,
31. ágúst, 1877.

Herra prestur Jón Bjarnason,
1818 Seventh Str., South
Minneapolis, Minnesota, U.S.

Þareð meiri hluti nýlendumanna þeirra, er fluttu hingað haustið 1875 hafa beðið yður að gjörast prestur hér í nýlendunni, og þér aldrei hafið neitað beiðni þeirra í því tilliti og þareð almenningi í nýlendu þessari geðjaðist einkar vel að yður og kenningu yðar þá þér heimsóktuð oss í næstl. mánuði, þá hafa söfnuðir þeir, er myndaðir eru í Fljóts-, Mikleyjar og Víðisnessbyggðum falið oss undirskrifuðum fulltrúum sínum, að endurnýja beiðni hinna fyrstu nýlendumanna hér og munnlega beiðni vora þegar þér voruð hér, um að koma og gjörast prestur vor þegar í haust.

Vér leyfum oss því í nafni safnaða þeirra í téðum byggðum, er vér erum fulltrúar fyrir, að skora á yður og biðja yður fyrir þeirra hönd að koma hingað til nýlendunnar í haust og takast prestsþjónustu á hendur í söfnuðum þessum.

Tilkynnum vér yður fyrir hönd téðra safnaða, að þeir lofa og skuldbinda sig til að sjá fyrir uppeldi yðar og tímanlegum þörfum, að svo miklu leyti, sem kraftar og efni leyfa, svo lengi sem yður og þeim semur um að þér séuð prestur þeirra.

Vér leyfum oss að geta þess, að heimilisfeður safnaða vorra eru að tölu 130 með hérumbil 650 sálum.

Að endingu vonum vér og æskjum að þér svarið þessu bréfi voru hið allra fyrsta, hvort vér megum vænta yðar og hvenær þá.

Með virðingu, yðar

Sigtr. Jónasson — Joh. G. Johannesson
Fr. Friðriksson — J. Briem
Björn Jónsson — Ó. Ólafsson
Sigurður Guðmundsson
Skapti Arason (eftir fullmakt Fr. Friðrikss.)
Þorgrímur Jónsson (eftir fullmakt Sigtr. J.)

## Köllunarbréf frá söfnuði Íslendinga í Winnipeg

Winnipeg, Manitoba,
21. október 1883.

Velæruverðugur prestur séra Jón Bjarnason,
Seyðisfirði.

Samkvæmt tilmælum Friðjóns Friðrikssonar frá Nýja Íslandi kom safnaðarráðið fyrir söfnuð Íslendinga í Winnipeg ásamt nokkrum öðrum mönnum saman í dag, til þess að ræða um hvort söfnuður þessi sæi sér fært að kalla yður til prestsþjónustu á næsta sumri og lofa yður viðunanlegum launum fyrir starf yðar.

Þareð tíminn leyfði ekki að kalla saman almennan safnaðarfund áður en yður yrði skrifað, og þareð mjög lítið hefir verið starfað í safnaðarmálum um langan undanfarinn tíma, svo áhugi manna á þeim, nú sem stendur er ekki almennt sterkur, þá treystist ekki þessi fundur til þess í þetta sinn að gjöra við yður samning fyrir hönd safnaðarins um nokkur ákveðin kjör; en vér leyfum oss hérmeð að láta yður í ljósi, að vér finnum mjög til þess hve mikil þörf ber til að hingað til Winnipeg fáist góður prestur, sem stuðli að andlegri velferð vorri, og að vér treystum *yður* allra manna best til þess að bæta úr nauðsyn vorri í þessu tilliti. Vér álítum að ef Íslendingar, sem eru í þessum bæ, í Nýja Íslandi og í suðvestur hluta Manitoba njóta þjónustu yðar þá séu þeir færir að launa hana svo að þér getið lifað sómasamlega af þeim launum.

Ef þér þorið að leggja það í hættu að koma til vor á næstkomanda sumri, án þess að vér fyrirfram gjörum samninga við yður um laun fyrir starf yðar, þá eruð þér oss mjög velkominn og vér skuldbindum oss til að taka á móti yður svo sem föng leyfa, og til þess að styðja að málum kristilegs safnaðar með yður eptir því er vér best getum, og að hlynna að því, að yður verði launað svo, að þér getið lifað sómasamlega.

Gjörið svo vel að láta oss vita með miðsvetrarferð póst-

skipsins frá Íslandi, hvort vér meigum eiga vissa von á yður að forfallalausu.

Vér erum með virðingu og heillaóskum,

yðar skuldbundnir

S. J. Jóhannesson
John Julius
Sveinn Björnsson
safnaðarfulltrúar
Kristrún Sveinungadóttir
Páll Sigurgeirsson
Þorsteinn Einarsson
djáknar
Fr. Friðriksson
Kr. Jónsson
A. Fridriksson
H. Jónsson
Páll Jónsson
Kristrún Ólafsdóttir
Kr. Sigríður Jónsdóttir
Halldóra Björnsdóttir
Stefán Friðbjörnson frá Mikley
Jón Jónasson
Erlendur Gíslason

# Það sem mest er í heimi

Það er meira en lítil dirfska af mér, að tala um það, sem eg nú ætla að tala hér um opinberlega. Því að efnið, sem eg ætla að tala um, er stórt, ákaflega, ógrlega mikið og stórkostlegt, en eg, maðrinn, sem tekr sér hið mikla umtalsefni, undr lítill, í öllum hugsanlegum skilningi of lítill, of veikr og vesæll til að geta ráðið við efnið, svo mynd sé á. Nauðugr viljugr hefi eg stundum hér áðr ráðizt í að svara eða tala út af þýðingarmiklum og stórkostlegum spursmálum. Eg hefi gjört það, þó að eg vel vissi, að eg var naumast maðr til þess, af því að nauðsynin rak mig til þess, þegar enginn annar sýndist vilja við þau spursmál eiga. Og nú vitið þér allir, sem á mig hlýðið í þetta skifti, að það muni satt vera, muni ekki vera nein fals-auðmýkt, er eg segi, að eg finni meir til veikleika míns og vanmáttar til að tala um nokkuð af hinum miklu spursmálum tilverunnar heldr en nokkurn tíma áðr síðan eg áræddi að opna munninn í sama skilningi og eg gjöri nú. Og þó hefi eg nú kosið mér svo mikilfengt umtalsefni eins og eg sagði og eins og þér brátt skuluð heyra. Yðr mun þá ljóst, að þessi fyrirlestr er ekki til orðinn af því, að eg hugsi eg geti með honum talað sjálfum mér til frægðar, heldr af þeirri sannfæring hjá mér, að það sé á yfirstandandi tíð lífsnauðsyn fyrir almenning þjóðar vorrar, að þetta, sem eg ætla um að tala, verði sem flestum Íslendingum brennandi umhugsunarefni.

Eg ætla að tala um *kœrleikann,* tala um það, er á tungumáli kristinnar trúar heitir *kœrleikr. Kœrleikrinn* er mitt fyrirlestrsefni. Og er þér heyrið það, verðið þér vafalaust allir á sama máli og eg, að þetta efni sé í mesta máta stórkostlegt og þýðingarmikið.

Það vill dálítið óheppilega til fyrir mér nú með þetta

umtalsefni um kærleikann í huganum. Það liggr frammi fyrir augum margra Íslendinga frægr ritlingr, frumsaminn á enskri tungu, en fyrir skömmu þýddr á vora tungu, um nákvæmlega sama efnið. Eg á við fyrirlestrinn eftir dr. Drummond, er í hinni íslenzku útgáfu er nefndr *Mestr í heimi.* Þá er eg í hitt hið fyrra talaði á þessum sama stað um *Það, sem verst er í heimi,* varð þessi fyrirlestr fyrir mér, og þótt hann sé um alveg gagnstætt efni, þá rakst eg á hann í fyrirsögninni fyrir mínum fyrirlestri Og enn þá rekst eg á hann, og það eigi að eins að fyrirsögninni til, heldr og efninu. Eg stend þannig einnig að því leyti illa að vígi, að það er til á íslenzkri tungu svo að segja spán-nýtt, stór-frægt rit um nákvæmlega sama efni og það, er eg ætla nú að eiga við. Það má virðast býsna örðugt fyrir nokkurt smámenni, og þess vegna líka býsna djarft af mér, að halda fyrirlestr um annað eins efni og kærleikrinn er á eftir öðrum eins manni og Drummond er, — örðugt fyrir mig að segja nokkuð, sem efninu er samboðið og hann hefir ekki sagt. Og samt legg eg út í það, að tala um þetta, sem mest er af öllu í tilverunni, kærleikann.

Þegar eg um árið talaði um það, sem verst er í heimi, þá var eg þar að eiga við nokkuð, sem fjöldi fólks bæði af vorri þjóð og öllum öðrum þjóðum er ákaflega illa við að minnt sé á, verst af öllu við að dregið sé fram í dagsljósið. Það var og er og mun lengst af verða ákaflega óvinsælt og fráfælandi umtalsefni. Umhugsunin um það, sem verst er í heimi, er mannlegu eðli svo óviðfeldin og ógrleg, að menn reyna með öllu móti að vinda sér frá henni, fela sig fyrir henni, til þess, þegar í þær felur er komið, að styrkja sig í þeirri trú, að þetta, sem verst er í tilverunni, sé ekki til. Heilir hópar fólks viðrkenna því eigi tilveru þess, sem verst er af öllu. Eða, ef þeir viðrkenna hana með sjálfum sér, þá vilja þeir þó ekki játa það fyrir heiminum. Og þá er ekkert undarlegt, þó að slíkt umtalsefni sé jafnan óvinsælt. Allt öðru máli er að gegna. þá er maðr hefir kærleikann, þetta, sem mest og bezt er í tilverunni, fyrir umtalsefni. Það vilja allir heyra talað um kærleikann, því að hann er nokkuð, sem hver einasti maðr viðrkennir, nokkuð, sem hver einasti maðr hefir í heiðri og hávegum,

nokkuð, sem hver einasti maðr hiklaust segist trúa á. Kærleikrinn er viðrkenndr í öllum heimsins trúarbrögðum, og hann er alveg eins viðrkendr utan trúarbragðanna. Því að án kærleikans finnst engum þeir geti komizt af. Það hafa nú í þessari síðustu tíð setið á heimssýningunni miklu í Chicago fulltrúar fyrir svo að segja allar hinar mörgu og margbreytilegu trúarbragða-tegundir mannkynsins í nútíðinni á sérstökum fundi, til þess að opinbera hver öðrum og um leið öllum heiminum sinn sérstaka átrúnað, sýna öllu mannkyni, hvert hver einstakr mannflokkr, sem þeir eru fulltrúar fyrir, stefnir í andlegu tilliti, sýna hinni yfirstandandi tíð og hinni ókomnu tíð inn í þá breytilegu andans heima, sem þeir hver um sig tilheyra og trúa á. Af öllu undarlegu og margbreytilegu á þessari stórkostlegustu af öllum sýningum, sem heimrinn hefir séð, er vafalaust þessi tegund sýningarinnar, er opnar allar átrúnaðar-veraldir nútíðarinnar, það sem er undarlegast og breytilegast. Menn bjuggust við þessum óendanlega breytilegleik í hinum andlegu veröldum hinna mörgu heimstrúarbragða áðr en þessi einstaklega sýningar-tegund byrjaði. Út frá því, að ósköp mikið myndi í trúarlegu tiliti á milli bera, sýnast allir hafa gengið sem fullkominni vissu fyrirfram. En hinsvegar þótti það alveg víst, að hversu óendanlega mikið sem á milli bæri í trúarskoðunum hinna ýmsu mannkynsflokka, þá myndi hver einasti einn af þessum mörgu trúarflokkum heimsins trúa á kærleikann, þeir allir sameiginlega eins og með einum munni viðrkenna kærleikann svo sem það, er mest og bezt sé í gjörvallri heimstilverunni. Og alveg eins í hinu smáa, hvar um heim sem leitað er. Þegar kærleikrinn er nefndr á nafn, þá, hversu óendanlega mikið sem á milli ber að öðru leyti, segjast allir hafa hann í hávegum og vera þar með. Trúin syngr kærleikanum lof, og vantrúin syngr honum líka lof. Þegar kærleikrinn er nefndr, þá er eins og allir sé eitt. Ef trúmaðrinn vill velja kærleikanum einhverja samlíking, þá er það æfinlega það, sem æðst og efst er af öllu í heiminum umhverfis hann. Og alveg eins fer vantrúarmaðrinn að. Það, sem hæst gnæfir við himin innan hans sjóndeildarhrings, það er ímynd kærleikans.

Eg gjörði einu sinni ljótt stryk. Eg lét hæsta og tignar-

legasta fjallið á Íslandi vera ímynd þess, sem eg sá og sé enn verst og voðalegast í þjóðlífi voru. Eg lét Öræfajökul eða það jökulfjall-lendi, sem hann er hæsti tindrinn í, tákna aflið, sem mesta eyðilegging kemr með yfir land og lýð. Það er ekki verra en hjá Hannesi Hafstein, er hann lætr Geysi, hið mesta furðuverk náttúrunnar á Íslandi, vera ímynd hinna fölsku frelsisumbrota hjá þjóðinni. En eg ætla nú að bæta úr skák fyrir sjálfum mér eða gjöra nokkurskonar bragarbót, með því að láta hinn mikla Öræfajökul, hæsta fjallhnúkinn á ættjörðinni heima, tákna það, sem æðst, göfugast og guðlegast er í tilverunni, kærleikann. Væri eg ekki eins fast bundinn við Ísland eins og eg er og býst við að vera það sem eftir er æfinnar, þá leitaði eg að hærra fjalli, fjalltindi, sem rís enn þá miklu hærra móti himni, til þess að hafa það fjall, þann tind, fyrir ímynd kærleikans, því að eg ætla eins og allir aðrir að halda því föstu í huga mér, að hann, kærleikrinn, er það, sem mest er í heimi eða tilverunni. Væri eg kominn svo langt, að vera það, sem á vísindalegu máli er kallað *kosmopólít*, maðr, sem gæti litið á heiminn allan jafnt sem sitt föðrland, þá flygi eg í huganum upp yfir alla háfjallshnúka jarðarinnar, þangað til eg væri kominn að efsta toppnum, Everest, í Himalaja, heimsins risavaxnasta fjallgarði inni í miðri Asíu, og horfði á hann undrandi eins og þá hæfilegustu líking af kærleikanum, svo sem því, er mest og æðst er í öllum heimi. En af því að eg kemst aldrei út yfir það að vera Íslendingr, þá, enda þótt eg skoði mig eiga heima þar sem eg er, með eitt úthaf heimsins og þessa heimsálfu hálfa á milli mín og Íslands, mæli eg svo margt, og ekki sízt það, er mér er dýrmætast og helgast, með hinum takmarkaða íslenzka mælikvarða. Hæsta fjall á Íslandi hefir nákvæmlega sömu þýðing fyrir mig, eins og eg er og eins og eg býst við að verða, eins og hæsta fjall jarðarinnar myndi hafa fyrir mig, ef eg væri orðinn *kosmopólít* eða með öðrum orðum skoðaði heiminn allan jafnt sem mitt föðrland. Þess vegna, þó að Öræfajökull sé tiltölulega svo lágr eins og hann er, svo miklu lægri en hæsti tindrinn í Himalaja, þá getr hann fyrir mér fullkomlega verið ímynd þess, sem mest er í heimi. Og af því að þér,

tilheyrendr mínir, eruð Íslendingar eins og eg, eruð eflaust ekki heldr orðnir heimsborgarar, hafið ekki enn losað yðr við íslenzka mælikvarðann, þá áræði eg að halda samlíkingunni frammi fyrir yðr og jafnvel í yðar nafni. Sá fjalltoppr, sem hæst rís á Íslandi, er þá ímynd kærleikans.

Það var einn svalan sunnudagsmorgun seint í ágústmánuði 1889. Eg var á minni síðustu ferð heim til Íslands, kominn svo langt eins og norðarlega í hafið milli Færeyja og Íslands, staddr uppi á þilfari á danska póstgufuskipinu "Laura", sem eg hefi oftar ferðazt með en nokkru öðru hafskipi. Dagurinn var að mestu leyti bjartr, sólin skein í heiðu yfir höfðum vorum, sjóndeildarhringrinn all-langt út í allar áttir vel upplýstr, en í fjarska þokuslæður hér og hvar eða jafnvel skýflókar í ýmsum breytilegum myndum, að minnsta kosti í norðrátt. Hvort eins var að líta í hinar áttirnar, man eg ógjörla, því eg horfði naumast nema í þá átt, sömu áttina sem skipið var að fara í, norðr, norðvestr, í áttina til hinnar væntanlegu suðrstrandar Íslands. Allar beztu og sælustu endrminningarnar frá æskuárum mínum, sem samvaxin eru einmitt því svæði á strönd Íslands, er þar var næst mér og sem skipið flutti mig með hverri klukkustundinni og hverri mínútunni nær og nær, risu þá upp í huga mínum og bönnuðu mér að hugsa um nokkuð annað en hinar fornu og kæru myndir, sem huldar voru fyrst af bungunni á haffletinum, en síðan af þokublæjunum eða skýflókunum yzt í sjóndeildarhringnum. Þegar maðr er staddr úti á reginhafi, þá hættir einatt greinarmunrinn á þoku og skýi, sem talað er um á landi, uppi til fjalla og dala. Þokan er þar hvenær sem vill orðin ský, og skýið hvenær sem vill orðið þoka. Eg horfði í áttina til þokunnar eða skýjanna lengst burtu fram undan mér, með öndina í hálsinum; eg bjóst á hverju augnablikinu við því, að einhver ofr-lítill depill af ströndinni, sem mér er helgust, míns ástkæra, en þó fátæka og klakabundna föðurlands, yrði afhjúpaðr og kæmi fram úr þokunni, út úr skýþykkninu. Hæsti fjalltindr Íslands, Öræfajökull, 6241 feta hár, rís upp í sinni konunglegu náttúrutign á þessum parti hinnar íslenzku strandar, höfði hærri, sínu snjóhvíta höfði hærri, en öll önnur landsins fjöll. Eg átti von á því, eins og líka

loksins var, þegar stundin var komin, að hann myndi mér sýnilegr á undan öllu öðru af Íslandi. Það var inndæl stund, þessi, er eg horfði í áttina til hinnar kæru huldu strandar og vakti með spenntum hug og opnum augum yfir því, að þetta mikla fjall kæmi, sólbjart og skínandi, fram úr þokunni. Eg var á milli vonar og ótta — vonarinnar um, að fjallið leyfði mér að sjá sig, og óttans fyrir því, að það héldi sér huldu í sínum þokuhjúpi. Ef þér gleymið því ekki, að eg læt þetta hæsta íslenzka fjall, sem til er, vera ímynd þess, sem mest og bezt er í heimi, kærleikans, þá skiljið þér, að hin eftirvæntingarfulla bið mín úti í reginhafinu eftir því að fjallið mikla kæmi fram úr þokunni, hlýtr líka að geta táknað nokkuð mikið. Það slær stundum þoku yfir mann á sjóferð lífsins, eða þó að ef til vill kunni að vera nokkurn veginn fullkomin dagsbirta yfir manni og spölkorn út frá manni, þar sem maðr er staddr á þeirri sjóferð, þá rís upp dimm þoka eða svart ský í hinum andlega sjóndeildarhring beint fram undan manni, sem innan lengri eða skemmri tíma bannar alla andlega landsýn, byrgir fyrir mannssálinni þetta inndælasta og mesta í tilverunni, sem fjallið er fyrir mér eftirmynd af. Eg á við það, þegar eitthvert þungt mótlæti steðjar að, einhver kveljandi kross er kominn inn í manns eigin æfisögu, og trúin á hinn eilífa kærleika, þann guð, sem er kærleikrinn, út af þeirri miklu reynslu er biluð orðin, eins og fugl í sárum, sem misst hefir allar flugfjaðrirnar og þar með máttinn til að lyfta sér upp frá jörðinni. Á slíkum stundum eða tímabilum æfinnar er eigi annað unnt að gjöra en að bíða — á milli vonar og ótta — eftir því, að hinn almáttugi, órannsakanlegi, óskiljanlegi guð birtist aftr á ný sem kærleikrinn, mæna biðjandi augum eftir því, að dimmunni létti upp og kærleikrinn, mildr og sólbjartr, varpi af sér þokuhjúpinum. — Af þessu öllu á biðin mín eftir því að fá að sjá hinn mikla jökul afhjúpaðan, þá er eg var staddr þarna á hafinu út af strönd Íslands, að vera mér ógleymanleg eftirmynd. Biðin sú þar á hafinu stóð ekki nema tiltölulega mjög stutta stund. En eftir hinu hefir stundum orðið að bíða hræðilega lengi, að hinn guðlegi kærleikr, sem horfinn

var á bak við ský mótlætisins, kæmi fram á ný í sinni himnesku dýrð.

Eg er búinn að segja frá því, að hinn mikli jökultindr hafi komið fram úr þokunni og lofað mér að sjá sig eftir nokkra bið. En stundarkorn eftir að jökullinn var farinn að sýna sig, gægjast út úr sínum dularklæðum, var eg í algjörri óvissu um það, hvort þetta væri í raun og veru jökullinn sjálfr ellegar að eins einn partr af skýkufli þeim, er hann allt til þessa hafði verið hjúpaðr í, því litrinn á hvorum tveggja, jöklinum og dularkuflinum hans, var nálega hinn sami álengdar til að sjá. Hvít, jökullituð, stálgrá bunga reis upp í sjóndeildarhringnum upp frá haffletinum, fyrst eins og dálítill ullarhnoðri, en síðan eins og stórkostlegr ullarbyngr. Var þetta fjallið, jökullinn mikli, hæsti minnisvarðinn, sem náttúran hefir reist sér í landinu? Var þetta virkilega Öræfajökull? Eða var þetta að eins ský, þokan frá hafinu búin að taka á sig þessa einkennilegu mynd? Jú, það er víst jökullinn. Það mótar fyrir svörtum hamragjánum rétt fyrir neðan hinn hvíta snjóhött efst uppi. En það geta líka verið ýmislega löguð, undarlega samvaxin ský. Nei, nú sést það greinilega, að það er ekki nein skýjamynd, þetta, sem þarna ber við himinn. Skýjunum öllum er nú svift frá. Og þarna stendr fjallkonungr Íslands í allri sinni tign. Guði sé lof fyrir það, að nú, enn þá einu sinni á æfi minni, sé eg Ísland og heilsa fyrst af öllu fjallinu, sem þar rís hæst mót himni!

Eg sagði áðan, að kærleikurinn, eða þetta, sem mest er í heimi, væri viðrkenndr af öllum, hvað sem annars bæri á milli í skoðunum þeirra. Þetta mátti virðast meira en lítið gleðiefni. En nú kemr nokkuð til skoðunar, sem dregr úr því ákaflega mikið. Það er að eins í orði kveðnu, að fjöldi fólks viðrkennir kærleikann. Það, sem sumir menn trúa á sem kærleikann, er alls ekki til í virkilegleikanum. Þeir tigna og elska og tilbiðja kærleik, sem ekki er til. Hinn virkilegi kærleikr er eins og fjallið mikla, sem eg var að tala um, óhreifanlegt, rótfast, risavaxið, himinhátt eilífðarbjarg. Hann stendr ávallt í stað, breytist aldrei, verðr stundum ósýnilegr, eins og jökullinn, en hann hylst í skýinu eða þokunni, en kemr æfinlega fram aftr samr og

jafn, háðr sínu óbreytanlega guðlega lögmáli í gegnum aldirnar, í sinni makalausu tign. Kærleikrinn er eins og dauðinn, að því leyti, að hann fer ekkert eftir því, hvort mönnum líkar vel eðr illa. Það er ekki til neins, að maðrinn reyni að umskapa hann eða móta hann eftir því, sem honum finnst hann ætti að vera eða hann heimtar að hann sé. Hann heldr sínu óbreytanlega guðlega eðli, hvað sem maðrinn segir. Það fær enginn þokað honum úr þeim guðlegu sporum, sem hann stendr í og hefir staðið um alla eilífð, — ekki fremr en nokkr mannskraftr þokar Öræfajökli úr stað eða flytr Ísland í heild sinni burt af þess fornu stöðvum. Allir mennirnir, sem hafna kristnu trúnni og þar af leiðandi viðrkenna ekki þá sýning kærleikans, sem hin kristilega opinberan kemr með, þeir búa sér til mynd "af sínu skynsamlega viti" eða réttara sagt út frá tilfinningum sínum og eftirlöngunum, og segja bæði sjálfum sér og öðrum, að svona hljóti kærleikrinn að líta út, svona líti hann virkilega út. Sömu myndina allir? Nei, eins margar myndir eins og þeir sjálfir eru margir og hér um bil álíka ólíkar hver annarri eins og andlit þeirra, líkamleg og sálarleg, eru hvert öðru frábrugðin. *Pósitívistarnir* svo kölluðu, sem trúa hinni undarlegu vantrúarkenning, er August Comte fann upp á, hafa í samkomusal sínum í París myndir upp hengdar á veggina af heilum skara merkra manna úr sögu Frakklands og mannkynssögunni yfir höfuð, sem þeir veita eins konar tilbeiðslu upp á sína undarlegu og alveg einstaklegu vantrúarvísu. Þær eru býsna ólíkar hver annarri, þessar átrúnaðarmyndir *Pósitívistanna,* og fjarska margar eru þær líka, enda verða æ fleiri og fleiri eftir því sem tíminn líðr og nýir menn koma fram í sögunni, er þessi skrítni flokkr verðr trúarlega eða skynsemislega ástfólginn í. En hvað eru þær myndir bæði að fjölda og breytilegleik í samanburði við myndirnar af kærleikanum, sem þeir búa til, er kristinni trú afneita og um leið að sjálfsögðu afneita kærleikanum eins og hin kristna opinberan sýnir hann? Og einmitt þetta, að hver einstakr hinna mörgu, er loka augunum fyrir kristindómssýningunni af kærleikanum, dregr þetta, sem mest er til í heimi, upp á sína sérstaklegu vísu, einmitt þetta, að þær kærleiks-

myndir, sem þeir menn hafa búið sér til og trúa á, eru hver annarri ólíkar, það bendir sterklega á það, að hinn virkilegi kærleikr eigi undr lítið skylt við þessar myndir, sem hinir ýmsu afneitendr kristnu opinberunarinnar hafa dregið upp. Því að sannleikrinn getr vissulega eigi verið nema einn, að því er snertir eðli og eiginlegleika kærleikans. Einhver ein af þessum myndum af kærleikanum, sem menn hafa af ímyndunarafli sínu dregið upp, gæti, ef til vill, verið sönn, nákvæmlega samhljóða virkilegleikanum; allar geta þær eigi verið sannar, úr því þær að meiru eða minna leyti stríða hver á móti annarri. Og það sýnist nú mega ganga út frá því sem fullkominni vissu, að hver einstök ein af þessum myndum sé ósönn, sé mynd af nokkru, sem ekki er til, svo framarlega sem það, er vér sjáum eða reynum í hinni yfirstandandi heimstilveru, vitnar þar á móti. Hin kristilega trúarmeðvitund mannanna er líka fyllilega sannfærð um það, að allar þessar skynsemistrúarmyndir eða vantrúaruppdrættir af kærleikanum sé yfir höfuð að tala óekta eða þvert á móti virkilegleikanum, og að þess vegna sé enginn annar kærleikr til en sá, sem opinberan Jesú Krists eða guðs orð heilagrar ritningar sýnir og heldr fram fyrir mannheiminum. En af þessu leiðir aftr, að allt það, sem hyggjuvit manna bendir á sem kærleik og andstætt er kærleiksopinberan kristindómsins, eru tómir skuggar, ónáttúrlegir skuggar, sem ekki hafa neina tilveru, engan virkilegleik á bak við sig. — Það var einhver svo kallaðr guð eða hálfguð, samkvæmt goðasögnum Forn-Grikkja, sem eitt sinn fékk óleyfilega ást á Heru eða Júnó, hinni guðlegu drottning á Ólympus, og svo ætlaði hann að varpa sér í fangið á henni til að umfaðma hana. En þá varð fyrir honum í stað faðmsins á hinni fögru gyðju ömrlegt, hráslagafullt, kalt ský. Það lagði sig utan um hann og hélt honum föstum, en gyðjan var horfin. Út úr þessu undr-stutta æfintýri frá goðaheimi hinnar spakvitrustu, skáldlegustu og menntuðustu fornþjóðar má lesa örlög allra þeirra manna, sem láta tilhneigingar eða tilfinningar síns náttúrlega manns koma sér til að trúa á, tilbiðja og elska eitthvað það, sem ekki er annað en ímyndaðr, óvirkilegr kærleikr, í staðinn fyrir þann kærleik, sem í raun

og veru er til. Þegar þrengingar lífsins knýja þá til að flýja í skjól þvílíks ímyndaðs kærleika, leita þar að líkn og huggun, þá grípa þeir í tómt ský. Og þegar svo slíkt kalt ský hins tilverulausa kærleika, rétt eins og það væri einhver yfirnáttúrleg myrkravera, hefir spennt sínum ómildu örmum utan um hinn ógæfusama mann, þá vill svo undr eðlilega rísa upp í sálu hans örvæntingarfull fullvissa um' það, að kærleikr, virkilegr guðlegr kærleikr, sé enginn til, og þar af leiðandi lífið allt og tilveran öll sé tómt tál.

En sagan er enn ósögð, sem gengin var á undan því, að maðrinn komst til þessarar hörmulegu sannfæringar. Eg læt vera að rekja hana í heild sinni, læt nægja að draga fram eitt hennar aðalatriði. Og það aðalatriði er þetta: Eftir að maðrinn er búinn að búa sér til mynd af kærleikanum samkvæmt tilhneigingum og eftirlöngunum hins synduga eðlis síns, búinn að telja sér trú um, að hinn guðlegi kærleikrinn, þetta, sem æðst er í tilverunni, aflið guðlega, sem stendr á bak við heimstilveruna og stjórnar henni eða ræðr örlögum hennar, sé eins og þessum sama manni finnst að vera ætti, þá er áðr en varir rétt eins og allt í einu rísi upp í hinum andlega sjóndeildarhring fram undan honum á sjóferð lífs hans nokkuð svo nauðalíkt því, sem eg sagði að eg með líkamsaugum mínum hefði séð í áttina upp til Íslands á minni virkilegu sjóferð hérna um árið. Hin tilbúna mynd af hinum ímyndaða guðlega kærleika flýgr ósýnileg í loftinu upp frá sálu mannsins, þar sem hún varð til, og sezt eða tekr sér stöðu fram undan manninum langt, langt í burtu, nákvæmlega svo langt sem þarf til þess að hann missi eigi sjónar á henni. Myndin er ljómandi fögur, því hún er mynd af því, sem hann er búinn að slá föstu um það, hvernig kærleikrinn, hinn guðlegi kærleikr, það, sem bezt og mest er í heimi, hljóti að líta út. Og þó að myndin skýrist nú engan veginn eftir því sem hann heldr ferðinni áfram, þó að drættirnir í henni haldi áfram að vera furðu óákveðnir fyrir þá sök, að hún sýnist allt af jafn langt burtu, þá er hún samt svo ljómandi fögur og skemmtileg, að hann vill helzt stöðugt á hana horfa og skoða hana eins og áreiðanlegan, guðlegan

vegvísi. Og enn þá meira verðr hún í augum hans, er lengra líðr á sjóferðina. Það er eins og gegn um hana móti fyrir strönd eilífðarinnar. Hann horfir og horfir, og nú er hann orðinn sannfærðr um, að þarna hafi hann fram undan sér það í andans heimi, sem svarar til háfjallsins íslenzka, er mér þótti svo inndælt og gleðilegt að fá að líta afklætt sínum skýkufli á minni síðustu Íslands-ferð. En til allrar ógæfu: Það er tóm missýning, allt þetta. Fjallið, þetta mikla, indæla, elskulega andlega fjall, sem hann þóttist sjá og sem auðvitað var ekki neinn andlegr Öræfajökull, heldr milt og blítt fjall, alklætt hinum fegursta gróðri, ljómandi og angandi blómum allt upp á topp, — það er ekki til. Það er ský, en ekkert fjall, ljómandi, skínandi, töfrandi ský með hinum dýrðlegustu litbreytingum, brosandi, blikandi, himneskt, guðlega útlítandi ský, — en að eins ský.

Guð náði mannssálina, þegar sá kærleikr, sem hún mænir til og trúir á, er tómt ský!

Eg má nú víst til að hætta um hríð að tala í líkingum, ef það á til fulls að verða skiljanlegt, hvað eg er að fara. Og skal eg þá tafarlaust koma að því, hver vera muni aðal-orsökin til þess, að áhangendr hinna ýmsu náttúrlegu trúarbragða heimsins, að hinni margbreytilegu skynsemistrú meðtalinni, hafa svo sundrleitar og öfugar hugmyndir um guð, eðli hans og eiginlegleika. Orsökin er vafalaust fremr öllu öðru sú, að svo mikið ber á milli í ímyndunum þessara sömu manna um það, hvað kærleikrinn sé, eða hverja eiginleika þeir eigna því andlega afli, sem mest og máttugast og bezt er af öllum öflum tilverunnar. Eftir því, hvaða hugmynd þeir hafa um kærleikann, hinn fullkomna, æðsta kærleik, verðr myndin af guði þeim, er þeir trúa á. Úr því að guð er kærleikrinn, eins og kristindómrinn kennir og eins og almennt er játað einnig fyrir utan söfnuð kristinna manna, þá hlýtr það, hverju menn trúa um kærleikann, hvað menn leggja í hugmynd kærleikans, að ráða því, hvernig sú mynd af guði verðr, sem þessir sömu menn trúa á. Eskimóarnir á Grænlandi eiga, jafnvel eftir að þeir hafa tekið kristna trú, undr örðugt með að losa sig við

þá hugsun, að þeir muni í öðru lífi fá að vera í góðri og fengsælli selveiði-stöð. Og frumbyggjar þessa ameríkanska meginlands, Indíanarnir, sem kallaðir eru, hugsa fagnandi og vonglaðir á sinni dauðastund til hinna sælu veiðiplássa, *the happy hunting grounds,* sem þeim verði hleypt inn á af hinum mikla anda, guðinum æðsta, er þeir trúa á, undir eins og komið er yfir um. Það er kunnugt, hvað þessum mannflokkum hvorum fyrir sig þykir vænst um, elska mest. Veiting þess, er þeir skoða sem hin æðstu gæði, verðr fyrir þeim hinn æðsti kærleikr, og eftir þeim kærleik skapast myndin af guði þeim, sem þeir trúa á og tilbiðja. Skynsemistrúarmennirnir innan kristninnar hafa nú, eins og auðvitað er, allt öðru vísi hugmyndir um kærleikann eða það, sem bezt og mest er í tilverunni. Þeir hafa engar þvílíkar villimanna-eftirlanganir. Það, sem þeir þrá og þeim þykir vænst um, liggr að sjálfsögðu langtum ofar, og að sama skapi hlýtr hugmynd þeirra um kærleikann og guð, enda þótt ósönn sé, að vera svo margfalt fegurri og veglegri, — nema náttúrlega hinna tiltölulega fáu, sem ekki trúa á tilveru neins virkilegs kærleika, *materíalistanna* svo kölluðu, eða hinna fullkomnu *pessímista,* er algjörlega hafa varpað guði útbyrðis; en um þá ætla eg hér ekki að tala. Hún er svo glæsileg, lítr svo veglega út, hugmyndin, sem hinir hálftrúuðu skynsemismenn gjöra sér um kærleikann og guð, að kærleikrinn og guð, eins og hvor tveggja samkvæmt virkilegleikanum er sýndr í opinberan Jesú Krists, má jafnvel í fljótu bragði virðast að mun óglæsilegri og minna tilbreiðsluverðr. Út frá eftirlöngunum sínum, sem eru þær sömu og hins náttúrlega manns yfir höfuð, gefa þeir út lög fyrir því, hvernig kærleikrinn skuli vera, hvað af honum sé heimtandi, hvað hann megi leyfa sér. Fyrir utan það lögmál, er þessir menn hafa sett, má kærleikrinn ekki með nokkru móti vera til. Annars viðrkenna þeir hann ekki, nema því statt og stöðugt, að hann sé það, sem hann er, kærleikr, neita því að guð sé það, sem hann er, guð kærleikans, svo framarlega sem hann ekki lagar þennan sinn kærleik eftir kröfum þeirra. Hinn ímyndaði, tilverulausi kærleikr, og hinn jafn-tilverulausi guð, sem þeir trúa á, er greinilega ekki annað en skugginn af þeim

sjálfum, einskonar ský, sem, án þess þeir hafi um það nokkra hugmynd, er stigið upp til himins úr fylgsnum þeirra eigin sálar. Guðstrúin þessara manna, eða, sem er það sama, kærleikrinn, sem þeir viðrkenna og tigna, er myndin af þeirra eigin innra manni. Þeir sjá myndina af sjálfum sér í sínum uppáhaldsspegli, og af því að þeim lízt svo dæmalaust vel á hana, þá slá þeir því fyrir sjálfum sér og öðrum föstu, að svona hljóti kærleikrinn og guð að líta út.

Það eru ýmsir harðir eða ómildir drættir í virkilegleika-myndinni af hinum guðlega kærleik, sem hin kristilega opinberan sýnir mannheiminum, eða þeir líta að minnsta kosti svo út fyrir mannlegri sjón eins og hún er í þessu lífi. Og sökum þeirra er það, að minnsta kosti með fram, að skynsemistrú Únítara og annarra líkt hugsandi manna afneitar kristindóminum. Eg ætla nú ekki að fara að telja allt það marga og mikla upp, sem sú vantrú telr ósatt og óþolandi í hinni kristilegu opinberan. Eg ætla að eins að nefna það atriði í þeirri opinberan, er hún dæmir sem meiri, ranglátari og hróplegri fjarstæðu en allt annað, segir, að ómögulega geti verið sannleikr, svo framarlega sem guð sé kærleikans guð. Þér vitið allir, við hvað eg á. Það er það, sem á tungumáli kristninnar er kallað glötun eða fordæming. Það er stundum nefnt útskúfun, en það orð er ekki af kristilegum, biblíulegum uppruna, og ætti helzt aldrei að heyrast innan kirkjunnar. Hvað þetta sé, sem kallað er glötun eða fordæming, þarf eg ekki að gjöra grein fyrir. Það er víst öllum tilheyrendum mínum kunnugt. Þar á móti ætla eg að reyna að gjöra þeim, sem á mig hlusta, það skiljanlegt, að það eru til mjög sterkar líkur, mér liggr við að segja sterkar sannanir, skynsemissannanir einmitt, fyrir því í þessari sýnilegu jarðlífstilveru, þar sem vér erum hver með öðrum staddir nú í dag og þar sem vér höfum átt heima síðan vér fæddumst, að allt það, sem í heilagri ritning er kennt um glötunina eða fordæminguna, sé óhagganlegr sannleikr, hljóti að vera áreiðanlegr, óhjákvæmilegr virkilegleikr.

Hvervetna í náttúrunni hér í þessum sýnilega heimi eru ýms ósýnileg, ákaflega máttug öfl sí og æ verkandi, sundr-

leit, hver öðrum andstæð öfl, sem að vísu enginn fær rannsakað, enginn í raun og veru fær skilið, en eru þó að því leyti þekkt, að menn geta ekki annað en tekið eftir verkunum þeirra. Og menn sjá, að einmitt þessi breytilegu, hver öðru andstæðu öfl, um leið og þau eiga í sífelldri baráttu sín á milli, halda þó einmitt heiminum saman. Heimrinn helzt í sínu óraskanlega jafnvægi einmitt fyrir þá sök, að eitt aflið stríðir á móti öðru. Væri eitthvert af þessum náttúruöflum tekið burt, t. a. m. þyngdarkraftrinn, þá gliðnaði heimstilveran öll sundr, og alveg eins með öll önnur náttúrunnar öfl. Tilveran sýnist samanstanda eða haldast saman af tómum mótsetningum. Menn tala um lífsafl, aflið, sem framleiðir lífið og heldr því við allt frá hinu undr lága lífi neðst í vaxtaríkinu upp til hins göfuga, dýrðlega, hátignarfulla lífs fyrir ofan hið æðsta líf skynlausu dýranna, lífsins í manninum, kórónu sköpunarverksins. Og vér vitum, að menn tala þar satt mál. Vér vitum af lífsaflinu í sjálfum oss, hvort vér erum svo lærðir að skoða það sem samsafn af mörgum samvekandi öflum eða ekki. En eins víst og lífsaflið er til, eins víst er til nokkuð, sem kalla mætti dauða-afl, það er að segja kraftr, sem sí og æ er að leitast við að vinna sigr yfir lífsaflinu, gjöra út af við lífið. Dauðinn er ár og síð og alla tíð að elta og ofsækja lífið, og innan lengri eða skemmri tíma nær hann því. En jafnóðum rís upp nýtt líf á öðrum stöðum, svo að mitt í umskiftingunni helzt þó jafnvægið stöðugt á milli lífsaflsins, sem allt af er að skapa og uppbyggja, og dauða-aflsins, sem jafnt og þétt heldr áfram sínu eyðileggingar-verki. Allt, sem lifir, verðr að gjöra sér þessi lífsins og dauðans örlög að góðu. Hinn eilífi kærleikans guð stendr á bak við þessi örlög, hvorttveggja aflið, sem örlögunum ræðr. Það hlýtr þá endilega að vera kærleikr í öllu þessu, þó menn sjái hann ekki eða vilji ekki viðrkenna tilveru hans.

En svo bætist nú enn nokkuð við, sem enn þá miklu meir sýnist vitna á móti því, að þetta jarðneska líf sé í höndum virkilegs guðlegs kærleika. Látum vera að lífið hætti og dauðinn vinni sigr yfir því, þegar það er búið að fullnægja sinni ákvörðun, framkvæma það, sem það augsýnilega hafði hæfilegleika fyrir, ljúka sínu dagsverki.

Jurtin sú eða sú, dýrið það eða það, hefir í sér meðskapaðan mögulegleik til að ná vissum, ákveðnum þroska, fullkomlegleika, aldri o. s. frv. Og að því er til dýrsins kemr, þá er það auk þess augsýnilega skapað til þess að hafa meiri eða minni nautn, einskonar sælu, upp úr lífinu. En hversu undarlega mikið er það af hinu fyrrnefnda lífi, vaxtalífinu, jurtaríkinu, sem sópað er burt úr tilverunni áðr en það hefir náð sinni ákvörðun! Og hversu hræðilega mikið af dýralífinu er deytt löngu löngu fyrir tímann, sem það sýnist hafa rétt til að ná! Hugsið um frækornin til hinna óteljandi jurta eða trjáa, sem aldrei ná lengra en það að verða frækorn með frjóanga lífsins innan í sér. Lítið til dýralífsins, hvernig það einatt er gjört að engu óðar en það með öllum sínum margbreytilega, dásamlega lífsmögulegleika, er orðið til. Og lítið hærra, lítið á mannlífið: Milíónir barna, með allri sinni óendanlegu ákvörðun til þess að lifa og njóta lífsins og gjöra heiminum gagn, nýfæddar eða ófæddar eru teknar burt af dauðanum. Maðr sér ekki neinn kærleik ráðandi í slíkum óskiljanlegum, undarlegum, hræðilegum örlögum. Og samt hlýtr í öllu þessu að vera guðlegr kærleikr, þó að hann sé á huldu fyrir augum dauðlegs manns. Svona kemr þá kærleikrinn fram, eða, ef eg á heldr að orða það öðru vísi, svona stjórnar guð kærleikans þessari lífstilveru náttúrunnar. Og er þá auðsætt fyrir þeim, sem trúa á slíkan guð, hinn eina guð, sem til er, í hverju kærleikrinn, að því er snertir þetta jarðneska líf, er fólginn. Hann er fólginn í því, að í hvert einstakt líf er lagðr niðr ákveðinn mögulegleikr til að verða svo eða svo mikið, ná vissum fullkomlegleik; en svo getr hið niðurbrjótandi náttúrulögmál, dauðaaflið, velt sér yfir þetta líf, gjört út af við það, og þá nær það ekki sinni ákvörðun. Það sýnist hart, þetta, en ráði guð kærleikans þessu, hafi hann náttúruöflin og náttúrulögmálið í hendi sér, þá hlýtr einnig þetta að vera kærleikr. Náttúruöflin öll, líka þá þau merja lífið til dauða og hindra að það nái sinni ákvörðun, verði það, sem það var skapað til að verða, — þau hljóta að vera kærleikr svo framarlega sem þessi sömu undraöfl eru út runnin frá þeim guði, sem er kærleikrinn.

En nú skal eg koma til mannlífsins að því leyti, sem

maðrinn er andleg vera. Það ráða andstæð öfl jafnt í hinum andlega heimi, sem vér heyrum til, eins og hinum líkamlega. Um það kemr víst flestum saman. Menn tala um nokkuð, sem kallað er gott, og menn tala um nokkuð, sem kallað er illt; menn tala um réttlæti og ranglæti. Því hina svo kölluðu *determínista* reikna eg ekki, mennina, sem þykjast trúa því, að þessi greinarmunr á hinum andlegu öflum sé ekki til, það sé hvorki til gott né illt, og að þess vegna sé ekki heldr til nein sjálfsábyrgð. Þeir eru tiltölulega fáir, þeir menn, sem þessari speki halda fram, og maðr veit ekki til, að neinn þeirra hafi í lífi sínu staðið við þá kenning. Svo eg sleppi þeim alveg. Það er nú alveg eins fyrir manninum í andlegu tilliti eins og með tilliti til hans líkamslífs. Hin tvö andstæðu andlegu öfl hafa hann á milli sín, lífsins aflið og dauða-aflið, aflið, sem styðja vill að því, að hann nái sinni ákvörðun, og aflið, sem spyrna vill þar á móti, gjöra út af við mögulegleikann hans til að verða það, sem hann á að verða eða er skapaðr til. Það er, eins og vér sáum áðan, alls engin vissa fyrir því, að barnið nýfædda lifi til þess að verða það í líkamlegu tillliti, sem það á að verða, ekki fremr heldr en fyrir því, að akarnið, frækornið til hinnar voldugu eikar, nái, samkvæmt sínum meðskapaða mögulegleik, að verða ein þvílík tignarleg trjádrottning í skóginum. Það kviknar eldr í skóginum og brennir upp frækornið. Það verðr aldrei tré úr þessu. Barnið sýkist og deyr. Það verðr aldrei í þessum heimi það, sem það gat orðið og átti að verða. En eins hlýtr að geta farið fyrir manninum í andlegu tilliti. Það er enginn vafi á því, að hann gat orðið, átti að verða nokkuð mikið. Hann hafði mögulegleik til að verða mikill, frjáls, sæll, guði líkr andi. Hann átti að verða það, sem sannir lærisveinar Jesú Krist hafa fyrirheit um að verða, þá er komið er inn í eilífðina. En hann hafði því að eins þennan mögulegleik, þennan hæfilegleik til að verða fullkominn og sæll, að hið niðrbrjótandi, eyðileggjandi afl, afl hins illa, syndin, afl hins andlega dauða ekki næði honum á sitt vald. Það stendr sannarlega ekki til, ef maðr man eftir því óraskanlega náttúrulögmáli guðs, sem hvervetna ræðr hér í heimi, að nokkur maðr geti í andlegu tilliti náð sinni ákvörðun, svo framarlega sem

hann fyrir fullt og allt lendir undir eyðileggingaraflinu, sem sí og æ er að vinna á móti því, að hann í þessu sama tilliti nái sinni ákvörðun, eða því, er hann upphaflega átti að verða og hafði í sér hæfilegleik til að verða. Ef lífið, hið líkamlega líf og hið andlega líf, lífið í náttúrunnar ríki og lífið í andans ríki, eigi gæti misheppnazt, týnzt eða glatazt, þá þýddi slíkt ástand það, að heimrinn allr, gjörvöll lífstilveran, væri í höndum óbreytilegra, ósveigjanlegra forlaga. En vér sjáum, að heimrinn er engin þvílík forlagamaskína. Því að ef svo væri, þá hlyti þegar frá upphafi að mega sjá fyrir endann á lífi hvers einasta frækorns í vaxtaríkinu, segja allt fyrir um líf hverrar einustu skepnu í dýraríkinu um leið og hún fæðist eða byrjar æfi sína, líka mannsins, að því er kemr til hans líkamlega eða jarðneska lífs. En vér höfum séð, að þetta er allt algjörlega óákveðið, gjörsamlega óvíst, hvernig fara kann fyrir hverju einstöku þvílíku lífi, ekki unnt að vita neitt annað fyrirfram um líf þessi en það, að þau hvert um sig hafa hæfilegleik eða mögulegleik til þess undir heppilegum kringumstæðum að verða svo og svo mikið, ná ákveðnu fullkomnunar-takmarki, svo framarlega sem ekki kemr neitt illt, eyðileggjandi afl og fer með þau burt af veginum til fullkomnunarinnar. Ein örlaga-rún, sem heitir *ef*, hefir rituð verið af ósýnilegri hendi fyrir framan upphafið á æfisögu hvers einasta lífs í þessari jarðnesku heimstilveru. Og sú rún bendir á það, að það sé allsendis óvíst og óákveðið, hvað verðr úr þeirri æfisögu, hvernig fer fyrir því lífi, sem æfisöguna á. Ef ekki kemr fyrir neitt slys, þá nær þetta líf sínu takmarki, ferðin heppnast, æfisagan verðr það, sem hún átti að vera. En ef lífið verðr fyrir slysi, þá nær það ekki takmarkinu, ferðin misheppnast, æfisagan verðr að sorglegri tragedíu. Og því hærra og göfugra sem það líf er samkvæmt eðli sínu, er verðr fyrir slysinu, því meiri og hryggilegri tragedía verðr æfisaga þess. Svona er það, að því er jarðneska, líkamlega lífið snertir. Og þá eru sannarlega komnar meira en lítið sterkar líkur fyrir því, að með tilliti til hins andlega lífs sé sama lögmálið ráðandi. Hin sama örlagarún, þetta óákveðna, undarlega, óskiljanlega *ef*, stendr vissulega líka sem inngangsorð til hinnar and-

legu æfisögu hvers einasta manns. Ef mannsandanum tekst að komast hjá slysi, lenda undir afli hins illa, þá er allt gott; hið andlega líf þess manns heppnast þá; hann nær sinni andlegu ákvörðun. En ef ekki, verði hann fyrir slysinu, þá hlýtr hann andlega að misfarast; hann glatast andlega. Og þar sem hinn andlegi lífsmögulegleikr er svo óendanlega mikill, hin andlega ákvörðun mannsins svo guðdómlega há, þá er auðvitað, hvílík hræðileg tragedía það verðr, þegar þetta slys kemr fyrir og allr hinn óendanlegi fullkomnunarmögulegleikr er eyðilagðr. Slíka tragedíu eða harmsögu kallar hið kristilega tungumál *glötun*, og skynsemin neyðist til, hvað sem tilfinningar vorar segja, að viðhafa sama orðið. Það glatast svo undr margt líf í hinni sýnilegu tilveru. Og eftir sama lögmáli má búast við því, telja það sjálfsagt, að alveg eins misheppnist eða glatist svo og svo mikið af hinu andlega lífi, sem skapað hefir verið, eða með öðrum orðum, að af mannkyninu, þessu æðsta ríki í heimstilverunni, týnist eitthvert brot, glatist fleiri eða færri einstaklingar í andlegu tilliti, — að af mannkynseinstaklingunum fái svo eða svo margir eigi náð hinu setta takmarki eða sinni ákvörðun. — Það er til glötun í heimi náttúrunnar, og það sýnist eigi annað geta verið en að glötun sé líka til í hinum andlega heimi.

Það má búast við þeirri mótbáru á móti þessari röksemdafærslu, að ef sama lögmálið ræðr með tilliti til hins andlega lífs eins og náttúrulífsins, þá ætti líka glötun hvorstveggja lífsins að vera hin sama, fólgin í því, að lífið hættir að vera til. Þegar náttúrulífið glatast, þá er sú glötun fólgin í því, að það líf er eigi framar til. Það er gjört út af við það. Og þegar hið andlega líf misferst eða glatast, þá ætti sú glötun að vera fólgin í því, að einstaklingurinn, sem það líf á, missir tilveru sína, deyr algjörlega út. En kristindómrinn kennir ekki neitt slíkt. Sú glötun, sem hann talar um, er þvert á móti fólgin í því, að tilvera einstaklingsins hættir aldrei, en hann hefir misst mögulegleikann til að ná sinni ákvörðun, verða sæll og fullkominn, og er fyrir bragðið orðinn eilíflega vansæll. Svona er sú glötun, sem kristindómsopinberanin sýnir með svo svörtum og ægilegum dráttum, og það er þó nokkuð

annað en glötun náttúrulífsins, þar sem lífinu er gjörsamlega sópað burt úr tilverunni, einstaklingrinn deyr út fyrir alla eilífð. Við þessari mótbáru býst eg einmitt gegn undangengnum ályktunum mínum. En hún er auðhrakin, sú mótbára. Glötun náttúrulífsins getr samkvæmt þess eigin eðli ekki verið fólgin í neinu öðru en því, að það deyi út, hætti að vera til. En glötun hins andlega lífs hlýtr að vera öðruvísi, svo mikið öðruvísi sem það líf í eðli sínu er öðruvísi en lífið í náttúrunni. Andlegt líf getr samkvæmt eðli sínu aldrei hætt að vera líf eftir að það eitt sinn er skapað. Einstaklingrinn, sem það líf á, getr í andlegu tilliti aldrei hætt að vera til. Og glötun þess lífs eða eiganda þess hlýtr þá einmitt að vera fólgin í því, að möguleglelkinn upphaflegi til fullkomnunar og sælu er orðinn að engu, eilíflega út dáinn. Og er þá sýnt, að skynsemin neyðist til að viðrkenna niðrstöðu þá glötuninni viðvíkjandi, sem vér að framan höfum komizt að, og sem er í fullkomnu samræmi við opinberan kristindómsins.

Eg skal nú hátíðlega játa, að eg sé engan kærleik í þessu undarlega fyrirkomulagi á lífstilverunni, þessu ósveigjanlega lögmáli, sem verðr orsök til þess, að svo mikið af náttúrlegu lífi ferst hér fyrir augum vorum án þess að hafa náð ákvörðun sinni, og svo mikið einnig, að því er virðist, ferst eða glatast af hinu andlega lífi. En engu síðr hlýt eg að trúa því, að lögmálið þetta óskiljanlega sé frá kærleikanum út runnið, sé einmitt kærleikr, einhver hlið af kærleikanum, kærleikrinn sjálfr í einni af hinum óendanlega margbreytilegu myndum hans, svo framarlega sem eg held því föstu, að sá guð, sem er kærleikrinn, hinn eini virkilegi guð, hafi látið það verða til. Það er kærleikr, þetta allt, en kærleikrinn er hér í dularbúningi. Hann er eins og fjallið mikla meðan það var hulið af skýjinu eða þokunni. Ef þeirri þoku létti aldrei upp, ef skýið héldi sér allt af utan um fjalltoppinn, þá væri þessi jarðlífstilvera sannarlega dimm og gleðisnauð, það mætti þá segja eins og Björn í Öxl, að hér væri dimmir og sólarlausir dagar. En þokunni hefir einmitt létt upp, skýið er eins og orðið að engu, fjallið er orðið sýnilegt og sólin úthellir björtu og blíðu ljósi sínu yfir það frá efst til neðst. Þegar Jesús Kristr var búinn að

ganga í gegnum sína guðlegu æfisögu hér á jörðinni, búinn að framkvæma sitt endrlausnarverk, búinn að ljúka sinni píslarsögu, deyja sínum heilaga friðþægjandi dauða, og síðan að vinna sigr yfir dauðanum með sinni guðlegu upprisu, búinn að stofna kirkju sína og frá himnum að senda heilagan anda yfir sálir lærisveina sinna, — þá varð hinn huldi kærleikr guðs mannsaugunum sýnilegr. Þá sást það, að guð hafði bæði mátt og vilja til að slíta bönd glötunaraflsins af mannsandanum, leysa mannkynið, syndugt og ósjálfbjarga, úr álögunum. Og þegar hinn einstaki maðr meðtók Jesúm Krist fyrir sinn frelsara, samþykti það með frjálsræði sínu, að gefa sig undir hans vald, þá var hann hrifinn burt undan hinni aðsígandi, yfirvofandi glötun, og gat á þennan hátt — fyrir trúna á mannkynsfrelsarann — orðið það, sem honum frá eilífu var ætlað að verða. — Þokumyrkrið er horfið, og fjall hins eilífa kærleika stendr þarna nú skínandi í allri sinni dýrð.

Svona lítr þá kærleikrinn í virkilegleikans heimi út. En hin grunnskyggna skynsemistrú viðrkennir ekki þennan kærleik, afneitar þeim guði, sem er einmitt svona lagaðr kærleikr, afneitar honum, þótt hún hafi hans sönnu mynd daglega fyrir augunum. Það er undarlegr guð, sem hún hefir sett í staðinn og trúir á. Hann er ekki neitt líkt því, er vér samkvæmt kristindómsopinberaninni og samkvæmt vorri eigin lífsreynslu köllum guðlegan kærleik. Það er yfirnáttúrleg vera, sem ekkert fer eftir sínum eigin lögum. Það má brjóta lögmálið hans, og það brot á hvorki að gjöra til né frá. Það er óreglunnar guð, sem lætr allt fara þvert á móti sínu eigin lögmáli, náttúrulögmálinu. Örlög hinna mannlegu einstaklinga sýnast eftir þeirri trúarskoðun að vera eins og segir um einn vissan hlut í gátunni: fer í sjó og sekkr ekki, fellr í eld og brennr ekki, dettr fyrir hamra og brotnar ekki. Það er guð, sem dæmalaust hægt er að komast út af við, það er að segja fyrir mennina í andlegu tilliti. Hinar skynlausu skepnurnar verða að gjöra sig ánægðar með, þó að þær sé marðar til dauða, hve nær sem hið eyðileggjandi afl náttúrunnar fellr yfir þær. Og í líkamlegu tilliti verðr maðrinn að gjöra sér það að góðu, þó að hann sé kraminn og kvalinn af öflum náttúrunnar,

þegar hið ráðandi allsherjar-lögmál tilverunnar varpar þeim yfir hann. En þegar til hins andlega lífsins kemr, þá á þar að verða eitthvert yfirnáttúrlegt kraftaverk, þannig lagað, að það skal ekki saka, þó að hann sjálfr leggi sig undir afl hins illa, þar sem það brunar fram á móti honum eins og eimvagnalest á járnbraut; honum á að vera óhætt að neita frelsishendi þess, er vill bjarga honum; aflið illa á ekki að geta gjört út af við hann, hvernig sem það veltir sér yfir hann. Ef hann í einstaka tilfelli kann að særast ofr-lítið, þá eiga þau sár innan skamms tíma að gróa af sjálfum sér. Allt hlýtr að fara vel á endanum. Það er ekki mikið að hræðast annan eins guð, sem lætr sér standa á sama, eða því sem næst, hvernig brotið er á móti hans lögmáli. Ef þessi ímyndaði guð væri maðr, þá myndi mega segja um hann, að hann væri hið mesta góðmenni, meinlaus öldungr, sem ómögulega gæti fengið af sér að framfylgja sínum eigin hússtjórnar-lögum, þegar það kæmi í bága við tilfinningar hans heimilisfólks.

En guð er engin slík meinleysis-vera. Kærleikrinn er ekkert líkr því, sem í daglegu tali er kallað góðmennska. Guð er kærleikans guð, en sá kærleikr heimtar, að hinu eilífa lögmáli, sem bindr tilveruna saman, sé fullnægt í hverjum einasta og minnsta punkti. Hann fylgir þessu lögmáli einnig þá — sérstaklega einmitt þá, þegar hann fyrir endrlausnarverk Jesú Krists frelsar mannsandann frá glötuninni.

Nú ætti öllum að vera ljóst, hvað kærleikrinn er. Kærleikrinn er ekki nein ímynduð stærð; kærleikrinn er ekki nein hugmynd, sem mannsandinn hafi smíðað. Kærleikrinn er ekki það, sem sá eða sá maðrinn ákveðr að vera skuli kærleikr, ímyndar sér að kærleikrinn hljóti að vera. Kærleikrinn er fast-ákveðin stærð í virkilegleikanum. Það, sem guð er, — það, sem guð sýnir sig að vera í hinni náttúrlegu opinberan sinni og í hinni andlegu opinberan sinni, þeirri, er kennd er við Jesúm Krist, — guð eins og hann í virkilegleikanum kemr fram, það er kærleikrinn.

Eg má ekki skilja svo við þetta mál, að eg ekki með örfáum orðum drepi á eina mikla og illa afleiðing af því, að trúa á þennan ímyndaða, óvirkilega kærleik hjá guði, trúa

á þessa falsmynd af kærleikanum. Það er deyfðin, kæruleysið um það, hvernig allt gengr í mannfélagslífinu, hálfvelgjan í öllum málefnum, sem til eru milli himins og jarðar. Þegar menn eru farnir að trúa því, að hinn eilífi kærleikr guðs þýði sama sem meinleysi og góðmennsku, sem lætr alla ná takmarkinu, á hverri brautinni sem þeir ferðast, þá liggr skiljanlega svo opið fyrir, að láta sér standa á sama, hvernig veröldin veltist, lofa öllu, sem uppi er í tímanum, að ganga eins og verkast vill. Það er líka svo, að eg sé menn af vorri eigin þjóð með þessari grunnu skynsemisskoðun á guði og kærleikanum, stóra hópa af þeim, í því ástandi, að þeir eiga engin eiginleg lífsspursmál í eigu sinni, og ekki heldr nein eiginleg dauða-spursmál, fyrir sjálfa sig og þjóð sína. Þeim stendr á sama um allt; þeir eru sannfærðir um, að það hljóti allt af fara vel á endanum rétt af sjálfu sér. Ef þeir biðja á annað borð, þá hljóðar bænin þeirra svona: Gef frið um vora daga! — Ef einhver af lífs-spursmálum og dauða-spursmálum lands og lýðs eru dregin fram og reynt til að fá almenning til að hugsa um þau og kasta sér í alvarlega baráttu út af þeim, þá er friðinum raskað. Og þegar svo er komið, þá kveina og kvarta þessir friðarpostular um skort á kærleika hjá þeim, sem uppi í baráttunni standa. Að brjóta niðr eitthvað, sem illt er, til þess þarf stríð, oft upp á líf og dauða. Og til að reisa það upp, sem gott er, og láta það verða ríkjandi í mannfélaginu, til þess þarf líka stríð, oft voðalega langt og strangt stríð. Slíkt stríð þolist ekki af mönnunum, er trúa á hinn áðr nefnda óekta kærleika. Þeim finnst allt slíkt stríð fordæmanlegt; þeir setja upp dæmalausan helgisvip, halda að sér höndum og tala stórum og mörgum orðum um kærleiksleysið, sem komi fram í öllum þessum ólátum. Það þýðir ekki að einkenna þessa menn frekar. Þeir eru til beggja megin hafs. Þeir eru allsstaðar til, þar sem menn tilbiðja hina ósönnu skynsemistrúarmynd af kærleikanum. Þegar menn sjá þennan makráða, værukæra, hörundsára, volaða kærleik frá mönnum til manna, þessa skrípamynd af mannlegum kærleik, sem ómögulega þolir það, að raskað sé mannfélagsrónni, þó að hún sé ekki annað en dauðasvefn, þá má hiklaust hafa það fyrir satt, að menn trúi þar

á þeim stað á einhverja mynd af guði og hinum guðlega kærleika, sem hvergi er til í virkilegleikans heimi, mynd, sem myndazt hefir í mannanna eigin sálum og lyft sér þaðan upp í hinn andlega himin, sem þeim tilheyrir, fram undan augum þeirra. — "Hvað sér þú?" spurði Sál konungr galdrakonuna í Endor, er hún fyrir áskoranir hans hafði vakið Samúel upp frá dauðum eða látið svip hans koma fram. "Hvað sér þú?" — "Eg sé guð nokkurn koma upp úr jörðinni", segir konan. "Hvernig er hann útlits?" spyr Sál. Konan svarar: "Gamall maðr stígr upp, og er íklæddr skykkju". — Það þarf ekki að spyrja mennina, sem eg var að tala um nú næst á undan, hvað þeir sjái, að því, er snertir guð og kærleik hans. Þeir sjá guðsmynd, sem upp stigin er frá jörðinni, nákvæmlega eins langt að neðan eins og þeir sjálfir standa neðarlega. Og hvernig lítr sá guð út? Eins og gamall maðr, íklæddr skykkju. Skykkjan er hysmið af guðstrú kristindómsins. — Þoka skynsemistrúarinnar lyftir sér frá jörðu og verðr ský. — —

Eg trúi á kærleikann, þótt það sé í undr miklum veikleika, — ekki á kærleikann eins og skynsemistrúin hefir dregið hann upp, þó að sú mynd, með öllum hörðu og alvarlegu dráttunum útþurkuðum, hafi óneitanlega eitthvað þægilegt og töfrandi við sig, því að sú mynd hefir engan virkilegleik á bak við sig. En eg trúi á kærleikann eins og kristindómsopinberanin sýnir hann, og eins og hann birtist daglega hér í jarðlífstilverunni, og eins og eg hefi reynt hann sjálfur í minni eigin æfisögu, — trúi á hann, þó að eg vel viti og sjái, hve þungt hann einatt leggst yfir vesalings skepnurnar, sem heima eiga í jarðlífstilveru þessari. Eg trúi á hinn guðlega kærleika, einnig þá, þegar hann er hér hjá oss í sínum dularbúningi. Því að eg veit, að ef eg afneitaði þeim kærleik, þá hefði eg afneitað þeim eina guðlega kærleik, sem er til. Eg trúi á tilveru fjallsins einnig þá, þegar það er hulið af skýjum.

Nú skiljið þér, vona eg, betr en áðr, hvers vegna eg hefi kosið mér annað eins fjall eins og Öræfajökul til að vera fyrir mér ímynd kærleikans. Eg hefi ekki í minni æfisögu haft þá reynslu af kærleika guðs, að mér þyki hlýða að láta ímynd hans vera eitthvert skrúðgrænt og skemmtilegt fjall þar

á jörðinni, sem náttúran er sífellt blíð og brosandi, himininn æfinlega heiðr, loftið svo milt og blítt svo að segja jafnt allt árið í kring. Hinn guðlegi kærleikr í virkilegleikans heimi birtist yfir höfuð alls eigi í slíkum vormildum búningi. Kærleikurinn bregðr undr oft kuldalegum vetrarkufli yfir sig; og þegar naprir og næðandi haustststormarnir blása yfir láð og lög og feykja hinum visnuðu laufum trjánna víðsvegar, þá er það einnig ein opinberan kærleikans. Á tíð krossins og kvalanna, sem svo margir verða nauðugir viljugir að taka með inn í sína æfisögu, verðr lítið vart við það, að kærleikrinn guðlegi sé tóm mildi og blíða. Þvert á móti er þá sem maðr sé staddr uppi á ísköldum jökli í ströngum og stríðum stormi með snjóhvíta gróðrlausa vetrarauðn út frá sér í allar áttir. Af því að eg veit, að þetta er eins og eg segi, þá hefi eg kosið mér hinn kalda Öræfajökul, hæsta fjallið heima á Íslandi, til þess fyrir mig að vera ímynd kærleikans, þess kærleika, sem er guð almáttugr sjálfr. En eg ætla að muna eftir fleiru en kuldanum og klakanum og hörkunni og hamragjánum þar uppi á þeim háfjallshnúki. Eg ætla að muna eftir því, hve tignarlega og dýrðlega fjallið lítr út, er maðr horfir á það í björtu veðri utan af hafi. Og eg ætla að muna eftir því, hvernig það, þegar engin þoka og ekkert ský hylr það, í sjóndeildarhringnum fram undan manni sést skínandi í sólarljósinu guðs almáttugs. Og þegar eg man þetta hvorttveggja, þá hefi eg í huganum þá fullkomnustu, sönnustu og fegrstu mynd af kærleikanum eða því, sem til er bezt og mest í heimi.

# Það sem verst er í heimi

Það er nokkuð ljótt og fráfælandi, hryggilegt og hræðilegt, sem vakir fyrir mér, þegar eg byrja þennan fyrirlestr. Það er hið ljótasta af öllu ljótu, hið hræðilegasta af öllu hræðilegu, þetta, sem fyrir mér vakir nú. Það er ímynd alls þess, sem er ólánlegast og afskaplegast í gjörvallri tilverunni. Út af því á þessi fyrirlestr minn að verða. Hann á ekki að vera *um* það, heldr *út* af því. Og það, að eg fer að myndast við að halda fyrirlestur út af þessu, sem svartast og ljótast og verst og hræðilegast er til, kemr af því, að mér finnst þetta einmitt of dauft vaka fyrir nútíðarkynslóðinni íslenzku, of dauft vaka fyrir þjóðflokki vorum hér í landi og heima á Íslandi, bæði innan kirkju og utan. Eg þykist nefnilega sjá, að ef þetta, sem eg kalla hræðilegast og verst í tilverunni, ekki vakir fyrir mönnum vel skýrt, ekki er mönnum sýnilegt í sínum bera virkileik, þá getur farið svo og fer greinilega einatt svo, að það, þegar verst gegnir, veltir sér yfir þá og einatt ólyptanda heljarbjarg, sem miskunnarlaust mer þá til dauða, og gerir grimmilega út af við þá bæði líkamlega og andlega. Og það getr, þegar ekki er að því gáð, ekki aðeins marið einstaklinginn til dauða, heldr líka alveg á sama hátt banað félagslífi manna, lamað lífið í heilum þjóðflokkum, svo að þeir nærri því bókstaflega geta hvorki hrært legg né lið.

Fagr og ágætr fyrirlestr, frumsaminn á enskri tungu, er alveg nýkominn á íslenzku með þessari fyrirsögn: *Mestr í heimi*. Prófessor Drummond á Skotlandi er höfundr hans, og ritstjóri Ísafoldar, hr. Björn Jónsson, hefir gefið þjóð vorri hann í vönduðum íslenzkum búningi. Hin íslenzka fyrirsögn þess fyrirlestrs hefði eg betr kunnað við að hefði verið: *Það, sem mest er í heimi,* því það er nær frumritinu. Út af því sem mest er í allri tilverunni er lagt í þeim fyrirlestri. En þessi minn fyrirlestr er út af því, sem verst er í heimi, því hræðilegasta og hryggasta, sem heimstilveran á í eigu sinni eða hefir meðferðis. Það, sem mest er í heimi, er kærleikrinn, og það er efnið í fyrirlestri Drum-

monds. Og af því að guð er kærleikrinn, þá er fyrirlestrinn líka um guð. Það, sem verst er í heimi, er hinn illi andi, sem allan kærleik vill eyðileggja, og sem, að því leyti, sem honum tekst það, leiðir myrkr eilífðarinnar yfir mannssálina. — Það myrkr, sem á máli kristindómsins er kallað helvíti. Og eins og þér munuð kannast við, er þessi illi andi, þetta, sem verst er í heimi, ekkert annað en djöfullinn. Svo þessi minn fyrirlestr átti þá að vera út af djöflinum, ekki eiginlega og í rauninni alls ekki um hann, heldr út af honum. Hann átti að verða út af honum, af því að hann er það, sem verst er í öllum heimi.

Eg þarf líklega að biðja yðr alla fyrirgefningar á því, að bjóða yðr fyrirlestr hér á þessu kirkjuþingi út af eins ljótu og biksvörtu efni eins og djöfullinn er. Og eg ætla fyrirfram að beiðast þess, að enginn, sem orð mín heyrir, fari nú að slá því föstu, að mér þyki svo skemtileg hugsanin um það, sem er illt og svart og skuggalegt, að eg vilji helst vera reglulegr *pessimisti,* og að þess vegna hafi eg valið mér það, sem verst er í öllum heimi, til að ganga út frá í þessum fyrirlestri Mér þykir sannarlega ekkert yndi í því að hugsa um það, sem verst er í heimi. Eg hefi enga ánægju af því, að verða í hugsun minni að ganga út frá tilveru djöfulsins. Eg vildi langhelzt ekki þurfa, að taka með í reikning lífsins kristindómsopinberanina um það, sem verst er í heimi. Samkvæmt náttúrlegum tilfinningum mínum vildi eg helzt mega sleppa við hugsunina um þetta svartasta og hræðilegasta atriði í kristindómssýningunni af tilverunni. Þegar eg sé, að afleiðingin af því, að sleppa alveg þessu opinberunar atriði úr hugsun sinni, verðr iðulega og undr eðlilega sú, að menn missa trú á það, sem best er í heimi, sleppa gjörsamlega kærleikans guði úr meðvitund sinni og sjá ekkert framundan sér að þessu jarðneska lífi enduðu, annað er biksvart myrkr tilveruleysisins, bókstaflegan eilífan dauða, þá verðr mér það ljóst, að ekki dugir annað en frá upphafi að taka þetta, sem verst er í heimi, þetta, sem ritningin kallar djöful, hann og hans ríki, með inn í reikninginn. Eg sé, að neitanin á þessu, sem verst er í heimi, leiðir hugsanafræðislega og sögulega til neitunar á tilveru þess, sem er best og mest í heimi,

með öðrum orðum: gjörir menn í trúarlegu tilliti, að *nihilistum*, og þegar menn í þeim skilningi eru orðnir að *nihilistum*, þá liggr það alveg opið fyrir, að menn með tilliti til lífs og framkvæmda verða líka *nihilistar*. Þegar menn eru farnir að trúa á ekki neitt, þá má ganga að því vísu, að líf þeirra fari líka að ganga út á ekki neitt. — Eg hefi áðr talað opinberlega um það, sem eg kalla íslenzkan *nihilismus*. Þó mér út af því hafi af ýmsum bæði hér í landi og heima á Íslandi verið harðlega mótmælt, þá virðist svo sem öllum, er til sín hafa í seinni tíð látið heyra um hagi þjóðar vorrar, komi þó hiklaust saman um það, að nútíðarþjóðlífið íslenzka sé stórkostlega lamað bæði í andlegu og framkvæmdalegu tilliti. Svo að mín umkvörtun um íslenzkan *nihilismus* má í rauninni heita alment viðurkend. Það er alment gengið út frá því sem sannleika, er eiginlega ekki þurfi neinnar rökstuðningar við, að þessi sjúkdómur virkilega gangi að þjóðinni og að hann sé sorglega magnaðr, sé í rauninni hennar aðal mein. Nú er hitt aftr víst, að það er undr ofarlega í þjóð vorri á þessum tíma tilhneigingin til vantrúar á því atriði kristindómsopinberunarinnar, sem afhjúpar fyrir mönnum það, sem verst er í heimi, tilhneigingin til þess að neita því, að til sé sú vera, er heilög ritning kallar djöful, tilhneiging til að slá í huga sínum stryki yfir hið andlega myrkraríki. Eg tel það ofarlega í þjóðinni, þetta, ekki fyrir þá sök, þótt aðra eins menn og séra Magnús Skaftason og Jón Ólafsson hafi í allra síðustu tíð tekið svo sárt til djöfulsins eða þess, sem samkvæmt kenning Jesú Krists er verst í heimi, að þeir út af því trúaratriði hafa farið að reisa sig gegn kirkju vorri opinberlega, — því tæki eg aðeins tillit til þeirra, þá findist mér nær að segja, að svona löguð afneitan væri neðarlega í þjóðinni. Hún er það líka. Það að sannleikrinn er, að þessi tilhneiging til afneitunar á tilveru þess, sem verst er í heimi, á heima bæði ofarlega og neðarlega í þjóðinni. Hún er neðarlega í íslenzka þjóðlífinu fyrir þá sök, að hún er ofarlega í því. Mentuðu mennirnir, aðalleiðtogar lýðsins heima á Íslandi, hafa hópum saman, meðan þeir voru andlega að stimplast, bitið sig fasta í þessari afneitan, og frá þeim hefir hún runnið út yfir og inn í hin neðri lög þjóðlífs

vors. Hún er komin inn í alþýðuna frá hinum mentaðri mönnum þjóðarinnar, þessi afneitan. Hún væri ekki til á hinum lægri stöðum meðal fólks vors, ef hún væri ekki til á hinum hærri stöðum. Því hinir andlegu straumar eru sama lögmáli háðir og straumar vatnsins eða annara fljótandi efna í náttúrunni. Þeir leita ávalt niðr á bóginn, berast frá hærri stöðum niðr á aðra lægri, en renna aldrei upp til fjalls neðan af undirlendi. Og af því er afneitan þeirra séra Magnúsar Skaftasens og Jóns Ólafssonar snertir, þá dettr víst engum í hug, að hún myndi hafa áræt að opinbera sig, hefði þeir ekki vitað af heil-mikilli sams kyns vantrú eða afneitunartilhneiging á hærri stöðum í íslenzka þjóðlífinu en þeim hefir nokkurn tíma auðnast að komast á. Hversu mjög sem þá kann að taka sárt til þess, sem samkvæmt kenning kristindómsins er verst í heimi, út af þeim svarta lit, sem það er málað með í ritningunni, þá er eg viss um það, að aldrei hefði þeir farið að gjöra númer út úr því, hefði þeir ekki fullkomlega haft veðr af því, að sami afneitunarandinn er þegar búinn að ná sér niðri í meðvitund fjölda-margra nútíðar Íslendinga, sem bæði að mentan og mörgu öðru standa langt fyrir ofan þá. Þessir tveir menn eru nú auðsjáanlega ekki annað en únítarar í þeim afneitunarskilningi, sem hér meðal Íslendinga í Vesturheimi og þá sérstaklega í þessum bæ Winnipeg hefir hingað til verið lagt í það að vera únítar. Og það vitum vér, að allir slíkir íslenzkir únítarar reikna með því eins og meginatriði í sinni framtíðarvon, að samskonar vantrú og afneitan og þeirra *nihilismus* eigi þegar svo mikið friðland í nútíðarþjóðmenning Íslands. Og eg get ómögulega láð þeim, þótt þeir einblíni á þetta atriði og geri það að sínu vonar akkeri. Á sínu eigin andans afli og atgjörfi er ekki að ætlast til þeir byggi mikla framtíð fyrir sitt málefni, það er ekki svo burðugt. En afneitunarnáttúran í nútíðarmentaninni íslenzku, sá trúarlegi *nihilismus,* sem lagzt hefir yfir æðstu stöðvar þjóðlífsins á Íslandi, það getr gefið hinum íslenzku únítörum vorum hér talsverða von. Og að sama skapi sem þetta hvortveggja getr gefið þessum náungum von, hlýtr það að vera alvarlegt áhyggju-

efni fyrir hvern þann Íslending, sem í einlægni trúir á kristindómsboðskapinn, sem kirkjan vor heldr á lopti.

Það, sem eg eiginlega vildi sýna nú, er þetta. Sú andlega og framkvæmdarlega bilan, sem á yfirstandandi tíð gengr að þjóð vorri og sem vitanlega er alment, viðrkend, stendr í nánu sambandi við þessa ríku tilhneiging til að neita tilveru þess, sem verst er í heimi, er eg hefi þegar sagt að vera muni ríkjandi bæði ofarlega og neðarlega í íslenzka mannfélaginu. Í sínum einkennilegu ljóðum á gamla-ársdag síðasta segir séra Matthías Jochumson:

En eg sé voðann og bölva boðann,
sem brennir öld,
að hennar undr er tjá og tundr
og trúin köld,
sé bót ei fundin, þá kemr kvöld,
þá kallar stundin með refsigjöld.

Það sýnist skýrt vaka fyrir honum, að þjóðlífið vort íslenzka sé í hættu einmitt nú. Honum dylst það ekki, þrátt fyrir allan sinn ljúfmannlega *optimismus,* að það þarf ekki meiri og heitari og hreinni trú á það, sem mest er í heimi, en þjóðin á nú í eigu sinni, til þess að vel geti farið. En hitt dylst honum vafalaust, að þessi trúarskortr eða trúarfátækt stendr í óaðskiljanlegu sambandi við hina sterku og að ætlan minni vaxandi tilhneiging hjá þjóðinni bæði innan kirkju og utan til þess að neita tilveru þess í kristindómsopinberaninni, er snertir ríki hins illa eða þess, sem verst er í heimi. Það stendr víst fyrir honum svo, að í því sé enginn skaði, þótt menn missi alveg sjónar á höfðingja myrkraríkisins, kristinn lýðr sleppi honum út úr sinni meðvitund og kirkjan stryki hann gjörsamlega út úr sinni trúarjátning. En hann gætir þess ekki, að öll trú á það, sem gott er og guðlegt, er óðar í veði, þegar menn hætta að sjá það, sem illt er og óguðlegt, og taka tillit til þess. Og eins að því er sérstaklega snertir kristnu trúna, að henni er innan lengri eða skemmri tíma bani búinn, ef farið er að slá stryki yfir það, sem Kristr sjálfr hefir opinberað um hin ystu myrkr og þann anda er þar ræðr. —

Gangr vantrúarinnar er eftirtektaverðr. Hún fer með einstaklinginn og eins heila mannflokka í nokkurskonar andlega hringferð. Hún byrjar vanalega, eg held helzt æfinlega, á því að neita tilveru djöfulsins og þar með fylgjanda auðvitað eilífðardómi drottins, hinni svokölluðu fordæming. Það er ekkert atriði í kenning frelsarans eins óaðgengilegt fyrir tilfinning vors náttúrlega manns eins og einmitt þetta. Og það má gjöra það býsna sennilegt, ef vel er á haldið, að það kenningaratriði geti með engu móti staðist. En þegar það er fallið, þá fer brátt að losna um margt annað í kristindóminum. Endrlausnarlærdómrinn er óðar í veði. Hann verðr óþarfr og ólíklegr. Guðdómr Krists eins. Kraftaverkin verða ósennileg. Þeim er neitað og þar með aðalkraftaverkinu, því, sem einmitt staðfestir guðdóm Jesú, upprisu hans frá dauðum. Hinn guðlegi innblástr heilagrar ritningar og þar með fylgjandi áreiðanlegleiki hennar er þegar að sjálfsögðu fallinn. Hverju á nú að trúa, þegar allt þetta er farið? Orð Jesú Krists geta nú ekki leiðbeint manni lengur með neinni vissu, því hann er fyrir hinni vantrúuðu hugsan blátt áfram orðinn eins og einn af oss, ófullkomnum, takmörkuðum, syndugum mönnum. Ekkert fullkomlega guðlegt orð er lengr til, sem geti sagt manni, hverju óhætt sé að trúa. Af sínu eigin skynsamlega viti verðr maðr að segja sér það sjálfr. Er nokkr lifandi guð til? Ef hann er til, þá er sjálfsagt að trúa á hann. En skynsemin ein getr ekki fundið hann. Hún finnr ekkert nema tóm náttúruöfl, tilfinningalaust og ósveigjanlegt náttúrulögmál. Og með dauðanum sýnist allri lífstilveru lokið. Von eilífs lífs getr skynsemin ekki gefið. Og þegar sú von fæst ekki, þá er lífið greinilega orðið tál. Það, sem mest er í heimi, kærleikrinn, er nú orðið manni til kvalar. Þegar kærleikrinn í mannshjartanu er sviftr von eilífs lífs, þá verðr hann að píslarvendi örlaganna á þann, sem sá kærleikr heyrir til. Guð er horfinn og það, sem upphaflega sýndist gott, missir nú óðum gildi sitt. Eilífðargildi hefir það ekkert, og fyrir þetta stutta jarðneska líf borgar það sig margoft miklu síður en það, sem illt er kallað. Eitthvert ósýnilegt afl hlýtr nú þó að standa á bak við heimstilveruna. Hún er ekki annað en tál. Ekki getr þá aflið ósýni-

lega, sem hún á rót sína að rekja til, verið gott afl. Það hlýtr að vera illt afl. Heimstilveran hlýtr að vera ill tilvera. — Nú hefir vantrúin lokið sinni hringferð. Hún byrjaði upphaflega með því, að neita tilveru djöfulsins, hún hefir nú endað með því að vera orðin að trú á djöfulinn. Það er auðvitað ekki biblíunnar djöfull, þetta sem hún endar á. Það er annar margfalt verri djöfull. Undir þeim djöfli, sem heilög ritning opinberar, er æfinlega í þessu lífi hægt að flýja. En undan þeim djöfli, sem vantrúin hefir búið til, er ómögulegt að flýja fyrir neina mannssál. Hann er einvaldr yfir gjörvallri tilverunni. Hann tekr við mönnum hér inn í virkilegt helvíti, þegar menn fæðast, en sérstaklega er það sárt og kvalafullt, það helvíti, fyrir þá, sem elska og ástunda vilja það, sem gott er. Þeir verða öllum mönnum verr úti. Og svo, þegar lífstilveran jarðneska er á enda, er öllum jafnt skilmálalaust og áhjákvæmilega af hendi hins hræðilega alheimsdrottins varpað út í eilífan dauða. — Kristindómsopinberanin sýndi, eins og hún sýnir ávalt, svart ský yst í sjóndeildarhringnum. Vantrúin vildi ekki á það ský horfa, lokaði augunum fyrir því, hélt því fram að það væri ekki til. Og svo óx það ský smámsaman án þess vantrúaráhangandinn af því vissi, yfir hans eigið höfuð, og hann leit ekki upp fyr en öll birta var horfin úr sálu hans. Þá leit hann upp, og sjá, hið biksvarta ský huldi allan himininn, — tilveran öll orðin að koldimmri, stjörnulausri nótt! Allt endar í eilífu vonarlausu myrkri.

Það eru til mörg æfintýri frá gömlum tíðum, þar sem þetta er standandi aðalatriði. Einn ágætr konungssonr leggr á stað ríðandi með fríðu föruneyti burt úr höll föðr síns eitthvað út á land til þess að skemta sér. Hann ætlar að veiða dýr og fugla. Náttúran er yndisleg, dagrinn blíðr og bjartr. Það segir ekki af þessari skemtiför fyr en konungssonr sér ljómandi fallegan hjört framundan sér. Slíkt dýr hafði hann aldrei fyr séð á æfi sinni. Því varð hann fyrir hvern mun að ná. Og svo hleypir hann hinum bráðfjöruga hesti sínum á eftir því, og hirðsveinar hans keppast um að fylgja honum. En brátt ríðr hann þá af sér. Hjörtrinn fagri flýr eins og elding, lengra og lengra út á mörkina. Konungssonr ríðr og ríðr allt hvað af tekr. En það dregr

sundr með dýrinu og honum. Hann missir sjónar á því, og hirðsveinar hans hafa þegar sprengt hesta sína og eru horfnir. Einn er hann nú orðinn, en dýrinu verðr hann að ná, hvað sem það kostar. En hestrinn hans er orðinn þreyttr, og það er komin veðrbreyting. Biksvartri þoku hefir slegið yfir mörkina. Hann heldr áfram fótgangandi, því einnig hans hestr er nú sprunginn, en sökum þokunnar veit hann ekkert, í hverja átt hann er að halda. Svo fer veðr að kólna og blindhríð skellr yfir, og hann sér, að lífi sínu er hætta búin í veglausri eyðimörkinni fjærri manna bygðum. Hann ratar ekki til manna sinna eða heim til konungshallarinnar, og um það að ná hinu fagra dýri er engin von framar. Skemtiförin er orðin að hinni mestu hörmungaför. Að vísu hættir óveðrið, en í því er lítil bót, því nú er tvennt til eftir hinum ýmsu æfintýrisútgáfum, og hvortveggja fyrir hinn vilta og hrakta konungsson eiginlega jafn-illt. Annaðhvort gengr það úr þessu tafarlaust upp fyrir honum, að hann er kominn í tröllabyggðir. Hann er kominn að ískyggilegum helli, og þótt það sé víst, að þar sé heimkynni reglulegra óvætta, er hann neyddr til að ganga þar inn og gefa sig grimmum og tröllauknum örlögum á vald, gefa sig á náðir hellisbúans eða heillisbúanna. Ellegar, jafnskjótt og upp hefir stytt og gott veðr er komið, rjóðr opnast á mörkinni og fagrt og lokkandi, og konungssonrinn heyrir þaðan inndælan hljóðfæraslátt, og hann gengr tafarlaust á hljóðið inn í rjóðrið, þar til hann sér fyrir framan sig unga konu, svo undr ljómandi fríða og yndislega, sitjandi þar á stóli og sláandi hörpu sína. Hann töfrast óðar af fegrð hennar, og í rauninni var hann orðinn töfraðr af hljóðfæraslætti hennar áðr en hann sá hana. Hann efar það ekki eitt augnablik, að þetta sé einhver ákaflega tígin konungsdóttir. Og svo gefr hann sig henni á vald. En mærin fagra er ekkert annað en flagð, sem hefir heillað hann til sín, en hann veit ekki af því fyr en hún hefir flutt hann með sér heim í sinn tröllahelli, til þess að hann gangi þar að eiga hana, eða með töfrum sínum sent hann frá sér til átu til járnhauss bróðr síns eða einhvers annars jafn-ófrýnilegs og voðalegs jötuns af sinni trölla ætt. Hvort sem það tók lengri eða skemmri tíma,

þá komst konungssonrinn í tröllahendr. Og í tröllahöndum hefði hann orðið til, hefði honum ekki komið hjálp úr alveg óvæntri átt. Það kom loks frelsari, sem rataði til hans, hafði hug að ganga til hans inn í heimkynni tröllanna, bana þeim, leysa hann og leiða heim í sitt konungsríki. Um það eru langar sögr, en þeim sleppi eg hér. Aðalatriðið fyrir mér í sambandi við fyrirlestrsefni mitt er þetta. Konungssonrinn ríðr á stað út á land í skemtiför, en veit ekki af fyr en hann er kominn í tröllahendr. Hann eltir hið ljómandi fagra veiðidýr þangað til það hverfr og hann er ramviltr. Hann veit ekki af því, að dýrið er ekki annað en flagð í tælandi töfragerfi. Og konungsdóttirin í rjóðrinu er sama flagðið í nýju gerfi, sem á þann hátt heillar hann til sín. Þá fyrst, þegar flagðið hefir kastað gerfi sínu, veit hann, hvað allt, sem fyrir hann hefir komið í þessari skemtiför, hefir þýtt. Skemtiförin var för í tröllahendr.

Ganga vantrúarinnar byrjar vanalega eins og skemtiför konungssonarins í æfintýrinu, og endirinn er hinn sami, í tröllahöndum, — í hinni hræðilegustu andans tilveru, sem hugsast getr. Að komast í tröllahendr þýðir voðalega mikið. Tröllin eru tilfinningalaus, sálarlaus, án alls andlegleika. Þau eru ímynd þess, sem grófast og hrottalegast og afskaplegast er í tilverunni. Blint, helkalt, steindautt náttúrulögmálið, algjörlega slitið burt frá hinum lifanda kærleikans guði, hugsað eins og sjálfstæð vera eða sjálfstæðar verur með einskonar lífi, undr lágu og ljótu, en jafnframt hræðilegu, — það eru tröllin. Svo það, að komast í tröllahendr, það þýðir það andlega ástand, sem maðrinn er í, þegar vantrúin er búin að byrgja tilveru hins lifandi guðs fyrir honum. Náttúran, guðs eigið handaverk, verður þá í augum hans ekkert annað en samsafn af slíkum huggunarlausum og hræðilegum, hálf-lifandi, hálf-dauðum öflum. Það er til svokölluð lífsskoðan, sem á vísindalegu máli heitir, *materialismus*. Sú lífsskoðun viðrkennir engan guð, ekkert eilíft líf, enga tilveru nema hins líkamlega efnis, náttúrunnar og náttúrulögmálsins tilveru. Í trölla höndum er maðrinn, þegar hann hefir náð sér niðr í þá lífsskoðan. — Tröllin eru í þjóðtrúnni hugsuð ákaflega heimsk, reglulegar ímyndir heimskunnar. Og ekki er nein heimska eins

stór til, eins og vantrúin, þegar hún er orðin að þeirri dýrslegu lífsskoðun, sem nefnd er *materialismus*. Í þá átt stefnir öll vantrú. Þegar þangað er komið og hinn líkamlegi dauði er í augsýn, þá er engin von framar til, engin ljósskíma í tilverunni sýnileg, ekkert til nema grimmt guðlaust myrkr. — En förin í trölla hendr var upphaflega skemtiför. Menn lögðu á stað til þess að skemta sér. Tilveru þess, sem verst er í heimi, var neitað. Þeir voru ekki hræddir við neina verulega hættu. Þeir sleptu eilífðaralvörunni úr lífi sínu. Það var óhætt að njóta lífsins, elta dýrið töfraða. Það var búið að slá því föstu, að allt hlyti að enda vel. Lífsnautnin hélt áfram um stund, svo lengi sem kraftarnir leyfðu og svo lengi sem náttúran var svo yndisleg. Trúin dó út fyrir bragðið. Dimm þoka lagði sig yfir tilveruna, og svo kom stormr og hríð. Þá var trúin á það, sem best er í heimi, hér um bil farin. Og hún fór algjörlega, þegar hið illa afl, eða hinn illa anda bar fyrir í nýrri lokkandi töframynd. Upp frá því er lífsskoðanin orðin fullþroskaðr *materialismus* og áhangendr þeirra lífsskoðunar í trölla höndum. — Nú geta allir séð, hvert únitararnir svo kölluðu eru að fara. Nú er auðsýnilegt, hvert allir þeir meðal fólks vors eru að stefna, sem eru búnir að taka sýning kristindómsorðsins af því, sem verst er í heimi, burt úr sinni trúarjátning. Þeir eru allir á leiðinni með sjálfa sig og sýna vantrúaráhangendr í trölla hendr. Þeir lögðu á stað í andlega skemtiför, sögðu, að öllu væri óhætt, því að ekkert helvíti væri til og djöfullinn væri tóm ímyndan. Sé þeirri skemtiför haldið áfram í sama anda og hið töfraða dýr elt þangað til þokunni slær yfir, þá veit eg, hvar það andlega ferðalag endar. Það endar í trölla-höndum.

Eg hefi talað um gang vantrúarinnar sem hringför, hefi tekið fram, að hún byrjar venjulega á því, að neita tilveru þess, sem verst er í heimi, en endar svo loks með því, að trúa á tilveru þess, sem hún upphaflega neitaði, þess og einskis annars. Eg endrtek þessa mína staðhæfing. Vantrúin hefir sinn gang með því að segja, að enginn djöfull og ekkert helvíti sé til, og svo þroskast hún sínum náttúrlega vexti, þangað til í ímyndan hennar djöfullinn ræður

yfir tilverunni sem ótakmarkaðr einvaldsstjóri og tilveran sjálf verðr að biksvörtu, eilífu helvíti. Hún byrjar sem *optimisti,* svo undr mannúðlegr og barnalegr, sem einblínir á hina björtu hlið heimstilverunnar, svo að hin svarta hlið hennar hverfr algjörlega, — fyrst það af henni, sem svartara er en allt annað, og síðan hún öll. Þegar hið svartasta er horfið, þá fer að birta yfir hinu, sem er minna svart. Syndin svona almennt léttist smámsaman á metaskálunum, þangað til hún missir allan þunga, er ekki lengr neitt hættuleg. Það er slegið striki yfir hana. Hún er ekki lengr til. Það er óhætt að dansa í gegnum lífið upp á það. En svo kemr það, þegar minnst vonum varir, upp úr kafinu, að lífið hefir líka svarta hlið, lífið er ekki og getr ekki verið tómr leikr. Hinn illi virkilegleikr sýnir sig. Það dimmar í lofti. Sólskinið og veðrblíðan hættir. Maðr er staddr í biksvartri þokunni, og svo skellr á stormr og stórhríð, sem alveg gjörir út af við hina upphaflega björtu lífsskoðan. Í staðinn fyrir allan *optimismusinn* kemur nú *pessimismus,* sú trú, allt þetta góða og bjarta, sem áðr sást, hafi að eins verið ímyndan, töfrasjón, stundartál, sé í rauninni ekki til, að eins þetta illa og fagnaðarlausa, sem nú er fyrir augunum, — að eins það sé til. Það hefir skift um vantrúna, hún er orðin að umskiftingi, hún hefir úr *optimista* breyzt í *pessimista.* Í tilverunni sér hún nú aðeins það, sem illt er, og þá er undirstaðan fengin að þeirri sannfæring, að tilveran öll hvíli í höndum þess anda eða þess afls, sem vér hljótum að kalla djöfulinn. — Þegar vantrúin leggr af stað með mannsandann út í sína hringferð, þá snýr hún bakinu að sínum burtfararbletti eða "útgangspunkti", sem einmitt er tilvera þess, sem verst er í heimi. Og af því hún snýr að því bakinu, þá sér hún það ekki, og fjarlægist það meir og meir, þangað til hálfri hringferðinni er lokið þá breytist undr náttúrlega afstaðan þannig, að hún getr nú séð það eins og um öxl, hún snýr sér, nauðug viljug að því meir og meir, hún hefir það meir og meir fyrir framan sig, og að sama skapi hefir hún á þessum síðari helming hringferðarinnar meir og meir fyrir aftan sig það, sem best er í heimi, ljósið í tilverunni, guð, kærleikann, það hverfr henni meir og meir, þangað til að hringferðinni er lokið og ekkert í augsýn nema hinn

svarti "útgangspunktr". En það er ekki neinn punktr lengr. Hann hefir vaxið í allar áttir og breitt sig út yfir alla tilveruna, hún öll er út af hinum litla dökka bletti orðin að virkilegu, hræðilegu, takmarkalausu svartahafi, — biksvart, huggunarlaust dauðamyrkr er yfir öllu.

Að það er ekki neinn heilaspuni úr mér, þetta, sem hér er tekið fram um hringför vantrúarinnar, heldr helber virkilegleikr, það sést bezt á nútíðarskáldskap hinna svokölluðu *realista* og undirbúningnum að því, hvernig hann meir og meir hefir vaxið burt frá ljósinu inn í heldimmt myrkrið. Lengra út í myrkr vonleysis er víst eigi unnt að leiða mannlegan anda heldr en gjört er í mörgum nýjustu ritum *realista*-skáldanna. Og þessi *realista*-skáld, það eru leiðandi skáldin í heiminum nú eða að minnsta kosti hafa nú upp á síðkastið verið það. Í skálda hópi stendr Hinrik Ibsen, norska skáldið, að öllum líkindum fremstr. Eg hygg menn hljóti að telja hann konunginn í ríki nútíðarskáldanna. Hann skapar svo risavaxnar hugmyndir, og þessar risavöxnu hugmyndir fljúga eins og þykk örvadrífa yfir mann hvar sem maðr stendr uppi í ritunum hans. Og það er eins og hver einstök af þessum örvum verði að lifandi veru og fljúgi inn í hjartað manns svo undr náttúrlega og alveg að sjálfsögðu. Allt er stórt hjá þeim manni, hver hugsun svo óheyrilega víðtæk og efnisrík, hið skáldlega áræði alveg takmarkalaust, en allt stefnir út í myrkrið. Eða að minsta kosti sýnist hver ljósskíma vera horfin í síðustu verkum hans. Seinasta rit Ibsens, út komið einmitt á síðasta misseri, er *Hedda Gabler*. Það eru tvær aðalpersónur í því riti, og þær báðar taka lífið af sjálfum sér. Svo lífsskoðanin, sem í því riti ræðr, er augsýnilega eins dimm og huggunarlaus eins og þegar verst hefir verið hjá þeim höfundi áður. Sjálfsmorð er daglegt brauð hjá öllum þessum *realista*-skáldum. Þeir sjá engin önnur ráð til að leysa hnút örlaganna, þegar hann harðnar nokkuð til muna, en þetta, að menn drepi sjálfa sig. Með öllu sínu skapandi ímyndunarafli og íþróttalegu snilld, og með allri þeirri persónulegu tilfinning, sem þeir, margir hverjir, sýnast hafa fyrir eymd og böli mannlegs lífs, geta þeir enga sögu hugsað sér svo, að hún ekki fari illa, endi í svörtu myrkri. Einstaklingslífið

getur margoft byrjað hjá þeim eins og æfintýri, svo bjart og yndælt og fullt af von, en það endar nærri því undantekningarlaust eins og tröllasaga. Svo þessi birta, sem yfir lífinu var í upphafi, þessir vonargeislar, sem þá stöfuðu niður á mannssálina, þessi lífsþrá og ljósþrá, sem hjartað var fullt af, þegar æfigangan út í heiminn hófst fyrir alvöru, — það verðr, þegar komið er nokkuð langt áfram í sögunni, manni aðeins til kvalar og særingar. Kristján Jónsson yrkir eitthvert mesta og átakanlegasta kvæðið sitt út af voninni, en hann endar kvæðið með þessum ógleymanlegu orðum:

"Vonin lífs er verndarengill,
von, sem þó er aðeins tál."

Það mætti setja þessi niðurlagsorð úr því kvæði sem einkunnarorð eða motto yfir *realista*-skáldskap vorrar tíðar öllum í einni heild. Hann stefnir allr út í eilífa auðn vonleysisins. — Það er eins og fjöllin mörg á Íslandi sem einu sinni voru alþakin gróðri og ríku jurtalífi, hulin skógi og grænum grösum frá rótum og upp á efstu brúnir, en nú standa með öllu afklædd sínum forna búningi, ber og alrúin eins og svartir dauðans minnisvarðar. Þau höfðu einu sinni heilmikla framtíðar-lífsvon í för með sér, þessi fjöll. Þau báru hana utaná sér. Þau minna á því skeiði æfi sinnar á hina lífsglöðu og vonarfullu, ungu og upprennandi einstaklinga í æfintýrunum. En svo lagði náttúruafl eyðileggingarinnar sig yfir þessi fjöll, án þess nokkur maðr reyndi til að hindra eða gæti hindrað. Og svo standa þau þar, biksvört, hrikaleg og huggunarlaus, eins og stórskorin og ægileg tröll, sem orðin eru að steini. Og þó að þau séu svona steindauð, þá er eins og maðr heyri þau hrópa með dimmri, en sterkri rödd út yfir mannabygðirnar niðri í dölunum. Engin lífsvon framar! — Og þetta er líka einmitt síðasta orðið, sem þessi *realista*-skáld láta ritin sín flytja sinni samtíð, seinasti boðskaprinn, sem þeir láta berast út yfir bygðir manna. Lífið er ekki þess vert, að það sé lifað, því að öll von er tál. — Eg hefi oft dáðst að þeim uppdráttum, sem þessi skáld koma með bæði af

náttúrunni og mannlífinu. Þeir eru svo meistaralega fullkomnir í íþróttalegu tilliti. Og eg dáist að þeim enn. En eg dáist að þeim alveg á sama hátt og eg hefi altaf dáðst að þessum tröllslegustu fjöllum heima á Íslandi. Mér kemr nú til hugar fjallagirðingin sunnan við Berufjörð, frá Búlandsnesi og Djúpavogskauptúni inn undir fjarðarbotn. Það er víst einhver sú svartasta og eyðilegasta náströnd, sem til er á Íslandi, að minnsta kosti sem eg hefi séð þar. Það er einn bær á þeirri náströnd, sem heitir Urðarteigr. Og bæjarnafnið segir til, hvers eðlis sú landspilda er, eintóm urð, ljót, illhrissingsleg, nálega alveg gróðurlaus stórgrýtisurð. Og þessi urð myndar alla fjallshlíðina, þangað til komið er langt langt upp eftir, þá tekr við reglulegr hamraveggr, sem girðir hlíðina, ef hlíð skyldi kalla, alla að ofan. En sá hamraveggr er aðeins undirstaða undir fleiri fjalla jötnum, sem aðskildir af eins konar dalahvylftum, gróðrlausum og undr stórskornum, gnæfa lengst upp í himininn. Þessir háfjallshnjúkar, hringsettir hinum hrikalegustu klettabeltum, mynda sumstaðar einhverjar feiknahvelfingar, slíkar sem maðr gæti hugsað sér að tilheyrði einni tröllakirkju, og svo rísa í loft upp gnapandi turnar frá þeim hvelfingum, alla vega lagaðir, en æfinlega stórkostlegir. Þessir gnapandi turnar fá stundum fyrir auga áhorfandans á sig nokkurskonar hrottalegar mannsmyndir. Maðr fer ósjálfrátt að hugsa um tröllin. Þau, svo og svo mörg, sýnast vera stigin upp á hvelfingarþakið upp yfir sínu eigin risavaxna dauðans náttúrumusteri. Í allskonar stellingum standa þau þar, stundum á öðrum fæti, stundum teinrétt, stundum hokin, stundum sitjandi, stundum eins og þau hangi í loftinu, köld, stórskorin, ægileg dauðans tröll, sem ríkjandi þar efst uppi í dauðanum og sjálf steindauð samt rétt eins og glotta til feraðmannsins, er fer þar út eða fram eftir ströndinni, hlægja yfir honum kuldahlátr, út af því, hvílíkt peð hann er í samanburði við þau og hversu lítið hann má sín andspænis þeim, fulltrúum hinna dauðu og tilfinningarlausu náttúruafla. Það er óneitanlega einhver fegurð í þessum fjalla myndum. En það er dauðans fegurð. Eg hefi altaf haft djúpa lotning fyrir þessum fjöllum, en eg hefi æfinlega fyllst einskonar myrkfælni, þegar eg hefi

farið fram hjá þeim. Eg hefi hvergi haft eins mikla freisting til þess að ríða í loftinu, reglulega fantareið, eins og þegar eg hefi verið þar á ferð, allra helzt hafi eg verið einn míns liðs. Með viðlíka tilfinning stend eg æfinlega frammi fyrir realista-tröllunum í skáldskaparríki vorrar tíðar. Eg sé þar fegurð og sannleika, og eg beygi mig fyrir þeirri fegurð, ber lotning fyrir þeim sannleika. En eg hræðist hvort tveggja, því það er tóm dauðans fegurð og tómr dauðans sannleikr. Allr sá sannleikr sem þessi skáld koma með, er sýning af þeirri svörtu hlið tilverunnar, sem heitir dauði. Hina hliðina sjá þeir ekki, eða ef þeir sjá hana, þá er sú hliðin í þeirra augum líka orðin dimm. Þeir draga vantrúarhjúpinn sinn yfir hana, svo öll tilveran stendr á eftir, í sýningunum þeirra, í eilífum dauðans skugga. Öll tilveran breytist í höndunum á þeim í einn skuggalegan, huggunarlausan dauðans urðarteig, og fyrir ofan þann urðarteig ekkert nema köld og tilfinningalaus tröll, en voðalegri að sínu leyti en risalíkneskjrnar, sem náttúran hefir hlaðið upp á bak við Urðarteigslandið í Berufirði.

En hvernig stendr á því, að þessi aðalskáldskapr nútíðar-*realistanna* er orðinn eins og hann er, stefnir svona út í huggunarlaust myrkrið, er kominn svona greinilega með mannsandann í tröllahendr? Það stendr svo á því, að hin svokölluðu rómantísku skáld, sem ráðandi voru í skáldskapar-heiminum næst á undan *realistunum,* voru langt um of miklir *idealistar* og *optimistar,* sem nærri því voru blindir fyrir hinum svarta virkilegleik í tilverunni eða að minnsta kosti vildu ekkert verulegt tillit til hans taka. Þeir máluðu ekki mannlífið með náttúrlegum litum. Það varð í þeirra höndum óeðlilega bjart. Þeir lentu með það upp fyrir skýin. Mannheimrinn þeirra er eins og ljósálfaheimr. Þeir teikna lífið eins og þeim hefir fundist það ætti að ganga, en ekki eins og það gengr oft, til þess ekki að segja oftast, í virkilegleikanum. Þeir lifa aðeins í æfintýris-hugmyndinni. Allt hlýtr í huga þeirra að enda svo makalaust vel. Auðvitað láta þeir all-mikið af illum öflum, andlegum og líkamlegum, slæðast með inn í sínar skáldskaparsýningar, en þau illu öfl eru æfinlega látin liggja undir, og þau sýnast aðallega vera tekin með í þeim tilgangi að gjöra sigr hins góða því

dýrlegri og geta svo skilið við allt í sólbjörtu æfintýris ástandi. Hinn dimmi og hræðilegi virkilegleiki mannlífsins nýtr sín aldrei hjá þeim *idealista*-skáldum. Þeir gefa mannsandanum of mikla, óeðlilega, ósanna von, — von, sem í svo sorglega mörgum tilfellum reynist herfilegasta tál. Og svo, þegar það er gengið upp fyrir mannsandanum, að vonin þessi reynist svo svikul, lífið var allt öðruvísi í reyndinni en myndirnar, sem þessi skáld höfðu af því tekið, allt erfiðara, skuggafyllra og alvarlegra, þá hneykslast hann brátt á þeim myndum rífr þær í sundr og fleygir þeim í fyrirlitning og reiði sem allra lengst í burtu, og um leið og hann hefir gjört það, fer hann meir og meir að stara á sortann í tilverunni, vonzkuna í mönnunum, hið harða og sára í örlögum bæði hins einstaka manns og heilla mannflokka mannkynsins yfir höfuð að tala, þangað til öll birta hverfr algjörlega. Nú erum við komnir á stöðublett *realista*-skáldanna eins og þau eru nú orðin. Öfgarnar hjá *idealista*-skáldunum næst á undan hafa hefnt sín með nýjum og gagnstæðum öfgum hjá þeim, sem síðar hafa tekið við. Hér var vantrúarhringferðin augsýnileg og áþreifanleg. Vér höfum rakið þann hringferil. Förin eftir *idealistana* sjást úthleypt á fyrra helmingi hringsins. Lengra burtu frá útgangspúnkti sínum, hinum svarta virkilegleik lífsins, því, sem verst er í heimi, er þeir komust, gátu þeir með sínum bezta vilja ekki komizt, því hið andlega ferðalag þeirra var hringför, og nú var hringrinn hálfnaðr. Og svo hlutu *realistarnir* að taka við, halda því áfram, sem eftir var af hringferðinni. Enda má greinilega rekja förin þeirra eftir öllum síðari helmingi hringsins. Lengra en þeir eru komnir geta þeir ekki komist. Því þeir standa nú allir með alla birtuna að baki sér og horfa í kolsvarta, vonarlausa, eilífa dauðans næturdimmu. Þeir hafa snúið æfintýri lífsins upp í tröllasögu.

Eg þykist nú hafa sýnt all-greinilega, hvernig fer, þegar manns andinn sleppir sér inn í þann barnalega *idealismus*, að neita tilveru þess, sem verst er í heimi. Eg ætlast til, að mönnum skiljist það af þessu, sem eg hefi tekið fram úr heimi skáldskaparins á þessari öld, að samkvæmt nokkurskonar náttúrulögmáli leiðir slík afneitun mannlegan anda

út í hættulega og hörmulega hringferð. Til allrar hamingju sýnast allar líkur lúta að því, að hinn vonlausi og kolsvarti *realista*-skáldskapur, sem í síðustu tíð hefir haft svo mikið ríki í stórum hluta hins menntaða heims, sé bráðum orðinn útlifaður. Menntaþjóðirnar, sem hann hafa alið og af sér getið, virðast greinilega vera farnar að fælast hann og þá örvæntingar-lífsskoðan, er hann hefir haldið á lofti. Og þegar þær, hvenær sem það verðr, hafa slitið sig frá honum og þannig fyrir mildi guðlegrar forsjónar frelsast úr tröllahöndum, þá er vonandi að menn láti sér sín eigin sögulegu víti að varnaði verða, hræðist framvegis bæði oftrúaröfgar *idealistanna* og vantrúaröfgar *realistanna,* haldi báðum augum sínum opnum, stingi hvorugt þeirra úr sér, og byrji svo ekki nýja afneitunarhringför. En hvað sem þessari ósk eða þessum spádómi líðr, þá er eitt vízt, og það er þetta: Stór hluti íslenzku þjóðarinnar, vorrar eigin kæru þjóðar, er farinn að taka þátt í þessari óheillavænlegu vantrúarhringför. Hvenær sú hringför byrjaði, það skal eg láta ósagt. En að hún er virkilegleikr, því held eg fram sem nokkru áreiðanlegu og ómótmælanlegu. Nútíðarsaga Íslendinga hefir mörg augsýnileg merki þess utan á sér, að þjóðin er til stórra muna snortin af þessum hringfarar-sjúkdómi. Því sjúkdóm, og hann hættulegan, kalla eg það ástand, sem menn eru í, þegar vantrúin er tekin til að snúa þeim í hring. Þjóðin vor íslenzka er í flestum greinum á eftir tímanum. Vér erum einskonar halabörn menntuðu þjóðanna. Og að því leyti er vér sem þjóð höfum látið leiðast í vantrúarhringförina, þá erum vér þar auðvitað það skemmra komnir áleiðis en annara þjóða hringfarar. Nú, þegar hinn vantrúaði og vonlausi *realista*-skáldskapur í heiminum yfir höfuð vafalaust er kominn svo langt sem hann getr komist, og sýnist þá og þegar verða orðinn útlifaðr, er þessi sama skáldskapar tegund svo að segja nýbyrjuð að stinga höfðinu inn meðal Íslendinga. Hann er svo lítill að vöxtunum, hinn nýji íslenzki *realista*-skáldskapr, að hann gæti varla talist, ef hann í íþróttalegu tilliti væri ekki svo prýðilega af hendi leystur eins og hann er. Þér vitið, að þeir íslenzku ritstjórnarnir hér í Winnipeg, þeir Gestr Pálsson og Einar Hjörleifsson, hafa í nokkrum stuttum sögum framleitt nálega

allt, sem þjóð vor á enn í þeirra skáldskapargrein. Það, að ekki meira af nútíðarskáldskapnum íslenzka skuli vera borið af hinni myrku eða jafnvel hinni almyrkvuðu *realista*-lífsskoðun, bendir vissulega á, að það er enn ekki nema tiltölulega lítið brot af þjóð vorri, sem í vantrúarlegu tilliti er komið inn á síðari helminginn af sinni hringferð. En í því er lítil huggun, úr því það er augsýnilegt, að ennþá miklu stærra brot af þjóðinni er komið út í sömu hringferðina, þó það sé enn statt á fyrra helmingnum, og þeir menn sjái þar af leiðandi ekki þá hættu, sem þeir eru staddir í, og það myrkr sem þeir stefna út í. Eg hverf nú burtu frá skáldskapnum og inn í virkilegleikann, hinn sögulega íslenzka nútíðar-virkilegleika. Hafið þér ekki tekið eftir því, hve örðugt allr félagsskapr með ákveðnu prógrammi eða fast afmarkaðri trúarjátning á uppdráttar meðal fólks vors bæði heima á Íslandi og hér vestra? Það hefir að vísu öll lifandi undr verið talað um frelsi og framfarir af oss Íslendingum á þessum síðustu tímum. Og að félagsskapr sé nauðsynlegr til þess að styðja frelsið og framfarirnar, því virðist fólk almennt ekki hafa neitt á móti. En þegar á að fara að ákveða, í hverju þetta, sem kallað er "frelsi og framfarir", sé fólgið, fyrir hverju menn eigi eiginlega félagslega að berjast, hverju félagsskaprinn eigi að halda fram sem sínu lífsspursmáli, þá fer vanalega að vandast leikrinn. Í prógrammslausan, trúarjátningarlausan, og þar af leiðandi stefnulausan félagsskap vill fjöldi Íslendinga lang helzt ganga. Slíkr félagsskapr getr samkvæmt hlutarins eðli undr lítið gott gjört, en í honum vilja margir af fólki voru fegnir vera, hann er vinsælli en allr annar félagsskapr, og hann er svo vinsæll fyrir þá sök, að hann samsvarar nákvæmlega hinni óákveðnu og fálmandi frelsishugmynd, sem ríkjandi er hjá þjóðinni. Allr félagsskapr, sem hefir ákveðið prógramm, og sem þar af leiðandi slær því föstu í því prógrammi, hvað það sé, sem hann er með, og hvað það sé, sem hann er á móti, og reynir svo í verkinu að framfylgja þessu, má meðal Íslendinga búast við að verða sakaðr um það, að hann sé að hlynna að ófrelsi og kúgan almennings. Það er fullt hér vestra af svokölluðum frelsispostulum, sem sí og æ eru í frelsisins og framfaranna

og mannréttindanna og sannleikans og kærleikans nafni að vara almenning við slíkum fastákveðnum félagsskap, með öðrum orðum, öllum þeim félagsskap, sem nokkurt vit eða gagn er í. Þeir vilja svo sem hafa félagsskap, þeir menn, en hann verðr þá að vera svo víðr og frjálslyndur, að menn með öllum möguleikum og ómögulegum skoðunum geti komist þar fyrir. Þeir vilja helzt hafa eitt allsherjar andlegt og líkamlegt framfarafélag, fyrir alla Íslendinga, þar sem öllum hugsanlegum mönnum og málefnum væri gefið jafnrétti. Í fljótu bragði getr virzt, að þessir menn hafi dæmalaust mikla frelsisást og trú á það, sem gott er, gefa þeir fyllilega í skyn að þeir hafi. En í reyndinni sýnir það sig, að sú frelsisást og sú trú er ekkert annað en reykr. Að svo miklu leyti sem þeir ráða gangi mannfélags vors, þessir menn, þá hættir hann að vera framrás, en verðr í þess stað að hringiðu. — Þegar Odyssevs Íþöku-konungr forðum var á sinni hrakningsferð heim til sín úr Trjóu-leiðangrinum, þá urðu þar á sjóleiðinni fyrir honum tvær óvættir, sem Homer skáld nefnir Skylla og Karybdis. Þær voru í sundinu milli Sikileyjar og Ítalíu. Það voru eiginlega tvær hættulegar rastir eða hringiðr, sem í huga þeirrar tíðar fólks urðu að yfirnáttúrlegum og hræðilegum verum. Alla hluti og alla menn, sem nærri þeim koma, soguðu þessar óvættir niðr í sig. Þær leituðust sérstaklega við að krækja í allt lifanda, sem fór þar um og kom þeim nálægt, og tækist það, þá var því dauðinn vís. Miðsvegar á milli þeirra varð sjófarandinn að halda skipi sínu, ef hann átti ekki að lenda í annari hvorri þeirra. Það var þrautin meiri, en Odyssevs vann þá þraut, og svo komst hann af, þótt með nauðum væri. — Það er eiginlega engin Skylla og engin Karybdis nú til á þeim stað, sem Hómer segir frá. En þær eru til eins fyrir því, þessar óvættir. Hringiðurnar í mannlegu félagslífi, sem hinir viljalausu og stefnulausu frelsisglamrarar mynda, það er Skylla og Karybdis þessara síðari tíma. Og þar sem það er víst, að slíkar hringiðr eru til í nútíðar-þjóðlífinu íslenzka, þá þurfum vér líka alvarlega að gæta þess, að lenda ekki með vor félagsmál í Skylla eða Karybdis. Pólitíkin á Íslandi á undra örðugt að komast nokkuð áfram með þjóð vora fyrir þá sök, að það eru þar

svo allt of fáir stjórnmálamenn enn með nokkurri fastri, ákveðinni stefnu. Regluleg flokkaskifting út af opinberum málum getr varla sagzt að vera þar enn. Og þar sem svo er ástatt, myndast þessar hringiðr í þjóðlífinu rétt af sjálfu sér. Allir óákveðnu og stefnulausu demagógarnir, sem ekkert prógramm hafa og snúast svo eins og vindhanar á húsbust eftir því sem vindurinn blæs, — allir slíkir mynda Skylla og Karybdis í mannfélaginu, hvar sem þeir eru staddir. Ef þér sökum fjarlægðarinnar sjáið þetta óljóst í þjóðfélaginu á Íslandi, þá sjáið þér það þá að minsta kosti hér, og hvergi eins skýrt eins og það sem til hinna eiginlegu kirkjumála kemr. Lúterska kirkjan vor íslenzka hefir einnig á þessum stað tvær andlegar hringiðr sem eg vil kalla Skylla og Karybdis, umhverfis sig, sína til hvorrar handar, alveg eins og Odyssevs forðum í Messíanasundinu. Það er únítarasamkundan og presbyterianska missiónin, sem stolið hefir nafni Lúters upp yfir sínar kapelludyr. Eg hélt lengi vel hálft í hvoru, að þessi síðarnefnda missión þrátt fyrir alla sína vitleysu hefði það fram yfir únitarahringlandann, að hún vissi hvað hún vildi. En þegar eg í vetr með eigin eyrum heyrði íslenzka oddvitann fyrir þeirri starfsemi lýsa yfir því, að hann, mitt upp í sínum oftrúarofsa, vildi rétta únítörum bróðurhönd, og að hann í tilbót bað guð að leggja blessun sína yfir hina andlegu vinnu þeirra, þá gekk eg úr skugga um það, að þar var sama stefnuleysið og sami hringiðuháttrinn eins og í únítarahópnum íslenzka. Svo það stendr nú fast fyrir mér, að hér sé bæði Skylla og Karybdis, sinn til hvorrar handar við oss á hinni kirkjulegu sjóferð vorri. — Eg ætla að benda á eina hringiðu enn, sem birzt hefir í íslenzka mannfélaginu hér á þessu síðasta ári. Eg ætla hvorki að kalla hana Skylla eða Karybdis. Eg hefi ekkert hæfilegt nafn til að gefa henni. Hún átti lengi heima á Íslandi, og Grímur Thomsen kallaði hana aðeins *það* eða *þetta*. Eg á við Jón Ólafsson, fyrverandi alþingismann og ritstjóra. Hann hélt eins og margir yðar eflaust muna, ræðu á kirkjuþingi voru í fyrra, þar sem hann sýndi fram á, hve frjálslynt kirkjufélag vort væri og hversu fráleitt það væri, að þar væri að óttast klerkavald. Hann hefir nýlega gefið út ritling, sem á að sýna, hvílíkt ófrjálslyndi, hvílíkr trúar-

ofsi og klerkavaldsandi sé ráðandi í þessu sama félagi. Hann dreymdi um sama leyti draum, sem hann setti á prent. Og draumrinn var þessi. Hann þóttist kominn til helvítis, og þegar hann litaðist umhverfis sig, sá hann "Heimskringlu"-menn þar hópum saman. Að *þeir* voru þar, þótti honum ekki nema sjálfsagt, en að *hann sjálfr* skyldi vera kominn í sama hópinn, það þótti honum undrum sæta. Menn vita, hvar Jón Ólafsson stendr nú. Hann er kominn þangað, þar sem hann í fyrra áleit að helvíti væri. Hann dreymdi fyrir því, að hann á svona stuttum tíma mundi snúast hringinn í kring. Eg hefi aldrei heyrt getið um meira berdreymi. — Væi sá maðr, sem hér er um að ræða, ekki talsvert opinber persóna, sem hefir spilað all-mikla rullu í íslenzkum þjóðmálum og sem slíkr haft á sér talsvert almenningstraust, þá hefði eg ekki nefnt hann á nafn. Eg hlaut að nefna hann af því, að hann hefir svo mikið verið uppi í þjóðlífi Íslands, því það hefði hann ekki getað svo framarlega sem þetta sama þjóðlíf væri ekki til stórra muna sýkt af þessum hringiðuskap og stefnuleysi, sem svo stórkostlega og afskræmislega hefir komið fram hjá honum. — Það myndast aldrei hringiðr í neinu vatnsfalli, sem rennr áfram með jöfnum, stríðum og þungum straumi. Þær sjást helzt í lygnum hyljum. Og það, að þessar stefnuleysis hringiðr eru svona auðsýnilegar í þjóðlífinu íslenzka á yfirstandandi tíð, það bendir vissulega á það, að þjóðlífsstraumrinn í heild sinni er undr lygn, nærri því enginn straumr, heldr eins og afllaus eða undr afllítil móða. Deyfðin og doðinn í þjóðlífi voru er líka vitanlega alment umkvörtunarefni. Þjóðin berzt ekki, segja vorir mest og bezt hugsandi menn heima á Íslandi, með neinni verulegri alvöru fyrir sínum beztu málum. Núna í síðustu tíð erum vér minntir á það, hve sleitulega hefir af almenningi tekið verið í gufuskipsmál Faxaflóa, annað eins velferðar mál fyrir land og lýð. Það lítr því miðr ekki út fyrir annað en að það ætli að lognast út af fyrir fylgisleysi almennings. — Það hefir verið tekið fram bæði af mér og öðrum, að þjóðina vanti trú á sín velferðarmál, trú á það, sem henni er fyrir beztu. Mér kemr ekki til hugar að fara að taka það aftr. Það þarf vissulega, eins og séra Matthías Jochumsson játar,

meiri og sterkari trú, — trú í andlegum efnum og trú í líkamlegum efnum. En menn fá ekki þá meiri trú, — meiri ótrú og óbeit á því, sem illt er. Þessi deyfð og doði hjá oss Íslendingum í trúnni á það, sem vér höfum fyrir satt að sé gott, stendr í óaðgreinanlegu sambandi við það, að vér sjáum það, sem illt er, svo undr dauft. Menn verða að sjá það skýrt, hafa það sí og æ í augsýn, mega í framgöngu sinni aldrei snúa við því bakinu, og þegar það er gjört, þá fá menn að sjálfsögðu hvöt til þess að slást á móti því og um leið festa verulegt og alvarlegt ástfóstr við það, sem því er gagnstætt.

Það er skortr á trú á það, sem gott er, að sjá ekki neitt verulegt illt í því, sem er á móti manns eigin velferðarmáli og vilja ekki slást á móti því. Og það er vegrinn til þess að afneita því, sem bezt og mest er í heimi, að loka augum sínum fyrir því, sem verst og hræðilegast er í heimi. Vantrúin á tilveru þess, sem illt er, getr af sér deyfð í hinni góðu framsókn. Lífið verðr eins og dauðamóða með óteljandi hringiðum. Og hringiðurnar segja frá því, að það ferðalag, sem því lífi tilheyrir, er að verða ein dauðans hringför, — ferðalag á fyrri helmingi vantrúar-hringsins, ferðalag, sem, ef því er haldið áfram í sama anda, lendir þá og þegar inn á síðari helminginn, æfintýri, sem áðr en nokkr veit af, getr breyzt í tröllasögu.

Það eru ekki svo fáir, sem eins og séra Matthías Jochumsson í sínum áramótasöng, sjá það, að það er hættuleg tíð fyrir þjóðlífið íslenzka, þessi yfirstandandi, — margir Íslendingar vafalaust, sem finnst hann fari sönnum og spámannlegum orðum um aðalmeinið í þessu sama þjóðlífi, er hann segir:

Hið innra angr, að utan flangr
eg ætla að sé,
þá ýtar hæða hin æðstu gæði
og elta fé
og láta í næði löst og spé
þótt leiki á þræði öll heilög vé.

Þeir sjá eins og hann stefnuleysið, hringiðuháttinn, hinn megna skort á trú á hin góðu málefni. Þeir sjá, að það lífsæfintýri, sem þjóðin vor nú stendr uppi í, er ískyggilegt, er virkilega farið að fá á sig ýms tröllasögu-einkenni. Allir slíkir vildi sannarlega varna því, að þetta illa yrði algjörlega ofan á í sögu sinnar eigin kæru þjóðar, forða þjóðinni við að lenda fyrir fullt og allt í tröllahendr. Menn segja, að þjóðin þyrfti nú að fá einhvert alveg einstaklegt mikilmenni, einhvern mikinn anda, eitthvert nýtt stórskáld, einhvern mikinn heimspeking, til þess að leysa hana úr álögunum, einn nýjan andlegan Gretti, til þess að lyfta af henni því heljar vantrúar-bjargi, er hún liggr undir á þessari tíð, sem einmitt ætti að vera hennar uppreisnar- og upplífgunar-tíð. Það er auðséð, að ýmsir bezt hugsandi mennirnir heima á Íslandi treysta ekki nútíðar- upplýsingunni íslenzku. Þeir hafa tekið eftir því, að hún dugir ekki til þess að frelsa þjóðina frá þeim illa anda, er á hana sækir. Og svo flögrar þessi eðlilega ósk í gegnum huga þeirra, að forsjóninni mætti þóknast að senda þjóðinni einhvern stóran spámann, eitthvert óvanalegt andans mikilmenni, einhvern nýjan Herúkles, til þess að vinna þær þrautir, sem þjóðin endilega þarf að vinna, eigi hún skaplega að komast af. Eg hefi mætt þessari ósk frá ýmsum í seinni tíð. Eg fæ hana bréflega hvað eftir annað heiman af Íslandi. Og eg segi að hún sé eðlileg. En það er lýðstjórnartíð, en ekki einveldistíð, þessi tími, sem nú er. Og á slíkri tíð stendr naumast til, að neinn einn andans maðr verði sendr til þess að frelsa þjóðina frá möru, sem yfir henni liggr, finna bót við hennar aðalmeini, varna því, að "komi kvöld" og "kalli stundin með refsigjöld". En hitt stendr þar á móti til á slíkri tíð sem vorri, að allir þeir einstaklingar, sem finna til þess, hvað að er, og sem í alvöru langar eftir betri tíðum, fari samtaka að vinna að því, undir fastákveðnu prógrammi, skýrt afmarkaðri, *sameiginlegri* trúarjátning, að þessar eftirþráðu betri og bjartari tíðir geti komið. Og nú hugsa eg aftr til æfintýrisins, sem eg dró fram í fyrrihluta þessa fyrirlesturs, þess hlutans af því, sem eg þá nálega alveg sleppti og sem segir frá því, hvernig hinn konungborni maðr var frelsaðr úr trölla-

höndum. Það fannst maðr, sem til þess dugði að frelsa hann þaðan. Í flestum æfintýris útgáfum er það enginn týginn eða mikilsháttar maðr, heldr þvert á móti lítilfjörlegr kotdrengr, sem í sjálfum sér hafði ekkert nema einbeittan vilja. En með þeim vilja hefði hann þó engu áorkað. Fóstra hans eða móðir hans eða einhver önnur vinsamleg kvenpersóna, sem ber velferð hans fyrir brjósti fær honum nokkuð, sem honum var lífsnauðsynlegt til þess að leitin hans eftir hinum týnda konungssyni gæti heppnast og hann fengi náð honum úr trölla höndum. Hún fær honum sverð og hún fær honum hnoða, og þetta hnoða rann á undan honum og vísaði honum veginn. Það nam ekki staðar fyr en komið var þangað sem tröllin höfðu hinn heillaða konungsson á valdi sínu. Þegar þangað var komið, þá þurfti hann á sverðinu að halda. Það var þessum gripum að þakka, að ferðin heppnaðist, hinum umkomulausa alþýðudreng tókst að frelsa konungssoninn. Það er hnoðað og sverðið, sem eg nú legg alla áherzlu á. Orð hinnar kristnu opinberunar, sem hin lúterska kirkja vor, hin andlega fóstra íslenzkrar alþýðu, réttir að hverjum einstaklingi þjóðarinnar, er slíkt hnoða og slíkt sverð. Með það hnoða á undan sér og með það sverð í hendi sér er óhætt að leggja á stað til þess að frelsa þjóðina úr trölla höndum eða vantrúarhringförinni, sem þangað stefnir. Menn bíða ekki þangað til eitthvert framúrskarandi stórmenni kemr fram á sjónarsviðið og býðst til að vinna þetta þrekvirki. Smámennin geta unnið þrautina, ef þau taka höndum og hjörtum saman, taka með sér sverðið og láta hnoðað vísa sér veginn. Það þarf með öðrum orðum að hleypa kristindóminum á stað meðal þjóðar vorrar, með anda og lífi, — ekki aðeins sem einstaklings-málefni, heldur virkilegu *félagsmálefni.*

Þegar kristindóminum, einmitt slíkum kristindómi og hin lúterska kirkja vor í sumum trúarjátningum heldr fram, hefir fyrir alvöru verið hleypt á stað sem félagsmáli meðal þjóðar vorrar, þá verðr líka fyrir alvöru farið að hugsa um endurbót nútíðar-upplýsingarinnar íslenzku, þá verðr heima á Íslandi farið að laga skólana þar, svo þeir miklu betr en nú geti gefið þeim, sem í þá ganga, heilsusamlegar

lexíur fyrir lífið. Þá verðr farið að stöðva straum íslenzku stúdentanna til Kaupmannahafnar, eða að minsta kosti gjalda varhuga við þeirri drepandi lífsskoðan, sem þangað hefir nú verið sótt langt um of lengi. Og því betr sem kirkjufélagi voru hér tekst að gjöra kristindóminn að félagsmáli fyrir þjóðflokk vorn í þessu landi, því brýnni og bráðari verðr í huga Vestr-Íslendinga þörfin á því, að skólahugmynd þessa sama kirkjufélags nái að verða sögulegr virkilegleikr.

Þegar maðr gengr með kristindóminn út í lífið, lætr hann vísa sér leiðina eins og hið undarlega hnoða, sem rann á undan manninum seinast í æfintýrinu, þá lendir maðr aldrei út í þessa háskalegu og fáránlegu hringför, sem byrjar í svo barnalegri oftrú og endar vanalega í svartri, örvæntingarfullri vantrú. Því með hnoðað fyrir framan sig sér maðr bæði illt og gott, hefir það hvortveggja framundan sér, sér með báðum augunum, heldr frá upphafi til enda fastri meðvitundinni um það, sem verst, og það, sem bezt er í heimi, og heldr svo í gegnum lífið eftir beinni stefnu, þangað til takmarki lífsins er náð, og svo verðr sverðið notað sem vopn til varnar og sóknar gegn hinu illa, sem fyrir verðr á lífsleiðinni.

Eg hefi einhverntíma sagt, að Jesús Kristr, mannkynsfrelsarinn sjálfr, væri heimsins mesti *realisti.* Hugsanin fyrir öllum hinum svokölluðu *realista*-skáldum hefir verið að sýna mannlífið í þess virkilegleik eins og líka tilverunnar virkilegleik yfir höfuð, — hann og ekkert annað. En hinn lifandi kærleikans guð, sólin í tilverunni, hefir horfið þeim að sýn, það, sem bezt er í heimi, hefir orðið þeim ósýnilegt, og svo hefir *realismusinn* þeirra orðið svo hræðilega ósannr einmitt í því, er mannssálirnar varðar mestu. Hann hefir komið að eins með sýning af virkilegleik hinnar vantrúuðu lífsskoðunar eftir að hún er búin að missa alla von. Jesús Kristur er *realisti,* en auðvitað í allt öðrum skilningi. Hann sýnir allan virkilegleik mannlífsins, tímans virkilegleik og eilífðarinnar virkilegleik, myrkrsins og ljóssins mikla virkilegleik bæði þessa heims og annars. Hann er mannkynssögunnar eini fullkomni *realisti.* Hann einn, af því að hann var ljómi guðs dýrðar og ímynd veru hans, hefir til fulls þekkt

virkilegleik lífs og dauða, tíma og eilífðar. Með *realismus* frelsarans í hjartanu, hann, en engan annan, er óhætt að ganga út í lífið og dauðann.

Það er ein þjóðsaga, sem að því er eg man eftir, stendr alveg ein í sinni röð meðal íslenzkra æfintýra. Þau enda vanalega svo undr vel, þrátt fyrir allan ófagnaðinn, sem þau opinbera. En þetta eina, sem eg vildi nú nefna, endar illa, hræðilega illa. Það er æfintýrið um *"Dýrið arga á fjallinu Kargon"*. Það dýr var mannleg persóna, mig minnir helst konungssonr í álögum. Hann komst aldrei, sá aumingja maðr, úr þeim álögum. Hann dó sorglegum dauða í álögunum. Eg grét yfir þeirri sögu, þegar eg var barn, grét af því að tárin hrundu af augum dýrsins, er það var að deyja, vonlaust um það, að geta nokkurn tíma frelsast framar. Og raunasvipr hins grátandi og deyjandi dýrs, eða réttara sagt hins grátandi og deyjandi manns í álögum, stendr enn fyrir minni andlegu sjón, hefir aldrei getað horfið, þó langt sé nú síðan eg fyrst heyrði þá sögu og eg að öllu öðru leyti sé búinn að gleyma henni. En eg hefi aldrei skilið þetta, sem sitr fast í huga mínum af þessu einstaka æfintýri, fyr en eg fékk augun upp fyrir hringför vantrúarinnar og því hræðilega takmarki, sem hún stefnir að. Og svo segi eg þá að ending. Sleppið eigi trúnni á tilveru þess, sem verst er í heimi. Haldið föstu því, sem kristindómrinn opinberar af þeirri tilveru, til þess að það í kristindóminum, sem býðr frelsi frá þeirri tilveru og öllu illu, ekki hverfi yður að sýn, þegar dimmunni slær yfir yðr í yðar eigin lífsæfintýri, og þér þurfið eigi að deyja vonlausir í álögum eins og *"Dýrið arga á fjallinu Kargon"*.

# Mótsagnir

Það hefir verið auglýst, að eg ætlaði að flytja hér fyrirlestr um *mótsagnir*. Og þykir mér sennilegt, að þér, háttvirtu tilheyrendr, hafið, er þér heyrðuð þá auglýsing — sumir yðar að minsta kosti —, farið að geta yðr eitthvað til um það, hvers konar mótsagnir það helzt myndi vera, sem eg hefði sett mér fyrir að tala um. — Því hefir á vorum dögum marg-oft verið haldið fram, og það með mestu áfergju, úr vantrúaráttinni, af andstæðingum kirkju vorrar og kristindóms, að biblían, hin helga ritning, sem kemr með opinberanina guðlegu um hin eilífu sannindi sáluhjálparinnar, væri full af mótsögnum. Og með þessum hróðugu og háværu staðhæfingum hafa þeir menn reynt til þess að kippa algjörlega fótunum undan kristindóminum, gjöra trúarjátning vora hlægilega, fæla almenning frá trúnni á mannkynsfrelsarann Jesúm Krist. Þetta er nú að vísu ekkert nýtt í sögu kristinnar kirkju út um heim. Engan veginn þar fyrst komið upp á þessum síðasta mannsaldri. Þvert á móti hefir þessu vopni verið beitt gegn sannindum kristinnar trúar með meira eða minna krafti á öllum öldum kirkjusögunnar. En hjá vorri smáþjóð, sem eins og allir vita hefir lengst af verið svo afskekt, á eylandinu sínu yzt út í hafsauga nálega útilokuð úr heiminum, var þetta eins og ekki til þangað til á síðasta mannsaldri, þessum allra síðustu áratugum. Líklega hefði þó einhverjir landar vorir, sem helzt höfðu horn í síðu kristindómsmálefnisins, áðr komið auga á þetta vopn og farið að nota sér það sínu máli, vantrúnni, til stuðnings, ef þeim hefði fundist þeir þurfa á því að halda. En þess þurfti ekki við. Kirkjan íslenzka lá langa-lengi í lamasessi, — mestalla átjándu öldina og mestalla nítjándu öldina líka. Trúarlíf þjóðar vorrar féll æ meir og meir á þessum tíma í slíkt svefnmók eða dá, að engin ástæða gat virst til að bera á það nein vopn, hvorki þetta sérstaka, né neitt annað. Lang-sennilegast, eftir því, sem hinn andlegi hagr þess stóð í ríkiskirkju-fjötrunum, við byrjan síðasta aldarfjórðungs, að það myndi þá og

þegar verða sjálfdautt. Og frá sjónarmiði andstæðinga kristindómsins lang-æskilegast, að það dæi einmitt á þann hátt — með öllu fyrirhafnarlaust frá þeirra hálfu. En nú er fyrir löngu sýnt, að kristni þjóðar vorrar deyr ekki á þennan hátt. Stórt brot þjóðarinnar hefir á síðustu tuttugu til þrjátíu árum flutt burt frá Íslandi og tekið sér bólstað í þessari heimsálfu, Vestrheimi, og hefir þannig nauðugt verið hrifið út úr öllum ríkiskirkjuböndum. Þá fór nálega ósjálfrátt tilfinning margra fyrir nauðsyn kristindómsins að glæðast. Og út af þeirri glæddu tilfinning fórum vér að brjótast í því, að uppbyggja yfir oss frjálsa kristna kirkju á grundvelli hins opinberaða orðs guðs í heilagri ritning. Hið íslenzka lúterska kirkjufélag vort er hinn sýnilegi ávöxtr af þeirri tilraun. En því augsýnilegra sem það varð á liðnum árum hins kirkjulega frumbýlingsskapar vors hér, að oss var full alvara með hin andlegu félagsmál vor, að vér vorum fastákveðnir í því með drottins hjálp að láta hermerki kristinnar trúar aldrei hjá oss niður falla, heldr þvert á móti safna svo mörgum af fólki voru sem unt væri undir það merki, því meir fór andstæðingum kristindómsins hjá oss að þykja það miklu máli skifta, að beitt væri þeim megin allri orku til þess að reisa rönd við hinni endurfæddu, upprísandi íslenzku kirkju. Til ýmsra ráða var tekið. En eitthvert allra helzta og álitlegasta ráðið var það, að fara að benda á *mótsagnirnar* í biblíunni. Þær áttu að vera svo margar og miklar, svo hróplegar og hneykslanlegar, að ekki gæti komið til mála, að nokkr maðr með fullu viti hefði það fyrir satt, að í þeim ritningum, sem moruðu af öðrum eins villum, væri hin sáluhjálplega opinberan guðs fyrir mannkynið. Býsna hættulegt gat nú þetta vopn vantrúarinnar virst fyrir kirkjulýð vorn hér, þótt því væri oftast fremur ófimlega beitt. En mjög fjarri fer því, að með þessu móti hafi tekist að hefta framgang kristindómsmála vorra að nokkrum verulegum mun, því síður að gjöra út af við hinn kristilega félagskap vorn. Og af því að árangrinn af þessari tilraun andstæðinga kirkjunnar til þess að hnekkja málefni trúarinnar hefir sýnilega orðið svo lítill, nærri því enginn, þá er nú fyrir

nokkru hér um bil hætt í þeirri átt að veifa þessu mótsagna-vopni.

Eg ætla því ekki að tala um þetta mál nú. Alls ekkert frekar í þetta skifti að eiga við mótsagnir í biblíunni. En eg ætla þó að tala um mótsagnir, og það einmitt trúarlegar, biblíulegar, kristilegar mótsagnir. Og skal eg þá undir eins taka það fram, að það eru til í kristindómsopinberaninni langtum meiri, merkilegri og stórkostlegri mótsagnir en þær, sem menn þykjast finna í biblíunni. Ekki á yfirborðinu eins og þær, sem hefir verið að tala um, heldr undir niðri, í djúpi hins guðlega sannleiksmáls, sem ritningin hefir inni að halda. Ekki í hinum ytra búningi orðanna, sem hinir helgu rithöfundar hafa klætt hin opinberuðu sannindi trúarinnar í, heldr í sjálfu innihaldi opinberunarinnar. Ekki í umbúðum hinna guðlegu sanninda, sem liggja fyrir oss í biblíunni, heldr einmitt í þeim sannindum sjálfum. Ekki í auka-atriðunum, heldur í aðal-atriðunum. Þar er fullt af mótsögnum. Og um þær mótsagnir er kristnum mönnum alveg ómissanda að vita frá upphafi. Eins og líka allir kristnir menn hljóta á leið trúarreynslunnar óhjákvæmilega að reka sig á þær, — verða því líka ávalt að vera við þeim búnir, þurfa æ betr og betr eftir því, sem ævitíðin jarðneska líðr, að læra í réttum anda að hugsa um þær, virða þær vandlega fyrir sér, — og það allt eins fyrir því, þó að fyrirfram sé vitanlegt, að þetta eru ráðgátr, sem aldrei fæst fullkomin úrlausn á hérna megin grafarinnar. Það má í þessu sambandi minna á eitt vængjað sannleiksorð eftir einn af gömlu latínsku kirkjufeðrunum: *Credo quia absurdum est* — þ. e.: eg trúi af því að þar er um það mál að ræða, sem eg með náttúrlegri hugsan minni get ekkert við átt. Lægi alt efni kristindóms-obinberunarinnar teinrétt fyrir mannlegri skynsemi, opið og aðgengilegt, væri þar engar mótsagnir eða óleysandi ráðgátr, þá væri auðsætt, að þar væri ekki heldr nein *trúar*-sannindi, og þá auðvitað ekki heldr nein yfirnáttúrleg opinberan frá guði. Því "trúin er" — eins og höfundr Hebreabréfsins tekr fram — "eftirvænting þeirra hluta, sem maðr vonar og sannfæring um það, sem hann *ekki* sér." Miðpunktr kristindómsins, hjartað í kristindóms-obinberaninni, er Jesús Kristur, mann-

kynsfrelsarinn. Og hann sjálfr er hin mikla ráðgáta tilverunnar, hin makalausa mótsögn í hugsanaheiminum, — Gyðingum hneyksli og Grikkjum heimska. Maðr, sem í sínu insta og dýpsta eðli er guð. Guð eilífðarinnar orðinn maðr hér í tímanum. Orðið, sem varð hold og bjó með oss fult náðar og sannleika. Holdtekja guðs í Jesú Kristi, hið guðmannlega eðli hans, friðþægingin fyrir hann. Þetta allt er fyrir hyggjuvit skynsemi vorrar óskiljanlegt, óumræðilegt undr. Hinn mikli leyndardómr guðhræðslunnar, — oss mönnunum hér á jörðinni með öllu ómóttækilegr nema fyrir trúna. Leyndardómr, undr, ráðgáta, — mótsögn. Nú standa öll hin mörgu atriði kristindóms-opinberunarinnar í óaðskiljanlegu sambandi við þennan miðpunkt, persónu Jesú Krists. Sambandið er þar að sínu leyti eins og samband æðanna og hjartans í mannlegum líkama. Og er þá óhætt að hugsa bæði um þær æðar, slagæðarnar, sem leiða blóðið frá hjartanu út um allan líkamann, og eins hinar, sem flytja það úr hinum ýmsu líkamspörtum til hjartans. Eða með öðrum orðum: hugsa að einu leyti um frelsanina guðlegu frá Jesú Kristi til vor streymandi gegn um náðarmeðulin, sem hann hefir gefið kirkju sinni, og í annan stað um sjálfa oss á trúarinnar leið til hans komandi með lífsstarfi voru og bæn vorri. Hér kemr þannig til greina bæði trúarlærdómrinn og siðalærdómrinn kristilegi. Hvortveggja er óaðskiljanlegr frá Jesú Kristi og hvorttveggja nær þannig inn í eilífðina. Og að sjálfsögðu verðr hér í tímanum aldrei séð fyrir endann á neinu því, sem nær inn í eilífðina. Svona er varið öllum æðstu og dýpstu lífssannindunum, sannindum trúarinnar. Og fyrir þá sök vilja þau ævinlega fyrir takmarkaðri skynsemishugsan vorri enda í mótsögn. En þær mótsagnir trúarinnar eru þess eðlis, að í stað þess að láta þær verða oss að hneykslunarhellum höfum vér einmitt gildustu ástæðu til að þakka guði fyrir þær í dýpstu lotning og með hrærðum hjörtum.

Eg má nú samt til að skýra þetta mál nokkuð frekar. Skal eg þá fyrst minna á nokkur orð Páls postula í bréfi hans til safnaðarins í Filippí: "Þess vegna, mínir elskanlegir, með því að þér hafið ætíð hlýðnir verið, þá eflið sáluhjálp yðar" — eða nákvæmar útlagt eftir frumtext-

anum: "Þá beitið allri orku til að koma sáluhjálp yðar til leiðar — með ótta og andvara, — — — — því það er guð, sem eftir sinni velþóknan kemr því til vegar í yðr, að þér viljið og framkvæmið." Það er tvent, sem hér er lögð jafnmikil áherzla á: það, sem mennirnir sjálfir gjöra til þess að ná til sín sáluhjálpinni, og það, sem guð gjörir til þess að veita þeim hana. Það er eins og í hinum fyrra lið ritningargreinar þessarar allt sé komið undir mönnunum, en í síðara liðnum allt komið undir guði. Þetta er mótsögn, — ein af hinum heilögu, blessuðu mótsögnum kristinnar trúar. Það kemr alls staðar fram slík mótsögn þar sem trúarlærdómrinn og siðalærdómrinn kristni mætast. — Hugsum um bænina. Vér eigum samkvæmt guðs orði og eins og líka liggr í hlutarins eðli að biðja svo til guðs eins og vér í lífsnauðsynjum vorum séum algjörlega upp á hann komnir. En vér eigum hins vegar að vinna svo að velferð vorri, beita allri orku, sem vér eigum, leggja fram alla vora krafta, eins og allt væri undir sjálfum oss komið. Það er heimtaðr af oss vilji til hins góða, og vér getum ekki annað en samsint því, að sú krafa sé í alla staði réttlát. En þó getum vér ekki tekið þann vilja hjá sjálfum oss. Líka viljinn, slíkur vilji, hjá mönnunum er guðleg náðargjöf. Nú elskar guð mennina alla, syndfallnir og honum óvinveittir þótt þeir sé, vill velfarnan þeirra allra, frelsan og sáluhjálp þeirra allra, og hefir með sending sonar síns hingað til jarðar, með því að fórna lífi hans í píslarsögunni makalausu, á þann átakanlegasta hátt, sem hugsast getr, fært sönnr á það mál. En hví fær þá ekki líka hvert einasta mannsbarn frá honum vilja til hins góða, vilja til þess að þiggja frelsanina í Jesú Kristi, vilja til þess að gjörast hans sannr lærisveinn? Þetta er og verðr ævinlega hér í lífi ráðgáta, mótsögn, sem ómögulegt er að leysa úr, svo að fullnægjandi sé fyrir hugsaninni.

Páll postuli tekr þetta stór-atriði í trúarlærdóminum kristna, aftrhvarfsmálið, mjög nákvæmlega til íhugunar í Rómverjabréfinu; rannsakar það mál hugsunarfræðislega í sambandi við forherðingarástand meginþorra Ísraelsmanna, hinnar útvöldu þjóðar drottins. Og þar kemur þetta tvent til greina: að einu leyti hin heilaga, ómótmælanlega krafa

til mannsins um það að ákveða sig til guðs; en að öðru leyti hiklaus vissa um það, að maðrinn getr allsendis ekki neitt af eigin mætti og er frá upphafi til enda algjörlega kominn upp á hina frelsandi náð guðs. Annars vegar mannlegt frjálsræði, sem veldr því, að maðrinn, hver einasti maðr, ber fullkomna ábyrgð á því, hvernig hann er og hvert hann stefnir; en hins vegar yfirnáttúrlegt, guðlegt forlaga-afl, sem manninum er með öllu ósjálfrátt. "Svo miskunnar hann — guð — þá þeim, sem hann vill, en forherðir þann, sem hann vill." Postulinn hikar sér ekki við að koma með þessa stórkostlegu yfirlýsingu upp úr þeim trúmálahugleiðingum sínum miðjum. En þá býst hann við, að spurt verði, hvað guð geti þá gefið manninum, rangsnúnum og syndelskanda, að sök, því "hver fær staðið gegn vilja hans?" Og þar nemr postulinn í rauninni staðar í ályktunum hugsunarfræðinnar, — vindr sér með augsýnilegum hryllingi frá þessari spyrjandi, mótmælandi athugasemd, vísar henni algjörlega á bug með þessum ógleymanlegu orðum: "En hver ert þú, ó, maðr, sem yrðist við guð? Mun leirkerið segja við þann, sem bjó það til: "hví bjóstu mig svona til?" Eða á ekki leirsmiðrinn ráð á leirnum, svo hann megi gjöra úr sama deigi annað kerið til sæmdar og hitt til vansæmdar?" Postulinn rekr ekki hugsanina til enda. Hann hættir við rökfærsluna, þegar hann að eins virðist kominn lítið lengra en á miðja leið. Hann veit, að hér í lífi er ómögulegt fyrir neinn lengra að komast hugsunarfræðilega í þessu mikla sannleiksmáli. Hann nemr staðar við málið, þegar úr því er orðin mótsögn, bendir á þá mótsögn og fer svo ekki lengra; en hann bendir á hana á þann hátt, að láta hana birtast tilheyrendum sínum eins og kerúb, sem stendr með blikandi sverði við dyr eilífðarinnar og bannar öllum hugsunarfræðislega þar inngöngu. Og þegar hann svo endar trúfræðisþáttinn í þessu sama bréfi sínu, mesta ritverkinu, sem eftir hann liggur, þá skilr hann við hið stórkostlega, guðlega leyndarmál í auðmýkt og lotning hjartans þannig mælandi: "Ó þá dýpt ríkdóms, speki og þekkingar guðs! Hversu óskiljanlegir eru dómar hans og órekjandi vegir hans! Því að hver hefir þekt sinni drottins? Eða hver hefir verið hans ráðgjafi? Eða

hver hefir að fyrra bragði gefið honum, svo að hann eigi laun skilið? Því að frá honum og fyrir hann og til hans eru allir hlutir. Honum sé dýrð um aldir, amen!"

Hinn frægi og göfugi kirkjufaðir Ágústínus sté feti framar í röksemdaleiðslu sinni út af þessu máli en Páll postuli. Hann freistaðist til þess út af hinum grunnhyggnu staðhæfingum Pelagíusar, sem hélt því fram, að maðrinn gæti af sjálfum sér viljað hið góða og að mannlegt frjálsræði í þá átt væri jafnvel alveg ótakmarkað. Ágústínus hnekkti þeim öfgum, braut þá villu niðr, en við það að ganga lengra í rökleiðslu sinni fyrir hinni hlið málsins en postulinn var ekki laust við, að hann lenti í gagnstæðum öfgum. Hann vildi leysa úr mótsögninni, og sú úrlausn nálgaðist það, að mannlegu frjálsræði væri neitað.

Á reformazíónartíðinni kom vandamál þetta enn upp Hin evangeliska kirkja, sem þá var að rísa upp í heiminum, hlaut nauðug viljug að setja það á dagskrá sína, því páfakirkjan með verkaréttlætistilhneiging sinni aðhyltist hina gömlu villukenning Pelagíusar meir en til hálfs. Aðalmennirnir í hópi hinna evangelisku mótmælenda voru, svo sem kunnugt er, þeir Lúter og Calvín. Og taki nú allir eftir mismuninum á framkomu þeirra í þessu máli. Lúter lætur eins og Páll staðar numið við mótsögnina, mótsögn frjálsræðisins og hinnar frelsandi náðar. En Calvín leitast við að leysa úr mótsögninni. Hann gengur ekki að eins lengra en Páll postuli, heldr líka lengra en Ágústínus. Leysir úr mótsögninni á þann hræðilega hátt, að guð hafi frá eilífð fyrirhugað nokkurn hluta mannkynsins til eilífrar sælu, en nokkurn hluta þess, hinn hlutann, til eilífrar fordæmingar. Hann lenti hugsunarfræðislega í þessari óskaplegu fjarstæðu, sem gjörir frelsisráðstöfun guðs í Jesú Kristi syndföllnu mannkyninu til handa algjörlega að engu, fyrir þá sök, að hann lét sér ekki nægja að hvíla huga sinn í auðmýkt og lotning trúarinnar við mótsögnina.

Hallgrímur Pétursson kemst algjörlega inn í þetta mál í einum passíusálminum, sálminum tólfta út af iðran Péturs. Og hann gjörir þar grein fyrir því á nákvæmlega sama hátt og gjört er í heilagri ritning. Hann segir fyrst þetta:

"Ekki' er í sjálfs vald sett
(sem nokkrir meina)
yfirbót, iðran rétt
og trúin hreina.

Hendi þig hrösun bráð
sem helgan Pétur,
undir guðs áttu náð,
hvort iðrast getur."

En þar á eftir kemr hann með þessa áskoran:

"Ef Jesús að þér snýr
með ástarhóti,
líttu þá hjartahýr
honum á móti."

Og enn fremur:

"Gráta skalt glæpi sárt,
en guði trúa,
elska hans orðið klárt,
frá illu snúa."

Hér er gengið út frá því, að maðr með guðs hjálp geti fullnægt áskoraninni, geti það allt, sem í drottins nafni er af honum heimtað. Trúin skilr þetta, en fyrir hugsaninni er hér ráðgáta — mótsögn.

Á sama hátt má rekja allar trúarhugsanirnar kristilegu svo eða svo langt, en aldrei til enda. Ef árætt er að rekja þær til enda, þá verður ávalt fyrir manni mótsögn. Og hugsunarfræðisleg úrlausn á mótsögninni leiðir í ókristilega, óskaplega villu.

Einhverjum kynni nú að detta í hug, að með þessu sé einmitt færðar sterkar líkur eða jafnvel fullkomin sönnun fyrir því, að kristindómrinn sé ekki sannleikr. Og væri þá þetta, sem nú er af mér tekið fram, í mesta máta óþarft mál, og allsendis óhæfilegt af mér að hafa hér opinberlega við því hreyft. En þessu víkr þó engan veginn þannig við.

Því það veikir alls ekki kristindóminn, þótt sýna megi fram á og sanna til fullnustu, að heilbrigð hugsan mannlegrar skynsemi rekr sig margsinnis á, kemst hvað eftir annað í ógöngr, þegar hún er að eiga við þær kenningar. Það rýrir ekki minstu vitund sannleiksgildi kristindóms-opinberunarinnar, þótt hún sé full af hugsunarfræðislegum mótsögnum. Það stendr nefnilega nákvæmlega eins á með æðstu og dýpstu lífssannindin, sem fyrir utan svæði þeirrar sérstöku opinberunar eru mönnum kunnug og blasað hafa við anda mannsins óhrekjandi og ómótmælanleg í öllum áttum heims á öllum öldum mannkynssögunnar. Mótsagnirnar ýmsu, mörgu, sem fyrir oss verða, þegar vér förum að sökkva hugsan vorri nokkuð djúpt niðr í efni trúar vorrar, innihald guðs orðs í heilagri ritning, eru nákvæmlega samskonar mótsagnir og þær, er ávalt hafa orðið fyrir mannsandanum, þegar hann hefir verið að eiga við hugsunarfræðislega rannsókn á hinu ráðanda lífslögmáli og heimstilverunni yfir höfuð að tala. Líka þar lendir hin skoðandi skynsemi í ógöngum. Líka þar rekur hin rannsakandi hugsan sig á mótsagnir, alveg af sama tagi eins og þær, er fyrir oss verða á svæði kristnu trúarinnar.

Eg skal hér að eins benda á tvennt. Annað, sem snertir alheimstilveruna; hitt, sem snertir mannlífið.

Vér hugsum um heimsvíðáttuna. Vér spyrjum sjálfa oss, hvað langt hún nái, hver sé takmörk hennar, eða hvort hún, ef til vill, hafi engin takmörk, hvort hún sé óendanleg. Og þá kemur það fram, að hugsan vor heimtar hvorttveggja. Rúmið hlýtr að hafa einhver takmörk. Það heimtar hugsanin. Það liggr í hlutarins eðli — segir hún. En rennum huganum svo langt út í geiminn, sem vér getum, — langt langt út fyrir stöðvar yztu eða fjarlægustu sólkerfa, sem nokkr jarðneskr stjörnufræðingr hefir eygt til. Og setjum þar takmörkin. Segjum, að rúmið endi þar. En þá hljótum vér jafnframt að spyrja: Hvað tekr þá við? Eitthvað hlýtr að liggja þar fyrir utan. Heimsvíðáttan getr með engu móti endað þar. Og hvað langt sem vér færum takmörkin út í huga vorum, þá verðr niðurstaðan hin sama. Rúmið getr ekki endað þar. Hugsanin heimtar, að það sé takmarkalaust, nái óendanlega langt út. Að til sé einhver takmörk á rúminu

og *ekkert* þar fyrir utan, það segir hugsanin sé ómögulegt. En í annan stað er það jafn-sterk og jafn-ómótmælanleg krafa mannlegrar hugsunar, að heimsvíðáttan hafi sín takmörk, að rúmið sé ekki óendanlegt. Því líka það liggr í hlutarins eðli. Líka það liggr í rúmshugmyndinni. Hér er þá sýnileg og áþreifanleg mótsögn. Tveir sannleikar, sem svo langt sem augað eygir eru hvor þvert á móti öðrum.

En lítum svo á mannlegt líf. Og skal eg þar — án þess neitt að snerta svæði kristnu trúarinnar — benda á eina stórkostlega mótsögn. Göfugasta og guðlegasta einkunn mannlífsins er elskan eða kærleikrinn. Um það kemr öllum saman — vantrúuðum mönnum jafnt og trúuðum. Það, sem mest er í heimi, það segja þeir allir hiklaust að kærleikrinn sé. Og að sjálfsögðu heimtar hugsan vor, að hver sá, sem í sannleika er maðr kærleikans, hver sá, sem fyllilega hefir tileinkað sér þessa fögru, dýrlegu lífseinkunn, beri út af því úr býtum ómengaða sælu, mestu sæluna, sem til er fyrir mannlegt líf. Enda verðr því ekki neitað, að það liggr ævinlega sæla í elskunni, — slíkri elsku. En því fer, eins og allir vita, mjög fjarri, að sú sæla sé ómenguð. Þvert á móti mega allir búast við því eins og nokkru sjálfsögðu, að elskan þeirra hafi sorgir og sársauka í för með sér, ef til vill alveg fram úr skarandi sorgir, óumræðilegan sársauka. Út af elskunni, hreinni, göfugri, heilagri elsku, sem allir hljóta að beygja sig fyrir í dýpstu lotning, eru menn — eigendr þeirrar elsku — mjög oft nauðugir viljugir leiddir út í sannkallaða, sárgrætilega píslarsögu. Mestu og átakanlegustu harmsögurnar, sem skáld heimsins hafa hugsað út og leitt fram í bókmentum landanna, eru einmitt út af elskunni eða kærleikanum.

Eg leyfi mér í þessu sambandi að minna á skáldsöguna stór-frægu eftir frakkneska rithöfundinn og spekinginn Victor Hugo, sem ber nafnið *Les Miserables*, "Aumingjarnir" eða "Krossberarnir", — lang mikilfenglegasta ritverk þeirrar tegundar, sem eg hefi lesið, og hið lang-mesta að ætlan minni, sem nokkurn tíma hefir verið í letr fært. Aðalpersónan í þeirri sögu er fyrrverandi galeiðuþræll, sem út af harðneskju þeirri og grimd, er hann í því ástandi hafði orðið fyrir, misti algjörlega trú á alt gott, var farinn að

hafa það fyrir satt, að ekkert réttlæti væri neinsstaðar til, hvorki hjá mönnum né guði, — fylltist gremju og hatri til alls og allra, komst út í reglulega forherðing. En svo varð hann fyrir því guðlega happi að komast allra snöggvast undir áhrif kristins öldungs, hágöfugs gamals biskups, sem í postullegum skilningi hafði gjörst maðr kærleikans. Út af því bráðnaði forherðingarísinn í hjarta hans. Og hann tók þann ásetning með guð fyrir augum, að fara líka upp frá því að lifa í kærleikanum, og þannig byrja algjörlega nýtt líf. Það tókst þá einnig með guðs hjálp. Hann fór að elska annarleg mannslíf af öllu hjarta, tók að lifa fyrir þá fögru hugsjón að láta framkvæmdarsaman mannkærleik út frá sér ganga til allra, en einkum þó þeirra, sem mest þurftu kærleikans við, bágstöddu mannanna, sem fyrir óviðráðanlegt ólán eða eigin víti höfðu sokkið niðr í einhverja fram úr skarandi eymd. Hann hélt þessu dýrðlega kærleikslífi til enda. Og að því leyti leiðist ásetningr hans vel og blessunarlega út. En á þessari líknarbraut varð hann alt að því óendanlega mikil harmkvæli út að taka. Lífið þaðan í frá ein óslitin keðja af hræðilegum Herkúlesar-þrautum, grátlegt útlegðarlíf í miðju mannlífi hinna frakknesku milíóna, eins og Grettis uppi í hinum íslenzku öræfum. Sérstaklega er vert að geta um stúlkubarnið munaðarlausa, sem hann frelsaði úr klóm illmenna nokkurra og elskaði síðan eins og sinn augastein, ól upp með föðrlegri nákvæmni og lagði bókstaflega allt í sölurnar fyrir. Þar sést fórnfæringarkærleikrinn í lífi mannanna í sinni fegurstu og fullkomnustu mynd. En þar sést líka, hve óumræðilega mikill sársauki liggr í þeim kærleika eða er afleiðing hans. Ein stórkostleg píslarsaga kærleikans, algjörlega sönn, tekin út úr miðju lífi þessarar aldar og allra alda. Hátíðleg, háalvarleg bending frá hinum mikla skáldkonungi, höfundi þessa ritverks um það, að enginn maðr skuli nokkrn tíma áræða að gjörast maðr kærleikans, enginn áræða að elska nokkurt mannslíf fyrir utan sitt eigið, sem ekki frá upphafi er við því búinn, að taka út sorg og sársauka út af elsku sinni, ganga, ef svo vill verkast, með kærleikann í hjartanu, út í mjög átakanlega píslarsögu.

Með tilliti til hinna óteljandi mannslífa, sem ávalt eiga

svo undr bágt í heimi þessum, má vel kalla mannkynssöguna í heild sinni harmsögu, *tragedíu.* En það, sem allra grátlegast er í þeirri allsherjar harmsögu, er einmitt það, sem menn verða út að taka af sorgum og sársauka, þrautum og þjáningum, vegna elskunnar. Og ef nokkursstaðar er mótsögn til í hugsanaheiminum eða lífstilverunni, þá er það vissulega einmitt hér. Það er hugsunarfræðileg mótsögn í því, að mönnum skuli út af sinni göfugustu lífseinkunn, kærleikanum, vera búin önnr eins hræðileg kvöl eins og hvað eftir annað sýnir sig í reyndinni. Hugsunarfræðisleg mótsögn jafnvel í því, að nokkr minnsti vansælu-skuggi skuli nokkurn tíma geta fallið yfir mannlegt líf út af þessu, sem mest er og bezt í heimi — kærleikanum. En engu að síðr segja allir, hugsa allir: Þú skalt elska eins fyrir því, — hvað sem mótsögninni líðr. Leggja þig undir lífslögmál þessarar grátlegu mótsagnar. Leita sælunnar með því að kasta þér út í vansælu óttans og angistarinnar, sem óaðskiljanleg er frá sönnu, fórnfæranda kærleikslífi.

Nú er sýnt, að mótsagnir eru líka til í heimi hugsananna fyrir utan svæði kristnu trúarinnar, eins miklar og óskiljanlegar og nokkrar þeirra, er menn hljóta að reka sig á í kristindóms-opinberaninni. Og í rauninni enn þá miklu meiri og óskiljanlegri fyrir þá sök, að svo lengi sem kristindómrinn ekki kemr mönnum til hjálpar, vantar algjörlega það, sem komið getr því til leiðar, að menn fái sætt sig við þær, eða gjört sér þær að góðu. Kristindómrinn leysir að vísu ekki úr hinum gömlu ráðgátum tilverunnar, svo að fullnægjandi sé fyrir skynsemi manna eina út af fyrir sig. En hann kemr þó með nokkurskonar úrlausn á þeim. Hann kemr því til leiðar, að menn fá skilið þær með hjartanu. Hann veitir mannshjartanu frið andspænis þeim. Í trúnni á Jesúm Krist geta menn án þess að hneykslast, rólegir, sigrihrósandi, horft á mótsagnir þær, sem hér var um að ræða. Og þá auðvitað alveg eins á allar nýju mótsagnirnar, sem koma út á svæði kristindóms-opinberunarinnar. En þegar menn veita því eftirtekt, að náttúran og mannlífið hefir svo miklar og margar mótsagnir meðferðis áðr en kristindómrinn kemr til sögunnar eða fyrir utan svæði kristnu trúarinnar, þá á öllum að geta skilist, að þær

nýju, sérstöku mótsagnir, sem í kristindóminum liggja, þurfa alls ekki hót að veikja sannleiksgildi þeirrar opinberunar. Mótsagnir kristnu trúarinnar benda þvert á móti til þess, að þar sé um óhagganlegan guðlegan sannleik að ræða, fyrir þá sök, að þær eru í fullkomnu samræmi við mótsagnirnar í heimstilverunni og mannlífinu yfir höfuð.

Í sambandi við þá mótsögn, sem liggur í píslarsögu kærleikans, leyfi eg mér að geta hér vitnisburðar eins, snertandi það mál, sem Plató, gríski heimspekingrinn, hefir eftir sig látið í ritum sínum. Og eru þau orð sérstaklega fyrir þá sök merkileg, að þar talar sá maðr, nærri fjórum öldum fyrir Krists burð, sem mestr spekingr hefir þótt í heiðni bæði að fornu og nýju, maðr, sem klæddr var alveg fram úr skarandi gáfu til þess að rannsaka hin almennu lífssannindi og rekja þau hugsunarfræðislega út í yztu æsar, aðal-spámaðrinn í heiðna heiminum. Hann er að sýna fram á það, hverjum kjörum "réttláti maðrinn" — það er að segja sá maðr, sem algjörlega fullnægi hugsjón góðleikans — muni, ef hann einhvern tíma kemr hér fram á jarðríki, hljóta að sæta. "Hann hlýtur" — segir hann — "á undan öllu öðru að verða sviftr sínu góða mannorði; þar næst öllum sínum eignum — að réttlætinu einu undan skildu. Hann hlýtr að komast í ófrið við þá, sem ríkjum ráða, svo að í reyndinni sé með hann farið eins og hann væri öllum mönnum ranglátari, þó að hann hafi alls ekkert órétt gjört. Slíkr réttlátr maðr myndi verða hnepptr í fjötra, verða húðstrýktr og augu hans úr honum stungin. Og eftir að hafa út tekið allar þessar pyndingar myndi hann verða negldr á gálga, svo að opinbert yrði, að hann var ekki um það að hugsa, að sýnast réttlátr, heldr um það að vera réttlátr í raun og veru." Svona vitnar sá maðr. Bendir hér með svo skýrum og ótvíræðum orðum á einhverja allra stórkostlegustu mótsögn, sem unt er að hugsa sér: bezta manninn, sem hugsanlegt er að nokkurn tíma geti birst hér á jörðu, hinn fullkomna fyrirmyndarmann, al-réttláta manninn, staddan í hinni allra sárustu og grátlegustu píslarsögu, og það einmitt út af því einu, að hann er svo dýrðlega góðr. Hræðileg mótsögn, gleðileg mótsögn. Sama mikla mótsögnin og kemr í reyndinni út í hinni heilögu píslarsögu mannkynsfrelsarans,

drottins vors Jesú Krists. En með þessari makalausu, guðlegu mótsögn kemr friðandi ljósbirta yfir alla leyndardóma lífsins og dauðans, allar ráðgátr tilverunnar, allar hinar mótsagnirnar, sem verða fyrir mannsandanum, er hann fer að hugsa um hin æðstu og dýpstu sannindi. Ein óumræðileg yfirnáttúrleg mótsögn, hér í mannkynssögunni, guð og maðr orðinn eitt í persónu Jesú, sem leysir svo úr öllum öðrum mótsögnum í tilveru náttúrunnar og mannlegu lífi, að skiljanlegar verða trúuðu mannshjartanu.

Nú hugsa eg heim til ættstöðvanna íslenzku. Mér verðr það iðulega að hugsa þangað, þegar eg er að virða fyrir mér ráðgátr tilverunnar, hina ýmsu leyndardóma lífsins. Og þá skýrist oft fyrir mér umhugsunarefni mitt til stórra muna. — Ísland er eins og þér vitið allir mjög einkennilegt, bæði að því, er náttúru þess og mannlíf snertir, að mörgu leyti ólíkt öllum öðrum löndum. Og eitt hið einkennilega við Ísland er það, að mannabyggðin þar er eingöngu eða nálega eingöngu með ströndum fram. Forfeðr vorir námu þar til forna land "milli fjalls og fjöru"; og þegar því landnámi var lokið á strandlengjunni hringinn í kring, þá var Ísland talið albyggt. Og eftir þúsund ár er þetta alveg eins. Byggðin öll er í nágrenni sjávarins, sem umkringir landið, á ströndinni, láglendisblettunum, sem þar liggja, eða í dölunum, sem þaðan ganga skemra eða lengra upp til fjallöræfanna og jökulflákanna í miðbiki landsins. Og þannig verðr það ævinlega. Því á bak við þennan strandlendiskraga og þessar dalasveitir er með öllu ábyggilegt. Og þetta ábyggða og óbyggilega uppland — það er meginið af Íslandi að víðáttunni til. Í samanburði við þann mikla, leyndardómsfulla landfláka hitt allt nálega hverfanda. En af þessu leiðir eðlilega, að landamerki sýslnanna, sveitanna og jarðanna allra á Íslandi, þeirra, er ná upp til fjallauðnanna inni í landinu, eru þeim megin engin til. Landamerki öll hverfa í upplands-eyðimörkinni. Ef þér lítið á uppdrátt af Íslandi og berið hann saman við uppdrátt af öðrum löndum, þeim, er mentað fólk byggir, eða jafnvel hverju landi, sem vera skal, þá sjáið þér undir eins að ættjörð vorri, hinni íslenzku, stingr að þessu leyti í stúf við þau öll. Þessi eiginlegleiki er vissulega sérkennilegr fyrir Ísland. En þetta sérkenni á Ís-

landi er mér tákn frá drottni náttúrunnar og náðarinnar til skýringar og staðfestingar hinu guðlega mótsagnamáli, sem eg nú er um að hugsa. Þegar vér erum að hugsa um hin ýmsu lífssannindi trúarinnar, sem þegar hefir verið bent til, eða einhver önnur sömu tegundar, þá er eins og vér séum staddir í strandbyggðinni einhverri á Íslandi eða í einhverri dalsveitinni, er þar liggr inn í landið. Því hvert einstakt þeirra sanninda hefir sitt afmarkaða svæði. Það eru skýr landamerki á milli þeirra í hugsanaheiminum til að byrja með. Höldum svo hugsaninni út af þeim áfram. Það er eins og vér værum á ferð upp eftir og inn eftir einhverjum íslenzka dalnum. Fjöllin skilja á milli dalanna. Landamerkin eru þar fastákveðin og öllum auðsæ. En þegar vér komum lengra inn og lengra upp, þá dofnar landamerkjalínan og hverfr og hættir síðan með öllu. Landeignir dalahéraðanna og bæjanna renna saman í eitt í almenningi hins óbyggða upplands. Á þau upplandsöræfi lít eg þá sem ímynd eilífðarinnar. Miðbik Íslands táknar fyrir mér eilífðina. Því eins og það öræfaland liggr á bak við íslenzku sveitirnar, alveg eins ná trúarsannindin öll, æðstu og dýpstu sannindi lífsins, sem til eru, inn í hinn andlega háfjallaheim eilífðarinnar. Það má hugsunarfræðislega rekja hin ýmsu atriði þeirra sanninda þangað hvert um sig, halda þeim aðskildum og afmörkuðum; en ef lengra er farið, þá reynist það ómögulegt. Þau renna þá saman fyrir hugsaninni eða reka sig hvert á annað. Og það samrensli eða sá árekstr — það einmitt eru mótsagnirnar í andans heimi, er eg hefi verið að tala um. Vér verðum að gjöra oss að góðu að nema staðar í hugsunum vorum um þessi sannleiksatriði svo að segja á miðri leið. Fáum aldrei séð fyrir endann á þeim, því hann er inni í eilífðinni. Jafnóhugsanlegt, að vér fáum fært út hið andlega landnám vort á því svæði, eins og það er óhugsanlegt, að nokkurn tíma verði í bókstaflegum skilningi numið land á öræfunum í miðbiki Íslands. Á hvorutveggja svæðinu er til ósýnileg takmarkalína, sem segja má um: Hingað, en ekki lengra. Og það, að engum er unt að komast lengra á hinu fyrr nefnda svæði, það þarf alls ekki að vekja neinn grun um það, að hugsanirnar, sem þangað hafa verið raktar, en renna

þar saman í óviðráðanlega mótsögn, sé ekki sannleikr. Það bendir þvert á móti til þess, að þar sé að ræða um guðleg sannindi, sem ná inn í takmarkalausan, órannsakanlegan eilífðargeiminn.

---

Eg ætla nú ekki frekar að tala um mótsagnarmál trúarinnar yfir höfuð, heldr snúa mér að einu sérstöku mótsagnaratriði, kristindóminum viðkomanda, sem að ætlan minni aldrei hefir verið nauðsynlegra að hugsa um og leitast við að gjöra sér grein fyrir en einmitt nú á vorri tíð. Kristindómrinn kemr með sáluhjálpina til syndugra manna, og hann gjörir það með því að benda þeim á Jesúm Krist, hinn krossfesta og upprisna mannkynsfrelsara. Í persónu hans er sáluhjálp allra. Fáist menn til þess í iðran og trú að knýta sitt líf við hans líf, þá er þeim í sáluhjálplegu tilliti borgið í lífi og dauða, um tíma og eilífð. En samfara þessum makalausa, guðlega fagnaðarboðskap er úr sömu átt, frá Jesú Kristi sjálfum, stöðugt komandi krafa til allra lærisveina hans um þá stórkostlegustu sjálfsafneitan, sem mannkynssagan þekkir. Þeir verða, ef fullnægt skal hinum drottinlega vilja, á hverri stundu að vera til þess búnir að kasta burt frá sér öllum jarðneskum gæðum. Með fúsu geði verða þeir, hver nær sem hann heimtar, að yfirgefa alt slíkt á miðri æfileiðinni til þess að geta fylgt honum eftir. Og svo sterkt kveðr hann að orði um þetta sjálfsafneitunarmál, að hann segir, að sá, sem elskar líf sitt, muni missa það, en að sá, sem hatar líf sitt í þessum heimi, muni varðveita það til eilífs lífs (Jóh. 12, 25 — sbr. Matt. 10, 39 og Lúk. 17, 33). Alkunnug eru og þessi orð frelsarans: "Hægra er úlfaldanum að ganga í gegn um nálaraugað en ríkum manni inn í himnaríki." Og sömuleiðis þessi hans bænarorð: "Eg þakka þér, faðir, drottinn himins og jarðar, að þú hefir látið þessa hluti vera hulda fyrir fróðum mönnum og spekingum, en auglýst þá smælingjum." Allt þetta virðist býsna skýrt benda til þess, að heimsgæðin jarðnesku sé frá sjónarmiði kristnu trúarinnar mjög lítils virði, jafnvel einskis virði eða minna en einskis virði. Og þá kemr eðlilega fram þessi spurning: Hlýtr kristindómrinn ekki að vera stundlegri velgengni manna í jarðneskum efnum til hindrunar?

Er ekki kristindómrinn þröskuldr á vegi heimsframfaranna? Myndi það ekki vera fásinna fyrir vora litlu þjóð, þegar hún nú loksins eftir margra alda svefnmók er verulega farin að hugsa um að bæta hinn jarðneska hag sinn og lyfta sér upp mentunarlega, að gjöra kristindóminn að aðalmáli sínu, setja það mál efst á dagskrá?

Mér er ánægja að geta þess, að rétt eftir nýár síðastliðinn vetr kom út ritgjörð ein, náskyld þessu máli, í tveim þáttum í "Ísafold", aðal-málgagni framfaramannanna á Íslandi. Fyrirsögn þeirrar ritgjörðar er "Kristindómrinn og tímanleg velgengni." Höfundrinn nafngreinir sig ekki, en kallar sig "leikmann". Eg tel þó víst, að þér allir, sem lesið hafið greinir þessar, hafið undir eins áttað yður á því, hver sá "leikmaðr" myndi vera. Ritgjörðin er stórmerkileg, og væri óhæfa að ganga fram hjá henni þegjandi fyrir þá, sem eins og vér trúa því, að kristindómrinn sé hin eina mikla lífsnauðsyn þjóðar vorrar og allra heimsins þjóða.

Í fáum orðum skal nú tekið fram aðalefnið í ritgjörð "leikmannsins". Hann færir rök að því allsterk og í rauninni ómótmælanleg, að enda þótt kristindómrinn hafi haft ýmsa ágæta talsmenn á Íslandi og vitanlega náð þar haldi á hjörtum margra, þá hafi hann þó ekki orðið þjóð vorri þar afl til veraldlegra framfara. Ekki vill hann þó kenna kristindóminum sjálfum um þetta, heldr því, að eitthvað hafi vantað í hinn kirkjulega boðskap á Íslandi og þar af leiðanda einnig í kristindóminn íslenzka, það einmitt, sem hefði átt að lyfta og getað lyft þjóðinni í menningarlegu tilliti. Honum finst íslenzkir kennimenn hafi aðallega verið að kenna mönnum að deyja, en að þeim hafi að nærri því ótrúlega miklu leyti gleymst að kenna mönnum að *lifa*. En afleiðingin af þeirri gleymsku hafi svo orðið sú, að kristindómrinn hafi ekki náð að hafa áhrif á þjóð vora á Íslandi til veraldlegra framfara. Og loks bendir hann á þrjú stórvægileg atriði, sem einmitt, ef þeirra væri gætt í prédikan kristindómsins, myndi áreiðanlega lyfta þjóð vorri upp í stundlegum efnum. Hinn sterki vilji Jesú Krists, eins og hann birtist hjá honum sem manni á dögum hinnar jarðnesku holdsvistar hans. Það er hið fyrsta. Annað hin dýrðlega miskunnsemi hans við alla bágstadda. Og þriðja hinir djúpskyggnu vitsmunir hans. Væri

þetta þrennt rækilega prédikað almenningi, þessar þrjár lífseinkunnir Jesú Krists skýrt látnar koma út í hinum kirkjulega boðskap, svo að þær stæði á eftir úthleyptar í trúarmeðvitund tilheyrendanna, þá myndi það að ætlan "leikmanns" leiða til þess, að þjóðin miklu betr en hingað til hefir sýnt sig nyti sín í hinni tímanlegu lífsbaráttu.

Eg er nú "leikmanni" í öllu verulegu samþykkr, og er honum mjög þakklátr fyrir þetta erindi sitt. Því það er hiklaust sannfæring mín, að í kristindóminum sé afl til stundlegra eða jarðneskra framfara, og það jafnvel sterkara en nokkurt annað, sem mannkyninu er kunnugt; en í annan stað einnig sanfæring mín, að kristindómrinn hafi ekki nema að litlu leyti sýnt þessi áhrif í þjóðlífi Íslands.

Þó má ekki gleyma því, að ellefta og tólfta öldin voru fyrir Ísland sannkallaðar gullaldir. Þjóðlíf Íslendinga lyftist þá sýnilega upp í hagfræðislegu og menningarlegu tilliti á miklu hærra stig en áðr. Og getr engum blandast hugr um það, að þær gleðilegu þjóðarframfarir voru bein afleiðing af kristnitöku Íslendinga. Það er herfilegasti misskilningur, að siðaskiftin á Íslandi við lok tíundu aldarinnar hafi ekki verið annað en trúarleg formbreyting hið ytra. Kristindómrinn náði í sannleika þá mjög sterku haldi á þjóðarhjartanu. Þjóðin endurfæddist þá í raun og veru. Nýtt andans líf hófst þá í landinu. Og lífið nýja blómgaðist og bar ríkulega ávexti, — ávexti, sem meðal annars komu fram í stór-auknni hagsæld almennings, hinum vorglaða friði, er þá var svo víða ríkjandi, mildari siðum og hinum byrjandi íslenzku bókmentum. Hin ömurlega og eyðileggjandi Sturlunga-öld kom að vísu áður en mjög langt leið. Og þá sást vitanlega sorglega lítið af kristindómi hjá þjóð vorri. Nálega eingöngu heiðindómr þá ríkjandi á Íslandi, þótt þjóðin í orði kveðnu væri kristin. En að leiða út af því þá ályktan, að kristnitaka Íslendinga tveim hundruð árum áðr hafi ekki verið annað en nafnið tómt, það nær engri átt. Það mætti þá alveg eins segja, að hin megna spilling, sem náði sér niðri í hinum kaþólsku menntalöndum norðurálfunnar á síðara hluta miðaldanna, sé vottur þess, að sannr og lifandi kristindómr hafi aldrei áðr orðið þar ríkjandi. Og því áræðir þó naumast nokkr maðr með óbrjáluðu viti að halda fram.

En svo er og þess að gæta, að þótt kristin trú nálega slokknað út hjá Íslendingum á Sturlunga-öldinni, þá birtist þó jafnvel á þeirri tíð ávextir af kristindómi þeim, er þjóðin hafði áður eignast, í einu stórþýðingarmiklu atriði. Því einmitt á þrettándu öldinni var það, að bókmentalífið fornislenzka stóð í sínum mesta blóma í persónu hins heimsfræga Snorra Sturlusonar, Sturlu Þórðarsonar og þeirra annarra, sem þá lögðu síðast hönd á söguritverkin gömlu. Enginn minnsti vafi þannig á því, að þetta dýrmætasta í hinum þjóðernislega arfi vorum, fornsögurnar íslenzku, eigum vér beinlínis kristindóminum að þakka.

Nú lít eg út í heim — nútíðarheiminn. Renni augum mínum út yfir löndin. Athuga hinn jarðneska hag hinna ýmsu þjóða. Tek eg þá undir eins eftir því, að yfir heiðnu löndunum grúfir yfir höfuð að tala eymd og ólán í jarðnesku tilliti. Villudómr, ómyndarskapr, harðneskja og áþján er þar ríkjandi. Engar framfarir í stundlegum efnum, og innan að, frá heimalningum þeirra landa, engin framtíðarvon. Sá hluti heimsins einnig að þessu leyti aldimmr. Nei, eg sé þó smábletti bjarta þar allvíða, og eg tek eftir því, að þeir fara flestir stækkandi. Ofr lítinn vísi í mörgum útgáfum til menningar og bjargræðislegra framfara. En þau nýju lífsmerki standa öll beinlínis eða óbeinlínis í sambandi við kristindóminn, hið kristna trúboð, sem hefir verið hafið á þeim stöðum. Kristnu löndin, eða þau, er kristindóminn hafa fyrir löngu til sín fengið, eru í menningarlegu tilliti í samanburði við hin löndin svo langt um langt um betr stödd. Heimsframfarirnar eru þar allar. Almenningr þeirra landa er í dagsbirtu. En mjög misjöfn er sú birta. Hagsæld þeirra þjóða afar mismunandi. Framfarastraumrinn jarðneski sumsstaðar ákaflega stríðr, sumstaðar raunalega hægfara, nærri því enginn. Hvar er nú bjartast? hvar framfarastraumrinn sterkastr? hvar mest hagsæld almennings? Og hvar er minst birtan?? hvar er minst um framfarir? hvar minnst af almenningshagsæld? — Í kaþólsku löndunum er ástandið menningarlega miklu lakara yfir höfuð en í prótestantalöndunum. Og í hinum fyrr nefndu löndum, þar sem páfadómrinn er ríkastr, verst, langverst. En aftr á móti í hinum prótestantisku löndum bezt, þar sem kristindómr-

inn er ríkast afl í þjóðlífinu. Berið saman hið kaþólska land Spán og hið prótestantiska England til þess að sjá þennan mun. Eða hið kaþólska Írland og hið prótestansiska Skotland. Eða hin tvö fylki Quebec og Ontario hér í Canada. Og hugsið enn allra snöggvast um Frakkland, sem lengi vel var talið lang-fremsta menntalandið í heiminum. Stórveldi er það enn kallað, en ákaflega mikið hefir það þó orðið aftr úr á síðari tímum. Hin fyrrverandi dýrð þess hefir til stórra muna fölnað. Þjóðlífið þar er háð megnri spilling. Ormr liggr þar á gullinu. Þjóðin frakkneska er sýnilega að missa lífsmagn sitt. Og sumir bera kvíðboga fyrir því, að hún visni algjörlega upp. — En nú vill svo til, að þetta er einmitt það land, sem sterkastar vantrúaröldr hafa hvað eftir annað gengið yfir. Kristindómrinn hefir aftr og aftr verið gjörðr þar útlægr. Og svo ramt hefir að því kveðið, að einatt hefir ekki mátt nefna guð í neinni kenslubók fyrir hina opinberu skóla landsins. — Myndi nú ekki aftrförin, spillingin og visnanin í þjóðlífi Frakka standa í sambandi við trúarástandið þar, örlög þau hin illu, sem kristindómrinn langa lengi hefir þar orðið að sæta frá hálfu hinna ráðandi stjórnarvalda? Það getr naumast verið neitt vafamál. Hið stórkostlega fráfall frá kristnu trúnni þar hefir vissulega verið aðal-orsök þeirrar hnignunar, sem á síðari tímum er komin fram hjá hinni frakknesku þjóð í jarðneskum efnum.

Þjóðlífshagrinn jarðneski í hinum ýmsu löndum víðsvegar um heim er sýnilega fremr öllu öðru kominn undir því, á hve háu eða lágu stigi þjóðirnar standa í trúarlegu tilliti. Og kemr þá auðvitað ekki að eins til greina, hvaða trú það er, sem almenningr játar í því eða því landinu, heldr einnig, hvað miklu haldi trúin hefir náð á hjörtum manna. Sama kristna trúartegundin að játningunni til ber engan veginn allsstaðar jafn-mikla ávexti í stundlegum efnum hjá þjóðunum. Og sá munr stafar ekki að eins af því, hve ólíkt þær eru settar, hve misgóð eru löndin þeirra, eða því öðru, sem vanalega er talið mönnum ósjálfrátt, heldr líka, og það hvað helzt, af því, hve mikið alvörumál þær hafa látið sér verða trúna sína. Bretland er gott land, en mjög fjarri fer því, að það sé frá náttúrunnar hálfu bezta

landið í norðrálfunni. Áreiðanlega skipa þó Bretar öndvegi meðal þjóðanna í heiminum. Þjóðarandinn brezki ræðr nú lang-helzt heimsframförunum. Eg gleymi ekki Bandaríkjunum hér í Ameríku, þó eg segi þetta. Því það er einmitt sami andinn, sem ráðandi er í því þjóðlífi. En hvers vegna fékk þessi sérstaki þjóðarandi þann makalausa hæfilegleik til veraldlegra framfara og menningar? Hvers vegna þessi þjóðbálkr svo greinilega á undan? Eg hika mér ekki við að segja, að orsökin til þess sé sú, að kristindómrinn hefir hvergi náð að verða annað eins stórveldi hjá þjóðum heimsins eins og einmitt þar, — hvergi náð öðru eins haldi á hjörtum almennings, — hvergi orðið fólki æðri og lægri stétta annað eins alvörumál, — hvergi eins sterklega náð að gegnsýra mentalífið og starfslífið. Brezka þjóðin er alveg vafalaust, þrátt fyrir allt og allt, sem ófullkomið er í þeim efnum, kristnasta þjóðin í heiminum. Og fyrir þá sök sýnist hún hafa verið kjörin til þess að hafa forustu á meðal heimsþjóðanna. Og það er trúa mín, að svo lengi sem hún heldr áfram að vera kristnasta þjóðin verði hún líka á undan öllum í veraldlegum efnum.

En hugsum líka í þessu sambandi um smáþjóðina suðr og austr í Afríku, sem nú í þrjá ársfjórðunga hefir verið að berjast fyrir sjálfstæði sínu einmitt gegn hinum voldugu Bretum, — Búana. Enginn hefði búist við þeim styrk og þeirri hreysti, sem komið hefir fram í þessari baráttu hjá þeim lítilmótlega bændalýð. Mótstöðuafl þeirra hefir virst nálega yfirnáttúrlegt. Vörn þeirra eigi síðr aðdáanleg en sú, er Leónídas og hinir útvöldu spartnesku fylgismenn hans sýndu forðum í Laugaskarði gegn hinum ægilega, óvíga Persaher. Hvaðan myndi Búum vera kominn slíkr undra-máttr? Mér getr ekki betr skilist en að aðal-orsökin sé sú, að kristindómrinn, en þótt í fremr ófullkomnum búningi, hefir verið og er þessum litla þjóðflokki svo hjartanlegt alvörumál. Þar hefir viljastyrkrinn, sem "leikmaðrinn" í "Ísafoldar"-ritgjörðinni talar um, svo greinilega birst í föðurlandsástinni. Aðal-styrkr Breta í baráttu þeirra fyrir heimsmenningunni og Búa í baráttu þeirra fyrir sjálfstæði sínu gegn Bretum á rót sína að rekja til hinnar kristnu trúar hvorra um sig. Kristindómrinn aðal-lífsafl tveggja

þjóða, sem eru að berast á banaspjótum. Þetta er mótsögn, — ein af hinum raunalegu mótsögnum trúarinnar og mannkynssögunnar. En það getr verið og er sannleikr engu að síðr.

Árið 1876 stóð hið mikla hátíðarhald í Bandaríkjunum út af því, að þá var heil öld liðin frá því, er það land eftir hina heimsfrægu frelsisbaráttu varð sjálfstætt þjóðveldi. Og svo sem kunnugt er var einn stórvægilegr þáttr í því hátíðarhaldi sýningin merkilega í Philadelphia, sem jafnframt var regluleg heimssýning. Hið hundrað ára gamla ameríkanska lýðveldi auglýsti sig þá eins og aldrei áðr fyrir heiminum. Og meðal annars varð það þá lýðum hinna gömlu landa opinbert, hve sterkt afl kristindómrinn var í þjóðlífi Bandaríkjanna. Sú spurning reis upp meðan stóð á undirbúningi sýningarinnar, hvort halda skyldi sýningunni þann tíma, er hún stæði yfir, opinni eða lokaðri á sunnudögum. Það gat eðlilega virst mjög þýðingarmikil spurning með tilliti til peningalegra hagsmuna. Mammonshugsanin heimtaði, að sýningin stæði almenningi opin á þeim dögum eins og öllum öðrum. En hin kristna trúarhugsan heimtaði hið gagnstæða. Stórkostlegu fylgi var beitt í hvorritveggja áttinni. Forstöðunefnd sýningarinnar klofnaði, og það leit um tíma út fyrir, að sá hluti nefndarmanna, sem mammonshugsanin hafði náð haldi á, myndi verða miklu sterkari og þá að sjálfsögðu hafa sitt mál fram. En það reyndist þó svo, þegar fullnaðar-atkvæðagreiðsla fór fram í nefndinni, að sú hugsan varð að lúta í lægra haldi. Hinir mennirnir reyndust þá miklu miklu fleiri. Einn stórvægilegr þáttr í flokksfylgi þeirra mannanna, er börðust fyrir því, að sýningunni væri haldið lokaðri á sunnudögum, var bæn til guðs, heit og sterk bæn um það, að honum mætti þóknast að hjálpa við málstað þeirra, sem þeir voru hiklaust sannfærðir um að var hinn góði málstaður sannleikans. Þeim duldist það ekki, að niðrstaðan í ágreiningsmáli þessu hlaut að hafa ákaflega mikla þýðing fyrir þjóðlíf föðurlands þeirra, svo mikla þýðing, að hún réði því, hvort kristindómrinn yrði framvegis þar í Bandaríkjunum ofan á eða ekki. Og hvað sem menn vilja hugsa um þá bæn, þá er það ljóst, að guðleg forsjón greip hér inn í hlutanna gang. Talsmenn

kristindómsins höfðu mál sitt fram, þvert á móti því, er búist var við, friðsamlega, en að því, er séð verðr, beinlínis fyrir guðlegt kraftaverk. Sýningunni var lokað á sunnudögum. Og sú ályktan fékk almenna viðrkenning, ekki að eins frá hálfu alls þorra Bandamanna, heldr og hjá mentaþjóðum norðurálfulandanna. Því var í öllum þeim löndum, er tóku þátt í sýning þessari, hátíðlega og hjartanlega játað, að Bandaríkin ætti hinn makalausa uppgang sinn í jarðneskum efnum fremr öllu öðru að þakka friðhelgi sunnudagsins, sem — auðvitað fyrir áhrif kirkjunnar og kristinnar trúar — svo sterklega hafði náð sér niðri í því þjóðlífi. Og sérstaklega er nú vert í sambandi við þetta mál að minnast þess, að eftir að svissnesku fulltrúarnir, sem sendir höfðu verið á sýninguna í Philadelphia, voru komnir heim aftr, lýsti einn þeirra yfir því í opinberri ræðu, að ein sérstök iðnaðartegund, úrsmíði, sem meiri fullkomnan hafði náð í Sviss en nokkru öðru landi Norðurálfunnar, væri að mun lengra komin í Bandaríkjunum. Hann færði sönnur á mál sitt, svo að öllum var ómótmælanlegt. Og var þetta ný, mjög furðuleg opinberan. En enn merkilegra þótti þó það, hvað hann færði til sem orsök þess, að Bandamenn í þessari grein væri orðnir svona á undan öllum. Hann hélt því fram, að orsökin væri sú, að verkamennirnir í Bandaríkjunum fengi að njóta hvíldardagsins, væri sjöunda hvern dag algjörlega lausir við hið líkamlega starf sitt, en fengi þá tækifæri til þess að komast undir hin beztu andlegu áhrif til menntunar og siðferðislegra framfara, og á þann hátt safna nýjum kröftum til vinnu sinnar á hinum rúmhelgu dögum vikunnar. Og samskonar vitnisburðr kom úr mörgum áttum því til staðfestingar, að menningarframfarirnar í þjóðlífi Bandaríkjanna væri fremr öllu öðru kristindóminum að þakka, ýmist beinlínis, ýmist óbeinlínis. En þá er jafnframt eftir því að muna, að það, alveg eins og hér í Canada, er engin ríkiskirkja. Og vafalaust fyrir þá sök hefir kristindómrinn náð að hafa meiri þýðing til þjóðlífsframfara en ella myndi.

Vér getum nú annars litið nær oss til þess að finna sönnun fyrir því, að kristindómrinn muni fremur styðja að tímanlegri velgengni manna en hið gagnstæða, þótt það geti virst undarleg mótsögn. Mér sýnist sönnunin liggja

fyrir oss í félagslífi voru, Vestr-Íslendinga, þótt ævisaga vor hér í þessu landi sé ekki lengri en hún enn er orðin. Ekki verðr því neitað, að býsna mikið fé er sá hlutinn af fólki voru hér, sem tekið hefir sér andlega byggistöð innan kirkjunnar, búinn að leggja fram kristindómsmálunum til eflingar, kirkju vorri til uppbyggingar. Og þau útgjöld öll hafa þeir af löndum vorum hér algjörlega haft umfram útgjöld hinna Vestr-Íslendinganna, er ekki hafa verið með í hinum kirkjulega félagsskap. Ætla mætti þá, að þessir síðarnefndu menn, sem lausir hafa verið við auka-útgjöldin til kirkjunnar, væri að sama skapi stöndugri í efnalegu tilliti, sem þau sérstöku gjöld hafa verið mikil, en hinir hafa á sig lagt kristindómsmálefnisins vegna. En það sést ekki, og eg hygg, að naumast neinum detti slíkt í hug. Það myndi vissulega vera nær sanni að segja, að hinn jarðneski hagr kirkjumannanna íslenzku hér sé að jafnaði öllu betri en hinna, sem standa utan kirkju. Og ætti þetta eitt að vera oss Íslendingum nægilega sterk sönnun fyrir því, að yfir höfuð að tala er kristindómrinn mjög sterkt afl til tímanlegra framfara og veraldlegrar velgengni, — eða að minsta kosti fyrir því, að yfir höfuð verða menn ekki fyrir neinu tjóni í bjargræðislegu tilliti við það að gjöra kristindóminn að aðalmáli sínu. Það getr, þá er sérstaklega stendr á, leitt til efnatjóns, niðurlægingar og margvíslegra sárra þrenginga fyrir menn og kasta sér með lífi og sál út í trúarbaráttu kristindómsins. En yfir höfuð má segja almenningi það fyrir, að kristindómrinn muni einnig í stundlegum efnum verða honum alveg fram úr skarandi hagsældar-uppspretta. Og fyrir þjóðirnar í heild sinni langbezta trygging fyrir jarðneskri velgengni, sem fengist getr. Kristindómrinn bindr menn fast við himininn, losar hugi manna og hjörtu við heiminn og heimsgæðin meir, miklu miklu meir, en nokkurt annað afl. En í annan stað gjörir kristindómrinn menn hæfari til jarðneskra starfa, ötulli og betri borgara, fúsari og færari til þess að vinna að heimsframförunum en þeir gæti orðið með nokkurri annarri trú eða lífsskoðan. Og fyrir þá sök er kristindómrinn langsterkasta framfaraaflið í heiminum. Þetta er mótsögn. En það er fagnaðarrík og blessuð mótsögn.

Það ber í nýja testamentinu tiltölulega mjög lítið á því, að kristindómrinn muni hafa þessa miklu þýðing til jarðneskra hagsælda fyrir mannkynið. En það kemr þó þar fram. Jesús Kristr sjálfr segir það fyrir, þótt sjaldan sé því atriði í boðskap hans mikil athygli veitt. Lærisveinn hans, Símon Pétr, spurði hann eitt sinn í nafni sjálfs sín og félagsbræðra sinna, hvílík laun þeir myndi hljóta fyrir það að hafa yfirgefið allt til þess að fylgja honum. Og upp á þá spurning svarar Jesús þessu: "Sannlega segi ek yðr: Enginn hefir svo yfirgefið heimili sitt, bræðr eðr systr, föðr eðr móðr, konr eðr börn eðr fasteign, mín eðr fagnaðarboðskaparins vegna, að honum ekki veitist nú þegar í þessu lífi, og það jafnvel mitt í ofsóknunum, hundraðfalt aftr, heimili, bræðr, systr, mæðr, börn og fasteign, og hér á ofan í öðrum heimi eilíft líf" (Mark 10, 29—30; sbr. Matt. 19, 27—29 og Lúk. 18, 28—30). Þetta, sem hér er fyrirheitið til launa fyrir það að fylgja Jesú eftir, má að sjálfsögðu ekki alveg bókstaflega skiljast, — það er að segja: það af launum, sem útborgað skal í þessu lífi; — en ekki hefir það heldr að öllu leyti andlega merking. Hér er líka vissulega bent til tímanlegrar velgengni sem afleiðingar af trúnni á Jesúm Krist, þótt sú bending komi fram í hálfgjörðu líkingarmáli. En ef mönnum ekki þykir þetta nógu skýrt því máli til staðfestingar, sem nú er um að ræða, þá eru til önnr orð eftir frelsarann, sem enn þá skýrar lýsa yfir því, hverja þýðing kristindómrinn muni hafa fyrir menn í jarðneskum efnum. Því meðal sæluyfirlýsinganna í upphafi fjallræðunnar heyrum vér þetta: "Sælir eru hógværir, því þeir munu jarðríkið erfa" (Matt. 5, 5). Þetta er bergmál orða nokkurra í einum Davíðs sálmi (37, 22), þar sem því er lýst yfir, að "drottins blessuðu" skuli landið erfa, en að "hans bölvuðu" verði þaðan út rutt. En Jesús lyftir þeim orðum upp í hærra veldi, færir þau út, leiðir út úr þeim enn þá miklu meira fyrirheit: Hógværu mennirnir, guðs börnin iðrandi og trúuðu, lærisveinarnir lausnarans, skulu erfa landið og löndin — jarðríkið. Þeir skulu verða ofan á í heiminum. Heimrinn með öllum sínum gæðum skal komast í þeirra hendr. Þeir skulu verða heimsdrottnarnir. Þeir skulu stýra gangi mannkynssögunnar. Bókmentirnar og

vísindin og skólarnir aðallega í þeirra höndum. Blöðin og tímaritin í þeirra höndum. Auðrinn og verzlanir og iðnaðrinn í þeirra höndum. Og jafnvel pólitíkin í þeirra höndum. Þetta skilst mér liggi í því, þegar frelsarinn lýsir yfir því, að hinir hógværu muni jarðríkið erfa. Og eins og þér heyrðuð telr hann þá út af þessu væntanlega jarðneska hlutskifti þeirra sæla. Þetta er ein af hinum ógleymanlegu sælu-yfirlýsingum Jesú Krists. Og er þá auðsætt, að hann ætlast alls ekki til þess, að hin jarðnesku gæði skuli vera virt að vettugi af kristnum mönnum, en ætlast þvert á móti til þess, að þeir jafnóðum og þeir komast yfir þau, með þau sívaxandi handa á milli, hrindi þjóðlífunum og heiminum lengra og lengra áfram til tímanlegrar farsældar.

Einhver allra fyrsta trúarlexían, sem Ísraelsmenn til forna lærðu, var einmitt þetta, að hinn jarðneski hagr þeirra sem þjóðar væri fremr öllu öðru undir því kominn, hvernig þeir færi með guðsopinberanina yfirnáttúrlegu, sem þeim var veitt, hve vel eða hve illa þeir héldi lögmálsboð drottins. Ef þeir reyndist guði trúir, þá myndi þeim líða vel. Ef þeir reyndist honum ótrúir, þá myndi þeim líða illa. Það var þeim undir eins kennt í guðs nafni, og um það meginmál í hinum guðlega barnalærdómi þeirra hlutu þeir að sannfærast æ betr og betr eftir því, sem tímar liðu lengra fram. Þjóðlífsreynsla þeirra staðfesti þennan sannleik margfaldlega og ómótmælanlega. Það sást hvað eftir annað alskýrt, að styrkrinn allr og hagsældin öll í því þjóðlífi var bein afleiðing guðsóttans og trúmenskunnar við drottin. En jafnframt varð það ægilega opinbert, að niðurlæging þeirra í jarðneskum efnum, hinn marg-endurtekni ósigr, sem þeir biðu í viðskiftum þeirra við nágranna þeirra, heiðingjana, hin tímanlega eymd þeirra og ólán, stafaði beinlínis af sviksamlegu fráfalli þjóðarinnar frá hinni sönnu guðstrú. Fyrir þá sök brotnaði ríki Salómons sundr eftir að Róbóam sonr hans var nýkominn til valda. Fyrir þá sök var ríki hinna tíu kynkvísla gjöreytt hálfri þriðju öld síðar, og meginþorra þess lýðs sópað burt austr til Assyríu. Fyrir þá sök fellr Júdaríki eitt hundrað þrjátíu og fjórum árum síðar og sá lýðr er herleiddur í útlegðina í Babýlon. Og fyrir þá sömu sök er Jerúsalem árið 70 eftir

Krists fæðing brotin niðr af hinum rómerska her, musterið dýrðlega brent upp til kaldra kola, meiri hlutinn af fólki fyrirheitanna höggvinn niðr eða krossfestr, en hinir allir — leifar þjóðarinnar — fluttir burt sem ánauðugir bandingjar, og Gyðingaland allt lagt í vonlausa rústarauðn. Og þar sem Jesús sjálfr sagði þennan mesta og hræðilegasta hegningardóm yfir hinum útvalda lýð guðs svo skýrt fyrir, þá ætti það eitt að geta verið öllum fullnaðarsönnun fyrir því, að hann hélt því föstu, að hagr þjóðlífsins þess eða þess fer fremr öllu öðru eftir trúarástandi almennings, og þá að sjálfsögðu einnig því, að kristindómrinn, þar sem hann næði verulega haldi á hjörtum almennings, myndi leiða til alveg fram úr skarandi blessunar í jarðneskum efnum fyrir það sama fólk.

Það ber þó tiltölulega mjög lítið á því í kenning Jesú og postulanna, að kristindómrinn muni leiða til þessarar sérstöku blessunar, í samanburði við áherzluna miklu, sem á hagsældar-atriðið er lögð af hinum guðlegu prédikurum á gamla testamentis tíðinni. Og ber þar tvennt til. Annað það, að vonin um eilíft líf eftir dauðann fyrir guðs börn er þá — fyrir Jesúm Krist — svo dýrðlega ljós og sterk, eitt stórkostlegasta aðal-atriðið í þeirri nýju opinberan, þar sem sú von aftr á móti áðr var svo undr dauf, lengi vel nálega ekki til, og aldrei í gamla testamentis opinberaninni meira en auka-atriði. Skiljanlegt því, að aðal-launin fyrir guðrækilegt líf, drottinlega vinnu, sem mönnum í guðs nafni var bent á á hinni fornu tíð, lægi einmitt í jarðneskri hagsæld hérna megin grafarinnar. Þar sem aftr á móti aðal-laun guðs barnanna á nýju tíðinni hlutu að liggja í hinni fyrirheitnu sælu annars heims. Og í samanburði við þau laun — náðarlaunin í eilífðinni — hlaut það atriði launanna, er koma myndi fram í hinni jarðnesku hagsæld, að verða nálega hverfanda. En svo er og þess enn fremr að gæta, að til þess að byrja með hlaut kristindómrinn, eins og þá stóð á í heiminum, einmitt að leiða lærisveina Jesú út í þjáningar og þrengingar, mjög svipaða píslarsögu þeirri, er hann sjálfr hafði orðið gegn um að ganga. Og gat því auðvitað meðan svo stóð fyrirheitið um jarðneska hagsæld sem ávöxt kristilegs trúarlífs nálega alls ekki komið til

greina. Hin holdlega Messíasartrú Gyðinga á þeirri tíð lifði vitanlega á jarðneskri hagsældarvon. Og þeirri trú og von mátti með engu móti gefa undir fótinn. Ein aðal-krafa Jesú Krists og postulanna til allra, sem boðskap þeirra heyra, hlaut því að verða sú, að þeir afneiti sjálfum sér um sérhvað eina, sem holdlegu mannseðli þykir fýsilegt, sé á hverri stundu til þess búnir að varpa burt frá sér öllum jarðneskum gæðum, til þess að geta náð haldi á hinum himnesku gæðum og gjört þau að eilífri eign sinni. Og með þessa sömu kröfu hlýtr kirkjan ávalt í Jesú nafni að koma til allra. Því ef þessari kröfu væri sleppt, þá yrði afleiðingin af því mjög skiljanlega, að fólk tæki til að streyma inn í kirkjuna um fram allt í von um jarðneskan gróða, tímanlega velgengni, en misti sjónar á hinum himnesku fyrirheitum trúarinnar, — lifði svo í kirkjunni með hugann festan við heimsgæðin, og kæmi því loks til leiðar, að kirkjan með hinu veraldlega hugarfari ráðanda yfir sér kippti fótunum undan framtíðar-hagsæld almennings. Með þessu má augsýnilega að miklu leyti afsaka það, sem "leikmaðrinn" í "Ísafold" finnr að kennimönnunum á Íslandi bæði á fyrri og síðari tímum, að þeir í hinum kirkjulega boðskap sínum hafi aðallega verið að kenna mönnum að deyja í stað þess að kenna mönnum að lifa.

Kristindómrinn er sterkasta framfara-aflið í mannkynssögunni og tímanleg velgengni landa og lýða því fremr undir honum komin en nokkru öðru. En hér má minnast orða frelsarans, er hann segir: "Nær þú vilt gefa ölmusu, þá viti ekki hönd þín hin vinstri af því, hvað sú hægri gjörir" (Matt. 6, 3). Kirkjan og kristna trúin má svo gott sem ekki vita neitt af góðverki því hinu mikla, sem hún er að vinna heiminum í þessa sérstöku átt. Hin jarðneska hamingja, sem þaðan hefir streymt og er stöðugt að streyma út yfir löndin, má nálega ekki fyrir kirkjunni koma til greina. Því annars er svo afar hætt við því, að menn missi sjónar á aðal-þýðing kristindómsins, hinni sáluhjálplegu þýðing hans, að aðal-efni kristinnar trúar visni upp í höndunum á mönnum kirkjunnar, og svo komi hin fyrirheitna blessan út af kristindóminum alls ekki fram, hvorki í andlegum né jarðneskum efnum. Sáluhjálp syndugra manna í

Jesú Kristi verðr því ávalt að vera aðal-atriðið í hinum kirkjulega boðskap. Með því móti er mönnum auðvitað kennt að deyja, en ef sú sáluhjálparlexía á annað borð lærist mönnum til hlítar, þá verðr afleiðingin af því sú, að þeir hinir sömu menn rækja hin jarðnesku skyldustörf sín samvizkusamlega og láta sem mest gott af lífi sínu leiða. Með því að kenna mönnum svo vel að deyja kennir kristindómrinn mönnum svo vel að lifa.

En hvernig stendr þá á því, að kristindómrinn hefir svo raunalega lítið leitt til tímanlegrar velgengni í lífi þjóðar vorrar úti á Íslandi? Því það er víst ómótmælanlegt, sem "leikmaðrinn" tekr fram, að boðberar kristindómsins þar hafi umfram allt gjört sér far um að kenna mönnum að deyja. Hér getr virst ein undarleg mótsögn komin fram í þjóðlífi voru, vitnandi hátíðlega gegn hinu almenna mótsagnarlögmáli kristindómsins, sem þegar hefir verið sýnt fram á. En þess ber fyrst og fremst að gæta, að á hinum allra erviðustu krossins tíðum gætir framfaraaflsins, sem í kristindóminum liggr, oft nálega alls ekki. En í stað þess verðr kristindómrinn mönnum þá aðallega guðlegt þolinmæðisafl til þess að líða. Og þannig var það á Íslandi, þegar kristindómrinn var þar með mestri andagift og trúmennsku prédikaðr, — af öðrum eins mönnum og Hallgrími Péturssyni og Jóni Vídalín. En það að kristindómrinn á síðari tímum, eftir að þjóðin þó miklu fremr en áðr gat farið að hugsa um jarðneska viðreisn sína, ekki heldr reyndist neitt verulegt stuðningsafl til slíkra framfara, það stafar vissulega lang-helzt af því, að kirkjan fyrir utan að komandi vantrúaráhrif var hnigin niðr á lægra stig, í persónum kennimanna sinna, búin að missa fornan trúarstyrk og trúarhugmyndir almennings komnar á sívaxandi ringulreið. Slíkr kristindómr — bilaðr, mergsvikinn, feiminn, fálmandi — getr ekki orðið neinu þjóðlífi verulegt framfara-afl.

En svo er og að muna eftir því, að íslenzka kirkjan er ekki frjáls, sjálfstjórnandi kirkja, heldr ófrjáls ríkiskirkja, hnept í fjötra hins veraldlega stjórnarvalds. Eftir því, sem til hefir verið ætlast, á það fyrirkomulag kirkjunnar reyndar að vera henni til stuðnings, kristindóms-málefninu til eflingar. En eins og það er þvert á móti hinni upphaflegu

hugsjón kristnu trúarinnar, eins hefir það í reyndinni yfir höfuð að tala orðið því til hindrunar, að kristindómrinn fengi að njóta sín og sýna til fullnustu þann guðlega kraft, sem í honum liggr einstaklingunum og félagslífinu til blessunar. Einkum er þó þetta ríkiskirkju-fyrirkomulag nú orðið óhafanda, því það rekr sig nú stöðugt á hinar almennu frelsishugmyndir, er í seinni tíð hafa rutt sér til rúms í menntalöndum heimsins, líka í þjóðlífinu á Íslandi Og sannarlega ber það vott um einhvern trúarlegan hugsana-rugling meira en lítinn hjá kristindómsvinum þjóðar vorrar, að þeir, svo eða svo margir, ímyndi sér, að frjáls kirkja, hinu veraldlega stjórnarvaldi óháð, geti ekki þrifist á Íslandi. Þeir hræðast fátæktina og hin erviðu kjör landslýðsins og hafa augsýnilega litla eða enga von um það, að það fé, sem nú er lagt fram kirkjunni til viðrlífis eða framfæris af hálfu landstjórnarinnar eða sem lögskipuð skyldugjöld af almenningi, fengist frá fólkinu kristna í landinu, ef það í frjálsri kirkju ætti sjálft að ráða. En með þessu er óbeinlínis játað, að það sé aðallega nauðungarkristindómr ríkjandi í íslenzku kirkjunni. Og er þá sannarlega komið meira en mál til þess, að það ástand hætti og nýtt kristindómslíf byrji, sem hvílir á göfugra og tryggara grundvelli. Mér hefir stundum verið borið það á brýn, að eg hefði litla trú á Íslandi. Eg hefi þó að minnsta kosti svo mikla trú á því, að eg er hiklaust sannfærðr um, að frjáls kirkja getr þrifist þar, því eg hefi trú á því, að hún geti þrifist á hverju einasta byggðu bóli á jarðarhnettinum. Og þó að eg hátíðlega hljóti að játa, að kristna trúin er veik hjá mér, þá hefi eg þó svo sterka trú á kristindóminum, að eg efast ekki eitt augnablik um það, að hagr kirkjunnar á Íslandi myndi stórkostlega batna við það að verða frjáls og sjálfstjórnandi, að hún myndi miklu betr vinna skylduverk sinnar guðlegu köllunar, miklu betr gæta sinnar heilögu ábyrgðar. En jafnframt hlyti hún í því ástandi á þessari tíð ósjálfrátt að verða miklu sterkara lyftingarafl þjóðlífinu til jarðneskra framfara en hugsanlegt er að hún nokkurn tíma geti orðið í fjötrum hins veraldlega stjórnarvalds.

---

 Eg er nú eiginlega búinn að tala út í þetta sinn. En á

nokkuð vil eg þó enn minnast áður en eg hætti. Það er fyrst fyrirheitið drottinlega, sem til vor kemr í kristindómsorðinu, um nýjan himin og nýja jörð, þar sem réttlætið mun í búa. Í annan stað fyrirheitið um hina líkamlegu upprisu einstaklinganna. Og í þriðja lagi trúarvissan kristilega um það, að guðs son, mannkynsfrelsarinn Jesús, við líkamlega burtför sína héðan frá jörðu tók manndómseðli sitt með sér til himna. Þetta allt er oss kristnum mönnum guðleg trygging fyrir því, að vér skulum í dauðanum alls ekkert missa af því, sem er gott og satt og fagurt, dýrðlegt og dásamlegt í mannlífinu eða náttúrunni hér á jörðinni. Væri engin slík trygging, þá mætti ætla, að allt hið jarðneska væri í guðs augum algjörlega einskisvirði og þá þar af leiðandi öll barátta manna til eflingar menningarframfaranna jarðnesku í heiminum algjörlega þýðingarlaus.

Beiningarmenn eru einatt á gangi hér í Vestrheimi, eins og í öðrum löndum, einkum í stórbæjunum hér, renna um frá húsi til húss og beiðast ölmusu. Sumir þeirra frískir og á bezta aldri. En þá færa þeir gjarnan það til sem ástæðu fyrir þessu vandræða-uppátæki sínu, að þeir geti hvergi fengið atvinnu. Þeir vildi fegnir vinna fyrir brauði sínu, en eigi engan kost á því. Þetta er stundum í einlægni mælt, en stundum að eins yfirskin. Og þegar það er yfirskin, þá er auðsætt, að ölmusu-gjafir slíkum mönnum til handa hlyti að verða þeim til ills, yrði að eins til þess að ala upp í þeim letina og ómennskuna. Á einum stað í Bandaríkjunum hefi eg heyrt getið um einkennilega aðferð, sem beitt hafi verið við hvern slíkan umrenning, sem auðsætt var að gat unnið. "Farðu" — segir húsráðandi við komumann — "hérna aftr fyrir húsið. Í garðinum þar sérðu grjóthrúgu eina mikla til annarrar handar. Berðu þá steina alla út að girðingunni hinum megin, og þegar því verki er lokið, þá skal eg borga þér sanngjarnt kaup fyrir það starf." Komumaðr þiggr boðið, vinnr verkið og fær kaup sitt útborgað. Hann kemr aftr næsta dag, beiðist vinnu hjá sama húsráðanda. Húsráðandi segir honum nú að flytja steinana þangað, er þeir voru upphaflega, upp á sömu skilmála og áðr. Og er því verki er lokið, borgar hann launin. Maðrinn kemr í þriðja sinn í sömu erindum. Húsbóndi segir honum, að hann skuli

enn flytja steinana eins og hann hafði gjört hinn fyrsta dag. Þá rann upp ljós fyrir manninum aðkomna. Hann skildi, að verkið, sem hann hafði verið að vinna, var fyrir húsráðanda einskis virði, en var honum fyrirsett að eins í því skyni, að hann skyldi beita kröftum sínum til þess að innvinna sér það, er húsbóndi lét við hann af hendi rakna.

Nú má spyrja, og það er í alla staði eðlilegt, að svo sé spurt: Er menningar-barátta mannkynsins hér á jörðinni, það allt, sem góðir og vitrir og dugandi menn leggja á sig til þess að efla hinn jarðneska hag þjóðanna og landanna, í sjálfu sér og í guðs augum einskis virði? Hefir það að eins þá þýðing, að menn með því beiti lífskrafti sínum við *eitthvað?* Er mannkynssagan jarðneska að öðru leyti tilgangslaus, — hafandi ekkert annað markmið en vinna beiningarmannsins að flutningi grjóthrúgunnar frá einni hlið garðsins til annarrar? — Guði sé lof að þetta er ekki svo. Tómr andlegr ódauðleikr í eilífðinni fullnægir ekki mannlegri hugsan. En svo boðar þá líka kristindómsorðið oss öllum enn þá miklu meira: — líkamlega upprisu á morgni eilífðarinnar, nýjan himin og nýja jörð, þar sem — eftir því, sem mér skilst — allt, sem hér hefir verulegt gildi, allt hið sanna og fagra í tilverunni hér, kemr út á ný, upphafið í æðsta veldi, og þar sem mannkynssagan jarðneska nær sínu fullkomnunarendimarki. Og með þessu kemr friðandi ljósbirta frá guði sjálfum yfir hin mörgu mótsagnarmál heimstilverunnar og kristnu trúarinnar.

# Eldr og eldsókn

Eg ætla í þetta skifti að byrja mál mitt með því, að minna yðr á eldgamalt íslenzkt æfintýri, sem þér kunnið líklega allir og hafið víst margoft heyrt, þegar þér voruð börn. Og það eldgamla æfintýri er einmitt út af eldinum, einni af hinum fjórum höfuðskepnum í náttúrunni eftir því, sem einu sinni var álitið. Æfintýrið byrjar á því, að eitt sinn voru öldruð hjón, "karl og kerling", sem bjuggu búi sínu í koti nokkru. Þau áttu þrjár dætr, sem nefndar eru Ása, Signý og Helga. Hinar tvær eldri systrnar, Ása og Signý, voru í mesta uppáhaldi hjá foreldrum sínum; en yngsta systirin, Helga, var höfð út undan, skoðuð bæði af foreldrunum og hinum systrunum eins og auðvirðilegasta ambátt. Einu sinni kom það óhapp fyrir í kotinu, að eldrinn dó. Og varð þá náttúrlega lífsspursmál, að fá eld einhversstaðar að, frá einhverjum nágrannanum, sem fljótast og hægast yrði náð til. Menn kunnu ekki á þeirri tíð þá íþrótt að kveikja eld, svo að ef eldrinn á annað borð dó í því eða því húsinu eða hreysinu, þá varð að sækja nýjan eld úr einhverju öðru húsi. Elzta dóttirin, Ása, var send á stað úr kotinu eftir eldi. Hún gekk fram hjá hóli einum, og heyrði hún rödd, sem talaði inn í hólnum og spurði: "Hvort viltu heldr hafa mig með þér eða móti?" Hún svaraði og sagði, að sér stæði öldungis á sama, hvort væri, og hélt svo áfram göngu sinni, þar til er hún kom að helli nokkrum. Þar sá hún nógan eld. Ketill stóð á hlóðum með kjöti í hálfsoðnu. Í trogi þar rétt hjá sá hún og brauðkökur óbakaðar. En engin mannleg vera og engin lifandi skepna var þar sýnileg. Hún fann til hungrs eftir gönguna og vildi því fá sér saðning. Lífgar hún því eldinn, hleypir upp suðu í katlinum, alsýðr það, er í honum var, og tekr kökurnar og bakar eina þeirra handa sjálfri sér, en brennir hinar; neytir svo kökunnar og af kjötinu eins og hún gat torgað. Í máltíðarlok kemr allt í einu hundr einn mikill fram og lætr vinalega að henni, en hún stjakar við honum, lemr hann og vill reka hann burt. Þá reiðist rakkinn og

bítr af henni aðra höndina. Hún kenndi náttúrlega sársauka, varð lafhrædd, þorði ekki að taka eldinn, og skundaði í ofboði eins og fætr toguðu heim til sín í kotið. — Þá var Signý, hitt óskabarn karls og kerlingar, send á stað eftir eldinum. En það fór fyrir henni allt á sömu leið eins og systur hennar; enginn annar munr á eldsóknarsögu hennar og Ásu en það, að hundrinn beit af henni nefið. — Loksins var Helgu skipað að snauta á stað og sækja eldinn. Hún fór. En þegar röddin í hólnum spurði hana að sömu spurning eins og þær systr hennar áðr, þá svaraði hún: "Eg vel fegin eiga þig að". Þegar hún kom í hellinn, stóð þar alveg eins á og áðr. Hún sauð kjötið í katlinum og bakaði kökurnar; en þó hún væri svöng og þreytt, neytti hún einskis af mat þessum. Hins vegar ásetti hún sér að hvílast og bíða eftir húsráðanda; því henni fannst óhæfa að taka eld þaðan burt í leyfisleysi. Eftir nokkra bið kom húsbóndi. Það var risi ógurlega stór, og fylgdi honum hundr einn mikill, sá sami og áðr er nefndr í eldsóknarsögu hinna systranna. Dunur miklar og dynkir heyrðust áðr en risinn gekk í helli sinn, og varð Helga mjög hrædd. En hræðslan fór brátt af henni við það, að risinn ávarpaði hana blíðlega og þakkaði henni með hlýjum orðum fyrir það, hve vel hún hefði farið að ráði sínu. — Eg ætla ekki að fara lengra út í sögu þessa nema að eins minna á þessi atriði í áframhaldi hennar: Helgu heppnaðist að ná eldinum og flytja hann heim í kotið til foreldra sinna. Hún tók hann með hjartanlegu leyfi hellisbúans. En hellisbúinn var konungssonr í álögum. Og hún leysti hann í þessari sömu ferð úr álögunum. — Ekki fékk hún annað en óþökk hjá fólkinu sínu fyrir eldsóknina, alveg eins og fyrir allt annað gott, sem hún hafði áðr gjört í hinu óverðskuldaða niðrlægingar-ástandi sínu. En ári síðar kom konungssonrinn í kotið og hafði Helgu þaðan burt heim í ríki föðr síns eins og brúði sína. Þau áttust og unnust. Og eftir að faðir hans var fallinn frá varð hann konungr í ríkinu, og hún þá auðvitað um leið drottning.

Hún minnir, þessi gamla þjóðsaga, á þá tíð langt aftr á öldum, þegar menningarframfarir forfeðra vorra voru komnar ákaflega skammt. Menn eru þó augsýnilega komnir

upp á það þá, að nota sér hina leyndardómsfullu höfuðskepnu í náttúrunni, sem kölluð er eldr, og eru sér þess meira að segja fullkomlega meðvitandi, að það sé ómögulegt að lifa eins og maðr eldlaus. Notkan eldsins sýnist vera eitthvert allra fyrsta skilyrðið fyrir því, að mannlífið komist upp yfir það að vera dýralíf. Enda er vafasamt og jafnvel allsendis ólíklegt, að menn hafi nokkurn tíma verið í svo villtu ástandi, að þeir hafi ekki kunnað að meta gagnsemi eldsins og notað sér hann. Og að minnsta kosti hefır enginn mannflokkr fundizt meðal villiþjóðanna í heiminum, sem nú eru uppi eða sem nokkur spurn er af frá liðnum öldum sögunnar, að hann hafi ekki að meira eða minna leyti kunnað að nota sér eldinn og haft hann í þjónustu sinni. Þar á móti hafa menn vitanlega fyr á tíðum á hinu lægsta stigi heimsmenningarinnar átt dæmalaust örðugt með að varðveita eldinn hjá sér, halda honum lifandi á heimilisarni sínum, fela hann í hlóðum hýbýla sinna, svo að hann væri æfinlega til taks, þegar til þyrfti að taka til matsuðu, bökunar, upphitunar og annarra óhjákvæmilegra lífsnauðsynja á því eða því heimili. Og á það mannlífsástand bendir æfintýrið. Menn höfðu engin tæki hjá sér til eldkveikingar, eða þó þau væri í rauninni allt af til liggjandi hvervetna hjá mönnum í náttúrunni, þá voru þau þar á huldu og fóru eins og fram hjá mönnum. Ef eldrinn dó út, þá varð að fá nýjan eld einhversstaðar að, sækja hann til einhvers nágranna. Og hvað sem það kostaði, þá varð endilega að sækja eldinn; því að lifa eldlaus þýddi sama sem dauða eða líf, sem var verra en dauði. En svo verðr sagan að hálfyfirnáttúrlegu æfintýri, þegar farið er að sækja eldinn. Og virðist mér það atvik benda til þess, að sagan hafi miklu dýpri þýðingu en þá, er liggr á yrirborðinu. Þjóðarandinn, sem söguna hefir myndað eða að minnsta kosti klætt hana í þennan búning, hefir augsýnilega verið sér þess meðvitandi, að eldrinn væri nokkuð ákaflega mikið og stórkostlegt og leyndardómsfullt, dæmalaust mikilsverð og dýrmæt gjöf fyrir líf manna frá honum, sem er herra náttúrunnar, ómissandi hlutr, en jafnframt algjörlega ósikljanlegr hlutr. Það er vandfarið með alla dýrmæta hluti, og því vandfarnara með þá sem þeir eru dýrmætari. Veiting þeirra flytr nýja

ábyrgð inn í líf þeirra manna, er þá eignast, ábyrgð, sem nákvæmlega svarar til ágætis þess, er í hlutunum liggr. Til góðs, stórmikils góðs, eiga þeir að verða mönnum og geta þeir auðvitað orðið, verða það æfinlega, ef vel eða rétt er með þá farið. En þeir geta líka orðið mönnum til ills, svo og svo mikillar ógæfu, verða það alveg að sjálfsögðu, ef illa eða óvarlega er með þá farið. Á þetta ráðandi allsherjarlögmál í lífinu minnir eldrinn fremr flestum öðrum hlutum í náttúrunni. Hann er svo nytsamr hlutr, að það er ekki unnt að lifa jafnvel því lægsta mannlífi án hans. En hann er jafnframt sá háskalegasti og hræðilegasti hlutr í hinni náttúrlegu tilveru, sem hér um bil getr hugsazt. Hann er ímynd algjörrar eyðileggingar. Það þarf að fara varlega, vitrlega og samvizkusamlega með annan eins hlut, aðra eins undrahöfuðskepnu, aðra eins dýrmæta gleðilega, hræðilega gjöf bæði til lífs og dauða. Þegar eldrinn deyr og engin ráð til þess að kveykja nýjan eld á þeim sömu stöðvum, og þar af leiðandi þarf að senda eftir eldi einhversstaðar frá í tilverunni fyrir utan, þá er mjög eðlilegt, að ýmsir erviðleikar komi fyrir, ervðileikar, sem benda á, hvað mikið er varið í þennan hlut, eldinn, og jafnframt hið leyndardómsfulla, óskiljanlega eðli hans, skiljanlegt, að þessi eldsóknarsaga hefir orðið að hálf-yfirnáttúrlegu æfintýri. Það hæfir ekki fyrir þá, sem kunna að meta ágæti eldsins og ábyrgðarhluta þann, sem eign hans er samfara, að láta hvern, sem vera skal, geta sótt þessa leyndardómsfullu höfuðskepnu lífsins og dauðans, eins og að eins væri um eitthvert smáræði að tala. Það hæfir ekki, að neinn sé látinn sækja hann fyrirhafnarlaust. Eldrinn stendr fyrir meðvitund þjóðarandans, sem skapað hefir söguna, eins og guðlegr hlutr, og frá því sjónarmiði var ekki nema sjálfsagt, að sagan yrði að æfintýri, undrasögu, hálf-yfirnáttúrlegri sögu. Enginn náttúrlegr nágranni til, sem unnt er að fá eldinn hjá. Eða þó að slíkir nágrannar að líkindum væri til, náttúrlegir menn, sem áttu eld lifanda á arni sínum, þá eru þeir undir þessum kringumstæðum eins og þeir væri ekki til. Það sést ekki neitt til þeirra, þegar á að fara að sækja eldinn. Utan hinna eiginlegu mannabyggða verðr að leita eftir eldinum, á vegi, sem er jafn-leyndardómsfullr eins og eðli eldsins er leyndardóms-

fullt. Og ekki er til neins að senda neinn með öðru eins uppeldi og öðrum eins hugsunarhætti eins og þær Ása og Signý til þess að sækja eldinn. Slíkir menn ætla sér æfinlega að stela eldinum, og það verðr undantekningarlaust til bölvunar. Annaðhvort ná þeir engum eldi og fá þegar í stað einhvern þann áverka og sársauka, sem aldrei framar fæst lækning á, eins og þessar systr, sem hundrinn beit af hönd og nef í því þær voru að reyna til að ná eldinum. Ellegar eldrinn næst og verðr síðan að hræðilegri hefndargjöf, fyrir þá sök, að hann var svo illa og ómannlega fenginn. Og mun eg bráðum frekar tala um þetta örlaga-atriði í eldsóknarsögu mannkynsins. Að eins sá maðr, sem eins stendr andlega á fyrir og yngstu systurinni, Helgu, í æfintýrinu, er hæfr til þess að sendast í svona löguðu erindi. Og hvort sem eldrinn er meðtekinn með þökk eða óþökk af þeim, sem hann er færðr, og hvað illa, ógætilega og sviksamlega sem *þeir* fara með þann feng eftir að hann hefir verið borinn inn í húsið þeirra, þá verðr hann eldsækjendunum sjálfum, slíkum eldsækjendum, æfinlega til blessunar, alveg eins og eldsóknarförin varð Helgu í æfintýrinu.

Það er auðsætt, að hér er um framfaraþörf og framfarabaráttu mannanna að ræða. Tilraun mannsandans til þess að lyfta sér eitthvað ótakmarkað í fullkomnunaráttina, flytja sæluna inn í líf manna hér á jörðinni, hún stendr með lifandi litum afmáluð fyrir mér í hinu gamla æfintýri. Og þótt eg hugsaði ekki lifandi ögn um æfintýri þetta og kastaði því burtu frá mér eins og ómerkilegri kerlingarbók, þá gæti eg samt æfinlega út af eldinum í náttúrunni fengið dæmalaust lærdómsríka hugvekju í sambandi við menningarsögu heimsnis og baráttu þjóða og einstaklinga fyrir því, sem gjört geti lífið þeirra að sælu lífi. Af því að eldrinn er eins ómissandi lífsnauðsyn eins og hann er, og af því að hann er eins hættulegr og hræðilega eyðileggjandi hlutr eins og hann er, og af því hann er sú leyndardómsfulla höfuðskepna, sem hann er, þá er hann mér æfinlega sýnilegt tákn hinna ýmsu og óteljandi gæða, sem menn í öllum áttum heimstilverunnar eru að keppast við að handsama og flytja inn í lífið. Hann táknar fyrir mér sérhvað eina, sem hefir í sér virkilega sælu fólgna fyrir oss mennina. En þegar eg

horfi á eldinn sem slíkt tákn, þá hlýt eg æfinlega nauðugr viljugr að minnast þess, að allt þetta einstaka, sem getr gjört mennina að sælli mönnum, hefir líka vansælu-uppsprettu og kvöl í sér geymda, nákvæmlega eins mikla eins og sælan er mikil, sem fengizt getr út úr þessum sömu hlutum. Eg sé það svo greinilega sem verða má, þegar eg horfi á eldinn eða hugsa um eldinn, hve varlega verðr að fara með allt hið bezta, sem lífið hefir að veita. Eg sé, hvernig á því stendr, að þjóðirnar hafa einatt, þegar menntan og íþróttir stóðu hjá þeim í hvað mestum blóma, verið sem óðast að sökkva niðr í vansælu og eymd. Og eg skil jafn-vel, hvernig því víkr við, að einstakir menn, sem í raun og veru hafa komizt yfir svo og svo mikið af gæðum lífsins, verið leiddir að virkilegum sælu-uppsprettum, fundið óskastein hamingjunnar og halda á honum í hendinni, eru vansælir menn, enn þá miklu vansælli heldr en þeir hefði verið, ef þeir hefði ekki neitt haft af þessum góðendum lífsins að segja. Eg get lesið alla framfarasögu heimsins út úr eldinum. Eg get lesið alla söguna um sæluna og sársaukann í lífi mannkynsins út úr eldinum. Eg get lesið hið eilífa lögmál lífsins og dauðans út úr eldinum. Gjörvöll framfarabarátta þjóðanna og mannkynsins yfir höfuð að tala er fólgin í því, að það er verið að sækja eld og bera hann inn á heimilisarin hinna einstöku þjóða eða mannkynsins í einni heild. Það gengr mjög misjafnt í þeirri eldsóknarsögu. Sumir ná engum eldi, eins og þegar hefir verið á bent. Hann fæst aldrei fyrirhafnarlaust, því ekkert, sem ágætt er í sjálfu sér, má fást eða getr fengizt á þann hátt. Sumir skaðbrenna sig á eldinum, og suma jafnvel gleypir hann lifandi, leiðir yfir þá algjöra eyðilegging. Og þó að eldsóknin hafi fullkomlega heppnazt og mönnum takist að búa svo um heima hjá sér, að hann geti ekki dáið, vill allt af öðruhverju falla á hann fölskvi. Svo við og við þarf allt af að vera að lífga hann við. Og sú sífellda viðlífgan eldsins er eins og ný og ný eldsókn. En svo kemr líka nokkuð annað til athugunar í sambandi við þetta mál. Menningarframfarir þær, sem fengnar eru á þeim eða þeim staðnum eða þeim og þeim tíma í sögunni, fullnægja mönnunum aldrei. Mikið vill æfinlega meira. Það, að hafa náð að uppsprettu sælunnar, sem áðr var álitin og

að nokkru leyti var það í raun og veru, vekr æfinlega þrá eftir meiri sælu. Sælutakmarkið færist eins og á undan manni um leið og maðr heldr för sinni áfram á braut menningarinnar, alveg eins og sjóndeildarhringrinn flyzt með vegfarandanum, svo að blettr sá, þar sem himinn og jörð sýnast mætast, er í rauninni allt af jafn-langt undan. Eldrinn gamli lifir á arninum, en hann fullnægir ekki; það er eins og hann sé dauðr. Það þarf að sækja nýjan eld. Á þennan hátt verðr mannkynssagan að marg-ítrekaðri, stöðugt áframhaldandi eldsóknarsögu. Og sú saga segir að sjálfsögðu frá margfaldri blessan, sem inn í líf manna og inn á heimili manna hefir komið út af því, að hafa fengið og vera sífellt að fá eldinn inn til sín. En hún segir líka jafn-sjálfsagt frá því, hve óvarlega og illa menn hafa farið með eldinn, segir frá því, hve hörmulega menn hafa oft brennt sig á eldinum, segir frá óteljandi eldsvoðum, sem fyr og síðar hafa gengið yfir byggðir manna, sýnir, hve syndsamlega og raunalega menn hafa einatt notað það, er kalla má eld í andlegum skilningi, framfara-aflið í heiminum, upplýsingarafl mannkynssögunnar, alveg eins og hinn náttúrlega eldinn, til þess að gjöra út af við bræðr sína; sýnir óteljandi andlegar morðbrennr, Blundketilsbrennr, Njálsbrennr og Flugumýrarbrennr, víðsvegar um heim, og lætr oss heyra angistaróp þeirra, sem á þann hátt er verið að brenna inni. Út af tilveru þess í mannlegu lífi, sem hinn náttúrlegi eldr táknar, og út af því, að svo makalaust er vandfarið með lífsgæðin öll, sem framfaraþrá mannsins keppir eftir, eins vandfarið með þau eins og eldinn, hefir stórmikill hluti mannkynssögunnar á liðnum öldum orðið að hryggilegri *tragedíu*, átakanlegri harmsögu. Og út af þessu sama verðr líf mannanna þann dag í dag að harmsögu, þegar þeir hafa ekki vit eða vilja á því, að fara vel með eldinn.

Gömul og göfug saga er til í goðafræði Forn-Grikkja, sem eg get ekki leitt hjá mér að minnast á í sambandi við hið nú verandi umhugsunarefni mitt. Það er sagan um Promeþevs. Það var í rauninni guðleg vera, heyrði til hinu eldra goðakyni, sem varð að lúta í lægra haldi fyrir hinum svo kölluðu Olympus-guðum. Og meðfram af því, að þetta yngra guðakyn með Seifi eða Júpíter í broddi fylkingar náði

yfirráðunum, kastaði Promeþevs sér út í baráttu gegn hinum ráðandi guðdómi. Og kom hann í þeim ófriði fram sem menningarfrömuðr meðal dauðlegra manna, eins og ötull og óþreytandi forvígismaðr í framfarabaráttunni hér niðri á jörðinni. Af tilraunum hans eða afreksverkum í þessa átt nægir hér að geta þess eins, að hann á leynilegan og sviksamlegan hátt nær eldi á Olympus-fjalli úr hýbýlum þeirra Seifs, flytr hann ofan á jörðina og gefr mönnunum hann. Óvissa leikr á því, hvernig á því stóð, að mennirnir voru þá eldlausir. Annaðhvort höfðu þeir aldrei eignazt eld áðr og höfðu þangað til lifað í því eymdarástandi, sem eldleysi hlaut að vera samfara; ellegar guð guðanna hafði tekið frá þeim eldinn til hegningar fyrir það, hve illa og syndsamlega þeir höfðu farið að ráði sínu. En nokkuð er það, að þeir á þessu skeiði sögunnar voru eldlausir, og Promeþevs færir þeim eldinn. Og að sjálfsögðu var það stórt stig, jafnvel allt að því óendanlega stórt stig, í framfara-átt heimsmenningarinnar. Það er ómögulegt að segja fyrir, hvað langt þessi eldfengr gat leitt mannkynið til framfara, hvað mikil blessunaruppspretta var með þessari veiting orðin til hér í mannheimum. En það var líka við því búið, að margir á meðal mannanna kynni ekki að fara vel með þessa dýrmætu gjöf; og þannig gat það þá farið svo, að jafnframt blessaninni leiddi gjöfin nálega óendanlega armæðu og hörmung yfir mennina. Promeþevs verðr líka fyrir einhverri þeirri hræðilegustu hegning, sem hugsazt kunni, fyrir þetta tiltæki sitt, tiltæki, sem frá sjónarmiði mannanna hlaut að teljast alveg dæmalaust góðverk þeim til handa. Seifr sjálfr leggr á hann óslítandi járnfjötra, keyrir flein í gegn um hann miðjan, bindr hann fastan niðr á klettgnípu einni í Kákasusfjöllum, svo hann getr hvorki hrært legg né lið. Og síðan kemr örn, sem heggr op á brjóst hans og kroppar svo öllum dögum saman í lifr hans; en aldrei þvarr þó lifrin fyrir þá sök, að á nóttu hverri óx hún æfinlega jafn-mikið og hún hafði eyðzt daginn á undan. Í þessu harmkvælaástandi lifði Promeþevs voðalega langan tíma, gat auðvitað ekki dáið sökum þess, að hann var guðborinn og ódauðlegr. Þetta er hegning sú, sem hann verðr að líða fyrir það, að stela eldi af himnum og færa hann mönnunum. Og ekki

frelsaðist hann frá harmkvælum þessum fyr en hetjan Herkúles með leyfi Seifs sjálfs kemr og skýtr örninn, og um leið eru fjötrarnir af honum leystir.

Það er auðsætt, að mannsandinn í baráttu hans fyrir framförum og menntan, aukinni sælu og velgengni, hefir í goðasögu þessari verið gjörðr að sjálfstæðri, lifandi persónu; en vel að merkja mannsandinn að því leyti, sem hann í þessari baráttu sinni setr sig upp á móti guðdóminum, treystir á eigin mátt og megin og virðir hinn guðlega vilja að vettugi. Þannig hefir saga þessi æfinlega verið skilin, og þannig hefir eitt af stórskáldum Grikkja til forna, Æskýlos, skilið hana. Hann hefir orkt út af henni sjónleiki þrjá, sem allir mynda eina mikla harmsöguheild. Meðleikrinn einn hefir varðveitzt, og segir þar frá Promeþevs í fjötrunum og kvölunum. Það er víst eitt hinna mestu skáldskaparverka, sem nokkurn tíma hafa verið í letr færð. Og meðal annars merkilegt fyrir það, hve skýrt það bendir í kristindómsáttina, hve sterklega það vitnar með ýmsum leyndardómsfyllstu atriðunum í opinberan trúar vorrar. Og er þá vert að muna eftir því, að þá fyrst lætr harmsaga þessi Promeþevs verða leystan undan hinni skelfilegu hegning, þegar hann hefir lært að beygja sig undir vilja guðs hins æðsta og með fúsum vilja lotið hans yfirráðum. Promeþevs, þegar hann er að sækja eldinn, táknar mannkynið að því leyti, sem það er að brjótast áfram til aukinnar menningar og upplýsingar, lyfta sér upp á það þekkingarstig, að það fær vit á því, að taka hin leyndardómsfullu öfl náttúrunnar í sína þjónustu. En sá þáttr um Promeþevs minnir jafnframt mjög átakanlega og ógleymanlega á það, hve öfugr, sjálfbyrgingslegr og hrokafullr hugsunarháttr ræðr einatt hjá mönnum í þeirri menningarbaráttu; því á það er augsýnilega lögð mjög sterk áherzla í sögunni, að Promeþevs nær eldinum á sviksamlegan hátt, blátt áfram stelr eldinum. Promeþevs, þegar hann er að taka út hinar sáru og langvinnu kvalir sínar, táknar mannkynið að því leyti, sem nýr sársauki er yfir það kominn með hinni auknu upplýsing og menningarframförum þess, táknar framfaraeldinn að því leyti, sem hann er tekinn til að brenna menn, táknar manneðlið að því leyti, sem það finnr svo margfalt sárar til eftir að þessar framfarir hafa fengizt,

heldr en áðr meðan allt í menningarlegu tilliti stóð á sínu lægsta stigi. En sérstaklega táknar Promeþevs á þessu skeiði æfisögu sinnar mennina, að því leyti, sem þeir æfinlega hljóta að fá hegning, virkilegan kvalaeld, yfir sig fyrir uppreisn sína á móti hinum heilaga vilja guðs, táknar vanheilagt og vantrúað mannvitið eftir að það er komið út í sára sjálfskapaða píslarsögu. Og Promeþevs í síðasta þætti sögunnar, þegar kvalaeldrinn hættir og járnfjötrarnir eru af honum leystir, táknar mannkynið að því leyti, sem það hefir beygt sig undir vilja guðs, hefir meðtekið guðlega frelsan og um leið fengið til sín svo mikla sælu, að hún yfirbugar allan sársauka lífsins og dauðans.

Eg sagði áðan, að út af framfaraþrá og sælulöngun mannsandans hefði mannkynssagan orðið að eldsóknarsögu, sem sí og æ héldi áfram. Og þá skal eg nú taka það fram, að það hefir aldrei verið eins mikill framfaraeldr brennandi á heimilisarni mannkynsins eins og einmitt nú. Menntunarframfarirnar nú orðnar alveg makalausar; og þeim fleygir fram með hverju líðandi ári með þeim hraða, sem fyr á tíðum var alveg óþekktr, svo miklum hraða, að í sannleika sætir undrun. Menn hafa lært að verða herrar yfir náttúrunni eins og aldrei áðr. Náttúruöflin hafa verið handsömuð og leidd inn í félagslíf manna eins og óteljandi, óþreytandi, yfirnáttúrlegir þjónar þess. Allskonar vélar, knúnar áfram af þessum huldu, en handsömuðu öflum, eru í öllum áttum hins menntaða heims í gangi árið út og árið inn til þess að vinna nauðsynjaverk fyrir líf mannanna, afla þeim fæðu, útveg þeim klæðnað, flytja þá fyrirhafnrlaust með flughraða nálega hvert sem þeir þurfa að ferðast, flytja lífsnauðsynjarnar og lífsþægindin inn í húsin þeirra. Lífið í hinum menntuðu löndum er fyrir þessar auknu framfarir orðið eins og nýtt líf, sem algjörlega stingr í stúf við lífið eins og það var fyr á tíðum. Heimrinn þar eins og nýr heimr. Vísindunum fleygir áfram. Nýjar mikilsverðar uppfindingar frá hálfu vísindamannanna svo að segja daglega að koma fram. Með sjónauka vísindanna sjá menn nú orðið nálega í gegn um holt og hæðir; og það vitið þér allir, að menn geta nú hindrunarlaust og tafarlaust talazt við yfir þær mestu vegalengdir, sem til eru á jörðinni. Og ekki að

eins þekkingarauki hjá hinum eiginlegu frömuðum eða forvígismönnum vísindanna. Þekkingin hjá almenningi svo dæmalaust mikið aukin og vaxin út yfir það, sem áðr var, enn þá miklu meira aukin að sínu leyti heldr en þekkingin hjá vísindamönnunum. Þessi tíð er fremr öllu öðru alþýðumenntunarinnar tíð. Almenningr menntalandanna veit nú svo margfalt meira en nokkurn tíma áðr í sögunni. Og hann veit svo miklu meira fyrir þá sök, að menningarfærin eru nú orðin svo margfalt betri og fleiri en áðr. Skólar, sem allir eiga aðgang að, nú í gangi, nálega óteljandi, í öllum áttum. Skólabækr langtum betri en áðr. Kennslumátinn margfalt vitrlegri og þægilegri heldr en áðr. Allt gjört til þess, að allir geti menntazt sem bezt, á sem skemmstum tíma og með sem minnstri fyrirhöfn. Enda er það virkilega svo, að á þeim skólum, þar sem kennslufyrirkomulagið er nú í fullkomnustu horfi, eiga menn á sama tímanum kost á að læra miklu meira en á tilsvarandi uppfræðslustofnunum hinna fyrri kynslóða. — Bókmenntaheimrinn nú orðinn eins og hafsdjúpið, alveg ótæmandi. Og óteljandi ágætar bækr eftir hina miklu anda mannkynsins, höfuðrithöfunda þjóðanna frá fyrri og síðari tímum, liggjandi fyrir almenningi í svo ódýrum útgáfum, að hver fátæklingrinn getr í þær náð, lesið þær og uppbyggt með þeim anda sinn, flutt þaðan nýjan andlegan eld inn í líf sitt. Og ekki að gleyma hinum svo kölluðu dagblöðum eða tímaritum, sem daglega, að minnsta kosti vikulega eða mánaðarlega, leggja fram fyrir allan hinn lesanda almenning ýmist tíðindi um það, sem er að gjörast sögulegt í heiminum nær og fjær, ellegar hugleiðingar um ýms þýðingarmikil lífsspursmál, sem uppi eru í mannfélaginu á hinni yfirstandandi tíð. Eg veit það vel, að mörg blöð og tímarit eru léleg og sum algjörlega siðspillandi. En í heild sinni geta þau hiklaust skoðazt sem eitthvert mikilsverðasta menningargagn nútíðarinnar. Það menningarverkefni má heita kornungt, sérstaklega tilheyrandi þessari öld, og þó fyrst verulega orðið eins og eign almennings á síðustu áratugum aldarinnar. Og vér hljótum allir að viðrkenna, að með hverju einstöku hinna óteljandi blaða og tímarita sé í einhverjum skilningi verið að bera eld inn á heimili almennings. Og eg ætla í þessu augna-

bliki að eins að hugsa um þann eld að því leyti, sem það er eldr til aukinnar þekkingar og menntunar, sannkallaðr framfaraeldr.

Það yrði alveg ótæmanda efni, ef ætti að tína allt það til, sem heimrinn í menningarlegu tilliti nú á þessari tíð hefir fram yfir það, sem hann hafði fyr á öldum. Eg ætla því í viðbót við það, sem þegar er tekið fram, að eins að benda á eitt atriði; hin miklu lífsþægindi manna, sem starfa af hýbýlahættinum í nútíðar-menntalöndum heimsins. Á dögum saxnesku konunganna á Englandi bjuggu tignustu stórmenni þjóðarinnar í svo kölluðum höllum, sem voru lang-líkastar íslenzkum skemmum, að því undanteknu, að veggirnir voru ekki úr torfi og grjóti, heldr úr trébjálkum, sem hlaðið var hverjum ofan á annan, eins og á húsum þeim, sem landnemar reisa sér hér fyrst í nýbyggðunum í Ameríku meðan allt er hjá þeim í barndómi. Til hátíðabrigða voru veggirnir að innan klæddir tjöldum, eins og lengi hefir tíðkazt á Íslandi, þegar skemmurnar þar voru notaðar til veizluhalda. En gólfið æfinlega moldargólf. Og í eitthvert hornið á slíku hallargólfi var svo, þegar menn sátu undir borðum, kastað hnútum og öðrum beinum jafnóðum og af þeim var búið að kroppa, í eina allsherjarbeinahrúgu. Og iðulega var ekki betr búið um þessa miðaldarskála en svo, að þegar vindr blés úti, voru veggtjöldin öll á sífelldu iði, blöktu til og frá af dragsúgi þeim er lék á milli bjálkanna. Menn geta nærri, hve bágborinn hefir verið hýbýlaháttur fátæklinganna og kotunganna á þeirri tíð. Bændrnir hérna í byggðinni búa í miklu betri og notalegri húsum og njóta þar langt um meiri þæginda en konungarnir, sem sátu með hirð sinni í mörgum af þessum svo kölluðu höllum á miðöldunum. Almenningr nú í menntalöndum heimsins á — með einu orði að segja — margfalt betra en almenningr fyrri tíða. Framfarirnar eru alveg stórkostlegar.

En nú kemr eitt mjög merkilegt atriði til skoðunar, sem oft er gleymt, en ætti aldrei meinum að gleymast. Jafnframt því, að eldr til framfara, aukinna lífsþæginda og upplýsingar, hefir borinn verið inn í mannkynssöguna, hefir líka verið borinn þangað inn eldr til stórvægilegs sársauka. Mönnum líðr yfir höfuð að tala hvervetna, þar sem verulegar menn-

ingarframfarir hafa náð sér niðri, miklu betr en áðr meðan menn í flestu voru börn náttúrunnar, og lífið getr sagzt að hafa verið í nokkurskonar villudómi. En undir eins og mönnum tók að þoka áleiðis í menningaráttina, jókst tilfinning þeirra fyrir annmörkum og óþægindum lífsins að sama skapi. Og á því er ekki minnsti vafi, að *menn hafa aldrei í mannkynssögunni fundið eins mikið til eins og einmitt nú.* Sæluefni fyrir líf manna aldrei áðr eins mikið til, eða að minnsta kosti aldrei almennt lagt upp í hendr á almenningi. En sársaukinn nú meiri og almennari en nokkurn tíma áðr. Menntanin þýðir það, að menn fá augu á nýjum og nýjum lífsgæðum, líkamlegum og andlegum, sem áðr lágu á huldu í tilverunni, fá þau til sín inn í lífið og hæfilegleik til að njóta þeirra. Lífsþægindin aukast. Sælu-uppspretturnar fjölga. Því sjóndeildarhringrinn hinn andlegi hefir færzt út í allar áttir. Heimrinn eins og orðinn svo miklu stærri en áðr. Heimrinn allt af að fara stækkandi. En menntanin þýðir það og, að augun opnast að sama skapi fyrir óþægindum lífsins og annmörkum tilverunnar. Innan takmarka hins nýja, útvíkkaða sjóndeildarhrings sér maðrinn miklu miklu meira myrkr en áðr meðan sjóndeildarhringrinn var þrengri, meira af vansælu þeirri og eymd, sem lífstilveran hefir til brunns að bera, fleiri hættur, fleiri óhöpp. fleiri slys vofandi yfir mannlífinu í öllum áttum. Maðrinn gjörir meiri kröfur til lífsins en áðr. Það, sem hann áðr gjörði sig ánægðan með, fullnægir honum ekki lengr. Það, sem áðr fannst honum vera sæla, er nú fyrir hann engin sæla. Hann þráir sælu, meiri sælu, nýja sælu, og heimtar hana. En með útvíkkan sjóndeildarhringsins sjást takmarkanir þær, sem maðrinn í framsóknarbaráttu sinni í áttina til sælunnar er háðr, æ betr og betr. Árangurinn af menntunarbaráttunni samsvarar ekki sæluþránni, hinni sívaxandi sæluþrá, hinni sívaxandi þrá eftir meiri sælu. Og út af þessu, að sá árangr samsvarar ekki sæluþránni, finna menn áreiðanlega og mjög eðlilega meira til mitt uppi í framförum þeim, sem menntanin hefir af sér getið, en áðr. Menn finna meira til hins illa í lífinu og tilverunni. Sárari tilfinning. Meiri sársauki. — Einn stórvitr maðr á norðrlöndum, sem fyrir fáum árum er hniginn til moldar, Monrad biskup í Danmörku, bendir

á tvö andleg stórveldi í heiminum, sem aldrei hafi neitt líkt því eins mikið borið á eins og á vorri tíð. Það er óánægjan og öfundin. Það er dagsanna. Það var dagsanna fyrir tuttugu árum, þegar þessi orð voru fram borin. Og dagsanna nú jafnvel enn þá fremr. Það stendr í beinu sambandi við hinar miklu menntaframfarir í heiminum á síðustu tímum, að þessi andlegu öfl eru orðin að sannkölluðum stórveldum í lífi mannanna. Og þau hafa fremr öllu öðru á vorri tíð orðið að stórveldum í heiminum fyrir þá sök, að menntanin, sem nú ekki lengr er eign hinna fáu og útvöldu, heldr er farin að verða sameign allra, hefir komið til almennings með sívaxandi kröfum til lífsins, hefir komið til almennings með meiri sæluþrá en samsvari gæðum þeim, sem hin aukna þekking eða menntan hefir flutt inn í líf þeirra. Út af því kemr óánægja; og út af samanburðinum við aðra menn, sem betr eru settir eða betr sýnast settir, þetta ljóta, sem kallað er öfund. Menntanin orðin að sársauka, eldi, sem brennr svo ákaflega víða í nútíðarlífi almennings. Og enginn vafi á því, að þegar óánægjan og öfundin eru nefndar á nafn, þá eru það einhverjar átakanlegustu tegundir af sársauka mannlegs lífs; og því fer víst ekki mjög fjarri, að þar einmitt sé brennipunktr þess sársauka, sem inn í mannkynssöguna er kominn með hinum veraldlegu menningarframförum þjóðanna. Sársaukinn í þessari mynd ber vott um syndaeðli mannanna, og hann er vitanlega beinlínis synd. En hann stendr eins fyrir því í óaðskiljanlegu sambandi við guðlegt allsherjar-lögmál, sem ræðr í tilveru gjörvalls lífsins á jörðinni.

Því fullkomnara og æðra sem lífið er, því meiri tilfinning hjá einstaklingnum, sem það líf á. Því ófullkomnara eða lægra sem lífið er, því minni og daufari tilfinningin. Menn eru ekki vanir að tala um tilfinning í plöntulífinu eða jurtaríkinu. En engu að síðr er til hjá einstaklingum þess ríkis og þess lífs einn sérstakr eiginlegleiki, sem alveg svarar til tilfinningarinnar hjá dýrunum. Og sá eiginlegleiki kemr fram í því, að villijurtirnar eru yfir höfuð að tala svo miklu harðfengari en þær jurtir, sem ræktaðar eru á íþróttarlegan hátt af höndum manna. Þessar síðar nefndu plöntur þola svo miklu minna af harðneskju náttúrunnar, en hinar

fyr nefndu. Það er eins og ræktanin flytji nokkurskonar viðkvæmni eða sársauka inn í jurtaríkið. Þegar til dýraríkisins er litið, þá kemr þetta lífslögmál auðvitað enn þá miklu skýrar fram. Því vitanlega finna dýrin öll til. En fullkomnustu tekundir dýranna finna mest til. Og ófullkomnustu tegundir dýranna finna minnst til. En ekki að eins það, heldr líka nokkuð annað. Það má, eins og allir vita, með sérstakri meðferð og aðhjúkran frá hálfu mannanna hefja ýms af dýrunum til meiri fullkomnunar en þau hafa í villtu ástandi. En sú fullkomnan flytr æfinlega nýjan sársauka inn í líf þeirra. Þau finna margfalt meira til fyrir bragðið. Og þegar kemr upp fyrir dýraríkið, til ríkis þess í sköpunarverkinu, er maðrinn skipar, þá ræðr þar augsýnilega sama lögmálið, bæði að því, er snertir hið líkamlega og hið andlega líf. Af því að maðrinn stendr æðst af því, er lifir hér á jörðinni, er króna sköpunarverksins, þá liggr í hlutarins eðli, að í lífi hans komi þetta lögmál allra skýrast fram. Engin lifandi skepna finnr líkamlega eins mikið til eins og maðrinn. Og svo fyrir utan það, sem hann finnr til líkamlega, allr sá sársauki, sem honum heyrir til eða fyrir honum liggr út af því að vera skynsemi og frjálsræði gæddr andi, ódauðlegr andi, skapaðr í guðs eigin mynd, en jafnframt syndbundinn andi, sem vitandi eða óafvitandi þráir frelsan frá syndinni og sælu hins eilífa lífs í guði.

En það er tiltölulega mjög lítið, sem maðrinn í villtu eða hálfvilltu ástandi finnr til bæði líkamlega og andlega í samanburði við það, sem verðr eftir að hann til muna hefir hafizt í menntunarlegu tilliti. Þér heyrið þess mjög sjaldan getið, að menn, sem heyra til hinum eiginlegu villtu þjóðum eða mannflokkum heimsins, fremji sjálfsmorð eða freistist til þess að taka lífið af sjálfum sér. Skyldi það benda á það, að þá skorti hug til þess hræðilega tiltækis? Það getr naumast nokkrum með fullu viti til hugar komið. Orsökin er allt önnur. Þeir finna svo lítið til. Þeir kenna svo lítils sársauka, á hverju sem gengr í lífi þeirra. Eldrinn hefir ekki enn þá verið fluttr inn til þeirra, hvorki til sæluauka né heldr til sársauka. En í hinum menntaða heimi aftr á móti sjálfsmorðin svo hryggilega tíð; og tala þeirra fer víða vaxandi að sama skapi og menningarframfarirnar eru

að aukast og kjör almennings að batna. — Hugsið um líf forfeðra vorra í heiðni eftir því, sem því er lýst í fornsögunum íslenzku. Takið Njálssögu eða Eyrbyggju eða Laxdælu eða Grettissögu, eða hverja aðra sögu, sem þér hafið við höndina, og lesið þar ofr-lítinn kafla, þar sem verið er að segja frá vígaferlum og blóðsúthellingum þeim, sem þeir menn fornaldar vorrar stóðu svo að segja daglega uppi í. Þær eru nærri því óteljandi, lexíurnar fyrir lífið, sem blasa við oss í þeim fornritum. En sú lexía, sem mér að minnsta kosti nú finnst mest um, er fólgin í því, að þar kemr svo skýrt, svo átakanlega og svo ógurlega fram, hvað maðrinn í því lífsástandi, á því stigi menntunarinnar eða menntunarleysisins — hvort sem þér heldr viljið kalla það — getr fundið lítið til. Það er eins og tilfinningin sé nálega alveg horfin úr mannlegu lífi, eða eins og hún sé ekki enn komin inn í manneðlið. Menn eru brytjaðir niðr eins og slátrfé. Og þeir, sem fyrir því verða, sýnast í langflestum tilfellum taka sér það eins létt eins og hinir, sem á þeim vinna. Það eru höggnar af mönnum hendr og fætr; og enginn kveinkar sér. Og það kemr jafnvel fyrir, að menn eru ristir á hol og þarmarnir raktir úr þeim, þangað til þeir á svipstundu hníga niðr örendir. En ekkert æðruorð, ekkert sársaukaandvarp heyrist. Og þessi harka, eða karlmennska, eða tilfinningarleysi, ekki að eins hjá höfuðmönnum sögunnar, hinum eiginlegu söguhetjum, heldr líka hjá öllum öðrum, — hjá smámennunum nærri því eins og hjá stórmennunum, hjá þrælum nálega eins og hjá frjálsbornum mönnum. Og þó að konur ekki beinlínis tæki þátt í slíkum afreksverkum eða hryðjuverkum aldarinnar, þá er þó augsýnilega sama harðneskjuandinn einnig yfir þeim. Þær finna að sínu leyti jafn-lítið til eins og bræðr þeirra, synir þeirra og feðr. Ef tíundi partrinn af þeim voða og þeim skelfingum, er á þeirri tíð gengu yfir byggðir þjóðar vorrar, og voru svo að segja daglegt brauð manna þá, kæmi fyrir rétt snöggvast mitt uppi í mannfélagi voru á þessum tíma þá myndi hvert mannsbarn í þeim hópi algjörlega standa á öndinni af sársauka. Hinir særðu og limlestu menn myndi ekki þola við fyrir líkamlegri kvöl, og hinir allir, sem að eins væri þar sjónarvottar, myndi ekki heldur þola við fyrir andlegum sárs-

auka. — Oss er gjarnt að líta á þessa fornu tíð í sögu forfeðra vorra eins og glæsilega gullöld. Og vér höfum hetjurnar í fornsögunum í stórmiklum heiðri fyrir hreysti þeirra og frægðarverk. Og það er brýnt fyrir oss af skáldum vorum og öðrum rithöfundum, að feta sem bezt í fótspor þeirra, og fremr öllu öðru að læra af þeim hugrekki og karlmennsku. Ekki er vert að kasta þeim hugsunum og þeim kenningum algjörlega á glæ. En stórmikið af hreysti þessara heiðnu hálfvilltu fornmanna, forfeðra vorra, er ekki annað en líkamlegt og andlegt tilfinningarleysi, þýðir ekki annað en það, að sársauki menntalífsins var ekki enn til þeirra kominn. Það er óeðlilegt og í rauninni ómögulegt á vorri tíð að finna eins lítið til út af skelfingum lífsins eins og þessir menn gjörðu á sinni tíð. Þess er enginn kostr fyrir aðra en þá menn, sem fæðzt hafa og upp alizt í svipuðu þjóðlífsástandi og kynslóðin á víkinga-öldinni. Og til þess að hitta slíka menn nú þurfum vér þó í rauninni að leita út fyrir allt eiginlegt þjóðlíf, með öðrum orðum inn í heim algjörðra villimanna eins og Svertingja í Afríku, sem enn þá eru að miklu eða öllu leyti ósnortnir af heimsmenning nútíðarinnar eða nokkurri annari eldri menntan. Þér hafið það víst fyrir satt, að mannæturnar í villimannaheiminum finni skelfilega lítið til. Þar sem menn taka upp á öðrum eins ósköpum, þar sem önnur eins ónáttúra getr orðið að almennum sið eða réttara sagt ósið, sem fylgir heilum mannflokkum eins og nokkuð alveg sjálfsagt kynslóð eftir kynslóð og öld eftir öld, þar getr augsýnilega ekki verið um neitt eiginlegt tilfinningalíf að ræða. En fyr getr nú verið tilfinningarleysi en það, sem þetta allra hryllilegasta villidómseinkenni bendir á. Tilfinningin er undr lítil hjá öllum villiþjóðum. Villidómrinn hefir svæft eða deyft tilfinningar-hæfilegleikann, og sá hæfilegleiki vaknar ekki eða lifnar ekki við fyr en eldr úr æðra heimi, nýr andans eldr til menntunar og framfara hefir verið borinn inn til þessara aumu manna. Þá rís tilfinningin eins og af sjálfu sér, og þó jafnframt eins og á yfirnáttúrlegan hátt, upp frá dauðum.

Þegar Stanley fyrir tuttugu árum var á einni af sínum heimsfrægu rannsóknarferðum í Mið-Afríku og fregnirnar um framgang hans voru að breiðast út um löndin, þá man

eg eftir því, að blöðin sum í Bandaríkjunum felldu ákaflega þungan dóm yfir honum fyrir hörku þá og grimmd. sem hann ætti að beita við suma af villimannaflokkunum, er fyrir honum urðu þar í hinu "myrka meginlandi". Það var talsvert satt í því, að hann hafði við ýms tækifæri beitt talsverðri hörku. Hann hafði, þegar því var að skifta, séð sig neyddan til að skjóta villimenn niðr; og það kom jafnvel fyrir á einni voðaförinni hans, að hann lét beitt dauðahegning við nokkra hinna svörtu fylgismanna sinna fyrir það, sem virðast mætti lítilfjörlegur matarstuldur af vistaforða þeim, er hann hafði með sér handa föruneyti sínu og sjálfum sér. Blöðin, sem felldu hinn þunga dóm yfir Stanley, gleymdu því eða létu vera að taka nokkurt tillit til þess, að eins og á stóð hafði hann ekki að eins rétt, heldr líka beinlínis skyldu til þess, að fara nákvæmlega eins að og hann fór. Það var lífsspursmál ekki að eins fyrir Stanley sjálfan persónulega, heldr líka fyrir heimsmenningarerindi það, sem hann var að reka, að beita allri þeirri harðneskju, sem hann beitti. Og þó yrði þetta ekki fullkomlega réttlætt frá sjónarmiði mannúðarinnar og mannkærleikans, sem nú fyrir opinberan kristindómsins er kominn inn í mannkynssöguna og hina siðferðislegu meðvitund menntaþjóðanna í heiminum, ef ekki kæmi annað atriði til skoðunar. Þessir villimenn í Afríku, sem Stanley var við að eiga, voru í því lífsástandi, að þeir fundu nálega ekkert til. Harkan. sem hann beitti við þá, var, þó að hann, menntaðr og kristinn maðrinn, tæki hana sér undr nærri, nálega engin harka í samanburði við það, sem hún hefði verið, hefði henni verið beitt við menntað fólk eða fólk, sem fæðzt hefði upp í einhverju af menntalöndum heimsins. Enda stendr Stanley nú fyrir löngu al-réttlættr í meðvitund alls hins menntaða heims fyrir þetta, sem einu sinni af einstöku öfundarmönnum hans og sumum þröngsýnum blaðamönnum var verið að leggja honum út til syndar og skammar.

En jafn-þröngsýnir eða andlega blindir eru þeir vantrúarmenn nútíðarinnar, sem allt af eru að glamra með það, hvað mikil og óþolandi grimmd komi fram hjá stórmennunum mörgum á tíð gamla testamentisins, sem eftir því, er kristin kirkja með nýja testamentið í höndum sér trúir

og kennir, störfuðu og töluðu í Ísrael í umboði hins algóða og réttláta guðs og innblásnir voru af hinum heilaga kærleiksanda hans. Vantrúin, og sérstaklega nútíðarvantrúin meðal vor Íslendinga, er sí og æ að stagast á því, hve ófyrirgefanlega harðir og grimmir aðrir eins gamla testamentis menn eins og þeir Móses, Jósúa, Samúel, Davíð og Elías hafi verið, þar sem þeir þegar því var að skifta, hafi látið slátra mönnum, óvinum Ísraelslýðs eða þeim meðal Ísraelsmanna, er svikið höfðu trúarmálefni þjóðarinnar, eins og hefði verið óarga dýr. Og önnur eins framkoma af hálfu þessara gamla testamentis manna, önnur eins harka, önnur eins grimmd, beri þó sannarlega vott um allt annað en það, að þeir hafi haft guðs anda yfir sér. Með þessum dómi á að dauðrota gamla testamentið sem heilagt, guðinnblásið ritsafn. Með þessari röksemdafærslu á að gjöra kenning kirkjunnar um guðlegan innblástr ritninganna að hlægilegri heimsku. Með þessu vopni á að leggja kristna kirkju og kristna trú af velli. Vantrúin meðal vor Íslendinga, þegar hún er að vinna verk missíónar sinnar, heldr, stöðugt á þessu vopni í hendinni, hampar því að mönnum, reiðir það á loft, alveg eins og Golíat til forna, er hann með kylfuna sína óð fram fyrir fylkingar Ísraelsmanna. Hún þykist með þessari Golíats-kylfu eiga sigrinn vísan rétt eins og að sjálfsögðu. En eins og forðum ekki þurfti nema lítið til að gjöra út af við Golíat, þrátt fyrir hans risavöxt og raup, og þrátt fyrir hið ægilega vopn hans, nefnilega einn ungling fyrir innan tvítugt, nálega vopnlausan, eins og Davíð, alveg eins þarf ekki nema lítið til að slá þessa Golíats-kylfu, sem vantrúin hefir nú fremr öllu öðru fyrir sig að bera, úr hendi hennar. Og til þess þarf þó í rauninni enn þá minna. Það, sem langhelzt hjálpaði Davíð til þess að vinna sigrinn yfir Golíat, var trúin hans á guð Ísraels, hinn eina sanna guð, vissan í hjarta hans um það, að guð væri með honum. En til þess að slá Golíats-kylfu þá, sem nú er um að ræða, úr hendi vantrúarinnar, þarf allsendis enga trú. Það þarf ekki annað en ofr-lítið af heilbrigðri skynsemi. Því ekkert annað en óvit og heimska er það, að leggja mælikvarða nútíðarmenningarinnar og nútíðartilfinningarinnar á fornaldarmenn, sem uppi voru í heiminum einum tíu til fimmtán

hundruðum ára eftir Krists fæðing. Skynsemin sér óðar, ef hún að eins fær að njóta sín, að í dómi þeim, sem fella á yfir slíkum fornaldarmönnum, verðr vandlega og samvizkusamlega að taka tillit til lögmáls þess, sem ræðr yfir mannlegu eðli og í mannkynssögunni að því, er snertir tilfinninguna. Skynsemin sér, undir eins og hún gætir sín, að mannkynið gat ekki fundið neitt líkt því eins mikið til, eins og á stóð í heiminum meðan meginið af gamla testamentis sögunni var að gjörast, eins og á vorri tíð eða yfir höfuð að tala á hinum seinni öldum hinnar kristnu heimsmenningar.

Vitanlega var engan veginn alveg menntunarlaust í austurlöndum á dögum Mósesar og Davíðs. Vitanlega höfðu menn þar eystra að sumu leyti náð allhárri þjóðmenning jafnvel löngu áðr. En það var ekki nema í sumum greinum, og einmitt ekki í þeim greinum, sem mesta þýðing hafa fyrir tilfinningarlífið. Vér höfum enn í nútíðinni þjóðmenning, sem fer mjög nálægt því að samsvara þjóðmenning þeirri, sem Ísraelsmenn til forna höfðu allt í kring um sig og að miklu leyti ólust upp í. Það er á Japan, að því leyti, sem það land heldr enn hinum gamla sið, en einkanlega í Kína, sem enn er nálega ósnortið af heimsmenningunni kristnu, hefir í menntunarlegu tilliti dagað upp í heiminum eins og nokkurs konar nátttröll frá því þúsundum ára fyrir fæðing Krists. Þér hafið heyrt getið um lifnaðarháttu almennings í Kína, hýbýlahátt alþýðamanna þar og hinar óskiljanlegu fáu þarfir þeirra, eða kröfur, sem þeir gjöra til þess að geta lifað þægilegu eða að minnsta kosti fullviðunanlegu lífi. Það bendir á það, að það fólk finni býsna lítið til. Og þó að margt sé ólíkt í því svo kallaða menntalífi, því lífi, sem Ísraelsmenn í fyndinni lifðu og nágrannaþjóðirnar í kring um þá, þá er þó margt svipað, og sérstaklega líkt að því, er snertir tilfinninguna eða tilfinningarleysið fyrir því, sem mennirnir, er fengið hafa hina kristnu þjóðmenning yfir sig, finna hvað sárast til út af. Það þýddi ekki meira fyrir tilfinning manna undir heimsmenning þeirri, er til forna réð í Vestr-Asíu og Egyptalandi, þó að beitt væri hörðustu og ægilegustu hegningunni, sem getið er um í gamla testamentinu að út hafi verið látin ganga að

boði guðs yfir einstaka menn og heila mannflokka, heldr en það þýðir á vorri tíð, þegar ýmsum hegningartegundum, sem út af fyrir sig eru margfalt minni og vægari, er í réttvísinnar nafni beitt við menn í löndunum, sem njóta hinnar kristnu þjóðmenningar. Mönnum getr eðlilega á vorri tíð fundizt voðalega mikið til um hörku þá, sem beitt var af Jósúa við hina ýmsu kanversku þjóðflokka í landi fyrirheitisins, þegar hann að boði guðs, eftir því, sem ritningin vottar, var að vinna þjóð sinni, Ísraelslýð, þetta land til fullkomins eignarhalds. Því þjóðflokkarnir eru sumir, þegar því er að skifta, strádrepnir niðr, að því, er virðast má, algjörlega vægðarlaust. Konur og börn verða að líða hinn hræðilega dauðann með hinum fullorðna karlmannalýð. Í fljótu bragði sýnist þetta og annað eins í hinni helgu sögu gamla testamentisins alveg óþolandi harka, ekkert annað en mannlegt, mjög syndsamlegt grimmdaræði, sem beri vott um það, að sá andi, sem heimtaði slíkar refsingar, hafi ekki getað verið hinn réttláti og kærleiksfulli andi guðs, og sá guð, sem Ísraelslýðr trúði á, hafi því ekki heldr getað verið hinn sanni guð. En þessi röksemdafærsla er hin fráleitasta vitleysa, helber heimska. Harkan og grimmdin, sem á er bent hjá Jósúa í hernaði þeim, er þá stóð yfir, er fyrir þann tíma og það fólk, er þjóð hans var þá við að eiga, ekki lifandi ögn meiri en sársauki sá, er heilir hópar saklausra manna í Bandaríkjunum urðu nauðugir viljugir út að taka aftr og aftr í hinu mikla borgarastríði, sem stóð yfir á árunum 1861 til 1865, fyrir þann tíma og það fólk. Og eg tek einmitt það söguatriði til samanburðar fyrir þá sök, að eg veit, að hinn menntaði heimr allr gengr nú út frá því eins og nokkru sjálfsögðu og algjörlega viðrkenndu, að þar hafi af hálfu þeirra manna, er sigrinn báru úr býtum, verið barizt fyrir einhverju því mesta mannkærleiksmáli og réttlætismáli, sem unnt er að hugsa sér, og að hinn góði andi guðs hafi áreiðanlega kallað þá út í þann ófrið. Og í annan stað bendi eg á það söguatriði til samanburðar fyrir þá sök, að í þeim ófriði hefir vafalaust verið beitt meiri mannúð af hálfu sigrvegaranna en komið hefir fram í nokkurri annari af hinum miklu styrjöldum í mannkynssögunni. En það getið þér verið alveg vissir um, að það hefir verið fullt eins

sárt fyrir fjölda fólks, er mest tók út í þeim ófriði, það sem út yfir það varð að ganga, eins og skelfingarnar allar, sem frá er sagt í gamla testamentinu, bæði á dögum Jósúa og endrarnær, fyrir það fólk, sem fyrir þeim varð. Og eg hefi það jafnvel fyrir satt, að menn hafi enn þá meira tekið út, enn þá sárara fundið til, út af þessum refsidómi drottins, sem kom fyrir í sögunni fyrir rúmum þrjátíu árum, en fólkið í Kanaanslandi fyrir meira en þrjú þúsund árum fann til út af þeim drottinlegu refsidómum, er það varð þá að þola.

Sársaukinn verðr að metast eftir því, hvað mikill eða lítill eldr til menningar og framfara bæði í líkamlegu og andlegu tilliti hefir á þeim og þeim tímanum verið fluttr inn í mannkynssöguna eða á þær einstöku sögustöðvar, sem um er að ræða. Annars verðr ekkert mannlegt vit, og því síðr nokkurt guðlegt vit, í dómi þeim, sem felldr er. Dómrinn ekki annað en heimskulegr og ranglátr sleggjudómr. Þegar gamla testamentið er lesið, þá verða menn ávalt að muna eftir því, á hvaða menningarstigi fólk það stendr, sem þar er af guði sjálfum beinlínis verið við að eiga og við að tala. Hinn heilagi guð, sem er kærleikrinn, er hinn sami þar og þá eins og hann er æfinlega, hinn sami í gær og í dag og að eilífu. En einmitt fyrir þá sök, að hann er hinn fullkomni, al-réttláti kærleikrinn, hlýtr hann eðlilega í afskiptum sínum af fólkinu, er uppalið skyldi til þess að taka á móti hinni fullkomnu frelsisopinberan með Jesú Kristi, að taka nákvæmt tillit til mennta ástands og tilfinningarlífs þessa sama fólks og annarra þjóða, sem því stóðu næstar. Og sérstaklega hlaut hinu guðlega refsingarlögmáli á þeim tíma, og hjá því fólki að vera beitt þannig, að algjörlega samsvaraði þeirri harðneskju, er þá var allsherjar-einkenni á mannlegu eðli og hlaut að vera eins og þá stóð á í sögunni.

Ekki er vert að gleyma því, að guð í reyndinni heimtar að sumu leyti miklu minna af mönnum í siðferðislegu tilliti á gamla testamentisins tíð en liggr og lá frá upphafi í hinu heilaga lögmáli hans. Hann notar menn með ákaflega miklum siðferðislegum ófullkomleikum og göllum í sinni þjónustu, svo miklum göllum, að virðast mætti, að þeir fyrir þá sök hefði hlotið að vera algjörlega óhæfilegir til að reka

erindi drottins eða halda uppi merki hans heilaga í heiminum. Enda bendir líka vantrúin einatt á þá galla hjá stórmennum gamla testamentisins sem sönnun fyrir því, að guðstrúin í Ísrael hafi ekki verið annað en heiðindómr, og þá um leið fyrir því, að ritningar gamla testamentisins geti ekki haft neitt guðlegt gildi. En Jesús Kristr gjörir mjög skiljanlega og eðlilega grein fyrir öllum slíkum ófullkomleik í gamla testamentinu í sambandi við eitt siðalærdómsatriði, sem farísear báru undir hann í því skyni að koma honum í vandræði. Þeir spurðu hann, hvort maðr mætti skilja við konu sína fyrir hverja sök, sem vera skyldi. Hann neitaði því þvert og sagði, að það sem guð hefði sameinað, mætti maðrinn ekki skilja. Þá spurðu þeir: "Hví bauð þá Móses að gefa skilnaðarskrá og skilja svo við konu sína?" — "Vegna harðúðar hjarta yðvars", svarar Jesús, og minnir um leið á, að þannig hafi það ekki verið í öndverðu. Og gefr þeim jafn-ótvíræðlega að skilja, að slíkt leyfi eigi ekki framar að gilda. Þegar Jesús nefnir þetta orð, "harðúð hjartans", þá á hann þar augsýnilega við harðneskjuna eða tilfinningarleysið, sem á hinni fornu gamla testamentis tíð einkenndi mannlegt eðli. Guð tekr í öllum afskiftum sínum af Ísraelsmönnum tillit til þessarar harðneskju eða harðúðar, bæði þegar hann sýnist slá af kröfum hins heilaga lögmáls síns, og alveg eins, þegar hann lætr beitt ýmsum hegningartegundum, sem mönnum nú á tímum í löndum hinnar kristnu heimsmenningar geta algjörlega ofboðið. Til þessa atriðis verðum vér þá líka vandlega að taka tillit í dómum vorum um hina helgu sögu gamla testamentisins og erindsreka drottins, er þá voru uppi. — En vér þurfum jafn-samvizkusamlega að taka tillit til þessa atriðis, þegar um þá menn er að ræða, sem löngu síðar í sögu kristinnar kirkju hafa rekið erindi drottins meðal villtra eða hálfvilltra þjóða, menn, sem sjálfir hafa heyrt þeim þjóðum til og hafa með þeim verið hluttakandi í harðneskjueðli tímans. Eg vil benda á aðra eins menn eins og Ólaf konung Tryggvason og Ólaf helga, sem verkfæri urðu í hendi guðlegrar forsjónar til þess að greiða kristindóminum inngöngu meðal hinnar norsku þjóðar. Það eru harðir menn og frá nútíðarinnar sjónarmiði hræðilega grimmir menn; og oss

getr fundizt mjög raunalegt að hugsa um það, að slíkri hörku og hjá þeim kemr fram skuli hafa beitt verið til stuðnings því mesta mannúðarmálefni, sem til er, kristindóminum. En bæði er það, að enginn vegr var til þess, að menn öðruvísi skapi farnir hefði á þeirri tíð getað rutt kristninni veg til Norvegs. Og annað það, að þessir menn voru börn víkinga-aldarinnar með sömu harðneskjunni í eðli sínu eins og gjörvöll kynslóð aldarinnar. Kristindómrinn var þeim áreiðanlega heilagt sannleiksmálefni. En mildi þá, sem liggr í trúnni á Krist, gátu þeir eðlilega ekki skilið, enda vissu, að þeir áttu við það fólk að eiga, sem gekk með harðneskju hins heiðna villidóms í eðli sínu og nálega ekkert gat fundið til. Frá þessu sjónarmiði verða þeir menn að dæmast og allir aðrir, sem eins stendr á í menningarsögu og kristnisögu þjóðanna. Slíkir menn í sögu kristninnar koma fram eins og þeir hefðu heyrt til gamla testamentis tíðinni; og í flestum tilfellum hljóta þeir að koma þannig fram fyrir þá sök, að nálega enginn eldr til framfara og menntunar er um þær slóðir og á þeim tíma kveyktr meðal almennings, og mannlegt eðli þá líka með eins lítilli tilfinning, eins litlum tilfinningarhæfilegleik, eins og það forðum hafði mörgum hundruðum ára fyrir Krists fæðing.

Það líðr hér um bil hálf fimmta öld frá því hin guðinnblásna tíð í sögu Ísraels er á enda eða hinum helgu ritverkum gamla testamentisins er lokið og þangað til mannkynsfrelsarinn Jesús Kristr kemr fram á sjónarsvið heimsins. Og það er á þessu sama tímabili aðallega, að hin fræga menntan Forn-Grikkja er að þroskast og verða að því mikla andlega stórveldi, sem hún varð í þátíðarheiminum, svo miklu stórveldi, að hún bókstaflega lagði gjörvallt rómverska heimsríkið undir sig. Aldrei áðr hafði annar eins menningareldr verið fluttr inn í mannkynssöguna. Nálega allar tegundir bókmennta komu þá fram og hófu sig svo hátt, að jafnvel hin hálærða og háupplýsta öld, sem vér lifum á, getr orðið alveg forviða, þegar skyggnzt er inn í þann bókmenntaheim. Skáldskapr, heimspeki, sagnaritan, mælskufræði — hvert meistaraverkið öðru fegra og fullkomnara í þeim greinum. Og ýmsar tegundir íþróttarinnar svo fullkomnar, að það, sem ágætast er í nútíðinni í þeirri

grein getr naumast við jafnazt. Og samfara þessu eins og að sjálfsögðu alveg dæmalaus framför í öllum atvinnumálum: verzlan, akuryrkju, iðnaði, o. s. frv. Hámenntað líf, fínt líf, glæsilegt líf, fullt af þægindum og nautn, hjá öllum, sem á annað borð höfðu nokkur ráð til að lifa. Og þegar eg kemst svo að orði, þá á eg með því við hinn frjálsa hluta mannfólksins. En eg get sagt enn meira. Allstór hópr þræla eða þeirra manna, sem voru eign húsbænda sinna, hjá Grikkjum og Rómverjum, var menntaðr, og sumir þeirra meira að segja hámenntaðir menn, spekingar að viti og lærdómi, höfðu auga fyrir gæðum lífsins og gátu notið þeirra. Svona langt komst heimrinn til forna fyrir sakir þess elds, sem Grikkir fluttu til sín inn í söguna og kveyktu á heimilisarni sínum. Og svona stóð heimrinn rómversk-gríski, þegar hann í upphafi nýja testamentis tíðarinnar birtist oss sameinaðr í eitt allsherjar-menntaríki undir hinni keisaralegu stjórn Ágústusar og næstu eftirmanna hans. En með allri þessari menntan var nýr, ákaflega mikill sársauki kominn inn í líf almennings, allra þeirra, er menntunarinnar nutu, inn í hið andlega líf og inn í hið líkamlega líf einnig. Sársaukinn og sæluaukinn, sem menntanin hafði haft í för með sér, héldust augsýnilega í hendr. Sársaukinn var langmestr hjá menntuðustu mönnunum og yfirgnæfði þar hinn fengna sæluauka algjörlega. Menn höfðu aldrei áðr í heiminum fundið eins sárt til eins og einmitt þá[1]. Og þegar heimrinn, menntaheimrinn grísk-rómverski, er kominn á þetta stig í tilfinningarlegu tilliti, þá er fyrir guð tími til að láta kristindóminn með sínum andlega eldi til sársauka og sælu koma inn í söguna. Heimrinn var áreiðanlega þá fyrst móttækilegr fyrir hina fullkomnu opinberan guðs, frelsis-

---

1) Mennirnir, sem trúðu á hina svokölluðu stóisku heimspeki, eru þó fullkomnar undantekningar frá þessu. Með hinni sérstöku dyggðarkenning sinni og forlagatrú tókst þeim einum af öllum menntamönnum fornaldarinnar, að því er virðast má, nærri því á yfirnáttúrlegan hátt, að gjöra tilfinninguna hér um bil algjörlega útlæga úr eðli sínu. Hámenntaðir eins og allmargir þeirra voru og að sumu leyti göfugastir allra heiðinna heimspekinga fundu þeir nálega ekki til, hvorki andlega né líkamlega. En framkoma hinnar stóisku heimspeki og hins óskiljanlega og í rauninni alveg ónáttúrlega tilfinningarleysis, sem hún leiddi til hjá játendum sínum, bendir þó á hinn bóginn skýrt á það, að manneðlið hið menntaða þoldi á þeim tíma ekki við fyrir sársauka. Það er flótti mannlegs eðlis undan sársauka lífsins.

boðskapinn um Jesúm Krist, þegar hann í andlegu og líkamlegu tilliti var farinn að finna eins mikið til eins og hann í sannleika gjörði á þessum tíma. Nokkrum öldum áðr en þetta merkilega menntalíf náði sér niðri í heiminum, og nokkrum öldum síðar, eftir að menntalíf þetta er hnigið í rústir, hefði sá boðskapr verið almenningi með öllu óskiljanlegr, hefði ekki getað náð sér niðri hjá þjóðunum, og það fyrir þá einu sök, að þær bæði fyr og síðar, fundu svo lítið til. Guð bíðr með sending sonar síns í heiminn þangað til þessi merkilega grísk-rómverska menntan hefir fullkomlega náð sér þar niðri og manneðlið fyrir hana er búið að fá svo mikla tilfinning inn í sig, að það veit af frelsisþörf sinni og hefir þar með fengið hæfilegleik til að skilja og meðtaka allsherjar-sársauka- og sælu-erindi kristindómsins. Og guð bíðr með að láta rómverska heimsríkið líða undir lok, hníga fyrir hinum hálfvilltu, harðvítugu og tilfinningarlausu nágrannaþjóðum, þangað til kristindómrinn er búinn að leggja þennan sama rómverska menntaheim andlega undir sig og þar með áþreifanlega sýna, að hann er af guði sjálfum ákvarðaðr til að vera alheimstrúarbrögð. Þegar Grikkir hnigu fyrir Rómverjum, þá var gríska menntanin orðin svo sterk, að sigrvegararnir, Rómverjar, urðu andlega að beygja sig fyrir henni. Og þegar Rómaveldi féll fyrir hinum hálfvilltu nábúaþjóðum, þá var þó eitt andlegt afl til í hinu hnígandi heimsríki, sem þessar þjóðir nauðugar viljugar hlutu að beygja sig fyrir, — kristindómrinn.

Kristindómrinn er hin fullkomna opinberan guðs, ákvarðaðr til þess að vera alheimstrúarbrögð, og þess vegna líka hafandi í sér hæfilegleik til þess að fullnægja þjóðum og einstaklingum á hverju menntunarstigi, sem vera skal. Aðalmarkmið kristindómsins er að gjöra manninn sælan, sælan í guði, út af frelsi því frá synd og dauða, sem er í Jesú Kristi. Og sú sæla er þess eðlis, að hana getr maðrinn eignazt og notið hennar í lægsta og ófullkomnasta menntunarástandi og alveg eins í hæsta og fullkomnasta menntunarástandi. Með tilliti til annars lífs eða eilífðarinnar þurfa líka allir vitanlega jafnmikið á kristindóminum að halda. En þegar um þetta líf er að ræða, þá má með fullum rétti segja, að þörfin á sælu þeirri, sem liggr í kristindóm-

inum, sé ekki eins mikil, eða að minnsta kosti ekki eins brýn og auðsæ og áþreifanleg hjá öllum. Þjóðunum, sem mestrar menntunar njóta, liggr áreiðanlega mest á kristindóminum og þeirri sælu, sem honum er samfara, fyrir þetta líf. Og því hærra, sem hver einstakr maðr stendr í þekkingarlegu eða menntunarlegu tilliti, því meira ríðr honum á kristindóminum og þeim sæluauka, er þaðan kemr, fyrir þetta líf. — Það lætr, býst eg við, í eyrum sumra kristinna manna eins og villukenning eða vitleysa, þetta; en það er sannleikr alveg eins fyrir því. Það stendr ljóst fyrir hinum guðinnblásna spekingi, sem til sín lætr heyra í Prédikarans bók í gamla testamentinu, að með því að auka þekking sína, lyftast svo og svo hátt í menntalífsáttina, með því einu út af fyrir sig auki maðr aðallega raunir sínar, svo stórvægilega, að þá fyrst verði lífið að ömurlegum hégóma og sárri kvöl. Og það sýnist hafa staðið nálega jafnljóst fyrir meðvitund mestu spekinganna, sem uppi voru í heiðna heiminum undir grísk-rómversku menntaninni, þegar hún stóð sem hæst. Eg vil þar til nefna annan eins mann og Tacítus, hinn fræga rómverska speking og sagnaritara á síðara hluta fyrstu aldarinnar eftir Krists fæðing, hinn síðasta stóranda í þeim bókmenntaheimi. Öll gæði hins þá veranda heiðna menntalífs lágu opin fyrir honum. Stórauðugr var hann; hálærðr og hámenntaðr var hann; virðingamaðrinn mesti og glæsilegasti á sinni tíð; göfugustu og fegrstu dyggðahugsjónir lífsins vöktu fryir anda hans; heimilislífið hans eins ánægjulegt eins og nálega var unnt að hugsa sér. Og þó að voðalegt eymdardjúp væri til rétt fyrir augum hans og allra í menntalífi aldarinnar, þrælahaldið og allar þær hörmungar, sem áttu heima í lægsta lagi mannfélagsins, hjá mönnunum, sem enn ekki nutu neinna eiginlegra mannréttinda og voru skoðaðir eins og dýr, þá fór það allt hér um bil algjörlega fram hjá honum eins og öllum öðrum, sem heyrðu hinum menntaða flokki til. En hve sárt hann samt sem áðr finnr til mitt uppi í velsælu rómverska menntalífsins! Hvað sáran sting hann gengr með í hjartanu út af ógæfu þeirri, sem liggr í loftinu uppi á hinum háu menntalífsstöðvum hans sjálfs og samtíðarmanna hans! Hve sárt hann saknar hinnar fornu tíðar í sögu hins

kæra föðurlands síns, þegar menntanin var í barndómi og menn voru svo miklu nær því að vera börn náttúrunnar! Og þegar hann lítr út fyrir menntaheiminn rómverska á sinni tíð til hinna menntunarlausu, hálfvilltu þjóðflokka í norðurátt, Þjóðverja, sem Rómverjar áttu þá allt af annað veifið í ófriði við og kepptust svo mjög við að smala inn í heimsríkið sitt, hvað hann þá hefir lifandi tilfinning fyrir því, að í rauninni sé þó það fólk svo margfalt sælla í sínu menntunarleysi og náttúrulífs-ástandi heldr en allir þeir, sem nutu gæða rómversku menntunarinnar. Og þessir Þjóðverjar, sem þá voru uppi og sem Tacítus er um að hugsa, það var nú í rauninni alveg samskonar fólk eins og forfeðr vorir í Norvegi og á Íslandi um það leyti. sem kristindómrinn níu öldum síðar kom til þeirra, Sæla slíks lífs, ef sælu skal kalla, er aðallega fólgin í því, að menn finna svo undr lítið til bæði í líkamlegu og andlegu tilliti. Og þeir finna svo lítið til af því, að enginn eiginlegr eldr til menningar og framfara hefir enn verið borinn inn til þeirra og þá ekki heldr tekinn til að brenna í samvizku þeirra og lífi. Það getr verið fullkomin ástæða til að halda þeirri sælutegund hjá sér eða eignast hana þangað til menn eiga kost á þeirri sérstöku sælu, sem kristindómrinn hefir meðferðis og býðr mönnum upp á.

En kemr þá ekki kristindómrinn með eld, brennanda eld, inn í mannkynssöguna? Vissulega. Eg er hvað eftir annað hér á undan búinn að gefa það í skyn, að kristindómrinn sé greinilegasti sársauki. Eg hefi gengið út frá því eins og nokkru alveg sjálfsögðu, að manneðlið sé út af kristindóminum farið að finna svo margfalt meir og sárar til heldr en áðr. Og eg held því fram eins og nokkru ómótmælanlegu, að þeir menn allir, sem kristindóminn meðtaka, fái þar með makalausan sársauka inn í líf sitt. "Eg er," sagði Jesús Kristr sjálfr, "kominn til þess að senda eld á jörðu" (Lúk. 12, 49). Og rétt í því frelsarinn var að koma fram í Ísrael, sagði Jóhannes skírari samtíðarmönnum sínum og lærisveinum það fyrir: "Hann mun skíra yðr með heilögum anda og eldi" (Matt. 3, 11). Saga aldanna, sem síðar eru liðnar, er óslitinn, áframhaldandi vitnisburðr um sannleik þessarar yfirlýsingar og þessa spádóms. Spádómr þessi hefir

allt af verið að rætast. Kristindómrinn hlaut að verða eldr í heiminum. Kristindómrinn þýddi það, að guð var mönnum opinberaðr í fylling kærleika síns og heilagleika. Sú opinberan þýðir eld brennanda. Mannshjörtun öll taka til að brenna, þegar þau vita af guði hjá sér og í sér. Menn hugsuðu um guð eins og eld við brennifórnirnar á gamla testamentisins tíð. Guð talar til Mósesar úr hinum loganda þyrnirunni, þegar hann kallar hann til hinnar miklu sendifarar til Egyptalands og býðr honum í sínu nafni að hrífa lýð sinn út úr eymdinni og ánauðinni þar og koma honum á stað til hins fyrirheitna lands. Guð fylgir sraelsmönnum á eyðimerkrför þeirra í og með hinu eldlega skýi, sem allt af var í augsýn. Þessi yfirnáttúrlegi eldr er tákn þess, að hinn heilagi kærleikrinn er með í þessari sögu og stýrir henni. Guð fann ekkert eins hæfilegt tákn í ríki náttúrunnar upp á sjálfan sig eins og eldinn. Hvað í því tákni lá, skyldu menn víst ekki nema að litlu leyti þá, að minnsta kosti ekki almenningr. En þegar hinn fyrirheitni Messías, drottinn vor Jesús Kristr, er kominn fram í sögunni með þessa yfirlýsing: "Eg er kominn til að senda eld á jörðu", þá eiga allir að geta skilið það tákn. Guðs kærleikr í allri hans dýpt og hæð, breidd og lengd, blasir nú við heiminum. Og út af þeirri opinberan eiga öll mannshjörtu að geta farið að brenna. Hér er kominn sá kærleikseldr, sem brennt getr sigg tilfinningarleysisins burt úr hverju einasta mannshjarta. Eldr — að því leyti, sem hver einstakr, er kristindóminn meðtók, fann nú svo sárt til syndaeðlis síns og hinna einstöku synda sinna. Eldr — að því leyti, sem menn vissu nú af guði í hans kærleik og náð svo nálægt sér. Eldr sársaukans — út af því, að menn fundu nú ekki að eins til sinna eigin persónulegu synda og sorga, heldr líka til þess, sem á sama hátt gekk að öllum hinum mannslífunum. Öll hin óteljandi mannslíf í öllum áttum tilverunnar með þeirra syndum og sorgum og öllum hinum dýpstu þörfum þeirra eru í persónu frelsarans og opinberan kristindómsins knýtt saman í eitt. Hann líðr og deyr til þess að frelsa þau öll. Þeir allir, þessir óteljandi menn, eiga að verða lifandi limir á þeim andlega líkama, sem hann er höfuðið á. Svo nú er ekki lengr að eins að hugsa um það, sem gengr að hverjum

einstökum og næstu ástvinum hans, heldr líka um það, sem hinir allir nær og fjær í heiminum hafa til brunns að bera af líkamlegu og andlegu böli. Og ekki að eins að hugsa um það böl, þá synd og neyð, sem þessir óteljandi í heiminum fyrir utan mann hafa hugmynd um hjá sjálfum sér og kveljast af, heldr líka um það böl að því leyti, sem hinir eiginlegu eigendr þess eru algjörlega tilfinningarlausir út af því. Þvílíkr dæmalaus sársauki það er, sem inn í mannkynssöguna er kominn með kristindóminum! Þegar elsku Jesú Krists er úthelt yfir mannshjörtun, hvað makalaust mikið þau hjörtu þá hljóta að finna til!

Menn sleppa að sjálfsögðu við þann sérstaka mikla sársauka, sem trúnni á Jesúm Krist er samfara, með því að varna kristindóminum inngöngu í hjarta sitt. Og það er enginn minnsti vafi á því, að út af hræðslu við þann sársauka, sem vér getum kallað Krists kross, hafa heilir hópar fólks bæði á fyrri og síðari tímum verið ófáanlegir til að ganga inn í ríki Krists, og heilir hópar fólks sömuleiðis stokkið út úr því, hætt að vera kristnir menn. En mannlífið jarðneska nú er verra viðreignar í heiminum en nokkru sinni áðr. Manneðlið í menntalöndum heimsins hefir sem sagt aldrei fundið eins mikið til eins og nú. Og þó menn flýi út úr kristninni til þess að komast hjá þeim sérstaka sársauka, sem þar mætir öllum, þá er heilt haf af sársauka þar fyrir utan, sem ómögulegt er hjá að komast. Því menningareldrinn logar í öllum áttum, og út af þeim eldi er tilfinningin í mannlegu eðli fyrir óþægindum og böli lífsins orðin svo afar rík. Menn þyrftu því að flýja enn lengra en út úr kristninni til þess að komast hjá sársauka lífsins. Menn þyrftu algjörlega að flýja út úr öllu menntalífi, komast á það stig, sem forfeðr vorir stóðu á í heiðni, verða aftr að börnum náttúrunnar, eða jafnvel algjörlega verða að dýrum. Um eitthvað svipað var Rousseau að hugsa, þegar hann á 18. öldinni bar sitt náttúrulífs-evangelíum fram fyrir hina frakknesku þjóð og heiminn yfir höfuð að tala. Hann ætlaði með þeim boðskap að slökkva menntunareldinn, sem þá brann svo tilfinnanlega á arni þjóðanna. En það misheppnaðist. Út af þeirri kenning kviknaði nýr eldr, hinn hræðilegi eldr, sem logaði upp úr þjóðarhjartanu í hinni miklu frakknesku stjórnarbylting 1789 og

næstu árum. Um eitthvað svipað hefir anarkista, sócíalista og nihilista þessarar aldar verið að dreyma. En út af því hefir ekkert annað komið en ný illvirki, nýr sársauki, nýr kvala- og eyðileggingar-eldr. Um eitthvað svipað eru víst hinir svo kölluðu *"naturiens"* á Frakklandi að hugsa á yfirstandandi tíð. Það er flokkr einn, sem með fyrirliða þeim, er Gravelle nefnist, hefir komið sér saman um að taka sig út úr nútíðar-menntalífinu, mynda náttúrulífs-nýlendu út af fyrir sig, þar sem þeir verklega ætla að sanna heiminum, "að skuldbinding sú til að vinna, sem liggr á öllum þeim, er eignalausir fæðast, er ekki annað en óeðlileg og ranglát hefðarkvöð". Þeir ætla sér að flýja burt frá þrautum og sársauka menntalífsins, en komast vafalaust bráðum að þeirri niðrstöðu, að þeir geta það ekki og að engin slík paradís er framar til á jörðu eins og þá er að dreyma um. Og loks skal eg nefna eitt, þótt lítilfjörlegt sé, sökum þess það liggr oss Íslendingum nær en allt hitt. Það er draumrinn, sem einn Kaupmannahafnar-Íslendinginn, Þorstein Gíslason, dreymdi um árið út af því, hve sælir menn myndi verða, ef menn að eins fengist til þess að hætta að ganga uppréttir og færi eins og aðrar skepnur að ganga á fjórum fótum; — sæludraumr, sem honum fannst svo mikið um, að hann áleit það ómissanda, að hann birtist íslenzku þjóðinni í "Sunnanfara". Eg hefi áðr opinberlega minnzt á þetta "fenomen" í nútíðarbókmenntum vorum eins og aðra hlægilega vitleysu. En eg hefi síðan séð, að það er ekki tómt hlátursefni. Það er vitleysa, sem er mjög alvarleg. Og þess vegna nefni eg hana aftr á ný. Það er játning úr vantrúaráttinni um það, að ekki sé til neins fyrir neinn mann á vorri tíð, að flýja að eins út úr kristinni kirkju til þess að komast hjá sársauka lífsins. Menn verða líka að flýja út úr menntalífinu, og jafnvel út úr mannheimum, hætta að vera menn, stíga algjörlega niðr í dýraríkið. Það er vitnisburðr um það, hvað íslenzka menntanin er komin langt í einni sérstakri átt þjóðlífs vors. Það er spádómr frá einu hinna ungu og upp rennandi skálda vorra um það, til hverra óyndisúrræða fólk það, er ekki fæst til þess að meðtaka kristindóminn, muni í framtíðinni hljóta að grípa, ef það eigi að geta af borið sársauka heimsmenningarinnar.

Eldrinn eða eldleysið er mælikvarði fyrir menningarástandið í heiminum. Og svo er það þá einnig að því, er vora litlu íslenzku þjóð snertir. Og með tilliti til Íslendinga sýnist meira að segja mega hafa eldinn í bókstaflegum skilningi, hinn náttúrlega eld, að því leyti, sem hann hefir verið leiddr inn í húslíf almennings, fyrir mælikvarða, þegar um það er að ræða, hvað langt eða stutt þessi sami almenningr er kominn inn í heimsmenning nútíðarinnar. Það er eldhús til á hverjum einasta bæ á Íslandi, alveg að sjálfsögðu. En það má segja eins fyrir því, að alþýða þar hafi ekki nema að hálfu leyti fengið eld, náttúrlegan eld, hjá sér kveyktan, og naumast einu sinni það. Meginþorri hinna eiginlegu íbúðarhúsa á Íslandi er enn ofnlaus; eldrinn ekki notaðr húsunum til upphitunar. Hitinn, sem notaðr er í almennum íslenzkum baðstofum, er, eins og þér vitið, fram leiddr á allt annan hátt. — Þegar eg ekki fyrir fullum sjö árum skrapp heim til Íslands, fór eg meðal annars yfir þvera Þingeyjarsýslu, sem hefir orð fyrir að vera sú sýsla landsins, sem einna lengst er komin í menningarlegu tilliti. Það var um haust, en tíðarfarið þá eins og um hávetr væri. Jörð alsnjóa og napr kuldi í loftinu. En ekki kom eg nema inn í einn einasta bæ til sveita, þar sem lagt væri í ofn, og það af þeirri góðu og gildu ástæðu, að hvergi nema á þeim eina bæ var ofn til. Og svo gestrisið og góðviljað sem fólkið er og reyndist mér, þá gat eg ekki notið þess fyrir sakir ónota þeirra, sem ofnleysið í húsunum hafði í för með sér. Svona var það um allt land, þegar eg var að alast upp, og svona mun það að miklu leyti vera hjá alþýðu manna á Íslandi þann dag í dag. — Þetta ástand í húslífi almennings á Íslandi bendir á það, að þjóðin þar heima eigi enn þá býsna langt í land með að komast inn í það, er vanalega er kallað menntað líf. Þrátt fyrir alla Kaupmannahafnarmenntanina, sem ráðið hefir yfir þjóðlífi Íslendinga um hinar mörgu liðnu aldir, og öll þau andlegu útbú, sem hún hefir komið upp í landinu sjálfu, er menntalífsstraumrinn ekki kominn lengra en það, að þjóðin sitr enn í ofnlausum, óupphituðum húsum! — Eg er nú að vona, að menntastraumarnir, sem koma til Íslands, frá Norvegi, Bretlandi og jafnvel frá Ameríku, verði bráðum svo sterkir, að þeir beri eintrjánings-

menntanina frá Kaupmannahöfn algjörlega ofurliði. Og þá fá Íslendingar yl og eld inn í sín íbúðarhús eins og hvert annað "cíviliserað" fólk. Og þó að þeir, sem nú ráða ríkjum þar heima, kunni að segja, að þetta sé stolinn eldr, úr því hann ekki kom Kaupmannahafnarveginn, þá gjörir það ekki lifandi ögn til. Alþýða mun fagna yfir hinum auknu lífsþægindum og hinum nýja sæluauka. En það geta hins vegar allir verið vissir um, að þessi eldfengr menntunarinnar verðr þjóðinni verulegr sársauki. Alþýðan öll fer að finna eins mikið til út af því, sem að er í lífinu, eins og þeir tiltölulega fáu nú, höfðingjarnir, sem kallaðir eru, sem þegar hafa fengið eld fluttan inn til sín og lifa að vetrarlagi í notalegum ofnhlýindum. Og þegar öll þjóðin er búin að fá eldinn inn til sín og þann sársauka, sem honum er samfara, þá ríðr henni fyrir þetta líf meira á því að vera kristin þjóð heldr en nokkurn tíma áðr. Henni ríðr á sælunni úr kristindómsins átt til þess að sársauki hins menntaða lífs ekki gjöri út af við hana. Og það er lífsspursmál fyrir þjóðina, að vera búin að fá lifandi kristindóm inn í sig áðr en hún fyrir fullt og allt kemst inn í heimsmenninguna.

Það brot af íslenzku þjóðinni, sem nú á heima vestan hafs hér í Ameríku, er vitanlega miklu meir en fólkið heima á Íslandi orðið hluttakanda í nútíðarmenning heimsins. Og þarf í því tilliti að eins að minnast á það, sem getr virzt smá-atriði, en er í rauninni stór-atriði, að hér er ekki eitt einasta íslenzkt hús eða hreysi ofnlaust. Eldr til upphitunar og allra þeirra lífsþæginda, sem þar með fylgja, á hverju einasta heimili. Sá eldr bendir á nærri því óteljandi gæði og lífsþægindi, er vér allir njótum fram yfir það, sem almenningr hefir enn af að segja á Íslandi. En vér finnum allir að sama skapi meira til út af ýmsu og ýmsu en vér gjörum meðan vér sátum heima. Kröfurnar til lífsins meiri. Þarfirnar fleiri. Og þær fara sívaxandi. Nýr og nýr sársauki með hverju spori, sem vér stígum lengra áfram in í heim menningarinnar. Og þegar svo er komið, þá er sýnileg og áþreifanleg ástæða fyrir allt vort fólk hér til þess, að halda dauðahaldi í kristindóminn, lífsspursmál að hafa þá andlegu stofnan hjá sér, sem flutt getr inn í hús og hjörtu

manna þá sælu, sem yfirgnæfir allan bæði nýjan og gamlan sársauka lífsins.

Kristin kirkja er nú vitanlega þvílík stofnan. Fyrir tilveru hennar hjá yðr eigið þér kost á því, að halda hjá yðr sælunni, sem syndugum mannheiminum er veitt með Jesú Kristi. Og ekki einungis hjá sjálfum yðr, heldr líka tryggja kynslóðinni, sem á eftir yðr kemr, þessa sælu. — Hlynnið þá að kirkjunni yðar af öllum mætti. Henni einni er til þess trúanda, að sækja hinn guðlega eld og flytja hann inn í hús manna þeim til eilífs sæluauka. — Munið eftir, hvernig fór fyrir þeim Ásu og Signýju í æfintýrinu, þegar þær áttu að sækja eldinn. Helga ein er hæf til slíkrar eldsóknar. Það er eitt af heiðrsnöfnum kristinnar kirkju, að hún heitir *hin heilaga* — Helga. Hafið hana ekki út undan. Sjáið ekki ofsjónum yfir því, sem þér þurfið að leggja fram henni til lífsviðrværis.

# "Eitt er nauðsynlegt"

Er þá ekki nema eitt nauðsynlegt? Er ekki margt nauðsynlegt? Eru ekki óteljandi nauðsynjar manna? Allt í heiminum er á ferð og flugi og mannslífið með. Um leið og hið sí-veltandi hjól tímans rennr áfram koma nýjar og nýjar lífsnauðsynjar í ljós. Ný og ný nauðsyn skapast svo að segja við hvert nýtt fótmál, sem vér stígum áfram. Barnsaldrinn hefir sínar sérstöku nauðsynjar, únglingsaldrinn sínar, fullorðins-árin sínar, ellin sínar. Og þarfirnar eðr nauðsynjarnar breytast allavega á hverjum aldri fyrir sig eftir mismunandi ástæðum, mismunandi stöðu manna. Nauðsynjar fátæklingsins eru öðruvísi en nauðsynjar auðugs manns; nauðsynjar sjúklingsins eru ekki nauðsynjar þess, sem er heill heilsu. Og með menntaninni verða til nýjar nauðsynjar. Maðr, sem talsverðrar menntunar hefir notið, þykist margs við þurfa og þarf margs við, sem alveg ómenntuðum manni sýnist sér alveg ónauðsynlegt og sem líka er honum alveg ónauðsynlegt. Eins hefir og t. a. m. verzlunarmaðrinn sínar sérstaklegu þarfir, bóndinn sínar, sjómaðrinn sínar o. s. frv. Og hversu lítið sem lífið breytist, þá verðr við það eitthvað nýtt nauðsynlegt, sem ekki var áðr, og hin nýja nauðsyn heimtar, að úr henni sé bætt. Það er stór-mikil breyting, sem verðr á lífi manna við það að taka sig upp frá fósturjörð sinni og setjast að í fjarlægu landi, þar sem landshagir, lifnaðarhættir, stjórnarskipan, tungumál er allt annað en þeir áðr þekktu. Við slíka breyting kannast allir, sem flutzt hafa handan yfir hafið hingað til Vestrheims, Íslendingar eigi síðr en aðrir. Og slík stórkostleg lífsbreyting hefir eðlilega stór-mikið af nýjum nauðsynjum í för með sér. Fólki voru heima á Íslandi er nauðsyn á mörgu og miklu, sem mönnum er ekki þörf hér í landi; en aftr á hinn bóginn eru fyrir mönnum hér risnar upp margskonar mikilsvarðandi þarfir, sem menn ekki fundu til og ekki höfðu heima fyrir. Fyrir fólki nýkomnu hingað til lands, efnalausu, eins og allr þorri þess er, er fyrsta nauðsynin að koma svo ár sinni fyrir

borð, að það geti lifað; lengra ganga kröfurnar eigi fyrir flestum fyrst í stað. Er nokkra lífvænlega atvinnu að fá? Það er fyrsta spurningin. Svo fer óðum nýtt og nýtt að verða nauðsynlegt: að læra hið almenna tungumál landsins, enskuna, að nema hérlendan verknað, að græða dálítið fé, að eignast bújörð, hús og heimili, að komast svo áfram, að maðr geti staðið jafnfætis innlendu fólki, og þaraf leiðandi að ná hérlendri menntan, að fá skólagang fyrir æskulýðinn, hafa sitt eigið fréttablað, komast inn í stjórnmál þessa frjálsa lands og jafnvel ná í embætti, og yfir höfuð komast inn í hverja þá stöðu í mannfélaginu, sem hvers eins hugr og hæfilegleikar helzt standa til. Enginn getr neitað því, að allt þetta getr verið og er Íslendingum í Ameríku nauðsynlegt. Á Íslandi eru náttúrlega aðrar nauðsynjar ofan á. Það, sem þar er sérstaklega talið og ugglaust er brýn nauðsyn fyrir þjóðina á þessum tíma, er meðal annars þetta: að meira stjórnfrelsi fáist, að búnaðrinn taki framförum, að verzlanin komist í hendr landsmanna sjálfra, að mönnum notist til hlítar sínar eigin fiskiveiðar, að þrifnaðr og híbýlaprýði verði meiri en almennt er enn, að læknamál landsins færist í betra horf, að samgöngur verði margfalt greiðari en er bæði á sjó og landi, að upp komi innlendr iðnaðr, að betri og meiri skólamenntan fáist bæði fyrir alþýðu og embættismanna-efni. Allt eru þetta vitanlega nauðsynjar. En engar af þessum nauðsynjum fyrir fólk vort hér í landi eða á Íslandi standa við í stað. Þær eru allt af smásaman að breytast. Vér lifum óneitanlega á frelsisöld og upplýsingaröld, hvað sem annars má finna að þessum tíma, og á slíkri öld vaknar meðvitundin eða tilfinningin fyrir því, að mönnum sé margt nauðsynlegt, sem, ef til vill, engum datt í hug sem nauðsyn meðan minna bar á frelsi og upplýsing. Þannig er margt nauðsynlegt á Íslandi nú, sem ekki þótti og jafnvel eigi var það áðr. Og hér meðal Íslendinga í Ameríku kemr allt af upp fleira og fleira, sem mönnum virðist sér og sínu fólki nauðsynlegt, og sem líka í sannleika er það. Margir ætla, að ef úr þessum nauðsynjum er bætt fyrir þjóð vorri hér og að sínu leyti eins heima á Íslandi, þá renni upp gullöld og sólöld á hvorum staðnum fyrir sig. En á hinn bóginn sjá menn, að þó að

margt það, er almenningi virtist og var nauðsynlegt að fá fyrir ekki mörgum árum, sé nú fengið, þá er ánægja almennings með hag sinn varla neitt meira en áðr; menn eru ekki sýnilega neitt sælli fyrir hið núveranda hlutskifti sitt heldr en menn áðr voru fyrir það, er þá var. Sjóndeildarhringrinn er ávallt óbreyttr fyrir þeim manni, er hvergi færist úr stað; en jafnóðum og maðr færist úr stað, breytist sjóndeildarhringrinn; en hann er eins stór og áðr, og hversu langt sem maðr ferðast, þá er depill sá, þar sem himinn og jörð sýnast ná saman, einlægt jafnlangt í burtu. Meðan maðr er barn ímyndar maðr sér, að sá depill standi kyrr og á hann sé hægt að komast, en með aldrinum sannfærist maðr um hið gagnstæða. Eins virðist oft, meðan maðr hugsar eins og barn og vonar eins og barn, að ef tekst að bæta úr yfirstandandi mikilvægum nauðsynjum, þá komist lífið á hinn eftirþráða, ímyndaða depil, þar sem himinn og jörð renna saman í eitt, að hið eftiræskta endimark hamingju og sælu náist, og þá geti allir orðið ánægðir. En þessi ímyndaði jarðneski sælublettr næst aldrei; hann flytr sig einlægt á undan manni um leið og manni þokar áfram. Gullöldin og sólöldin eru allt af í fjarska, yzt í sjóndeildarhringnum. Þegar fólk vort er orðið auðugt að fé, hér eða á Íslandi, þá er fengið afl þeirra hluta, sem gjöra skal, og þá er því sannarlega gullöld upprunnin — hugsa sumir. Og þegar upplýsing og menntan er komin í æskilegt horf fyrir þjóð vorri beggja megin hafsins, þá vita menn, hvernig verja á auðnum til að bæta úr nauðsynjum almennings, og þá er sólöld hinnar íslenzku þjóðar komin. Það getr verið, og þess er vissulega óskanda, að þjóð vor á ókomnum tíma verði auðug að fé í samanburði við það, sem nú er; og það getr verið, og þess er eigi síðr óskandi, að hún nái langtum hærra stigi í menntan og upplýsing en enn er orðið. En af því að nýjar nauðsynjar koma ávallt í ljós við hvert nýtt fótmál áfram, sem lífið heimtar að úr sé bætt, þá kemr hin ímyndaða jarðneska sælutíð, sem gullöld er kölluð, aldrei, og hin eftirþráða jarðneska sólöld verðr allt af langt, langt í burtu.

"Þú hefir mikla áhyggju og umsvif fyrir mörgu, en eitt er nauðsynlegt" — segir frelsari heimsins, frelsari vor, drott-

inn Jesús Kristr (Lúk. 10, 41). Það er eitt, sem allt af er jafnnauðsynlegt ein nauðsyn, sem aldrei breytist, hvernig sem ástæður lífsins breytast, hvernig sem veröldin veltist. Sú nauðsyn er ávallt hin sama, hvar sem maðrinn er staddr, í æsku eða elli, í fátækt eða auðæfum, í upphefð eða niðrlæging, á frelsisöld og ófrelsisöld, á upplýsingartíma og fáfræðistíma, á Íslandi eða í Ameríku eða í hverju öðru landi heimsins sem vera skal. Og hver er sú nauðsyn? Það er að sitja við fætr frelsara síns eins og María forðum og hlýða með samskonar hug og hún á kenning hans. Eitt er nauðsynlegt, ávallt jafn-nauðsynlegt, að hafa ljós hins kristilega sáluhjálparorðs til að lýsa sálu sinni við hvert fótmál í lífinu og dauðanum. Kristindómrinn er hin eina, sanna, ávallt óbreytanlega nauðsyn mannanna.

Á frelsisöld og í frelsislandi er lífsnauðsyn á þeim anda inn í hjörtu mannanna, sem leiðir þá til þess að nota frelsið rétt, sér og öðrum til blessunar. Á ófrelsisöld og í ófrelsislandi er lífsnauðsyn á þeim anda, sem gefr mönnum kraft til þess að bera sína ófrelsisfjötra með þolinmæði, svo lengi sem þá verðr að bera. Á upplýsingaröld er með öllu ómissanda sú speki, sem kennir mönnum að beina upplýsingunni og mentaninni í rétta átt, að hún ekki verði að villuljósi, er kemr mönnum út á kaldan klaka. Á öld fáfræðis og vanþekkingar þarf á þeirri speki að halda fyrir hvert mannsbarn, sem sýnir mönnum guð og himininn, þó að handaverk hans hér niðri sé að mestu leyti óþekkt og órannsökuð. Þegar auðr og upphefð gleðr mannshjartað, þá þarf að heyrast rödd, sem segir: “Einber hégómi — þetta er allt saman hégómi”. Og þegar maðrinn er staddr í fátækt og niðrlæging, þá er honum fremr öllu þörf á rödd, himneskri, almáttugri, kærleiksfullri, sem við hann segir: “Komið til mín, allir þér, sem erviðið og þunga eruð hlaðnir; eg vil gefa yðr hvíld.”

Kristindómrinn er þessi andi, þessi speki, þessi rödd. Sá, sem sitr við fætr frelsara síns, auðmjúkr, iðrandi, trúaðr, biðjandi, og hlýðir kenning hans, hann öðlast þennan anda, eignast þessa speki, heyrir þessa rödd. “Hver sem drekkr af þessu vatni”, sagði Jesús við konuna samversku við Jakobs brunn hjá Sykar (Jóh. 4, 13), “hann mun þyrsta aftr; en hinn,

sem drekkr af því vatni, er eg mun gefa, mun að eilífu ekki þyrsta, heldr mun það vatn, sem eg mun gefa honum, verða í honum að lind, uppsprettandi til eilífs lífs". — "Gef mér þetta vatn", sagði konan, svo mig þyrsti ekki framar." Ó, að hvert eitt mannsbarn þjóðar vorrar heima og hér í dreifingunni stæði við brunninn, um leið og það er að berjast fyrir tilveru sinni, framförum sínum, menntan sinni, vellíðan sinni, við brunn kristindómsins, segjandi, biðjandi með hinni samversku konu: "Gef mér þetta vatn."

"Eitt er nauðsynlegt" — þetta eina, að leiða allan lýð að lífsins vötnum kristindómsins, til þess að þegar allar aðrar svalalindir þorna upp eða geta ekki lengr tekið af mönnum þorstann — heilbrigði, vinsældir, upphefð, auðlegð, menntan, borgaralegt frelsi —, þá hafi menn samt svölun, ánægju, frið, sem heimrinn getr ekki gefið.

Það, sem helzt er verið að berjast fyrir af fólki þjóðar vorrar beggja megin hafs, eins og af fólki annarra þjóða, auðr, menntan, frelsi o. s. frv., er óneitanlega stór-mikils virði. Það eru gæði, sem drottni er hjartanlega þakkanda fyrir, ef fengizt geta. En þessi gæði verða öll eða geta öll orðið að óblessan, að vopnum til dauða, í höndum þess manns, þeirrar þjóðar, sem er kristindómslaus. Vér höfum enga trygging fyrir því, það eru engin líkindi til þess, að þjóð vor verði neitt sælli hér eða á Íslandi fyrir vaxanda auð, menntan, frelsi eða stundlega velmegun yfir höfuð, nema með því einu móti, að hún hafi kristindóminn fyrir sitt lífsakkeri. "Eitt er nauðsynlegt" — þetta eina er oss nú sérstaklega nauðsynlegt.

"Syndin er lands og lýða tjón." Ef engin mótspyrna er gegn syndinni, ef ekkert afl er í mannlífinu henni sterkara, þá treðr hinn einstaki maðr og almenningr vísan veg til heljar, grefr sína eigin gröf, hversu mikið sem framförum til auðs, menntunar, frelsis o. s. frv., þokar áfram. En það afl er, guði sé lof, til, sem á stað getr komið þeirri mótspyrnu og orðið syndinni yfirsterkara; það er kærleiksafl kristindómsins, náð guðs í Jesú Kristi. Og vantrúin, átumein mannlífsins, þjóðlífsins, heimslífsins, ormrinn, sem etr hjartað, slítr sundr hjartarætrnar — það er hún, sem er synd allra

synda. "Eitt er nauðsynlegt" — það að brenna hana burt úr lífinu, hjartanu. "Brann ekki hjarta okkar í okkr meðan hann talaði við okkr á veginum og útlagði fyrir okkr ritningarnar?" sögðu hinir tveir lærisveinar Jesú á kvöldi upprisudags meistara þeirra forðum. Kvöld má ekki yfir oss koma fyr en vér getum sagt hið sama. Æfidagr hins einstaka manns má ekki enda fyr en hann sér eilífðarljósið Jesú Krists og elskar það eins og sinn augastein.

Meðan ekkert sérlegt amar að í mannlífinu jarðneska, meðan tómt meðlæti blasir við, sýnist oft svo að segja allt vera nauðsynlegt nema það eitt að láta kristindómsorðið lýsa sér. Hin jarðneska birta er svo mikil, að ljósið af hæðum, ljósið á himinfestingunni, hverfr eða sézt svo dauft. En þegar dimmar af nótt, þegar mótlæti, mæða, kross, tár og dauði krepp að, þá er hið himneska ljósið sýnilegt, þá er öllum mönnum skiljanlegt, að "eitt er nauðsynlegt".

# Menntan

Vér lesum í píslarsögu frelsara vors, að þá er fjandmenn hans komu í grasgarðinn Getsemane til þess að handtaka hann, þá hafi þeir meðal annars verið út búnir með blysum og skriðbyttum — það er sama sem: með kindlum og lampaljósum. Þetta var um nótt eða seint um kvöld, og fyrir þá sök þótti þeim ómissanda að hafa með sér ljós til þess að sjá til við handtökuna. Þetta atvik getr ávalt minnt kristna menn á einn sorglegan sannleika, þann sannleika, sem ekki hvað sízt er áþreifanlegr á vorri tíð, að upplýsing og menntan er iðulega beitt af mótstöðumönnum kristindómsins til þess að fá hann handtekinn, hnepptan í fjötra, upp rættan úr mannlegu félagi. Engan veginn er það þó vor ætlan, að sönn upplýsing og menntan sé í sjálfu sér kristindóminum andstæð, að sönn þekking á manneðlinu eða náttúrunni, að rétt eftirgrennslan þess, er mannlegr andi getr rannsakað, sé óvinr hinnar kristilegu opinberunar. Vér erum alls ekki

þeirrar trúar, þó sú trú hafi iðulega komið og komi enn iðulega fram í kirkjunni, að veraldleg menntan eða upplýsing hljóti endilega að vera banaspjót miðað á hann, sem sjálfr kallaði sig, og sem allir trúaðir kristnir menn kalla, ljós þessa heims. Vér lítum ekki svo á, að þó að brugðið sé hér upp mannlegu mennta-blysi, að þá sé það endilega gjört til þess, eða hljóti að sjálfsögðu að verða til þess, að lýsa mönnum við handtöku frelsarans, verða vopn í höndum manna gegn trú eða siðalærdómi kristindómsins. Vér höfum þvert á móti hina svo kölluðu veraldlegu upplýsing í mestu hávegum, teljum hana skynsemi gæddum verum alveg ómissanda, og vildum svo hjartanlega vita þjóð vora, svo fámenn sem hún er, að minsta kosti standa hverri annarri heimsins þjóð jafnfætis í menntalegu tilliti. Vér finnum einmitt sáran til þarfar á meiri upplýsing nú á þessari tíð fyrir þjóð vora bæði heima á Íslandi og hér í landi, því vér sjáum, að lífið, eins og það nú verðr að vera, gjörir kröfur til aukinnar menntunar fram yfir það, sem við mátti una áðr. Og gleðilegt er að vita til þess, að fólk þjóðar vorrar hefir í sannleika eins mikinn móttöku-hæfilegleika fyrir þekking og menntan eins og fólk þeirra þjóða, er fremstar þykja standa. Enda virðist það eigi síðr gleðiefni, að tilfinningin meðal hinnar íslenzku þjóðar er greinilega á þessum tíma að vaxa fyrir því að meira þurfi að gjöra almenningi til menntunar heldr en nokkru sinni áðr hefir gjört verið. En það er önnur nauðsynleg tilfinning, snertandi menntanina, sem því miðr of lítið virðist bera á meðal þjóðar vorrar. Það er tilfinning fyrir því, að menntan sú og upplýsing, sem nú er eign Íslendinga eða sem nú er verið að breiða út meðal þeirra, sé að allmiklu leyti í öfuga stefnu, hálf-menntan, sem ekki gjörir menn neitt hæfari fyrir skyldustörf daglega lífsins, oft jafnvel óhæfari fyrir þau, heldr en ef engin menntan hefði veitzt, og í annan stað dregr menn burtu frá því, sem — þegar allt kemr til alls — "Eitt er nauðsynlegt", burtu frá ljósi kristindómsins. Að slík öfug upplýsing, slík kristindóminum andstæð hálfmenntan, einnig að meiru eðr minna leyti á heima meðal annara þjóða er auðvitað satt, en það er oss engin bót í máli, enda átti það ekki eiginlega að vera umstalsefni vort nú.

Vér erum hér um það að tala, hvað að er fyrir oss með tilliti til upplýsingar. Og vér höfum þegar lauslega bent á, hvað að muni vera. Ef maðrinn fyrir þá upplýsing, sem hann hefir fengið, missir hæfilegleikann til að gegna störfum daglegs lífs, verðr óhæfilegri til að vinna á einhvern sæmilegan hátt fyrir daglegu brauði sínu, verðr gagnsminni fyrir borgaralegt mannfélag, eða ef hann verðr blindr fyrir ljósi því í andlegum efnum, sem kristindómrinn hefir meðferðis, þá verðr eigi annað séð, en að hann með menntan sinni hafi fengið sannarlegt villuljós. Auðvitað kemr oss eigi til hugar að segja, að skólamenntan sú, sem Íslendingar á þessum tíma njóta almennt, leiði af sér alla þessa súru ávexti. Eigi svo fáir af fólki þjóðar vorrar hafa á þessum síðustu tímum fyrir menntan þá, er þeim hefir veitzt, komið fram sem stór-uppbyggilegir menn í borgaralegu tilliti og sýnast í engu að hafa dregizt frá kristindóminum, heldr öllu fremr hið gagnstæða. En aftr virðast hinir svo margir, sem fyrir hina svo kölluðu upplýsing, er þeir hafa fengið, ekkert hafa grætt, en þar á móti mikið misst — ekkert grætt fyrir sitt líkamslíf, en mikið misst fyrir hið andlega líf sitt. Nú ef einstaklingrinn ekkert græðir fyrir sig á menntan sinni, þá græðir almenningr þess mannfélags, sem hann til heyrir, ekki heldr neitt á menntan hans. Og ef einstaklingrinn í tilbót verðr fyrir andlegum missi við þá menntan, sem hann fær, þá er það eigi síðr missir fyrir þjóðina, landið, mannfélagið, sem hann til heyrir. Brunnar þeir, sem þjóð vor hefir drukkið af í menntalegu tilliti í seinni tíð (sleppum því, hvað áðr hefir verið) hafa nú einmitt yfir höfuð verið þvílíkir, að sú menntan, er þar hefir fengizt, hefir borið og er þann dag í dag að bera þessa bágu ávexti. Eða mun duga að neita því, að þeir sé tiltölulega miklu fleiri nú, sem misfarast af skólagengnum Íslendingum, verða sér og öðrum til ónýtis, þjóð sinni til skaða og skammar, heldr en af þeim, sem aldrei hafa verið sendir á skóla eða settir til mennta? En svo bætist hér annað ofan á, sem verðr að hafa tillit til við þennan samanburð: Margir þeirra, sem misfarast án þess nokkurn tíma að hafa verið settir til mennta, týnast fyrir þá sök, að dæmi hinna, er menntaðir eru taldir, hefir dregið þá niðr á bóginn, því "hvað höfðingjarnir hafast

að hinir ætla sér leyfist það". Þegar hinn svo kallaði menntaði maðr t. a. m. hefir það upp úr menntan sinni, að honum þykir það vera fyrir neðan sig að vinna að líkamlegum störfum, eða hann verðr svo og svo hneigðr á óhóf, munað og prjál, eða tekr til að gefa kristindómskenningunni olnbogaskot, hvað er þá eðlilegra en að þetta dæmi hrífi manninn, sem enga, eða miklu minni, menntan hefir fengið, með sér og komi honum til að verða eins? Það er enginn vafi á því, að aldarfars-straumr sá, sem í andlegu tilliti rennr í gegn um hina íslenzku þjóð eins og hverja aðra þjóð, er nokkuð hefir af menntan að segja, á upptök sín hjá hinum menntuðu mönnum hennar. Og þá er auðsætt, hverja þýðing þær stofnanir hafa, þar sem þessir menn hafa fengið menntan sína. Ef hinn andlegi straumr, sem á þessum tíma gengr út frá þeim, er menntunar hafa helzt notið meðal þjóðar vorrar á Íslandi, er — eins og vér ætlum — miðr heilsusamlegr, þá kemr það, vitaskuld, af því að þessir menn hafa, þá er þeir áttu að vera að menntast, staðið við brunn með óhreinu, skemmdu, að einhverju leyti eitruðu vatni í. Brunnarnir þurfa að hreinsast, ef þeir eiga að gefa þjóðinni óskemmt vatn. Menntunarstefna sú, sem nú er ríkust meðal Íslendinga, þarf að breytast, ef hún á ekki að verða því, sem dýrmætast er, til ómetanlegs tjóns, eða jafnvel til dauða. Hvaðan er sú andlega alda runnin, sem nú gengr yfir Ísland og hina íslenzku þjóð, ekki einungis þar heima, heldr enn að miklu leyti einnig hér? Hvað er það, sem gallað hefir allt vort kirkjulíf og trúarlíf? Hvað veldr því, að nú ríkir svo víða meðal þjóðar vorrar kuldi og kæruleysi fyrir málefni kristindómsins? Það mætti segja, og það hefir oft verið sagt, að þessi andlega alda sé runnin út frá Reykjavík, aðalskólastöð, upplýsingarbrunni Íslands, og að sérstaklega sé það hinn svo kallaði "lærði" skóli landsins, sem mestan þátt eigi í því að gjöra þjóðina í andlegum efnum eins og hún er, að af því hið andlega andrúmsloft þar er mengað vantrú og kristindómsleysi, þá sé þar hin fyrsta orsök þess, að kirkjan og kristindómrinn stendr eins lágt og er meðal þjóðar vorrar. En oss er alveg óhætt að leita lengra að þessum upptökum til hins andlega ástands vors sem þjóðar í kristilegu tilliti heldr en til Reykjavíkr og "lærða" skólans

þar. Það er vitanlegt, að Reykjavík er ekki annað eða lítið annað en andlegt útbú eða afbýli frá Kaupmannahöfn, og að Reykjavíkr-skólinn "dependerar" greinilega í andlegu tilliti af Dönum og sérstaklega af háskólanum í Kaupmannahöfn. Það er satt: Reykjavík er íslenzk að tungunni til, eins vel eins og nokkur annar blettr Íslands, og Reykjavíkr-skóli hefir átt góðan þátt í því, að hefja hina íslenzku tungu til upphefðar í höfuðstað landsins og um endilangt Ísland; en eins og eðlilegt er sökum þess sambands, sem er á milli Íslands og Danmerkr og sérstaklega milli Reykjavíkr og Kaupmannahafnar, þá er það dönsk hugsan, sem yfir höfuð að tala ræðr þar, dönsk stefna, sem þar er stýrt eftir af þeim, er ríkjum ráða, í hinu andlega lífi. "Röddin er Jakobs rödd, en hendrnar eru Esaús hendr". Það er líka satt: Meðal Íslendinga og sérstaklega hins skólagengna hluta fólksins, einnig í Reykjavík, er heilmikill rígr á móti Dönum, jafnvel hatr gegn þeim; en sá kali er nærri eingöngu í nösunum. Sami andinn ræðr eins fyrir því hjá þessum hluta fólksins og birtist í daglegri framkomu manna eins og sá, er nú er ríkastr í þjóðlífi Dana. Það vantaði ekki, að Ísraelsmenn hötuðust við Egypta forðum eftir að þeir um lengri tíma höfðu búið í landi þeirra og sætt harðri kúgun af þeirra hendi, en allt um það hneigðust þeir þó stórum að egypzkum siðum og egypzkum hugsunarhætti, að egypzkri hjáguðadýrkan og egypzkri vantrú, og það svo mjög, að þá er á leiðina til hins fyrirheitna lands var komið, þráðu þeir hjartanlega aftr til kjötkatlanna í Egyptalandi og heimtuðu gullkálf gjörðan sér til átrúnaðar í líking við það, sem tíðkaðist á meðal þeirrar þjóðar, er þá hafði sárast leikið. Andlegt egypzkt súrdeig hafði sýrt hugsunarhátt Ísraelsmanna, og viðlíka súrdeig frá Dönum hefir sýrt hugsunarhátt Íslendinga, einnig þess hluta þeirra, sem mest þykir halda frelsi og framförum á lofti. Getr þá ekkeri gott komið frá Danmörku? Eiga ekki Danir marga ágæta menn í menntum og mörgu öðru? Er ekki ýmislegt, er ekki jafnvel margt í þjóðlífi Dana hollt og eftirbreytnisvert fyrir hina íslenzku þjóð vora? Jú, vissulega. En hinn ríkjandi andi í menntunarlífi þeirra, sá sem mest áhrif hefir á ljósbera hinnar íslenzku þjóðar, er öfugr og illr, og á háskólanum

danska ræðr vitanlega yfirhöfuð andi, sem kristindóminum er andstæðr, þrátt fyrir það að einstakir menn, sem við hann hafa verið tengdir, hafa komið fram sem ötulir og einlægir talsmenn kristinnar trúar. Þetta er marg-viðrkennt meðal Dana sjálfra, og þó vér Íslendingar ekki vissum það af öðru, þá er eitt, sem greinilega segir til: Háskólagengnu mennirnir, sem í embætti eru settir víðsvegar um Ísland nú í seinni tíð, sinna yfir höfuð hvorki kirkju né kristindómi; þeir virðast almennt hafa hneigzt að fullkominni vantrú fyrir þann menntaveg, sem þeir hafa gengið. Það er auðvitað vonandi, að ýmsir þessara manna færist nær kristindóminum síðar eftir að aldrinn eykst og lífsreynslan verðr meiri. En hitt mun eins satt fyrir því, að fæstir, sem við þann menntunarbrunn hafa á síðari árum setið, hafa óskaddaðir þaðan komið í andlegu tilliti. Vér höfum með eigin eyrum heyrt suma þessara manna með harmi gjöra þessa játning. Enda segjum vér það, sem hér er sagt, ekki til þess að kasta steinum á neinn einstakan, heldr að eins til þess að minna þjóð vora á þetta óheppilega ástand. Það er kunnugt, að íslenzkir stúdentar njóta vissra sérstakra hlynninda við háskólann í Kaupmannahöfn, sem jafnvel danskir stúdentar ekki hafa; og þetta hefir lengi verið talin mesta hamingja fyrir hina íslenzku þjóð. Nú þyrpast líka Íslendingar til háskólans, síðan svo margir tóku að ganga skólaveginn á Íslandi, miklu meir en nokkru sinni áðr. Væri ekki þessi einstaklegu hlynnindi fyrir íslenzka stúdenta við hinn danska háskóla, þá myndi miklu færri fara þangað. Og ef embættispróf við þennan sama háskóla ekki, eins og er, veitti mönnum rétt til embætta á Íslandi, þá myndi íslenzkir stúdentar eigi fremr leita til þess háskóla heldr en hvers annars jafnmerkilegs háskóla í þeim löndum, er Íslandi liggja næst. Öll þessi réttindi, sem háskólinn í Kaupmannahöfn veitir Íslendingum, eru hin mesta ógæfa, sannarleg hefndargjöf, fyrir þjóð vora. Þau eru í vorum augum ekki meira virði en réttindi þau, sem Daníel og hinum öðrum ungu Ísraelsmönnum voru veitt af Nebúkadnesar eftir að þeir voru fluttir til Babylonar, því þau bera að sjálfsögðu sömu ávöxtu fyrir hina ungu Íslendinga, sem þeirra njóta, eins og til ætlazt var að það, sem þeim Daníel

var veitt, skyldi bera fyrir þá og Ísrael yfir höfuð. Andi babylonska menntunarlífsins átti að komast inn í þessa menn og fyrir þá inn í þjóð Gyðinga. Og andi Kaupmannahafnar-menntunarinnar kemst inn í hina ungu íslenzku námsmenn þar og fyrir þá inn í hina íslenzku þjóð. Og sá andi er hinn illi andi þjóðlífs vors nú á þessum tíma; hann svífr yfir Íslandi landshornanna á milli, og hann hefir, að minnsta kosti að því er kirkju og kristindóm snertir, slæðzt með oss vestr um haf, og því fer fjarri, að vér höfum hér í vorum nýju heimkynnum sigrazt á honum. Það er þessi andi, sem kemr all-mörgum þeirra, er dálítillar upplýsingar hafa notið, bæði meðal fólks vors heima á Íslandi og hér, til að yfta öxlum við kristilegri kenning. Meira ljós, hreinna ljós, betra ljós í menntunarlegu tilliti, — þá þarf kirkjan ekki að hræðast menntanina. Upplýsingin verðr þá blessan fyrir trúarlíf kristinna manna. Hafi allir það til marks: Ef hin veraldlega upplýsing er kristindóminum til niðrdreps, ef ljósi þekkingar og menntunar er beitt til þess að fá frelsarann handtekinn, ríki hans í hjörtum og lífi manna kollvarpað, þá þarf önnur menntan að koma í staðinn fyrir þá, sem er.

Og vor þjóð þarf meiri, hreinni, betri menntan en þá, sem hún nú hefir.

# Kirkjusöngr

Kirkjusöngur vor er umtalsefni vort nú.

Í niðrlagi ritgjörðar vorrar um hina nýju íslenzku sálmabók, í "Sam." I, 9, drápum vér á það, hvað kirkjulegr sálmasöngr ætti að þýða. Þar stendr þetta: "Allir kristilegir sálmar eru í rauninni bænir í syngjanda formi. . . . . Söngurinn er að eins til þess að gjöra hinar sameiginlegu bænir manna enn þá átaknlegri, hátíðlegri. Þegar sálmar eru sungnir, þá er gott, að sungið sé samkvæmt réttum reglum sönglegrar íþróttar, en hitt er þó aðalatriðið, að sungið sé af trú. Hjartað verðr að syngja, ef kristilega á að verða sungið, eins víst og hjartað verðr að biðja, hve nær sem beðið er." Þetta, sem hér er sagt, má virðast ofboð einfaldr og sjálfsagðr sannleikr; en svo einfaldr og sjálfsagðr sem hann er, er hann þó í reyndinni alls eigi viðrkenndr af almenningi þjóðar vorrar, hvorki hérna megin hafsins, né heldr heima á Íslandi. Það mætti segja hið sama um margt fólk annarra þjóða, er kristinni kirkju til heyrir, en vér erum nú að hugsa um það, er næst oss liggr, skoðanina á sálmasöng hjá vorri eigin þjóð. Að hinum íslenzka sálmasöng sé almennt mjög ábótavant hefir af mörgum fyrir æfalöngu verið viðrkennt; en það er líka nú með réttu almennt viðrkennt, að frá sjónarmiði sönglegrar íþróttar sé sálmasöngr Íslendinga á yfir standandi tíma margfalt betri en áðr var. Svo sem kunnugt er, hefir á síðasta mannsaldri, eftir íslenzkum mælikvarða að meta, ákaflega mikið verið gjört af einstökum Íslendingum til þess að út breiða meðal þjóðarinnar sönglega þekking. Þar sem áðr var ekki til einn einasti íslenzkr ritlingr til leiðarvísis í þessari inndælu íþrótt, þá er nú til heilt dálítið bókasafn á íslenzku mönnum til fræðslu og menntunar í söng. Og að því er sérstaklega sálmasönginn snertir, þá eru til tvær fleirraddaðar kóral- eða kirkjusöngsbækr, sem furðu-mikla útbreiðslu hafa fengið, fyrir utan hina einrödduðu sálmasöngsbók Pétrs Guðjónssonar, sem löngu áðr kom út (1861) og sem bóklega lagði grundvöll að réttum eða íþróttarlegum

íslenzkum kirkjusöng. Og þar sem reglulegri söngkennslu hefir verið haldið uppi í aðalmenntastofnan Íslands, hinum svo kallaða "lærða" skóla, síðan um miðbik þessarar aldar, þá er auðvitað, hvort ekki muni ólíku saman að jafna: söngþekkingunni meðal Íslendinga eins og hún var og eins og hún er nú orðin. Orgön hafa verið lögð til all-mörgum kirkjum á Íslandi í seinni tíð til stuðnings kirkjusöngnum, sem engin voru áðr; og þar með hefir sumstaðar fylgt reglulegr margraddaðr kórsöngr. Þetta er nú allt saman kunnugt og í sjálfu sér gott. Það er gott, að þeir eru nú orðnir svo tiltölulega margir af þjóð vorri, sem hafa vit á sönglegri íþrótt, í samanburði við það, er áðr var, það er gott, að fólk vort vill nú almennt, að vel sé sungið, og hefir af því yndi. Það er gott, að löngunin til að læra að syngja rétt er alltaf að út breiðast til fleiri og fleiri meðal æskulýðs vors. Og það er gott, að það er nú orðið margfalt auðveldara fyrir Íslendinga en fyrrum að afla sér sögulegrar þekkingar. En hinn kirkjulegi sálmasöngur á að vera að eins til eins: að glæða og styrkja kristilegt trúarlíf, eins og hann líka á að vera eingöngu sprottinn af kristilegri trúartilfinning. Þessu má aldrei gleyma, en það er þó einmitt það, sem fjölda-margir þeirra, er fengið hafa talsverða sönglega þekking, virðast alveg hafa gleymt. Eða, ef þeir ekki hafa gleymt því, þá liggja þeir í annarri villu, sem er engu minni en hin; þeir hugsa, að ef söngrinn veitir þeim skemmtandi nautn, þá sé sú nautn kristileg trúartilfinning. Það mun ákaflega örðugt að tala um þetta efni svo, að maðr verði ekki misskilinn. En það, sem vér nú viljum nefna, skilja allir. Vér höfum heyrt sannfróða menn segja, að í Kaupmannahöfn sé það altítt, að menn gangi í kirkju að eins til þess að heyra sönginn og fari því burt áðr en prédikanin byrjar eða komi ekki í kirkjuna fyr en að henni endaðri. Þetta var líka einu sinni siðr í Reykjavík sérstaklega hjá vissum hluta hinna ungu námsmanna þar. Hvort svo er enn, er oss ókunnugt. En hitt er vitanlegt, að eftirsókn margra meðal fólks vors í þessari tíð eftir góðum — það er að segja íþróttarlegum réttum — kirkjusöng er ekki af kristindómslegri rót runnin, heldr af því að söngrinn, þegar hann í þessum skilningi er í lagi, veitir fegurðar-

tilfinningunni nautn. Og svo fara menn þá í kirkju af sömu hvöt eins og menn fara á "konsert" ellegar á leikhús, til þess að skemmta sér. Það er ekkert verið að hugsa um efnið í þeim andlegu ljóðum, sem verið er að syngja; það er hljóðfallið og samræmi raddanna, sem eingöngu er verið að hugsa um; það mætti eins syngja tómt "la-la" fyrir þessum mönnum eins og hvern kristilegan sálm, sem vera skyldi, enda verða hinir kristilegustu sálmar í munni þeirra, ef þeir fara sjálfir að syngja þá, að tómu "la-la". Hversu mikla og fagra rödd sem slíkir menn kunna að hafa, geta þeir ekki orðið annað fyrir guðsþjónustugjörð safnaðarins en eins konar hljóðfyllendr, og hluttekning þeirra í kirkjulegum sálmasöng, hversu mikla hljóðfylling sem þeir gefa, verðr ekki annað en kristindómslaus seremonía. Hvað á hinn kirkjulegi sálmasöngr að vera? Fórn, sem biðjandi eða lofsyngjandi mannshjörtu bera sameiginlega fram fyrir drottin sinn og frelsara. Sé enginn kristilegr bænarandi eða lofsöngsandi í hjörtunum, þá er ekki ætlazt til, að munnarnir fari að syngja; sé þögn vantrúarinnar í hjartanu, þá vill drottinn enga munnlega eða sönglega lofgjörð hafa. Syngjandi hræsni er drottni allt eins andstyggileg eins og hver önnur hræsni. En hræsni verðr allr sá sálmasöngr, þar sem hjartað ekki segir já og amen til sálmsorðanna, sem sungin eru. Ef hjartað ekki fram bar fórnir þær, sem samkvæmt lögmálinu skyldi drottni færa, á tíma hins gamla testamentis, þá fordæmdi guð þær fórnir harðlega. Hið sama gildir um hinn kirkjulega söng. Hinn mikli söngmeistari guðs kirkju í Ísrael, Davíð, gat sungið eins og hann söng af því að hjarta hans var eftir guði, og það var það, sem stýrði söngnum, hvort sem hann söng með orðum eða hann lék á hljóðfæri. Og eins og auðvitað er, heimtar nýja testamentið eigi síðr en hið gamla, að þegar sálmar eru sungnir, þá sé það hjartað fyrst og fremst, sem syngr. Vér látum nægja, að benda hér að eins á það, sem Páll postuli segir þessu viðvíkjandi í Kol. 3, 16: "Áminnið hver annan með sálmum, söngvum og andlegum lofkvæðum, sætlega syngjandi drottni lof í *yðrum hjörtum*". Hvernig getr nú sálmasöngrinn verið hjartnanna söngr, ef allr þorri safnaðarins, eins og venjulega er í íslenzkum söfnuðum,

veit ekkert, hvað verið er að syngja, hefir enga sálmabók með sér, og hvorki sá, er guðsþjónustunni stýrir, né neinn annar les upp í heyranda hljóði sálmana áðr en þeir eru sungnir? Hlýtr ekki slíkr sálmasöngr að vera eins og hver önnur dauð bókstafsþjónusta fyrir allan þennan þorra fólks, sem enga hugmynd hefir um það, með hvað verið er að fara í söngnum? Getr verið, að sumir af áheyrendunum skemmti sér við sönginn (auðvitað ekki við efnið í orði því, sem sungið er), en kristilega uppbygging fá þeir enga. Allt við kristilega guðsþjónustu á þó eftir kröfum heilbrigðrar skynsemi og fyrirmælum guðs orðs að vera stýlað upp á það, að það geti verið til slíkrar uppbyggingar. Saman ber 1. Kor. 14, 26, þar sem meðal annars er gengið út frá því, að menn hafi *sálm* fram að færa á guðsþjónustusamkomu safnaðarins. Nú, hinir fáu, sem samkvæmt venjunni taka þátt í sálmasöngnum og halda honum uppi, þeir *geta* fengið kristilega uppbygging af því, er þeir syngja, en þá verðr hjarta þeirra, og ekki að eins raddfærin, að syngja. Og í sambandi við þetta er ómissandi að taka fram, að enginn nema trúaðr kristinn maðr, hversu vel söngfróðr sem hann kann að vera og vel að sér í hljóðfæraslætti, er hæfr til þess að vera organleikari við guðsþjónustur kristins safnaðar. Lífsskoðan organleikarans hlýtr nefnilega að koma fram í tónum þeim, er hann fram leiðir með hljóðfærinu; hún getr aldrei til lengdar leynzt. Það er hægra að finna til þessa heldr en að lýsa því. En algjörlega áþreifanlegt verðr þetta, ef tekið er eftir öllu því, sem á organið er leikið, þá er enginn sálmsorð eru sungin með. Þegar maðr heyrir við lok guðsþjónustugjörðarinnar eða í henni miðri, milli þess, sem sungið er, eða að því búnu, verið að leika á organið mjög veraldleg lög, eins og þau, er vanalegum dönsum eða hergöngum til heyra, þá er vitanlegt, að það er annað en kristileg trúartilfinning, sem ræðr hjá þeim, er organinu stýrir. Slíkr organsláttr flytr hugann langt burtu frá því, sem á að vera eina umhugsunarefni manna við kristilega guðsþjónustu; hann drepr alla guðrækni, flytr sálina út úr kirkjunni og burtu frá guði. Ameríkumönnum, sérstaklega þeim, sem til heyra hinum reformeruðu kirkjudeildum, hættir mjög við að leiða alls konar veraldlegt

athæfi inn í guðsþjónustur sínar. Sumir frægustu prédikararnir setja sig út til að koma áheyrendunum til að hlæja, og svo hlær þá allr söfnuðrinn stundum undir prédikaninni hástöfum og klappar saman höndum, eins og væri menn í leikhúsi. Þar sem þetta er tízka, er engin furða þótt ýmislegt veraldlegt ókirkjulegt og ókristilegt komi fram í kirkjusöngnum. Alvarlega þurfa því Íslendingar, eftir að þeir eru til þessa lands komnir, að gjalda varhuga við, að leiða ekki þessa ameríkönsku óhæfu inn í sitt kirkjulíf. En menn fljóta hér með straumnum í þessu efni, svo framarlega sem menn ekki gæta þess, að organleikarar og aðrir, sem kirkjusöng vorum stýra, sé alvarlegir kirkjunnar menn, sem hafa vilja kirkjusönginn til kristindómseflingar, en ekki sér eða öðrum til gamans eða upp á tómt stáz. Betra er að hafa alls engan söng á sínum guðsþjónustusamkomum heldr en veraldlegan, óguðræknislegan söng. Og betra að hafa mjög ófullkominn og frá íþróttarlegu tilliti stórgallaðan söng, sem almenningr tekr þátt í með guðrækni, heldr en þann, sem kallaðr er gallalaus, ef í honum taka þátt að eins fáeinir menn, sem engu skiftir, hvað þeir að efninu til syngja, enda þótt söngfróðir kunni að vera. Það má aldrei í kirkjusöngnum taka *meira* tillit til fegrðartilfinningar einstakra söngfróðra manna, sem, ef til vill, stendr á sama um allan kristindóm, heldr en guðræknistilfinningar og tilbeiðsluþarfar hins ósöngfróða almennings í söfnuðinum. Og það er þó þetta, sem mönnum hættir mjög við á Íslandi, þar sem einstakir menn hafa fengið íþróttarlega réttan söng inn leiddan í kirkjur. Hinir söngfróðu menn amast við því að þeir, sem ekki eru í þeirra tölu, með öðrum orðum almenningr, syngi með gangandi út frá því, að ef aðrir syngi en þeir, sem í söngfræðilegu tilliti standa á sama stigi og þeir, þá myndi það hneyksla hin söngæfðu eyru þeirra. En þess er ekki gætt, að með því að forðast þetta "hneyksli" er öðru enn meira hneyksli — virkilegu hneyksli — hleypt að: söngrinn hættir að vera safnaðarsöngr og verðr til engrar *kristilegrar* uppbyggingar fyrir almenning, getr að engu leyti haft nein áhrif á safnaðarins trúarlíf. Þetta hneyksli er sorglega almennt í hinni íslenzku kirkju, og vér dirfumst að segja, að á þessum síðasta mannsaldri, meðan þekking á íþróttar-

legum söng í sannleika hefir verið að breiðast út meðal Íslendinga, hefir það allt af verið að fara í vöxt, að almenningr safnaðanna þegi undir kirkjusöngnum. Áðr sungu miklu fleiri með heldr en í seinni tíð. Fyr meir var það all-títt, að íslenzkt fólk, sem fór til kirkju, tók að sjálfsögðu með sér sína sálmabók, en nú koma allir sálmabókarlausir til kirkju. Svona er þetta um endilangt Ísland, með svo fáum undantekningum, að þeirra gætir alls ekki. Kirkjusöngrinn er orðinn að steindauðri seremoníu, og hann hefir orðið það mest, þó hart sé til þess að hugsa, síðan tækifærið í rauninni varð meira en nokkru sinni áðr fyrir almenning til að láta sinn kirkjusöng fara í lagi. Þekking hinna einstöku manna á íþróttalega réttum söng, hefir þvert á móti því, sem átt hefði að vera, tekið fyrir kverkarnar á öllum þorra þeirra, er áðr voru með í því að syngja sálma kirkjunnar. Af hverju hefir svona farið með kirkjusönginn íslenzka á síðustu áratugum, einmitt meðan þekking einstakra manna á sönglegri íþrótt hefir þó svo stórum aukizt, eins og þegar er sagt? Af hverju hefir aukinni söngþekking hjá einstökum mönnum verið samfara vaxandi þögn í kirkjusöngslegu tilliti hjá almenningi? Sumir kynni að vilja svara: Það kemur til af því, að guðræknin og tilfinningin fyrir kristilegri tilbeiðsluþörf hefir verið að smáminnka meðal þjóðar vorrar eftir því sem nútíðarupplýsingin hefir verið að vaxa. Og vér viðrkennum, að í þessu er mikið satt. Því oss dylst það ekki, eins og vér áðr höfum tekið fram í "Sam.", að nútíðarmenntanin íslenzka hefir komið með villuljós vantrúarinnar og breitt það út á meðal alþýðu. Skólagengnu mennirnir íslenzku hafa í seinni tíð fyrir sinn skólaveg hörmulega almennt leiðzt burtu frá hinum einföldu sannindum kristinnar trúar. Og þá var óhugsanlegt annað en að hin kristindómssnauða lífsskoðan þeirra næði að ryðja sér til rúms meðal margra í flokki hinna, er lítillar eða engrar menntunar hafa notið. Hafi þá dofnað trúin meðal almennings á hið opinberaða orð kristindómsins fyrir þessi áhrif hins vantrúaða skólagengna lýðs, þá gefr að skilja, að sú aukna deyfð hlýtr að hafa komið fram einnig í því, að almenningr hefir orðið ófúsari en áðr til að vera með í kirkjusöngnum. Með kirkjusöngn-

um vitnar almenningr safnaðanna um sína trú. Að undan tekinni heilagri kvöldmáltíð gefr ekkert atriði hinnar opinberu guðsþjónustu almenningi í söfnuðunum annað eins tækifæri til þess að vitna um hina kristnu trú eins og sálmasöngrinn. Þess vegna þegar trúin verðr lifandi í kirkjunni, þá verðr líka almenningr safnaðanna syngjandi á sínum guðsþjónustusamkomum. Hann notar það tækifæri, sem þar býðst, til þess að vitna um eigin synd og drottins náð. Hann getr þá ekki annað en tekið undir sálma kirkjunnar. Þá er Lúter forðum kom fram í kirkjunni og vakti almenning af þeim andlega dvala, er hann þá lá í, þá byrjaði líka nýtt líf í kirkjusöngnum. Kaþólska kirkjan hafði haft, eins og hún hefir enn, fagran og íþróttalega fullkominn kórsöng. En sá söngr náði ekki til almennings; almenningr var þar alls ekki með. Hinn kaþólski kirkjusöngr var eins og annað ytra stáz, sem pápiskan fyllir kirkjur sínar með. Með trúarbót Lúters fór almenningr að syngja; hann gat nú ekki annað en látið heyra til sín syngjanda. Það, sem hjartað er fullt af, flóir út af vörunum, og það verðr hjá kristnum almenningi að söng í opinberri guðsþjónustu, ef þar á annað borð er nokkurt tækifæri til að syngja. Það, sem því meðal annars einkenndi hinar lútersku guðsþjónustur til forna, var það, að almenningr var þar syngjandi. Og almennr safnaðarsöngr er enn eitt aðaleinkenni á guðsþjónustum fólks í lútersku kirkjunni, hvervetna þar sem sú kirkja er með fullu lífi. Á hinn bóginn mun það, að almenningr þjóðar vorrar er ekki með í kirkjusöngnum, engan veginn því einu að kenna, að trúardeyfðin er svo mikil hjá meira hluta fólks, heldr öðru jafnvel enn þá fremr. Söngfróðu mennirnir hafa yfir höfuð að tala ekki skilið eða ekki viljað skilja hina kristilegu þýðing kirkjusöngsins; þeir hafa skoðað hann að eins frá sjónarmiði íþróttarlegrar fegurðar; þeir hafa ekki viljað hafa ósöngfróðan almenning með í því að syngja sálma kirkjunnar. Þeir hafa komið almenningi til að þegja. Söngflokk vilja þeir hafa, og þeir einir, sem eru í þeim æfða söngflokki, vilja þeir að syngi, því annars skemmdist fegrðaratriðið í söngnum, og þá finnst þeim allt vera farið. Vér sjáum hér, að stefna þessara manna með tilliti til kirkju-

söngsins er hin sama eins og í kaþólsku kirkjunni. Það er fögur, en í kristilegu tilliti óuppbyggileg seremonía, sem menn vilja hafa með kirkjusöngnum.

En, eins og þegar er greinilega tekið fram, kirkjusöngr vor má með engu móti vera tóm seremonía. Vér verðum að fá almenning safnaðanna til að syngja með eigin hjarta og — að svo miklu leyti sem nokkur söngrödd er fyrir — einnig með munninum. Það verðr að ýta undir það, að hver maðr komi með sína sálmabók til hinnar opinberu guðsþjónustu. Það verðr að kappkosta, að láta þá stýra söngnum, sem vitanlegt er um, að hafa áhuga á málefni kristindómsins og hafa rétta skoðan á þýðing kirkjusöngsins. Það verðr að æfa æskulýð safnaðanna í því að syngja hina kirkjulegu sálma, og ætti meðal annars að vera gott tækifæri til þess í sunnudagsskólunum. Svo lengi sem ekki hver maðr hefir sína sálmabók með sér á kirkjulegum samkomum, er ómissanda, að sá, sem samkomunni stýrir, lesi upp hvern sálm orði til orðs áðr en hann er sunginn, svo allir fái kost á því að fylgja með í því, sem sungið er. Geti menn komið á kristilega hugsanda söngflokki í söfnuðinum, þá er það auðvitað einkar gott, en sá söngflokkr má aldrei verða til þess að almenningr safnaðarins hætti að syngja. Og aldrei gleymi menn því, að hvort sem til er æfðr söngflokkr eða ekki, þá á það að vera trúin og tilbeiðsluþörfin á undan öllu öðru, sem heldr uppi sálmasöng kirkjunnar.

# Krossberar

*Með honum voru færðir til lífláts tveir illræðismenn. Og er þeir voru komnir til þess staðar, sem kallaðr er hausaskeljastaðr, þá krossfestu þeir hann þar og þessa illræðismenn, annan til hægri handar honum, en hinn til vinstri* (Lúk. 23, 32—33).

Þessi ritningargrein leiðir oss í anda til Golgata. Hvað sjáum vér þar? Þrjá krossa hvern við hliðina á öðrum, og á hverjum krossi fyrir sig hangir maðr, sem til dauða hefir verið dæmdr. Það er verið að kvelja úr þeim lífið hverjum fyrir sig. Þeir líða auðvitað allir ógrlegar kvalir. Áðr en krossfestingin var framkvæmd höfðu þeir hver um sig verið flettir klæðum, og svo höfðu böðlarnir fest hvern um sig á krosstréð með því að reka járngadda í gegn um hendr þeirra og fætr, og svo streymdi þá náttúrlega blóðið úr naglaförunum í lækjum niðr eftir hinum enn þá lifandi líkömum og krosstrjánum. Dauðinn er sjálfsagðr innan fleiri eða færri klukkustunda. En hvert augnablik verðr að langri grimmri kvalastund í slíkum kringumstæðum. Hver vildi ekki stytta kvalastundirnar fyrir þeim, sem í þessu ástandi bíðr dauðans? Svo grimm og hjartalaus sem hin rómversku krossfestingarlög voru, þá kom þó neisti af mannlegri tilfinning, ofrlítill mannúðarvottr, fram í því, að þau leyfðu, að þeim, er til slíks kvaladauða voru dæmdir, mætti gefa eins konar hálfsvæfanda drykk áðr en þeir voru negldir á krossinn, til þess að deyfa ofurlítið tilfinning þeirra fyrir þeim píslum, er þessari hryllilegu meðferð fylgdi. En vér vitum, að einn þeirra, er hér var krossfestr, vildi ekki þiggja þennan drykk. Það var sá, sem krossfestr var í miðið, því hann gekk með þeim huga út í þessar píslir sínar, að líða þær allar með fullri meðvitund, með ódeyfðri tilfinning, fús og með frjálsum vilja. Því það var guðs sonr, Jesús Kristr, sem hér leið; hann vildi líða allt, því hann leið af kærleika. Og kærleikr hans var sterkari en dauðinn — dauðinn í þessari hans hryllilegustu og kvalafyllstu mynd.

Að vera krossfestr lifandi — hvílík ógrleg tilhugsan, ef einhver vissi, að það ætti fyrir sér að liggja! Það þarf minna til þess að hugr vor hnigi heldr en slík tilhugsan. Það þarf ekki nema hugsa sér, að maðr verði endilega að ganga eitthvað það í gegn um, sem holdi og blóði er óþægilegt, að vita eitthvert mótlæti fyrir framan sig á vegi sínum, og óðar tekr hjartað til að slá, kjarkrinn að dvína. Vér getum kallað það krossfesting að vera bundinn við eitthvert böl, sem náttúrlegri tilfinning svíðr undan, en sem maðr ekki getr losað sig við. Þegar vér lítum krossana á Golgata og þá, sem á þeim kveljast, þá minnir það oss nú svo eðlilega á hið margs konar böl, sem mannlífið, þetta veika og andvarpanda mannlíf, svo iðulega er bundið við fyrir augum vorum, hvar sem vér erum staddir í heiminum. Er það ekki eins og sumir menn sé negldir á krossinn? Bölið og ógæfan fylgir þeim hvar sem þeir ganga eða hvar sem þeir dvelja. Og þó að margir sé nú í dag lausir við allt verulegt böl, bjart yfir þeim á bletti tilverunnar, þar sem þeir nú standa, og þess vegna ánægjusvipr á andliti þeirra af því að þeim finnst sér líði vel, þá er það víst, og til þess þarf ekki að færa neina sönnun frá opinberan kristindómsins, að áðr en hér lýkr, verða þeir flestir bundnir við einhvern kross. Af hverju tagi sá kross verðr, getr líklega enginn sagt fyrir, en að krossins tíð kemr, það er víst. Svo allir gjöra þá forsjálast í því að láta þessa þrjá krossa, sem vér sjáum upp reista á Golgata, vera sér við komandi. Er það ekki sama, á hvern þessara þriggja krossa, sem þú sér á Golgata, maðr er negldr? Eru ekki píslir allra þriggja hinna líðandi manna hinar sömu? Það sýnist svo, nema ef vér tökum það til íhugunar, að tveir hinir krossfestu hafa eflaust drukkið hinn deyfanda, kvalastillanda drykk um leið og þeir voru krossfestir, og þannig að öllum líkindum ekki eins sárt fundið til kvalanna, sem krossfestingin olli, eins og þeir annars hefði gjört. Einn, og það er Jesús, hafði engan slíkan drykk drukkið, svo líkamskvalirnar hafa þá eflaust, og sjálfsagt þá einnig sálarkvalirnar, orðið honum lang-tilfinnanlegastar. Nú skulum vér hugsa oss þrjá menn bundna við alveg sams konar kross

í hinu almenna mannlífi eins og það er hér hjá oss. Allir kannast við orðið húskross. Húskrossinn getr nú vitanlega verið með ýmsu móti. Það var einu sinni móðir, sem átti dóttur, er kvaldist — þunglega — af djöflinum. Það var húskross, einhver þyngsti húskross, sem hugsazt getr. Slíkr húskross er enn til, og það þarf ekki langt að fara til að leita að viðlíka húskrossi. Það var einu sinni maðr, sem missti allar eigur sínar í einu. Það út af fyrir sig var þungr húskross, sérstaklega þegar það er haft í huga, að maðrinn var áðr stór-ríkr; en svo missti hann öll börnin sín, efnileg og elskuleg börn, rétt á eftir — tvöfaldr hræðilegr húskross; og svo er hann í tilbót sviftr heilsunni allt í einu, og yfir hann látinn koma viðbjóðslegr og kveljandi, seigpínandi sjúkdómr, og svo, þegar þar er komið, koma vinir hans, sem verið höfðu, til að hugga hann, en orðin, sem þeir tala við hann, eru ekki til annars en særa hann enn þá meira. Það er meira en þrefaldr húskross þetta. Hugsum oss nú þetta ekki allt í einu liggjandi á einum og sama aumingja, heldr í þrennu eða fernu lagi. Nóg er samt. Slíkir húskrossar eru ekki heldr mjög langt í burtu frá neinum nú. Tökum nú einhvern slíkan húskross, eða þó ekki væri nema brot af einhverjum slíkum húskrossi, og þrjá menn þar við bundna; það er alveg sama mótlætið, sem á þá alla er lagt. Þér stendr á sama, við hvern þessara þriggja krossa þú værir bundinn, ef svo yrði endilega að vera. En nú er að líta til hinna þriggja, sem krossfestir hanga á Golgata: Tveir taka deyfanda, hálfsvæfanda drykk um leið og þeir stíga upp á krossinn til þess að finna ekki eins sárt til. Einn drekkr ekki og hefir svo sína fullkomnu tilfinning. Viltu svæfa tilfinning hjarta þíns, maðr, þegar þú átt að mæta þínum húskrossi? Það gjöra óneitanlega sumir, og svo er eins og og þeim standi á sama, á hverju gengr. Það eru til þeir foreldrar, sem sjá, að þeir eru að missa börnin sín — andlega, og finna ekki til. Svefndrykkrinn hefir verið tekinn inn, og hann hefir hrifið. Og hvað er sorglegra en það? Er ekki betra, að taka engan slíkan svefndrykk, þó að það kosti það, að hjartanu blæði og tárin hrynji? Og eins er um hvert annað mótlæti, hvern

annan kross. Svo lít eg aftr til Golgata. Einn er krossfestr saklaus, tveir sekir. Einn er krossfestr fús og viljugr, hinir tveir nauðugir. Það er óendanlegr munr á því, að líða eitthvert böl þannig, að maðr hefir bakað sér það með syndum sínum og að líða það saklaus, að líða nauðugr og að líða viljugr. Enginn skilji nú reyndar þessi orð svo, eins og hér sé verið að gefa í skyn, að syndugr maðr líði í rauninni nokkurn tíma saklaus í sama skilning og Jesús Kristr. Eg veit og játa hátíðlega, að hvort sem vér líðum böl eða erum lausir við böl, þá erum vér ávallt sekir syndarar. Og hitt verðr eins að játa, að allt böl, sem mannlífinu fylgir, stafar af syndinni, sem með fylgjandi er manneðli voru. Eg veit, að Jesús leið syndlaus og saklaus. Eg veit, að eg líð aldrei nema eins og sekr syndari. En það er ekki nema sumt böl, sem eg beinlínis hefi bakað mér sjálfr. Og eins getr þú, hver sem þú ert, bent á sumt böl, hvílandi á þér, suman kross, sem við þig er bundinn, er þú getr sagt að beinlínis sé þér að kenna. Hinir tveir, sem með Jesú voru krossfestir, höfðu beinlínis bakað sér sinn kross sjálfir; með sínu undan gengna syndalífi höfðu þeir í rauninni sjálfir neglt sig á krossinn. Þeirra eigin synd negldi þá á þeirra kvalakross. Annara syndir, alls heimsins syndir negldu Jesú á krossinn, og af því kærleikr hans fyllti brjóst hans til þeirra, er syndgað höfðu og syndga myndi, þá gekk hann fús út í þessar kvalir. Er syndugum manni unnt, að láta negla sig eins og Jesús fúsan og viljugan á sinn kross? Já, syndugra manna kross getr orðið heilagr Krists kross. Þegar kærleikr til guðs og manna kom þér til að líða hörmungar, þú, guðs barn, þá var þinn kross Krists kross. Þú gazt sloppið við það stríð, en þú vildir það ekki, þótt þú sæir það fyrir, af því kærleikrinn rak á eftir. Stundum var svo, að þú hafðir ekki kosið þér sjálfr krossinn. Ástvinr þinn missti heilsuna, varð dauðveikr, leið lengi milli lífs og dauða. Þú vaktir hjá honum, leiðst með honum, lézt binda þig við hans kross; það skar þig í hjarað, en af því kærleikrinn bjó í hjartanu, varstu fús að líða. Sér nú ekki hver maðr þann mikla mun, sem á því er, að vera bundinn við krossinn fús eða nauðugr,

saklaus eða sekr? að láta eigin synd og jafnvel eigin óguðleik, — eða eigin kærleik krossfesta sig? Ó, maðr, láttu ekki þinn kross vera neinn ræningja-kross. Láttu hann vera Krists kross. En ef eigin sekt hefir komið þér upp á krossinn eins og þeim tveim, sem með Jesú voru krossfestir, ef þú, eftir að mótlætið er yfir þig komið, sér, að þú ert að líða þín eigin syndagjöld, minnzt þess þó, að þinn kross getr enn orðið að Krists krossi. Líttu á hina tvo, sem með Jesú voru krossfestir. Þú getr, meðan þú sjálfr ert við krossinn bundinn, forhert hjarta þitt, eins og sá af ræningjunum, sem hæddi Jesúm eins og heimsbörnin þar á aftökustaðnum, guðlaus og enn þá krosslaus. En þú getr líka látið hjartað hið syndmædda bráðna, kallað til Jesú og beðið hann bjarga sálu þinni. Óðar en hinn iðrandi ræningi snýr hinni biðjandi sál sinni til Jesú með þessum orðum: "Minnztu mín, herra, þegar þú kemr í ríki þitt", heyrir hann, kærleikssvarið guðdómlega: "Sannlega segi eg þér: Í dag skaltu vera með mér í paradís". Og óðar en bænin er risin upp í hinu sundr kramda hjarta, er kross þessa stórsynduga aumingja orðinn að Krists krossi. Ó, hvenær sem þér þurfið að verða bundnir við einhvern kross, látið hann áðr en lýkr verða blessaðan Krists kross. Er ekki ógrlegt að heyra háðyrði og hróp, forherðingartal og guðlast frá þeim manni, sem negldr er á kross? Voðalegt er að heyra menn tala og sjá menn breyta guðlaust á gleðidögum lífsins. Átakanlegt er að vita menn gjöra gabb að öllu guðlegu, öllu því, sem kristnum mönnum er heilagast af öllu, meðan ekkert amar að í lífinu. En það tekr áþján yfir, þegar maðr, sem er að stríða vanmáttugr við öfl mótlætisins og dauðans, treðr hann undir fótunum, sem í heiminn kom til að milda og helga og blessa krossinn. — Eg sé himnaríki og guðs eigið kærleikshjarta opið, þegar eg lít Jesúm negldan á sinn kross. Eg sé aumt stórsyndara-hjarta bráðnað og til náðar tekið og í guðs mildum miskunnarhöndum, þegar eg lít hinn iðranda, biðjanda ræningja á sínum krossi. Og hjarta mitt, veikt og syndugt eins og það er, fyllist lofgjörð, þakklæti og himneskri von við þessa sjón. — Er svo nokkur hugg-

un í því að líta hina mannlegu mynd, sem negld er á hinn þriðja kross á Golgata? Nei, engin huggan nema þessi gleðilausa: Hann er negldr á krossinn og getr nú engum gjört illt lengr. Hver vill nú vera bundinn við sinn mótlætiskross með sama huga og þessi? Hver vill, að þeir, sem fram hjá sínum krossi ganga, geti ekki séð neina aðra huggun í þeirri sjón en þessa: Það er þó betra að vita slíkan mann bundinn en lausan, því hver veit, hve mkiið illt hann hefði gjört, hefði hann gengið laus?

Svo kjósi menn þá um krossa fyrir sig. Krossarnir breytast eftir því, hver á þá er negldr. Eg kýs mér Krists kross.

# Á milli tveggja elda

Það má með fullum rétti segja, að lúterska kirkjan vor Íslendinga hér í landi sé stödd á milli tveggja elda. Hún er umkringd á tvo vegu af eyðileggingaröflum, sem eru eins hættuleg eins og eldrinn. Halli hún sér of mikið til annarrar hvorrar handar, þá brennir hún sig andlega, er í stórri hættu fyrir því að brenna úr sér lífið. Íslenzka kirkjan hér er á milli tveggja elda fyrir þá sök, að allt framfaralíf vor Íslendinga hér í þeim einstaklegu sporum, sem vér stöndum í, er á milli tveggja elda. Allt vort andlega líf er á milli tveggja elda. Oss er hætt við að lenda með sjálfa oss og kirkju vora út í annan hvorn eldinn, og þá stendr á sama, hve kappsamlega hefir verið unnið, hve mikið hefir af einstökum mönnum eða kirkjulýðnum í heild sinni verið lagt í sölurnar fyrir þetta mesta velferðarmál vort, því þá brennr allt verkið upp. Lendi menn út í annanhvorn eldinn með kirkju sína, þá reynist það spámannlegt sannmæli þetta, sem hið unga íslenzka skáld sagði fyrir nokkrum árum: “Kirkjan, kirkjan, hún brennr”.

Kirkjan hin kristilega var þegar við fæðing sína stödd

svo að segja á milli tveggja elda. Annar eldrinn, sem ógnaði henni með eyðingarafli sínu, var Gyðingdómrinn eins og hann þá var orðinn meðal Ísraelsþjóðar, fullr af verkaréttlætis-hégiljum og bókstafstrú, dauðum seremoníum og kreddum, marg-umsnúinn og afbakaðr frá hinni upphaflegu hugsjón sinni; hinn eldrinn var heiðindómrinn með sinni vantrúarheimspeki, með sínu lögmálsleysi og siðaspilling, með sínum andlausa, huggunarlausa tómleik. Það var lífsspursmálið fyrir þeim, sem voru að grundvalla kirkju drottins í heiminum, að hún lenti í hvorugum þessum eldi, því þeir vissu það, að hvor þeirra fyrir sig hafði nógu mikið eyðingarafl í sér til þess að láta hana algjörlega brenna upp. Páll postuli er að hugsa um kirkjuna milli þessara tveggja elda, þegar hann í 1. Kor. 1, 22—23 kemst svo að orði: "Með því að Gyðingar heimta tákn og Grikkir leita að speki, er vér boðum Krist hinn krossfesta, þá er Gyðingum vor kenning til ásteytingar, en heiðingjum sýnist hún vera heimska." Stór-mikið af öllu bréfasafni postulanna í nýja testamenntinu gengr út á það, að vara fólk í hinum kristna söfnuði við þessum eyðingaröflum, þessum eldum, til beggja handa við kirkjuna. Og Postulanna gjörningabók er sagan um það, hvernig kirkjan fæddist og lifði mitt á milli beggja þessara eyðandi eldhafa, hvernig hún með því lífsins vatni, er spratt upp úr hellubjarginu, sem hún stóð á, slökkti smámsaman eldinn beggja megin við sig og útbreiddi sig þannig yfir æ stærra og stærra svæði. Og saga kristilegrar kirkju þaðan í frá og allt fram á þennan dag er saga um þetta sama, saga um örlög hins frelsanda evangelíums kristindómsins á milli hinna tveggja elda í mannheiminum jarðneska. Lýðrinn kirkjulegi, sem kristindóminn hefir meðferðis, er sí og æ í hættu fyrir því að lenda út í annan hvorn eldinn, og stundum hafa í sögu kirkjunnar öll sund sýnzt vera lokuð fyrir kristindóminum á framrás hans í heiminum, því að gyðingleg hjátrú eða kreddusýki hefir á undarlegan hátt vaxið saman við heiðinglega vantrú, svo hinir tveir eyðandi eldar hafa runnið saman í eitt og myndað — fyrir manna sjónum að minnsta kosti — eitt samanhanganda eldhaf. Páfa-

kirkjan lenti í hinum gyðinglega eldi, svo stór-mikið af hinni andlegu vinnu hins kristna lýðs brann upp, brennr sí og æ upp. Kirkjuflokkar Mótmælanda skoðaðir eins og ein kirkjuheild hafa lent í hinum heiðinglega eldi, og í þeim eldi hefir líka brunnið upp sorglega mikið af prótestantisku kirkjustarfi. Og oft hafa báðir eldarnir brunnið saman bæði umhverfis kaþólsku kirkjuna og kirkjur Prótestanta. Og það er eins og það sé greinilegt samdráttarafl í eyðingarafli hjátrúarinnar og vantrúarinnar, svo hinir tveir eldar, sem ógna kirkju drottins, eru allt af að leitast við að ná saman, og þá er því hættara við að kirkjan lendi í eldinum og allt hennar verk brenni upp.

En það er í nokkuð sérstökum skilningi, að vér Íslendingar erum hér í landinu með hina lútersku kirkju vora milli tveggja elda. Vér komum með annað eyðingaraflið heiman af Íslandi; hitt mætir oss hér, kemr í fólk vort úr mannlífinu hér í landinu. Vér komum heiman að úr kirkju, sem á í eigu sinni þá hreinustu og fullkomnustu játning á kristinni trú, sem til er, en sem nálega sýnist steinsofandi yfir þessum andlega fjársjóði sínum, geymir hann, ef svo mætti að orði kveða, innvafinn sveitadúki niðrgrafinn í jörðu. Með öðrum orðum: lúterska kirkjan á Íslandi er orðin eins og steingjörðr skógr, eða stórmikið af því, sem sprottið hefir upp úr hinum kirkjulega jarðvegi Íslands, eru trénaðir njólar eða steingjörð tré. Þau voru einu sinni með lífi, en dauðinn hefir lagzt yfir þau svo undr mörg. Vantrúarmennirnir sjá, að þau eru dauð, en öllum þorra kirkjumannanna sýnast þau enn með lífi. Andlaus, aðgjörðarlaus og áhrifalaus vanakristindómr ríkjandi í kirkjunni gjörir kirkjuna ávallt að steingjörvingi, og að því hefir hann greinilega gjört nútíðarkirkju Íslands. Því tjáir eigi móti að mæla. Ef litið er með opnum augum til ástandsins í kirkju Íslands á yfirstandandi tíð og ekki litið neitt lengra, þá skilst oss eigi, að nokkur geti haft áræði til að syngja sálmabókar-versið um "lífsteiknin margþúsundföld", sem nú sé að lofa drottin. Það á vissulega betr við að syngja yfir kirkjunni á Íslandi nú:

"Hjálpi guð; hér enn þá er
akr þakinn dauðum beinum".

Þetta er ekki sagt til þess að óvirða eða níða Ísland eða íslenzku þjóðina. En það er sagt af því að það er sannleikr, sem oss er ómissanda að muna eftir. Því þessi sannleikr kemr svo hart niðr á oss Íslendingum komnum hingað yfir um, þegar vér erum að brjótast í því að grundvalla íslenzka lúterska kirkju í þessu landi. Það er íslenzk lútersk kirkja með lífi, með virkilegu andans lífi, sem vér viljum koma hér á fót og halda við lýði. En steingjörvings-vanafestan, seremoníutrúin, svefninn, áhugaleysið og dauðinn úr íslenzku kirkjunni heima fyrir mætir oss óðar í starfi voru hér hindrandi, aftrhaldandi, niðrbrjótandi, eyðileggjandi. "Það dugði að hafa það svona heima á Íslandi" — segir ný-komið fólkið margt, allt það, sem ekki var andlega vaknað, þegar það fór að heiman. Og þegar vér segjum, að það dugi ekki að halda öllu í íslenzku horfi í kirkju vorri hér, af því vér höfum séð, að það dugði einmitt ekki heima, og leitumst svo við að halda kirkju vorri í því horfi, sem lútersku kirkjunni er haldið í hvervetna um heim, þar sem hún er með nokkru verulegu lífi, þá fælist þetta ný-komna fólk oss og kirkju vora, vill ekki vera með, telr sér trú um að það sé í rauninni ekki nein lútersk íslenzk kirkja, sem hér er af oss verið að reyna að koma upp, heldr einhver nýgjörvingskirkja, einhver kirkjuómynd, sem ómögulega geti þrifizt og eiginlega eigi engan rétt á sér. Og svo heldr þetta fólk sér fyrir utan söfnuði vora, lætr sig dragast út úr tölu kirkjulimanna, ellegar þó það nærri því fyrir náð, af góðvild við einstaka menn, sem fyrir eru, fáist til að láta innrita sig í hóp kirkjulýðs vors, þá heldr það samt fast við gamlan vana, margt hvað, er í kirkjunni rétt eins og fyrir siðasakir sem dauðir limir. Þessi svefn og vanafestudauði heiman að er annað þetta sérstaklega eyðingarafl, annar eldrinn, sem kirkja vor hér á við að stríða, sem sækir að henni á hverjum degi. Það er gyðinglegi andinn eins og hann var í kirkju Ísraels þá er kristindómrinn kom fyrst fram, eða eitthvað af mjög svipuðu tagi. En til hinnar handar við oss eða kirkju vora er annað eyðilegg-

ingarafl, sem fólk vort fær inn í sig við að vera komið til þessa lands. Fólkið, sem verðr hér að Færeyja-gikkjum, sem snýr bakinu við öllu íslenzku óðar en það hefir kastað fötunum, er það kom í frá Íslandi, eða óðar en það hætti að vera hér "mállaust", eins og mörgum þóknast að kalla það, — það eru persónurnar, sem í sér bera þetta annað afl til eyðileggingar hinni lútersku kirkju vorri hér. Ameríkanska mannfélagið er svo stórt og glæsilegt, en hið íslenzka svo skelfing lítið og óálitlegt. Hví skyldum vér, þar sem vér nú erum búnir að "læra málið" og vitum, hvernig vér eigum að snúa oss í þjóðlífinu hér, fara að halla oss að íslenzku kirkjunni, þar sem allt er svo fátæklegt og emigrantaskaprinn hangir enn utan á mönnum? Hví ekki heldr fyrir oss að vera maðr með mönnum í einhverri ensku-talandi kirkjunni? Þeir, sem lægst standa í andlegu tilliti, hugsa svona. Og þeir gjörast þegar hver vill andlegr pottmatr hverrar hérlendrar kirkjudeildar sem er, eða með öðrum orðum lenda í andlegu tilliti hvert sem sá straumr, er mætir þeim, stefnir. En miklu fleiri en þeir, sem svona lágt standa, verða of "ameríkanskir" fyrir kirkju vora. Þeir vilja, að vér Íslendingar eigum hér vora eigin kirkju, viðrkenna, að það sé stór-þýðingarmikið fyrir þjóðflokk vorn, en í raun og veru finnst þeim þó, að eiginlega þurfi ekki að vera að berjast við að láta þessa íslenzku kirkju lifa sín vegna. Þeim væri fullvel borgið í þeirri eða þeirri amerísönsku kirkjudeildinni, sem allar sé sjálfsagt eins góðar og lúterska kirkjan, en það sé skylda vor vegna hins aðkomanda fólks frá Íslandi, sem ekki geti lengi vel komizt inn í hérlent andlegt félagslíf; að uppbyggja hér kirkju þjóðar vorrar, og það sé oss til heiðrs að láta annarra þjóða fólk eitthvert andlegt starf sjá eftir oss liggja hér. Það er þá ekki eiginlega vegna ágætis hins lúterska kirkjumálefnis í sjálfu sér, að þessir menn vilja vera með í söfnuðum vorum, heldr af ýmsum auka-ástæðum. Þeir vilja fólki voru oft vel, þessir menn; en af því að þeir hafa aldrei komizt inn að hjartanu í Lúterdóminum, sjá ekkert í eðli vorrar kirkju annað en það, sem þeir sjá í hverri annarri aðaldeild prótestantisku kirkjunnar, þá vilja þeir einlægt

að farið sé með vora kirkju út úr lútersku kirkjunni. Þeir eru búnir að læra að líta með lotning á þjóðlífsstrauminn ameríkanska í heild sinni, sjá á þessum stöðvum, þar sem Íslendingar eru niðr komnir hér í landinu, tóma Meþodista, Baptista, Presbyteríana, o. s. frv., en nærri því engan lúterskan mann utan síns þjóðflokks, og þeim kirkjulega anda, sem ráðandi er allt í kring um þá, vilja þeir rétt að sjálfsögðu koma inn í vora kirkju. Þeir hafa svo sem ekkert hugsað um það, að mismunandi stefnur geti til verið í kirkju, sem á annað borð kallar sig kristna. Það er eins og þeir telji það nóg í kirkjulegu eða kristilegu tilliti, ef sá eða sá maðr, sú eða sú trúardeild heldr því fram, að Jesús Kristr sé frelsari heimsins og að biblían sé bókin, sem út af eigi að leggja sí og æ í kirkjunni. Þetta hugsunarleysi um það, hvert straumr tímans er að bera kirkjuna, þessi ósjálfstæða ósk, að vilja vera með straumnum án þess að sinna því neitt, hvort hann stefnir burtu frá hjarta kristindómsins eða að því, þessi löngun til að vera ameríkanskr í anda áðr en maðr skilr ameríkanska lífið, þessi lotning fyrir öllu, sem hér er mest ráðandi í mannlífinu, þessi tilhneiging að laga sig í öllu eftir annarra þjóða fólki, — það er hið annað andlega eyðingarafl, sem vofir yfir frumbýlingskirkjunni íslenzku í þessu landi. Eins og svo mikil hætta lá fyrir því, að fornkirkjan kristna fengi flóð af heiðindómsanda inn yfir sig frá heiðnu þjóðunum, sem söfnuðrinn lifði á meðal, eins streymir hér stöðugt inn að lútersku kirkjunni íslenzku ólúterski andinn úr ameríkanska kirkjulífinu fyrir utan; hálf-ameríkaníseraðir, ósjálfstæðir, hugsunarlitlir Íslendingar koma með hann, vitandi oftast ekkert af því, að þeir eru að kveikja eins konar andlegan eld til eyðingar öllu því, sem lúterska kirkjan hefir sér til ágætis fram yfir aðrar kristnar kirkjudeildir, og um leið öllu því, sem vér eigum bezt og ágætast í hinum þjóðernislega arfi vorum.

Hugsan vor með þessari grein vorri var nú að eins sú, að minna lesendr "Sam." á, að hin lúterska kirkja vor Íslendinga í þessu landi er stödd á milli tveggja elda, til þess um leið að gefa fólki safnaða vorra hvöt til þess

að slökkva eða reyna til að slökkva hvortveggja eldinn. Ef hvortveggja eldrinn nær að vaxa saman yfir oss og hinu andlega starfi voru, þá rætist orðið skáldsins: "Kirkjan, kirkjan, hún brennr". Kirkja Íslendinga hér í landinu að minsta kosti brennr þá upp.

# Má eg detta?

"Má eg detta"? — sagði draugrinn fyrir ofan eldhússtrompinn forðum, samkvæmt einni alþekktri íslenzkri þjóðsögu. "Því ætla þú megir ekki detta!" — svaraði sá, sem þar var niðri fyrir í eldhúsinu. Hann var alveg ósmeykr, þó að þessi dimmraddaða aftrganga léti sjá sig. Og svo fór draugrinn að láta sig detta. En hann datt ekki allr í einu; hann hafði sínar ástæður fyrir því að vilja ekki gjöra það. Hann kom dettandi niðr um sótugan strompinn í pörtum. Fyrst kom höfuð, einskonar mannshöfuð, og frampartr af tilsvaranda mannslíkama. Og þetta stykki lá þar eins og dautt á eldhúsgólfinu. Svo heyrist aftr rödd: "Má eg detta?" Henni var eins svarað og áðr: "Því ætla þú megir ekki detta!" Og svo datt enn nýtt stykki: miðpartr af samskonar mannsskrokk, og sá partr lá svo eins og í dái, alveg á sama hátt og það, er áðr var dottið, á gólfinu. "Má eg detta?" heyrist enn. Já, hví skyldi það, sem eftir var, ekki mega detta líka? Og nú datt þessi aftrhluti af draugnum, sem hingað til hafði vantað, til þess að halda hópinn með hinum stykkjunum. Þeir lágu, þessir draugspartar, hver um sig fyrst eins og dauðir væri, en þegar þeir voru allir dottnir, þá kunnu þeir ekki við að liggja lengi svona. Nú fór að færast í þá líf. Þeir skriðu saman þarna á eldhúsgólfinu eins og jötunuxi, sem hefir verið skorinn sundr. Og svo reis upp draugr í heilu líki og bráðlifandi. Sá, sem hafði sagt, að spyrjandinn mætti detta, varð nú ekki mjög hræddr, þó draugrinn skriði saman. Hann vissi, að hann gat mætt honum svona bráðlifanda, enda tókst honum að jafna á

honum og koma honum fyrir. Og svo er þetta æfintýrisbrot búið.

Þegar ritstjóri "Sam." sá "Lögberg" fyrir 8. okt. (1890) með ritstjórnargreinunum á 4. blaðsíðu, þar sem verið er að mótmæla því, að "lífsskoðan" vantrúarinnar sé dauðaskoðan, gefa í skyn, að í flokki guðleysingja sé tiltölulega flest af vönduðu fólki, og skora á kirkjufélagið að sleppa trúfræðslu úr skyldu-námsgreinum við hinn fyrirhugaða skóla þess, þá kom oss til hugar röddin, sem heyrist gegn um eldhússtrompinn forðum samkvæmt æfintýrinu: "Má eg detta?" Oss fannst vantrúin hjá hinni heiðruðu ritstjórn myndi með þessum greinarstúfum vera að þreifa fyrir sér, hvort henni væri óhætt að fara nú að láta til sín heyra, spyrja almenning meðal fólks vors hér, hvort hún mætti nú ekki detta. Og svo fannst oss meira en þetta. Oss fannst talsvert stykki af hinni gömlu aftrgöngu vantrúarinnar virkilega hafa látið sig detta áðr en nokkurt svar var fengið frá vinum og stuðningsmönnum blaðsins upp á það, hvort hún mætti detta, eða, hvað sem nú þeim virtist, áðr en nokkur vissa var fengin fyrir því, hvort svona löguð vantrú myndi vel komin meðal fólks vors hér almennt. "Lögberg" hefir aldrei fyr verið neitt vantrúar-málgagn. Það hefir verið heiðarlegt, vel ritað þjóðmenningarblað fyrir hinn íslenzka þjóðflokk vorn hér. Það hefir aldrei skift sér af beinum kristindómsmálum, en það hefir drengilega hlynnt að því þjóðmenningarstarfi, sem kirkjan vor hefir verið að leitast við að vinna fyrir Íslendinga, ganganda út frá því, að slíkt starf hlyti að verða til blessunar, og að ef kirkjan vor ekki ynni það, yrði það að hér um bil sjálfsögðu óunnið. Og það virðist allt af að undanförnu með góðri samvizku hafa getað unnið með kirkjufélaginu, hvað sem hinum lútersku og biblíulegu trúarlærdómum þess liði. Blaðið hefir fyrir svo sem einu missiri stækkað og fengið annan alkunnan gáfumann inn í ritstjórnina við hliðina á þeim, er áðr var. Og stefna þess sýnist að miklu leyti hafa haldizt óbreytt þangað til nú, að allt í einu er farið að þreifa fyrir sér með tilliti til þess, hvort vantrúnni sé nú ekki óhætt að láta þar til sín heyra. Það er sem sagt eins og

vantrúin spyrji með þessum síðustu ritstjórnargreinum: "Má eg detta?" — Og það er líkast til, að henni hafi heyrzt svarað: "Því ætli þú megir ekki detta!" Vér trúum því naumast, að hún hefði annars virkilega farið að láta þann part af sér detta, sem dottinn er. — En hvað er það sem hefir dottið svona niðr um sótugan eldhússtrompinn í "Lögbergi"? — Jón Þorláksson segir á einum stað: "Allt framstykkið varð aftan á, datt öfugt, ó, tjón, hryggjumst, dó". Fyrsta stykkið af aftrgöngu vantrúarinnar er dottið niðr í "Lögbergi", en hún kemr niðr á aftrfótunum. Þetta stykki, sem dottið er, er aðeins fótapartrinn; partarnir með höfðinu og hjartanu eiga eftir að detta, og það gefr von um, að þeir muni, ef til vill, aldrei áræða að detta. En eitt sýnist vafalaust, að þá langar til að detta líka, eru nú einmitt að spyrja að því, hvort þeir megi ekki detta, og annað líka vafalaust, eða vafa-lítið, að láti þessir partar verða af því að detta á eftir þessum, sem nú liggr fyrir oss augsýnilegr, hreifingarlaus og eins og steindauðr sé, þá skríða þeir allir saman og verða að lifandi persónu, sem girnist að gleypa lífsskoðan kristnu trúarinnar upp. Það getr verið, að þessi aftrpartr vantrúarinnar, sem dottinn er, hafi dáið í fallinu, og þá langar hina partana víst ekki til að detta á eftir. En langi þá virkilega til að detta og halda áfram að spyrja: "Má eg detta"? — þá vildum vér svara: "Því ætla þú megir ekki detta"! Heldr að detta en að hanga yfir manni í loftinu. Vér vitum þá virkilega, að þessi aftrganga er á lífi, ef hún heldr áfram að detta og skríðr saman frammi fyrir augum vorum. Vér förum þá líklega að gjöra alvöru af því, að koma henni fyrir, eða að minnsta kosti, ef kraftar vorir reynast of veikir til þess, að verja oss og kirkju vora fyrir árásum hennar.

Það er langr tími síðan vantrúin fór í "Heimskringlu" að spyrja vort fólk: "Má eg detta"? — Já, það var auðséð, að hún mátti það þar. Og svo duttu partarnir niðr fyrir fætr vors fólks. En þeir áttu örðugt með að skríða saman, því allt af vantaði partinn með höfðinu. Svo aftrgangan varð með engu verulegu lífi. Það vantaði vit í þá vantrú. Nú er á þessu orðin breyting við það, að blaðið fékk sinn nýja gáfaða og prýðilega ritfæra ritstjóra, hr. Gest

Pálsson. Nú þarf vantrúna þar, ef hún endilega vill vera að því að detta, ekki að vanta þann part af sínum líkama, sem er höfuðið. Og í seinasta nr.i "Heimskringlu" (9. okt.) dettr einmitt höfuðið niðr. Það er í miðri ritstjórnargreininni þar um félagsskap. Þar stendr þetta: "Frá heimsþroskunarinnar og mannúðarinnar sjónarmiði stendr alveg á sama, hvort maðrinn er kristinn, Gyðingr eða heiðingi, ef hann að eins hefir einhverja lífsskoðan, sem er honum sönn". Þetta er líkræðu-stúfr, eitt ákaflega einkennilegt líkræðu-brot. Hér er líkræða haldin yfir sannleikanum, því með þessu eru þau tíðindi boðuð frá "lífsskoðan" vantrúarinnar, að í rauninni sé enginn sannleikr til, alls enginn *objectiv* sannleikr í trúarefnum. Það, sem einhverjum sýnist vera satt, stendr í meðvitund hans sem satt, það sé sannleikr, eini sannleikrinn, sem til er. Með öðrum orðum: Sannleikrinn er að eins til í mannlegri ímyndan. Loksins hefir nú Pílatus í gröf sinni fengið svar upp á spurninguna: "Hvað er sannleikr?" Og ef einhvern fýsir að fá svar upp á alveg gagnstæða spurning: Hvað er lygi? eða: Hvað er ósannindi? — þá er nú svar fengið upp á þá spurning líka. Og svörin hljóða svona: Ef einhver maðr telr eitthvað satt, þá er það sannleikr. Ef annar maðr telr þetta sama lygi, þá er það lygi. Enginn sannleikr til; engin lygi til. Svona lítr nú út höfuðið af aftrgöngu vantrúarinnar. Ef meira skyldi nú vera eftir af þeim höfuðparti ódottið niðr og hanga upp yfir reikháfnum í "Heimskringlu" og þær leifar skyldi taka til að spyrja: "Má eg detta?" — þá er vort svar: "Því ætla þú megir ekki detta!"

# Hneyksli

I.

Fjárlaganefnd neðri deildar alþingis, þess er haldið var í sumar, lagði það til, að séra Mattíasi Jochumssyni væri veitt 1000 króna skáldlaun. Sú tillaga var svo samþykkt í þeirri þingdeild, en felld í efri deild. Af blöðunum að heiman verðr eigi beinlínis séð, hvað ráðið hafi atkvæðagreiðslunni um þetta atriði í hvorri þingdeildinni fyrir sig. En líkindi eru til, að öllu göfugri hugsan hafi vakað fyrir þeim þingmönnum, sem greiddu atkvæði á móti veiting þessarar upphæðar séra Mattíasi til handa, heldr en þeim, sem voru með henni. Fjárlaganefndin sýnist ekki hafa verið að hugsa um hið bókmenntalega gildi ljóða séra Mattíasar, þegar hún kom sér niðr á, að honum skyldi veitt þessi upphæð, því þá hefði hún ekki haft hana svo sultarlega, heldr um það, að gjöra einskonar miskunnarverk á fátækum manni, rétt eins og þegar verið er að veita einhverjum bjargþrota manni sveitarstyrk. Enda leggr sama hávísa nefndin það til í sömu andránni, að frú Torfhildi Holm sé líka sem rithöfundi veittr 500 króna árssstyrkr. Vafalaust hafa brjóstgæði fremr öllu ráðið í *þeirri tillögu.* Og þá er ólíklegt, að annar veitingarmælikvarði hafi vakað fyrir nefndinni, eða þeim þingmönnum, sem greiddu atkvæði með tillögu hennar, þegar um séra Mattías var að ræða. Vér höfum í engum minnsta vafa verið um það, að manni, sem annað eins liggr eftir í skáldlegum bókmenntum þjóðar vorrar, eigi að veita heiðrslaun, og í Maí-nr.i "Sam." hvöttum vér til þess, að það yrði gjört á þessu þingi, með svo setrkum orðum, sem vér áttum í eigu vorri; en 1000 króna upphæðin, sem stungið var upp á og samþykkt var í neðri deildinni, við hliðina á sumu öðru, er þar var líka samþykkt, hefði ekki orðið nein heiðrslaun. Sú upphæð var heiðri þings og þjóðar alveg ósamboðin. Minna en 3000 krónur var óhæfilegt að tiltaka, ef á annað borð skyldi nokkuð veitt. Þá upphæð hefir margr alveg ómerkilegr Íslendingr fengið í pensíón að eins fyrir það að hafa vítalaust fyllt eitthvert embættispláz um tiltekinn ára-

tíma. Og skyldi þá manni, sem annað eins liggr eftir í andans ríki og flestöll hin lýrisku ljóð séra Mattíasar, manni, sem utan Íslands er eins vel þekktr og hann, manni, sem á er bent utan úr heimi eins og andlega skáldstjörnu allt að því af fyrstu stærð, — skyldi slíkum manni vera nokkuð minna bjóðandi? Það fór því betr, að gjört var út af við þessi svo kölluðu skáldlaun séra Mattíasi til handa í efri deild þingsins. Beiðni um að launa þeim Steingrími Thorsteinsson og Benedikt Gröndal fyrir skáldskap þeirra á sama hátt var þar framborin, og virðist hún helzt hafa ráðið þeim örlögum, sem tillagan um þessa 1000 króna þóknan til séra Mattíasar fékk. Engum þeirra skal veitt neitt, og svo þarf enginn að öfunda annan — hefir sú þingdeild líklega hugsað. Og þó er nú eins og þessi þingdeildin hafi eitthvert veðr af því, að eitthvað ofr-lítið þyrfti þó að gjöra sérstaklega fyrir séra Mattías, annaðhvort sem mesta þurfamanninn eða sem mesta skáldið eða jafnvel hvorttveggja, því þar verðr það að álitum, að bæta upp Akureyrar-"brauðið", sem þessu mesta skáldi landsins hefir verið fengið sér til framfærslu, til bráðabyrgðar um 600 krónur. Í sameinuðu þingi er þessu að vísu breytt, hætt við uppbótina á "brauðinu", en sama upphæðin — 600 kr. — sem skáldskaparlaun handa honum er þar samþykkt.

Íslenzku alþingismennirnir eru alls 36, og af þeim eru 13 prestar, lúterskir prestar. En ekki kemr neinum þeirra, prestunum ekki heldr, í hug, að það fari miðr vel á því, að binda séra Mattías við eitt "brauðið" í kirkjunni, neyða hann til þess að vera í kirkjulegu embætti, svo að hann geti lifað, halda honum föstum í embættisstöðu, sem er algjörlega fyrir utan hans eðli og "element". Og ekki bólar neitt á því, að kirkjustjórnin íslenzka ætli neitt að gjöra til þess að losa séra Matthías við "brauðið" og hina öfugu embættishyllu, sem hann út úr neyð einu sinni hefir látið setja sig á. Með sínum fögru og háfleygu og sólbjörtu trúarljóðum hefir hann verðskuldað margfaldar þakkir frá öllum kirkjulýð þjóðar vorrar, en þá ætti líka þær þakkir að koma fram í því, að honum, eins andlega vaxinn og hann vitanlega er, væri gjört mögulegt að lifa embættislaus og áhyggjulaus í sínu skáld-

skapar-essi ("*esse*") og "elementi" það, sem eftir er æfidaganna. Og þó að öllum öðrum gleymdist þetta, þá ætti kirkjustjórnin og prestalýðrinn á Íslandi að muna eftir því. Menn bíða ekki með að veita séra Mattíasi Jokkumssyni viðrkenning sem höfuðskáldi þjóðarinnar þangað til hann er dauðr, en því haldi allir föstu, að sæmilegra er að veita honum alls engin skáldskaparlaun heldr en þá launa-ómynd, sem til tekin var í neðri deild þessa síðasta alþingis, að maðr nú ekki nefni 600 króna upphæðina, er síðast varð ofan á í þinginu.

II.

Ljótan grikk hefir bróðir vor og vinr séra Mattías Jokkumsson annars nýlega gjört þeim þar heima á Íslandi, sem hafa verið að úthrópa "vestr-íslenzku prestana" fyrir rangláta sleggjudóma, er þeir hafi látið frá sér útganga gegn íslenzku kirkjunni, sérstaklega þann dóm, að Únítara-vantrúin hefði þar svo og svo mikið friðland. Hann hefir nefnilega látið grein nokkra frá sjálfum sér í "Norðurljósið", er kemr út á Akureyri, þar sem hann út af fráhvarfi séra Magnúsar Skaftasens frá trúarjátning og barnalærdómi kirkjunnar lýsir yfir því, að hann sé því trúarfráhvarfi algjörlega samþykkr, og hann minnir meira að segja hispurslaust á það, að hann þegar áðr hafi opinberlega afneitað þeim sama lærdómi, sem hér hefir komið séra Magnúsi út úr lútersku kirkjunni. Hann telr það óhæfu, að kirkjufélag, sem eins og kirkjan á Íslandi og öll lúterska kirkjan í hverju landi sem er hefir sett aðaltrúarjátningarritin lútersku sem ófrávíkjanlegan kenningar-mælikvarða, skuli nokkuð hafa farið að skifta sér af því, þótt einn af prestum þess tæki til að prédika þar þvert á móti, þvert ofan í sinn eigin prestaeið, þvert ofan í skuldbinding þá, er hann gjörði við inngöngu sína í félagið, þvert ofan í barnalærdóminn, sem hann hafði kallaðr verið til að kenna, þvert ofan í grundvallarlög þeirra safnaða, er höfðu hann fyrir prest, og svo í tilbót auðvitað þvert ofan í kenning Jesú Krists eins og guðspjöll nýja testamentisins hafa flutt oss hana. Séra Mattías talar í grein þessari eins og fulltrúi fyrir íslenzku kirkjuna, og eins og stálharðr Únítari kemr hann þar út. Og vér kunnum hon-

um nú hjartanlegar þakkir fyrst og fremst fyrir það, að hann segir svo hreinskilnislega frá því, sem honum býr í brjósti, eða réttara sagt hefir búið í brjósti þá stundina, sem hann var að koma grein sinni á pappírinn, og í öðru lagi fyrir það, hve greinilega hann með þessari yfirlýsing sinni hefir sannað það, að þeir af oss "vestr-íslenzku prestunum," sem hafa látið til sín heyra umkvartanir um fráfall frá lútersk-um trúarlærdómi meðal prestanna á Íslandi, hafa þar að eins farið með sannleikann. Það að einn prestr í kirkju Íslands talar eins ákveðið á móti trúarjátning ekki að eins lútersku kirkjunnar, heldr líka *hinnar almennu kristnu kirkju,* eins og séra Mattías gjörir í þessari grein, og það prestr, sem vitanlega er einhver mesti andans maðrinn, sem þjóðin á í eigu sinni, —það sannar betr en nokkuð annað, hve aumlega sú kirkja stendr við sitt prógramm, það sýnir bezt, hve mikil ástæða er t. a. m. til þess að hrylla sig eins yfir þeim ummæl-um séra Hafsteins Péturssonar um þá sömu kirkju, að þar sé til "bæði skynsemistrúarprestar og Únítara-trúarprestar", eins og kirkjumennirnir sumir þar heima hafa gjört. Verri grikk gat séra Mattías ekki gjört þeim mönnum en að koma með þessa grein sína. Og kirkjustjórn Íslands hefir hann líka gjört herfilegan grikk, því ef hún vill láta það líta út, að henni sé alvara með trúarjátning sinna eigin safnaða og presta, alvara með þann eiðstaf með tilliti til kenningar-innar, sem hún bindr alla þá við, er hún hleypir inn í kenni-mannlegt embætti, þá verðr hún nú neydd til að heimta það aftr kallað, sem séra Mattías hefir hér látið út úr sér, sem skilyrði fyrir því, að hann geti framvegis staðið í embætti sínu sem lúterskr prestr. Og þá gæti það loksins orðið grikkr við alþingismennina, löggjöf landsins, sem af smá-sálarskap eða einhverju í þá áttina nú í sumar hafa neitað séra Mattíasi um þau laun úr landssjóði, er hann sem skáld hefir svo margfaldlega verðskuldað, því stæði hann nú við þessa yfirlýsing sína, eins og vér teljum lang-líklegast að hann gjöri, og hlyti svo rétt að sjálfsögðu að sleppa öllum kirkjulegum "brauðum" á Íslandi, þá myndi þó flestir sjá, að eitthvað meira væri fjárveitingarvald landsins skyldugt

að leggja honum til heldr en þessar 600 krónur, er þingið hefir nú í hann fleygt.

En vel getr nú verið, að reynt verði á einhvern hátt að klóra yfir þessa vantrúar-yfirlýsing séra Matthíasar, t. a. m. með því, að það trúaratriði, fordæmingarlærdómrinn nefnilega, sem varð til þess, að séra Magnús Skaftasen sagði skilið við kirkju vora, og sem séra Mattías segist opinberlega hafa afneitað, sé svo mikið smáatriði, að kristindómrinn standi jafn-réttr efti rsem áðr. Endrlausnarlærdómrinn sé aðalatriðið í kenning Jesú Krists; honum hafi séra Mattías aldrei neitað, og þá sé svo sem ekki neitt númer út úr því gjöranda, þó að hann hafi strykað fordæmingarlærdóminn út úr sinni eigin og kirkjunnar trúarjátning. Vér getum búizt við svona lagaðri vörn fyrir þeirri yfirlýsing, sem séra Mattías hefir nú komið með, því einmitt á þennan hátt hefir í hópi landa vorra hér vestra verið reynt að verja frá fall séra Magnúsar frá því trúaratriði, sem hér er um að ræða. En séra Mattías er ekki það barn, að honum detti nokkuð þvílíkt í hug eins og það, að endrlausnarlærdómrinn geti staðizt eftir að fordæmingarlærdómnum hefir verið kastað. Hann veit það fullvel, að afneitan þessa síðarnefnda trúaratriðis leiðir óhjákvæmilega til afneitunar á gjörvöllu kristindómsevangelíinu. Og til sönnunar því, að vér ekki förum hér með neitt hégómamál eða ósannindi, leggjum vér hér fyrir lesendr vora fáein orð úr bróðurlegu bréfi til ritstjóra "Sam." frá séra Mattíasi, rituðu 21. júní síðastl. Og þessi eru orð hans:

"Ykkar nýja stæla út af séra Magnúsi Skaftasen er hálfleiðinleg. Að vísu skrifa eg undir það, að fleira í opinberan tilverunnar en útskúfunar-kenningin sýnist öfugt og *absurd*, og ekki þurfa þeir, sem *dogmatíkinni* neita, að hrækja allhraustlega, því — það er satt — með þessum lærdómum fer nálega allt — allt — allt, sem við köllum opinberan í þeim gamla lúterska eða evangeliska skilningi."

En, það er alveg satt, séra Mattías er aldrei í sínu "elementi", þegar hann kemr fram fyrir almenning í sínum blaðagreinum eða þegar hann yfirhöfuð fer að tala opinberlega í óbundinni ræðu. Á þetta höfum vér áðr bent hér í

blaðinu, og því höldum vér æfinlega föstu. Sem lýriskt skáld er hann æfinlega maðr trúarinnar, og í sínu innsta eðli er hann það vissulega. Því mun hann sjálfr naumast neita. Hann er þá svo trúaðr, að hann tekr hinn kristilega fordæmingarlærdóm hiklaust með. Ef hann rétt í þann svipinn skyldi vera búinn að gleyma því, þá minnum vér hann á þetta vers í einum sálminum hans, einhverjum dýrðlegustu ljóðunum, sem íslenzka kirkjan á í eigu sinni:

"Fyrst kallar guð, og bregðist þú því boði,
þá biðr guð, og þó að hvorugt stoði,
þá þrýstir guð, og það er síðsta orððið,
ef því er neitað, hræðstu sálarmorðið!"

Og svo spyrjum vér nú að ending séra Mattías vin vorn og kirkjustjórnina íslenzku í mesta bróðerni: Ætlar hann og hún að stryka þetta vers út úr sálmabókinni? og þá kenning, sem þar er haldið fram, úr hinum kirkjulega boðskap? Ætlar kirkjan þar heima að standa við sitt trúarprógramm eða ekki? Er kirkjan á Íslandi svo mjög orðin á undan eða eftir öllum lúterskum kirkjum heimsins, að hún nú orðalaust lofi prestunum sínum að tala opinberlega á móti sínum eigin trúarjátningum?

# Fastan, syndin og náðin

Hvaða hugleiðingar eru það, sem fylla ættu hjörtu kristinna manna um þetta leyti? Af öllum tímabilum kirkjuársins er föstutíminn þýðingarmestur. Ár eptir ár lifa þá kristnir menn upp aptur á andlegan hátt hinn stórkostlegasta viðburð mannkynssögunnar. Píslarsaga og píslardauði frelsarans er hið lang-stærsta og lang-þýðingarmesta af öllu því, sem mannkynssagan hefir frá að segja. Á vogarskálum sögunnar er sá viðburður svo þungur, að hann eins og vegur upp á móti öllum öðrum.

Hann minnir oss á tvennt. Og þetta tvennt er tvö aðalatriði kristindómsins. Hann minnir oss á mannanna mesta sorgarefni. Og hann minnir um leið á mannanna mesta gleðiefni.

Sorgin, —allt það, sem mennirnir verða að taka út, í hverju er það innifalið? Tegundir sorgarinnar eru ótal, og málið á ótal orð til að tákna hana með í hennar ýmsu myndum. Vér tölum um harma og raunir, bágindi og neyð, trega og tár, óp og vein, stunur og andvörp, sársauka og kvöl, fátækt og örbyrgð, skömm og smán, ótta og örvinglun. Öll þessi orð og mörg önnur fleiri tákna neyð mannlegs hjarta í ýmsum myndum. Sá, sem finna vill upptök fljótsins, fylgir því frá mynni þess og þangað, sem hin fyrsta uppspretta kemur upp úr jörðinni. Tökum nú allar þessar hugmyndir, sem tákna mannlega sorg, og fylgjum þeim þangað, er þær hafa upptök sín. Hver verður þá niðurstaðan? Sú, að allar þessar mörgu mannlegu raunir hafa sameiginleg upptök. Hvaða upptök? Hvað heitir uppsprettan? Syndin. Þaðan eru allar vorar raunir runnar. Það orð felur í sér allar mannlegar sorgarhugmyndir. Af því syndin yfirgnæfir, yfirgnæfir líka sorgin. Viljir þú gjöra sorgina minni, verður þú að stemma stigu fyrir syndinni. Viljir þú fá eitthvert lyf, er létti harm þinn, verður það að lækna þína synd. Viljir þú hugga þann, sem örvæntingin hefir slegið, verður þú að gjöra einhverja fullnægjandi ráðstöfun fyrir synd hans.

Fastan minnir oss þá fyrst og fremst á þetta sterka, eyðileggjandi afl í mannshjartanu og mannlífinu, — syndina. Hún kemur til vor eitt sinn á hverju ári til að beina huga vorum inn á við, — kennir oss að ganga upp með fljótum mannlegra rauna og rekja allt það, er að oss amar, þangað, sem það hefir upptök sín. Svo nemum vér staðar, slegnir af ótta og hræðslu, fyrir framan vora eigin synd. Þaðan allur harmur, öll tár.

Hugsaðu þér kvalir allra manna orðnar að einni kvöl, andlegan harm allra einstaklinganna orðinn að einum harmi, allar syndir, sem mennirnir drýgja, orðnar að einni stórsynd. Ímyndaðu þér svo einn einstakling standa fyrir framan þetta allt, — taka við kvölum allra manna og líða þær, taka við öllum harminum, sem tætir sundur mannleg hjörtu, og leggja hann inn í sitt eigið hjarta, taka við öllum syndum mannanna og þola hegning þeirra. Þegar þú ímyndar þér þetta, sér þú hina guð-mannlegu persónu hans, sem fastan er helguð. Föstutíminn segir þess vegna við þig eins og Jóhannes skírari: Sjá það guðs lamb, sem ber alls heimsins synd!

Fastan lætur þig fyrst nema staðar fyrir framan þína eigin synd. Svo sýnir hún þér syndir allra manna, — einstaklinganna, þjóðanna, mannkynsins. Og hún lætur hjarta þitt vera hrætt og sál þína fulla dauðans angist. En svo sýnir hún þér hann, sem tók allt þetta að sér, — leið fyrir það allt, bar það upp á krossinn, lét það sprengja hjarta sitt.

Hið fyrsta orð föstunnar til mannanna er: Syndin. Hið annað orð, sem hún talar til þeirra, er: Náðin. Syndin og náðin eru kristindómsins aðalhugmyndir og allar föstuhugleiðingar ættu að vera um þetta tvennt. Syndin er mannanna mikla sorgarefni. Náðin, opinberuð í Jesú Kristi frelsara vorum, mannanna mikla gleðiefni.

Vér eigum einhver hin fegurstu trúarljóð, sem til eru í heiminum út af píslarsögu frelsara vors, passíusálmana. Það, að þessir sálmar eru svo dýrðlegir, er vegna þess, að höfundinum hefur tekizt svo vel, að gjöra þetta tvennt átakanlegt: Mannlega synd og guðlega náð. Þú, sem þetta les, lát þú ekki þessa föstu svo yfir þig líða, að þú lesir

ekki passíusálmana, til þess að sannfærast þar um þína eigin synd og guðlega náð.

Að þessi föstutími yrði afturhvarfs og iðrunartími fyrir allt vort fólk og að það mætti flýja með alla sína harma og raunir, bágindi og neyð, trega og tár, óp og vein, stunur og andvörp, sársauka og kvöl, fátækt og örbyrgð, ótta og örvinglun undir kross frelsara vors og sannfærast þar um guðlega náð, — það látum vér vera föstubæn "Sameiningarinnar".

# Kristin skáld

Ný-látin eru tvö einhver hin merkustu skáld, er orkt hafa á enska tungu á þessari öld. Annað þeirra er hinn frægi skáldkonungur Englands, Alfred Tennyson, en hitt eitt af hinum allra helztu skáldum þessa lands, John Greenleaf Whittier. Hinn fyrr nefndi hefur um langan tíma þótt bera af öllum enskum skáldum. Og síðan Longfellow lézt hefur Whittier gamli, Kvekara-skáldið, í rauninni verið viðurkenndur skáldakonungur Ameríkumanna. Þeir voru næsta ólíkir þessir menn. Það mundi leiða oss of langt, ef vér færum að gjöra grein fyrir skáldskap þeirra, enda er það langt frá ætlun vorri. Vér vildum að eins benda á eitt, sem einkennir skáldskap þeirra. Þeir voru báðir kristnir menn. Og sú lífsskoðan, sem allur skáldskapur þeirra er borinn af, er lífsskoðun kristindómsins. Líf þeirra beggja hefur að allra dómi verið í fullkomnu samræmi við þessa lífsskoðan. Hvorugur þeirra áleit það nauðsynlegt, að varpa trú sinni fyrir borð, til þess með því móti að verða meira skáld. Hvorugur þeirra áleit það heldur skáldinu samboðnara að lifa illa, láta líf sitt vera uppreisn gegn siðfræðislögmáli kristinna manna.

Vér tökum þetta fram, af því svo oft er verið að slá því föstu af þeim óvinum vorrar kristnu trúar, sem mest tala, en minnst vita, að flestir miklir menn í andans heimi

séu kristindóminum andstæðir. Líka hefur sú skoðun smeygt sér inn meðal þjóðar vorrar, að þeir menn, er þegið hefðu hina göfugu skáldskapargáfu, væru yfir það hafnir að lúta hinu almenna siðferðislögmáli. Vér Íslendingar erum öldungis ekki einir með þessa undarlegu skoðun. Hún er til vor komin, eins og svo margt annað, frá Dönum. En þeir hafa aftur drukkið þessa skoðun inn í sig frá Frökkum, þeirri þjóð, er lægst stendur í siðferðislegu tilliti af öllum hinum menntuðu þjóðum, — þar sem léttúðin er mest, alvaran minnst. Skáldunum er þar allt leyfilegt. Almennings-meðvitundin afsakar þau oftast nær, þótt þau gjöri sig hvað eftir annað sek í því, er hart mundi tekið á í lífi annarra manna. Það er eins og þau eigi að hafa eitthvert einkaleyfi á því að lifa í synd. Það liggur í augum uppi, hve skaðleg þessi skoðun er fyrir siðferðislega meðvitund þjóðarinnar.

Öllum kemur saman um, að enginn hæfilegleiki, sem mönnunum hefur verið gefinn, sé fegurri og göfugri en skáldskapargáfan. Skáldin hafa líka frá alda öðli verið álitin spámenn þjóðar sinnar, — þeir, sem umfram aðra dauðlega menn eiga að bera sannleikanum vitni; þeim er trúað til þess, oft og tíðum að minnsta kosti, að sjá sannleikann með berari augum en aðrir menn. Og svo skyldu þessir menn, sem yrkja um sannleikann og fegurðina, hafa leyfi til þess umfram aðra menn, að láta líf sitt vera í sem allra mestri mótsögn við orðin, sem þeir tala. Af öðrum er það heimtað, sérstaklega kristnum mönnum, að líferniö sé í samræmi við kenninguna. Sú heimting er vissulega réttlát. En vér fáum ekki betur séð, en sama lögmálið sé í jöfnu gildi fyrir alla. Vér fáum ekki betur séð en líf skáldanna ætti að vera líf í sannleika og fegurð, úr því kenning þeirra leggur mesta áherzlu á þetta tvennt. Miklir hæfilegleikar gefa engin einkaréttindi til að lifa í synd. Af þeim, sem mikið er gefið, verður líka mikið heimtað. Lífernið hefir líka stórkostleg áhrif á þann boðskap, sem einstaklingurinn hefir fengið köllun til að flytja. Ljótt líferni hefur oft dregið skáldskapinn ofan í saurinn. Hugsanirnar hafa saurgazt, yrkisefnið orðið ljótt. Þannig hafa skáldin oft orðið til þess að bera eitur ofan í sjálfar uppsprettu-

lindir hins andlega lífs meðal þjóðanna. Það er næsta fátt, sem unnt er á að benda í sögu þjóðanna, er skaðvænlegri áhrif hafi en einmitt þetta. Miklu af þeim skáldskap, einkum söguskáldskapnum, sem nú er mest lesinn, er þannig varið, að hann lyptir ekki siðferðis-meðvitundinni hærra, heldur dregur hana ofan í skarnið. Ekki á þetta sér síst stað á Frakklandi meðal *realistanna*, er svo oft hefur verið talað um. En á Norðurlöndum hafa skáldin lengi verið fúsari á að fylgja frakkneskum fyrirmyndum í skáldskaparlegu tilliti en nokkrum öðrum. Vér Íslendingar "dependerum af þeim dönsku" í skáldskapnum ekki síður en öðru, og ósjaldan vill það þá til, að vér erum fljótastir að taka það eftir, sem sízt skyldi.

Það eru aðrar bókmenntir, sem heilsusamlegri áhrif mundu hafa á íslenzkt þjóðerni og hugsunarhátt en hinar frakknesku og dönsku, þó margt sé þar auðvitað ágætt innan um. Sú þjóð, sem Íslendingar mundu mest græða á að eiga andleg viðskipti við, eru að vorri hyggju Englendingar. En fram að þessum síðustu tímum hafa einmitt enskar bókmenntir verið hulinn fjársjóður fyrir oss. Það hefur verið gengið fram hjá þeim til að seilast í annað miklu lakara. Það, sem oss virðist enskar bókmenntir hafa fram yfir bókmenntir annarra þjóða, stendur einmitt í sambandi við siðferðismeðvitund hinnar ensku þjóðar. Brezkir rithöfundar og skáld hafa lifað hreinna lífi en títt hefur verið meðal bræðra þeirra á meginlandinu. Frá þessu eru svo sem að sjálfsögðu undantekningar. En siðferðismeðvitund ensku þjóðarinnar hefur einlægt verið svo sterk og heilbrigð, að hún hefur heimtað af skáldunum og rithöfundunum, leiðtogum lýðsins, að líf þeirra væri fagurt og hreint eins og hugsanirnar í bókum þeirra. Það er líka ekki unnt að benda á neinar bókmenntir jafn-stórkostlegar og hinar ensku, sem um leið eru jafn-hreinar. Skáldin ensku hafa ekki verið skáld, spámenn þjóðar sinnar, einungis þær tiltölulega fáu stundir æfi sinnar, er þeir orktu kvæði sín, heldur hefir sú fullkomnunarhugmynd, sem fyrir þeim hefur vakað, verið í því fólgin, að allt líf skáldsins ætti að bera fegurðarinnar og sannleikans einkenni, ætti að vera eitt hetjukvæði, satt og fagurt frá upphafi til enda. Þess vegna hafa ensku

skáldin kveðið svo mikla heilbrigði inn í þjóðlíf sitt, af því þeir hafa sjálfir litið heilbrigðum augum á lífið, verið sjálfir andlega heilir, ósýktir af spilling og vondum lifnaði. Undantekningarnar þekkjum vér, Byron á Englandi, Poe hér í Ameríku. En undantekningar þessar hafa meira orðið til viðvörunar en eftirbreytni. Hin tvö ný-látnu skáld, Tennyson og Whittier, minna oss sterklega á þessa ensku hugmynd um skáldið. Bækurnar, sem eftir þá liggja, eru svo hreinar, að þar finnst engin saurug eða ljót hugmynd. En jafn-hreint og skáldskapur þeirra var lífið, sem þeir lifðu. Báðir voru þeir kristnir menn, og hvervetna komu þeir fram sem *Christian gentlemen.*

Það væri óskandi, að hin vaxandi viðskipti Íslendinga vði ensku þjóðirnar yrðu til þess, að þeir kynntust betur enskum bókmenntum. Ef skáldin íslenzku sæktu þangað fyrirmyndir sínar, höfum vér þá trú, að þau mundu kveða meiri heilbrigði, meira starfsfjör, meiri dug og dáð inn í þjóðlíf vort en hingað til hefur átt sér stað. Ef hin siðferðislega meðvitund þjóðar vorrar yrði nokkurn tíma eins sterk og heilbrigð og hinna ensku þjóða, mundu kröfurnar til skáldanna verða aðrar en þær nú eru.

En það, sem um fram allt annað gefur skáldskapnum siðferðislega þýðing fyrir þjóðirnar, er afstaða hans til kristindómsins. Sá skáldskapur, sem borinn er af lífsskoðun, kristindómsins, hefur ætíð heillavænleg áhrif á þjóðlífið. Kristin skáld er eitt hið allra dýrðlegasta, sem nokkur þjóð getur bent á sem eign sína. Enn eru mörg hin helztu skáld heimsins kristin, og svo mun það ætíð verða. Og þegar vér hryggir í anda heyrum sum hin yngri skáld vor syngja uppreisnarsöngva gegn trúnni og kristindóminum, heyrum vér um leið annan söng á tungumáli trúarinnar, svo sterkan og djarfmannlegan, að vér vitum, að drottinn mun gefa honum sigur.

# Fúin virki

Margir af lesendum vorum muna eftir nýárskvæði séra Mattíasar, sem út kom í síðasta tölubl. *Lýðs*. Það er að mörgu leyti fremur óvandvirknislegt, en hefur inni að halda ýmsar fagrar og sannar hugsanir; það er fullt af skáldlegum tilþrifum eins og vant er hjá höf. Á titilblaðinu fyrir "Aldamótum" stendur eitt vers úr kvæði þessu. Það hljóðar svo:

Eg veit að trúin á virki fúin,
það vantar bót;
en lát ei teygjast svo losnir eigi
við lífs þíns rót,
því bráðum eygir þú *aldamót*,
þá opnast vegir, sem létta fót.

Ritstjóri Kirkjublaðsins segist hafa brosað, þegar hann las þessi einkunnarorð fyrir riti voru, vestur-íslenzku prestanna. Og hann hafi brosað vegna þess, að þar sem séra M. tali um "fúin virki", hafi hann auðvitað meint kenninguna um eilífa útskúfun, ásamt ýmsu öðru, sem honum finnst vera orðið úrelt, en vér viljum verja og í heiðri hafa. — Oss furðar ekki svo lítið á þessu brosi bróður vors fyrir handan hafið. Því það bendir óneitanlega á þrengri skoðun á skáldskap en vér áttum von á að fram mundi koma hjá honum. — Samkvæmt þessum skilningi hefur sálmabókarnefndin gjört sig seka í sömu ósamkvæmninni og vér með því að taka sálma séra M. upp í sálmabók vora. Því ef hún hefði lesið sálma hans í birtu alls þess, sem hann hefur látið sér um munn fara, bæði opinberlega og prívat, í blaðagreinum og bréfum til kunningjanna, hefði ekki getað hjá því farið, að sama brosið hefði komið yfir varir hennar og ritstjóri Kirkjublaðsins talar um. Hún hefur því hlotið að slá stryki yfir allt þetta í huga sínum. Hið sama verða allir þeir að gjöra, er syngja vilja sálma hans, — og vér vitum ekki betur en það séu allir, er nota sálmabók vora. Þeir setja þá ekki í samband við hinar marglitu skoðanir

höfundarins, heldur skilja þá eftir orðanna hljóðun. Af eldri sálmum kirkjunnar eru æðimargir orktir af óreglumönnum. Enginn lætur það nú draga úr gildi þeirra, þótt virkileikinn í lífi höfundanna hafi ekki verið á nærri því jafnháu stigi og hinar göfugustu hugmyndir þeirra. Og vissulega væri það hörmulegt þröngsýni, er léti skáldskapinn, hvort heldur hann er veraldlegs eða andlegs efnis, gjalda þess, þótt höfundarnir hafi ekki á einhvern hátt staðið við hann í lífi sínu. Það yrði lítið eftir af verkum hinna mestu skálda heimsins, ef þau væru mæld á þann kvarða.

Þegar vér höfum fyrir oss annað eins og þetta eftir séra M.: "Eg veit, að trúin á virkin fúin" o. s. frv., leggjum vér nákvæmlega þá þýðing í orð þessi, er þau sjálf bera með sér. Orðið *virki* er í þessu sambandi hið sama sem hinar ytri umbúðir trúarinnar. Það eru öll þau mannlegu verkfæri, sem sannleikurinn tekur í þjónustu sína. Það eru mennirnir, sem eiga að vera erindsrekar drottins, og settir eru yfir hjörðina til að gæta hennar. Það eru kennarar og sálusorgarar kirkjunnar, sem halda eiga uppi vörn og sókn fyrir trúna um leið og þeir sá og gróðursetja, vökva og verma með starfi sínu í víngarði drottins. Allt þetta er virki trúarinnar. Og í þau getur komið *fúi,* þótt hann snerti auðvitað aldrei trúna, sannleikann sjálfan. Af því það virðist vera æði-margt, sem bendir á að fúi sé kominn hér og þar í virki vorrar ísl. kirkju á yfirstandandi tíð, voru hinar áminztu hendingar eftir séra M. gjörðar að einkunnarorðum rits vors. Það að séra M. neitar útskúfunarkenningunni hefur ekkert með þau að gjöra, annað en það að benda á hann og aðra, er eitthvað svipað gjöra, sem fúin virki frá kirkjulegu sjónarmiði. En það að Kirkjublaðið, helzti riddarinn, sem kirkja fósturjarðar vorrar nú á, kemur í þessu máli fram á vígvöllinn með brotna burtstöng, sýnir betur en nokkuð annað að ekki er alveg ástæðulaust að tala um fúa.

Vér brosum stundum hérna megin hafsins líka!

# Frelsi

Það er mikið talað um frelsi á þessum tímum. Það hefir aldrei á liðnum öldum nærri því eins mikið verið talað um frelsi — almenningsfrelsi — í heiminum eins og einmitt nú. Frelsi er líklega það orð, sem nú á tímum er meira talað um og meira ritað um en flest, ef ekki öll, af hinum svo kölluðu "stóru" orðum í mannlegu tungumáli. Og af því að svo mikið er um þetta mikla orð talað og ritað, þá ætti maðr að mega ganga út frá því, að meira væri líka um það hugsað en flest annað. Og það er líka sannarlega vert að hugsa mikið um þetta orð — *frelsi*, því það táknar nokkuð, sem í sjálfu sér er mjög eftirsóknarvert. Frelsi er einhver sú dýrmætasta eign, sem nokkur maðr getr átt. Án frelsis er ómögulegt að vera sæll. Án frelsis getr manneðlið ómögulega notið sín. Án frelsis getr maðrinn ekki náð þeirri andlegu tign, sem hans eigin meðvitund segir honum að honum sé ætlað að ná. Án frelsis getr maðrinn naumast verið maðr. Ófrelsið gjörir út af við manninn í mönnunum. — Og nú er heiminum í heild sinni farið svo mikið fram, að hann er farinn að sjá þetta, og af því hann er farinn að sjá það, þá er nú meir hugsað og ritað og rætt um frelsi en nokkurn tíma áðr. Hinar liðnu aldirnar töluðu um frelsi, fyrir einstaka menn og mannflokka. En nú gengr frelsishugsunin og frelsistalið miklu lengra. Nú er almenningsfrelsi á dagskrá nálega um öll lönd heimsins.

En þó að þetta stóra orð, *frelsi,* sé nú efst á dagskrá, einnig meðal vors þjóðflokks, og þó að guðlegri forsjón sé sannarlega fyrir það þakkanda, að vér í þessu tilliti lifum á betra tíma heldr en þeir lifðu, sem á undan oss eru hnignir til moldar, þá væri hrapalegr misskilningr að ætla, að sönn hugmynd um frelsi sé að sama skapi útbreidd nú meðal alþýðu manna eins og mikið er talað um frelsi nú orðið almennt. Mikið af skrafi fólks um frelsi er hégómi og heimska. Margt það, sem menn kalla frelsi og berjast fyrir í frelsisins nafni, er argasta ófrelsi. Og margir reyna til að telja sér og öðrum trú um, að það sé óþolandi ófrelsi, sem

í rauninni er sannarlegt frelsi. Menn búa einatt á þessari frelsisöld til grýlu úr því, sem í sannleika er frelsi, með því að kalla það ófrelsi. Og á hinn bóginn klæða menn oft það, sem er greinilegasta ófrelsi, í skínandi búning og skrifa með gylltu letri utan á þann búning orðið *frelsi*. Og svo verðr afleiðingin af þessu, að heilir hópar fólks eru að elta skugga frelsissælunnar og hreppa loks, þegar þeir hafa náð honum, reglulega ófrelsisvansælu. Vér förum víst ekki með neinar öfgar, þó vér segjum: Í hvert skifti, sem hér í vorum íslenzka mannhópi hefir verið komið með eitthvert verulega gott og uppbyggilegt almenningsmál og menn verið beðnir að styðja það, þá hafa allt af heyrzt fleiri eða færri raddir, sem hafa leitazt við að fá menn til að trúa því, að nú væri verið að smeygja ófrelsi inn á meðal almennings, og af því að hér væri ófrelsi á ferðum, þá skyldi menn nú standa á móti. Og svo hafa vitanlega eigi fáir orðið, ef ekki opinberlega, þá í laumi, á móti. Og á hinn bóginn: Þegar einhverjum hefir dottið í hug að ota fram einhverju illu og skaðlegu máli, þá hefir það vanalega verið gjört í nafni frelsisins, og hafi það á annað borð fengið nokkra stuðningsmenn, þá hafa þeir yfir höfuð borið það fyrir, að þetta mál yrði menn endilega að styðja frelsisins vegna. — Eigi þarf að fara út fyrir hina kirkjulegu kristindómsbaráttu vora, til þess að leita að sönnunum fyrir því, sem nú var sagt. Að svo miklu leyti, sem barizt hefir verið á móti kirkju vorri, þá hefir sú mótspyrna fremr öllu öðru verið studd með þeirri staðhæfing, að kirkjan kæmi með ófrelsi, og því væri sjálfsagt að vera á móti henni. Og að svo miklu leyti sem barizt hefir verið fyrir vantrú og guðleysi, þá hefir sú barátta verið réttlætt með því, að frelsi — andlegt frelsi almennings — útheimti slíka baráttu.

Það var dimm ófrelsisöld, þegar Jesús Kristr stofnaði ríki sitt í heiminum. Hann kom með sinn frelsisboðskap á þeim tíma, þegar þetta orð, *frelsi*, var varla til í tungumáli almennings. Gyðingalýðr hafði um margar aldir búizt við frelsara, einstaklegri, guðlegri persónu, Messíasi, er ætti að veita þjóðinni frelsi. En þegar svo Kristr kom, var eins og enginn hugsaði um neitt annað frelsi en það, að losna undan pólitískum yfirráðum og kúgunarveldi Rómverja. Og er það

sýndi sig, að Jesús þessi, er vitnaði um sig að hann væri nú einmitt sá hinn sami Kristr, sem allt gamla testamentið hafði um spáð, ætlaði ekkert slíkt frelsi að veita þeim, þá hneyksluðust þeir á honum, hötuðust við hann og heimtu hann krossfestan. En frelsisins boðskap kom hann með engu að síðr. Hann lifði fyrir þá miklu guðlegu hgusan, að gjöra mannssálirnar frjálsar, og hann dó hinum kvalafulla krossdauða til þess að hið guðlega frelsi gæti orðið allsherjar-eign mannkynsins.

"Þitt orð er sannleikr", sagði Jesús við hinn himneska föður sinn í bæninni rétt áðr en píslarsaga hans hófst. Og áðr hafði hann sagt við Gyðinga: "Sannleikrinn mun gjöra yðr frjálsa". Það er æðra frelsi en allt annað frelsi, sem Jesús talar hér um. Það er frelsi frá synd og óguðleik. Það er undirstöðufrelsi undir allt annað sannarlegt frelsi. Ekkert annað frelsi fullnægir manninum, svo framarlega sem þetta undirstöðufrelsi vantar. En sé þetta undirstöðufrelsi Jesú Krists eign manns, þá má lifa, og það jafnvel lifa sæll, þó að margt annað frelsi vanti eða sé af mjög skornum skammti.

Það er átakanleg hugvekja frelsinu viðvíkjandi, það atriði píslarsögunnar, sem segir frá því, þegar alþýða Gyðinga beiddist þess, að Barrabasi væri gefið frelsi, en heimti, að Jesús væri krossfestr. Ástæða er til þess út af því, að hugsa um þetta merkilega og dýrmæta orð, *frelsi,* og það, hve hræðilega er einatt með það orð farið af almenningi. Myndirnar af öðrum eins höfuðpersónum í hinni miklu sorgarsögu eins og þeim Kaífasi og Pílatusi standa yfir höfuð úthleyptar eða með lifandi litum afmálaðar fyrir hugskotssjónum kristins almennings — mönnum til æfinlegrar viðvörunar. Það er vel og gott. En ekki ætti menn út af þeim myndum að gleyma uppdrætti guðspjallasögunnar af almennings-hugsunarhættinum meðal Gyðinga á sama tíma og þeir Kaífas og Pílatus komu til sögunnar. Sízt ætti alþýða nú að gleyma því, hvernig alþýðan þá kom fram. Menn ættu nú vel að taka eftir því, hvernig alþýðan þá fór með frelsi sitt. Allir ættu á þessum alþýðustjórnartíma að hafa það hugfast, hvað almenningr gjörði, þegar Pílatus, í von um að sleppa hjá því að breyta á móti

betri samvizku, ef hann skyti málinu undir almenningsálitið, bauð alþýðu að kjósa, hvor þeirra Jesús eða Barrabas skyldi gefinn laus. Einu sinni hafði þó alþýða í Ísrael frelsi. Einu sinni mátti hún þó ráða á þeirri ófrelsisöld. Einu sinni er þýðingarmesta málinu í mannkynssögunni skotið undir vilja almennings. Einu sinni var þó almenningsálitinu af þeim, sem annars réðu öllu, leyft að verða ofan á. Og niðrstaðan, sem náðist í máli því, sem hér var um að ræða, við það að almenningr fær að ráða, er það, að hinn heilagi og réttláti er deyddr, en illmennið og óbótamaðrinn er gefinn laus. Þvílík hörmuleg niðrstaða! Þvílík hræðileg misbrúkun á frelsinu! Þvílíkt almenningsálit! Gætum að: þeim Kaífasi og Pílatusi er vanalega kennt um krossfesting og dauða Jesú. Og víst dettr oss ekki í hug að halda vörn uppi fyrir hinni lúalegu og samvizkulitlu framkomu þeirra. Þeir hafa vissulega sinn dóm með sér, og hann ekki léttan. En eftir því er vert að muna, að Kaífas gat ekki, þótt hann vildi, ráðið því, að Jesús væri líflátinn, og Pílatus vildi það ekki, þótt hann hefði vald til þess, því samvizka hans sagði honum, að Jesús væri saklaus. Og með öllu sínu trúleysi vildi hann ekki dæma Jesúm til dauða þvert á móti rödd samvizku sinnar. Hann vonaðist eftir, að ef hann skjóti málinu undir dóm alþýðu, þá sleppi hann við vanda þann, sem hann fann sig nú vera í. Það var siðr hvert ár um páskaleytið, að hinn rómverski landstjóri náðaði einn bandingja af þjóðflokki Gyðinga. Svo lætr þá Pílatus leiða þessa tvo, ræningjann og morðingjann Barrabas og Jesúm frá Nazaret, fram fyrir lýðinn og spyr: “Hvorn þessara tveggja viljið þér nú, að eg gefi yðr lausan?” Hann bjóst við, að þeir bæði hiklaust um Jesúm. Nei, þeir biðja í einu hljóði um Barrabas. Aldrei í mannkynssögunni hefir almenningsálitið orðið sér eins hróplega til syndar og skammar eins og í þetta sinn. Hér átti almenningsviljinn kost á að hindra það hryllilegasta illvirki, sem nokkurn tíma hefir verið unnið. En í stað þess heimtar hann, að þetta illverk sé einmitt unnið. Alþýðuviljinn dæmir Barrabas til lífs, en Jesúm til dauða. Alþýðu Gyðinga er eitt augnablik veitt frelsi, og þá dæmir hún þennan himinhrópanda dóm.

Það er annars víðar í píslarsögunni, að alþýðuhugsunar-

háttrinn stingr fram höfðinu. Þess er t. a. m. getið um þjónana, sem höfðu Jesúm til gæzlu meðan hann var í sínu fyrsta varðhaldi, áðr en prestaráðið hélt fund sinn út af máli hans, að þeir hafi hrækt í andlit honum, gjört gys að honum, slegið hann, sumir með hnefum og sumir með lófum, hafi byrgt fyrir augu hans, slegið í andlit honum og sagt: "Spá þú, hver það var, sem sló þig", o. s. frv. Þá er Pílatus hafði lokið sínum heimskulega handaþvotti, með þeim ummælum, að hann væri sýkn af blóði þessa réttláta manns og að þeir skyldi sjá fyrir því, þá hrópaði allr lýðr: "Komi blóð hans yfir oss og börn vor." Og þegar Jesús var uppnegldr á krossinn, þá sýnist alþýða manna óðar hafa tekið til, er hún gekk þar fram hjá, að atyrða hann, hrista yfir honum höfuð sín, brigzla honum um ýmislegt, er hann hafði áðr sagt, og mana hann, ef hann væri guðs sonr, að stíga nú niðr af krossinum. — Svona kemr alþýðan fram gagnvart þeim mesta alþýðuvini, sem nokkurn tíma hefir lifað. Svona ver alþýða öllu því frelsi, sem hún á, þegar þessi sama alþýða er orðin að guðlausum skríl. Það er óhætt að bera dýpstu lotning fyrir þessu orði, *frelsi,* en það er líka óhætt að hræðast þetta orð — *frelsi* —, þegar það er í höndum eða munni eða hjörtum þess fólks, sem eins stendr andlega á fyrir eins og þeim, sem til forna kröfðust krossfestingar og dauða Jesú.

Jesús er ekki líkamlega og sýnilega hjá oss á lífi. Og Barrabas vitanlega fyrir löngu dauðr. En málefni hins krossfesta Jesú Krists er hér hjá oss og því málefni fylgir frelsarinn hvervetna, þótt ósýnilegr sé, því hann lifir enn og deyr aldrei. En það er líka til hjá oss það, sem vér getum kallað málefni Barrabasar, þótt persóna hans sé ekki á lífi. Hann var ræningi og manndrápari, ekta stigamaðr, þessi Barrabas. Og sami andinn, sem rak hann áfram út á sinn eyðileggingarferil, lifir enn í hinum lægstu og ljótustu lögum mannfélagsins. Það er aflið, sem dregr eða leitast við að draga alþýðuna niðr í sorpið. Það er afl hins misbrúkaða frelsis. Það er aflið, sem gefr öllum hinum óguðlegu, dýrslegu og djöfullegu fýsnum hins spillta manneðlis lausan tauminn. Það er aflið, sem setr frekjuna og heimskuna og illgirnina upp á veldisstólinn og berst þar í

nafni frelsisins á móti öllu því, sem er satt og rétt og gott. Hin kristna kirkja vor leiðir mynd Jesú Krists hins krossfesta fram fyrir almenning og býðr honum það frelsi, sem hann hefir á boðstólum, og sýnir hverjum einstökum, hvílíkr sá andi er, sem frelsi hans er samfara. Sjá hefir mátt í liðinni tíð ávexti hvorstveggja þessa anda í mannfélagi voru, og sjá má þá vissulega enn. Um tvennskonar frelsi á hver einstakr meðal fólks vors kost á að velja: frelsi Jesú Krists og frelsi Barrabasar-andans. Frelsi vilja allir hafa. Frelsi hljóta allir að hafa. Allir eru skapaðir með frjálsræði, og það þýðir, að allir eiga að eiga frelsi og ráða sjálfir yfir því. Þú, hver sem þú ert, hefir frelsi til að slá þér í þann mannhópinn, sem lætr anda Jesú ráða yfir sér. En þú hefir líka frelsi til að fylla þann flokkinn, sem heimtar, að Barrabas sé látinn laus og gjöri allt, sem honum þóknast. En þeagr þú velr um þessa tvo kosti, þá mundu vel eftir því, að ástæðurnar eru nú alveg hinar sömu og til forna, þó að nú sé frelsisöld, en þá væri ófrelsisöld. Ef þess er krafizt, að Barrabas fái að lifa og halda áfram að vaða uppi, þá er þar með að sjálfsögðu krafizt, að Jesús Kristr sé til dauða dæmdr. En vilji menn, að Jesú Kristr lifi hjá sér, þá þýðir það dauða þess anda, sem Barrabas stjórnaðist af, hjá þeim sömu mönnum.

Ó, að öll vor alþýða væri andlega frjáls! Ó, að hún gæfi sig öll undir það andlega afl, sem gjört getr alla menn andlega frjálsa? Vér höfum bent á, hvar þess andlega afls er að leita. Það er hjá honum, sem alþýða Gyðinga útskúfaði, þegar hún bað um að Barrabas væri gefinn laus. Og menn fá þetta andlega afl hjá honum, þegar þeir leyfa sannleiksorðinu hans inngöngu í sálir sínar og láta það vera ljós á vegum sínum og lampa fóta sinna.

Það var á endanum hvorki hinn hræsnisfulli Kaífas, né hinn vantrúaði Pílatus, sem réð því, að Jesús var deyddr, heldr hið frjálsa atkvæði alþýðunnar. Nú er frelsisöld fyrir alþýðu, og þá er auðvitað, að það er nú margfalt fremr en í fornöld komið undir almenningsáliti, hvort það, sem illt er, eða það, sem gott er, verðr ofan á í mannfélaginu. Hinir einstöku, sem kallað er að völdin hafi nú, hvort heldr í kirkjulegum eða veraldlegum málum, gjöra

minnst til með tilliti til þess, hvað verðr ráðandi stefnan í mannfélaginu. Þótt þeir væri sama eðlis og þeir, sem æðst höfðu völdin hjá Gyðingum til forna, þá væri ekki mikið að óttast, svo framarlega sem almenningsálitið færi í réttu áttina. Það er almenningsviljinn, sem nú ræðr öllu, eða getr öllu ráðið — að minnsta kosti hér í lýðstjórnarlandinu, Ameríku. Úr því alþýða er frjáls, þá getr hún ekki lengr skotið skuldinni upp á þá Kaífas eða Pílatus, ef illa fer.

Láti menn þá ekki almenningsálitið hjá oss komast að sömu niðrstöðu og það komst forðum hjá Gyðingum. Láti menn ekki það brot af alþýðunni verða ofan á, hvorki í trúmálum né neinum öðrum málum, sem myndi dæma alveg eins og alþýða Gyðinga í Jerúsalem dæmdi í máli því, er Pílatus skaut undir hennar úrskurð. Hafi menn ávallt söguna um það, hvernig almenningsálitið hjá Gyðingum kom fram í máli frelsarans, í huganum. Hafi menn hana æfinlega til taks eins og skuggsjá til þess að líta í og sjá, hve hörmulega fer, þegar alþýða misbrúkar frelsi sitt. Og láti fólk vort þá skuggsjá aldrei verða spegil, sem sýni því myndina af sjálfu sér, heldr láti þvert á móti allir skuggsjá þessa gefa sér heilaga hvöt til þess með lifandi trú á frelsarann og hans sannleiksorð að vinna að því, að sannarlegt alþýðufrelsi verði hjá oss ráðandi, frelsi, sem rekr allan óguðleik og alla heimsku og allan skrílshátt út úr hjörtum og heimilum, en bindr menn við Jesúm Krist hinn krossfesta í lífi og dauða.

# Um kristnitökuna árið 1000 og tildrög hennar

Þetta er nafnið á riti því eftir dr. Björn Magnússon Ólsen, er áðr er allra snöggvast getið. Og hefir bókmenntafélagið íslenzka gefið það út í minning 900 ára afmælis kristninnar á Íslandi. Það er ekki svo lítil bók að vöxtum, 108 bls. í átta blaða broti. Og útgáfan í alla staði vönduð hið ytra, nærri því skraut-útgáfa. En mest er þó um það vert, hve prýðis-vel er frá ritverki þessu gengið af höfundinum. Aðdragandinn að hinum mikla atburði, kristnitöku þjóðarinnar, er hér skýrt og skilmerkilega rakinn samkvæmt fornsögunum. Vitnisburðir þeirra eru mjög vandlega vegnir, og þar sem þeim í einstökum atriðum ekki ber saman mjög vitrlega og hlutdrægnislaust leitazt við að greiða úr flækjunni og leiða sannleikann í ljós.

Það hefir lengi þótt torskilið, hvernig það samkomulag gat fengizt um trúmálin tvískiftu, sem varð á alþingi Íslendinga árið 1000. Menn hafa átt bágt með að átta sig á því, hvernig á því gat staðið, að hinir heiðnu menn, sem áreiðanlega á undan því þingi voru í stórkostlegum meiri hluta, skyldi þá allt í einu láta undan kristna flokknum og friðsamlega gefa samþykki sitt til þess, að kristnin yrði í lög leidd sem allsherjar landstrú. Svo sem kunnugt er, hefir verið reynt til að skýra þetta á þann hátt, að hér hafi í raun og veru verið mjög lítil, nærri því engin, tilslökun frá hálfu heiðingjanna. Því kristnin, sem þá var haldið að þjóðinni, hafi nálega ekki verði annað en nafnið tómt. Hér hafi að eins verið um kristnitöku í orði kveðnu að ræða. Menn hafi haldið áfram að lifa sem heiðingjar eins eftir sem áðr. Að eins friðarins vegna eða til þess að hafa kristnu mennina — eða þá, er svo kölluðu sig — góða hafi hinir mennirnir látið undan. En dr. Björn Ólsen skýrir þetta mál á allt annan hátt. Hann heldr því fram og færir til þess sterk rök, mjög miklar líkur að minnsta kosti, að breytingin, sem varð á stjórnarskipan landsins út af fjórðungaskiftunum og goð-

orða fyrirkomulaginu nýja, sem Þórðr Gellir fékk í lög leitt árið 965, hafi haft það í för með sér, að myndazt hafi í landinu flokkr manna, óánægðra höfðingja, sem hafi fundizt réttr sinn til hluttöku í landstjórninni vera fyrir borð borinn. Þegar kristnin á síðustu áratugum aldarinnar tók að ryðja sér til rúms í landinu, þá hafi þessir óánægðu höfðingjar fyrst til muna farið að láta á sér bera. Því auðsætt var þegar undir eins, að hin nýja trú gat ekki með neinu móti samrýmzt við hina þá verandi stjórnarskipan, sem í undirstöðu sinni var fastbundin við heiðnu trúarbrögðin. Þessir tveir flokkar, nýkristnuðu mennirnir og hinir óánægðu höfðingjar, hafi þá eðlilega runnið saman í eitt. Og margir hinna síðar nefndu líka í raun og veru orðið kristnir í hjartans alvöru. Svona lítr dr. Ólsen á, og þetta leitast hann við að sanna með góðum og gildum rökum. Og í aðal-efninu hefir hann víst alveg rétt fyrir sér, hvað sem um einstöku auka-atriði í málsvörn hans kann að mega segja. Samkomulagið frá hálfu heiðingja á alþingi stafar þá af því, að hinn flokkrinn, sem augsýnilega fór óðum vaxandi, var meðfram pólitiskr byltingaflokkr, er hrífa vildi völdin til landstjórnar til sín, úr höndum andstæðinga sinna. Til þess að afstýra þeirri hættu slaka heiðnu höfðingjarnir til að því, er trúmálin snertir. Þeir vilja heldr samþykkja það, að kristnin sé gjörð að landstrú, en eiga það á hættu, að þeir missi hið veraldlega vald sitt, einkum þar sem enginn var með innleiðslu hinnar nýju trúar sviftr samvizkufrelsi. En í annan stað slakar flokkr kristnu mannanna eigi síðr til. Þeir kasta frá sér öllum þeim kröfum til pólitískra valda, sem þeir höfðu gengið með í huga sínum að undanförnu. Svo mikið vildu þeir leggja í sölurnar. Tilslökunin frá þeirra hálfu er sannkölluð fórn í kristilegum skilningi.

Heiðr kristnu trúarinnar hjá forfeðrum vorum vex, en minnkar ekki, við það að líta á kristnitökumálið eins og dr. Ólsen gjörir í þessu merkilega minningarriti sínu.

Sumar tilgátur höfundarins eru þó, að oss finnst, býsna djarfar, og hljóta víst að teljast all-vafasamar. Hann les stundum nokkuð mikið á milli línanna, en ávalt er það skarpvitrlega gjört, og lang-oftast er rökfærsla hans fullkomlega sannfærandi.

Höfundurinn telr líklegt, að Gizur hvíti hafi, þá er þeir Hjalti Skeggjason hétu Ólafi konungi Tryggvasyni því, að fara til Íslands til þess að hjálpa málefni kristninnar þar við, áskilið sér yfirráð yfir landinu. En oss finnst það fremr ólíklegt. Þessi getgáta er ekki nægilega rökstudd. — Höfundrinn vefengir þann vitnisburð Kristnisögu, að enginn úr flokki heiðingja hafi þorað að taka til máls á alþingi til þess að andmæla þeim Gizuri og Hjalta, og styðr hann þá vefenging sína með því, að í Íslendingabók Ara Þorgilssonar sé svo að orði komizt um þá Gizur, að "þat bar frá, hve vel þeir mæltu", því í þessum tilfærðu orðum liggi það, að þeir hafi talað langt um betr en aðrir. En oss finnst með þessu alls ekki vera gefið í skyn, að neinir aðrir hafi þá flutt ræður, og að þetta þurfi ekki neitt meira að merkja en að þeir félagar hafi talað *frábœrilega* vel.

Dr. Ólsen segir (á bls. 95), að upp frá því, er kristni flokkrinn á alþingi 1000 hafði kosið sér Síðu-Hall fyrir lögsögumann, virðist allt hafa orðið spakara, kyrrlátara, þeim megin. Þetta er víst alveg rétt. En ef hann í raun og veru var sá, er lang-helzt hafði staðið fyrir málum hinna kristnu manna áðr, allt árið næsta á undan, sem höfundrinn líka heldr fram, og það all-sennilega, hví gætir þá svo lítið áhrifa hans þeim flokki til spektar fyrr en einmitt nú?

Áðr en samkomulagið um trúmál þjóðarinnar komst á á þinginu og meðan ákafinn var mestr hjá hinum tveim andstæðu flokkum stofnuðu heiðingjar til mannblóts, í því skyni að styðja málstað sinn hjá goðum sínum og fá fulltingi þeirra til þess að varna því, að kristni næði að ganga yfir landið. Ákváðu þeir, að tveim mönnum skyldi blótað fyrir hvern landsfjórðung. En í annan stað höfðu kristnir menn lík samtök sín á milli. Þar varð það að samþykkt, að úr þeirra flokki skyldi fórnað tveim mönnum fyrir hvern fjórðung landsins hinum sanna guði til handa, ekki, eins og heiðingjarnir, óbótamönnum og illmennum, heldr þeim, er héti því að lifa því betr og syndvarlegar en áðr. Þessi lifandi fórn var kölluð sigrgjöf við drottin vorn Jesúm Krist. Frá þessu er sagt í Kristnisögu og víðar. Og enn fremr því, hverjir þeir menn hafi verið, er gáfu sig fram til þannig lagaðrar fórnargjörðar. Þeir Gizur og Hjalti, er

tillöguna báru fram, unnu heitið fyrir sinn fjórðung, Sunnlendingafjórðung; Síðu-Hallr og Þorleifr, að auknefni hinn kristni, úr Krossavík í Reyðarfirði fyrir Austfirðinga; Hlenni hinn gamli úr Saurbæ í Eyjafirði og Þorvarðr Spakböðvarsson fyrir Norðlendinga. En fyrir Vestfirðingafjórðung fékkst fyrst að eins einn maðr, Gestr Oddleifsson frá Haga á Barðaströnd. Þar sýndust menn þá ætla að verða í vandræðum. Eftir nokkra bið gaf sig þó Ormr Koðránsson fram, bróðir Þorvaldar víðförla, þess er fyrst hafði hafið kristniboðið á Íslandi með Friðrik biskupi hinum saxneska. Hann bjó á þessari tíð í Borgarfirði og hafði til þessa ekki kristnazt. En nú bauðst hann til að fylla flokk kristinna manna og ganga undir fórnargjörðarheitið fyrir sinn landsfjórðung ásamt Gesti, ef þeir vildi þiggja. Boð hans var þegið og hann skírðr. — Að því, er snertir heit þetta frá hálfu hinna kristnu manna, segir nú dr. Ólsen, að sagan sé nokkuð grunsöm. En ástæður þær, er hann kemr með þeirri grunsemd til stuðnings, eru að ætlan vorri mjög léttar á metum. Ein er sú, að þegar búið sé að telja þá alla upp, er heitið unnu, þá sé um leið unnin upp nöfn flestallra heldri mannanna, sem áðr er um sagt að hafi verið riðnir við kristniboðið í landinu. En var ekki eðlilegra en allt annað, að þeir, sem mest höfðu verið við það mál riðnir og mestan áhuga höfðu þar sýnt, yrði nálega sjálfkjörnir til þess að vinna heitið? Af þeim, sem áðr studdu að kristniboðinu víðsvegar um land, mundu menn á þeirri tíð, er fornsögurnar voru í letr færðar, helzt eftir þessum, er nú koma fram, fyrir þá sök, að þeir hafa frá upphafi verið máttarstólpar hinnar byrjandi íslenzku kristni. Önnur ástæða dr. Ólsen fyrir því að telja söguna um fórnargjörðarheit hinna kristnu manna grunsama er sú, að Hjalti Skeggjason hafi sýnt sig sem mikinn "veraldarmann", þá er hann, eftir því sem segir í sögu Ólafs helga, nokkuð löngu seinna dvaldi utan lands við hirðir þeirra nafna, Ólafs Haraldssonar í Norvegi og Ólafs Eiríkssonar í Svíþjóð. En í þeim kapítölum sögunnar, sem vitnað er til þessu til sönnunar, getum vér ekkert fundið, sem varpi þeirri rýrð á framkomu Hjalta, er sýni, að hann hafi "annaðhvort aldrei unnið það heit að helga lifnað sinn guði eða þá svikið það". Vér

verðum að muna eftir því, að kristni þeirrar aldar var í mjög ófullkomnum umbúðum, og margt í framkomu manna, sem nú réttilega er talið ósamrýmanlegt sannkristinni trú, hneykslaði þá engan. Yfir höfuð finnst oss dr. Ólsen dæma Hjalta harðar en hann á skilið, þó það vafalaust ekki sé af ásettu ráði. Og að því, er snertir spaugyrðið, sem haft er eftir Hjalta, þá er Runólfr í Dal Úlfsson rétt eftir þingið var skírðr — "Gömlum kennum vér nú goðanum að geifla á saltinu" —, þá sanna þau að ætlan vorri að eins það, að maðrinn var merkilega fyndinn í orðum, jafnvel meinfyndinn, sem vel gat og getr enn verið einkenni á sannkristnum manni. En annars eru allar þessar aðfinningar vorar smámunir, sem vér ekki viljum leggja neina verulega áherzlu á. Í aðalefninu er minningarrit þetta prýðilega af hendi leyst og mikillar þakkar vert. Og allir góðir Íslendingar ætti að eignast það, lesa það vandlega og styðja sem mest að útbreiðslu þess.

# Aldamótateikn

Ný öld er byrjuð. Nítjánda öldin er dáin. Og á sama augnabliki sem hún skildi við fæddist dóttir hennar — tuttugasta öldin. Þessi nýbyrjaða öld er að sjálfsögðu enn þá eins og ungbarn, sem hvílir í vöggu sinni, ungbarn, sem stórmiklar fagnaðarríkar vonir eru við festar. Og samfara þeim vonum eru bænir út gangandi frá óteljandi trúuðum sálum í öllum áttum heims, víðsvegar í hinum jarðnesku mannabyggðum, til guðs almáttugs, hins kærleiksríka föður aldanna, um það, að honum megi þóknast, að láta hina frelsandi náð sína í ríkum mæli streyma yfir þetta unga barn sitt, öldina nýfæddu, líf þess yfir höfuð, en um fram allt yfir höfuð þess og hjarta. — Hvað eigum vér að hugsa um hina nýju öld? Hvers megum vér vona henni viðvíkjanda? Skyldi hún í því, er mestu máli skiftir fyrir mannkynið, verða sannarleg framfaraöld? Skyldi það, sem

eitt er nauðsynlegt, sáluhjálparmál kristindómsins, á næstu hundrað árum fá vaxandi vald yfir hjörtum almennings? Skyldi sigurvinningar kristinnar trúar halda áfram? Skyldi ríki Jesú Krists færast út í heiminum, svo mikið færast út, að hitt stórveldið, sem því er gagnstætt, fari að sama skapi minnkanda? Eða skyldi vantrúin og heiðindómrinn fá í sig enn þá meira vöxt, svo mikinn, að enn minni verði líkurnar fyrir því, að kristindómrinn fái þar viðnám veitt?

Þegar fyrirrennari frelsarans, Jóhannes skírari, var ungbarn, við það hátíðlega tækifæri, er honum var gefið nafn, þá var spurt: "Hvað mun sveinn þessi verða?" Allir óskuðu hins bezta þá. Allir vonuðu góðs af þeirri barnsfæðing, því guð var þar sjálfr með á meir en vanalegan hátt. Og nafnið, sem barninu nýfædda var gefið að guðlegri tilhlutan, gat verið mönnum bending um það, að þetta barn væri fyrirfram ákvarðað til einhvers mikils. Því nafnið Jóhannes merkir gjöf guðs. Allt fyrir það voru menn þó yfir höfuð í óvissu barni þessu viðvíkjandi og báru efasamir fram spurninguna um það, hvað sveinninn myndi verða. En Sakarías, faðir barnsins, svaraði spurningunni, innblásinn af anda guðs, með þessum orðum, stýluðum til ungbarnsins: "Og þú, sveinn, munt kallast spámaðr hins hæsta, því þú munt verða fyrirrennari drottins til að gjöra hans vegu greiða" o. s. frv. (Lúk. 1, 76). — Og þegar að því er spurt, hvað ungbarnið sérstaka, sem allir eru nú um að hugsa, hin nýbyrjaða öld, eigi að verða, þá má alveg víst heyra hinn gamla spádóm Sakaríasar í aðalefninu endurtekinn sem svar upp á þá spurning. Gamla öldin, móðir þessarar nýju, nítjánda öldin, sem dó um leið og dóttir hennar, tuttugasta öldin, fæddist, ber spádóminn endrtekinn fram. Hin liðna, látna öld talar enn. Hún talar frá gröf sinni. Og eitt hið allra helzta, sem þaðan heyrist, eru orð guðlegrar fullvissu um það, að barnið hennar nýfædda, öldin þessi nýbyrjaða, muni í alveg fram úr skarandi skilningi ryðja frelsaranum braut inn í mannheiminn jarðneska, til fleiri og fleiri einstaklinga og þjóðflokka um öll lönd.

Hugsum um öldina liðnu. Rifjum upp fyrir oss fáein atriði í sögu hennar. Berum saman útlitið í heiminum eins og það var við upphaf hennar við útlitið eins og það er nú við þessi síðustu, nýafstöðnu aldamót. Það þykir að ýmsu

leyti skuggalegt nú. En margfalt skuggalegra var það um næstu aldamót á undan. Stjórnarbyltingin hræðilega á Frakklandi hafði þá fyrir skömmu brotizt út. Og eitt hið voðalegasta í þeim skelfingum var það, að öll guðstrú var þá með allsherjar lagaboði afnumin af einni stórþjóð, hinni frakknesku, sem á þeirri tíð skipaði öndvegi meðal hinna menntuðu þjóða heimsins. Og þó að það vantrúaræði stæði ekki lengi, þá var þó trúarástandið svo bágborið á eftir, hjá öllum þorra fólks, allra helzt hinna heldri manna, höfðingjanna, að virðast mátti, að kristindómrinn hefði verið særðr til ólífis. Til þess að minna á stjórnmála-ástandið í heiminum í byrjun nítjándu aldarinnar þarf að eins að nefna eitt nafn — Napóleon Bónaparte. Þótt hann væri nálega tilbeðinn eins og guð af löndum sínum, þá var hann þó í raun og veru hinn mikli biksvarti skuggi á himni sögunnar, er grúfði yfir menntaþjóðum heimsins og fyllti sálir óteljandi manna í öllum áttum angist örvæntingarinnar — ár eftir ár og áratug eftir áratug meðan hin blóðuga sigrfrægð hans entist. Á þessum hræðilegu heimstáknum bar svo mikið þá, að nálega einskis annars gætti. Engu að síðr var þó einmitt um sama leyti að renna upp blessuð öld, bezta öldin, sem mannkynssagan veit af að segja síðan á postulatíðinni. Og þegar vér komumst svo að orði um þessa síðustu öld, þá erum vér ekki að eins um það að hugsa, hve stórkostlega heiminum hefir farið fram í veraldlegu tilliti, í atvinnumálum, alþýðumenntan, vísindum, íþróttum, o. s. frv., þótt það óneitanlega sé svo mikið, að undrum sætir, meira en á nokkurri annari öld áðr, meira en á þeim öllum saman lögðum. Og vér erum ekki fyrst og fremst um það að hugsa, heldr um annað enn þá meira, enn þá gleðilegra. Vér erum aðallega að hugsa um vöxt og viðgang kristninnar, hina öðfluga útbreiðslu guðs ríkis, á nítjándu öldinni. Öldin þessi seinasta var um fram allt kristniboðsöld. Það er fegrsta einkennið á henni. Engin önnur öld, sem liðið hefir yfir heiminn frá því á dögum fyrstu kynslóðarinnar kristnu, hefir neitt þvílíkt sér til ágætis. Kristniboð meðal heiðingja frá hálfu prótestantisku kirkjuflokkanna á undan öldinni síðastliðnu er svo lítið, að þess gætir nálega ekki. En eftir að nítjánda öldin er í garð gengin fæðist nýtt og nýtt kristniboðsfélag

víðsvegar um lönd kirkjunnar nálega með hverju líðandi ári. Og í aldarlok eru erindsrekar þessara félaga starfandi í hinum ýmsu heiðingjalöndum á fjórum þúsundum aðalmissíónarstöðva; en aukastöðvar þar til heyrandi taldar til fjörutíu þúsunda. Segja má með sönnu, að árangrinn sýnilegi af þessari starfsemi kristinnar kirkju sé minni, jafnvel miklu minni all-víða, en óskanda væri. En yfir höfuð að tala er hann þó gleðilega mikill. Meðal annars heilir þjóðflokkar komnir inn í mannkynssöguna, og orðnir þar starfandi, sem áðr voru eins og dauðir og grafnir í yztu myrkrum hins óskaplegasta villudóms. Og fyrir þann árangr, sem kristniboð aldarinnar hefir haft, vonin allt af sívaxandi hjá öllum, sem að þeim málum hafa staðið, um meiri eftirtekju í ókominni tíð.

Samhliða kristniboðinu meðal heiðingja er að minnast biblíufélaganna, sem stofnuð hafa verið á liðnu öldinni í öllum prótestanta-löndunum. Er þar öllum fremr að geta hins brezka og erlenda biblíufélags, sem svo er kallað. Það var stofnað árið 1804 og hefir síðan stöðugt verið að breiða heilaga ritning út á hinum ýmsu tungumálum þjóðanna, menntuðu þjóðanna og villuþjóðanna, þangað til að útgáfurnar eru nú við þessi aldamót orðnar nálega óteljandi. Hin afar mikla útbreiðsla biblíunnar bæði frá hálfu þessa félags og hinna mörgu annarra, er fetað hafa í þess fótspor, hefir að sjálfsögðu orðið starfi kristniboðanna til ómetanlegs stuðnings. Af þessum öðrum biblíufélögum, sem segja má að fæðzt hafi út af hinu brezka og erlenda, skal hér að eins nefnt ameríkanska biblíufélagið, sem komst á fót árið 1816. Í sambandi við þessi tvö helztu biblíufélög hins kristna heims, hið brezka og hið ameríkanska, standa ein 16 þúsund minni félög, sem í aðalefninu vinna að hinu sama, útbreiðslu heilagrar ritningar. Hin tvö stórfélög, er þegar voru nefnd, hafa til samans síðan þau urðu til gefið út ekki minna en 250 milíónir binda af biblíunni. Brezka biblíufélagið hefir gefið biblíuna eða stóra parta af henni út á meir en 300 tungumálum, og hið ameríkanska á 80 tungumálum.

Þá er og "innri missíónin" svo kallaða eitt stórvægilegt atriði kristindóms-starfseminnar í nútíðinni. Hún miðar að

því að reisa þá aftr við, sem heima fyrir, innan hinna kristnu mannfélaga hafa fallið frá trúnni á Jesúm Krist, lent í siðspilling og guðleysi, — boða þeim orð sáluhjálparinnar og með því kveikja nýtt líf í sálum þeirra og koma þeim aftr inn í hóp Jesú lærisveina. Líka sú tegund kristniboðsins er aðallega upp runnin á síðustu öldinni og nú orðin ákaflega víðtæk og þýðingarmikil í flestum prótestanta-löndum. Það sérstaka kristniboð sneri sér fyrst nálega eingöngu að fólki á lægsta stigi mannfélagsins. En eftir því, sem tímar liðu fram, færði það sig út upp á við, þangað til það undir aldarlokin síðustu er líka að stórum mun farið að ná til lærðu mannanna og menntalýðsins á hinum æðri skólum landanna. Því vitanlega er stúdenta-félagskaprinn kristilegi, sem svo mikið ber nú á brezka ríkinu, í Bandaríkjunum, í Þýzkalandi, á Norðrlöndum og víðar, ekki annað en ein grein af innri missíón aldarinnar síðastliðnu. En sú grein er stórkostlega dýrmæt. Því auðsætt er, að eftir að kristindómsandinn er farinn verulega að ráða yfir menntuðu mönnunum í hinum ýmsu stéttum, þá muni margfalt hægra en áðr fyrir kirkjuna að varðveita og styrkja alþýðu í kristinni trú. Í byrjan nítjándu aldarinnar heyrði það til tízkunni meðal heldra fólksins hér í Norðr-Ameríku að vera trúlaus eða því sem næst. En nálægt 1820 fór þetta að breytast. Kristin trú hófst þá til meiri virðingar í áliti menntalýðsins hér, og sú virðing hefir í rauninnni stöðugt farið vaxandi í þeirri átt. Í Danmörku og þeim öðrum löndum, sem Ísland hefir helzt staðið í sambandi við í menntunarlegu tilliti, gekk þetta miklu seinna. Vantrúar-aldan, sem streymdi yfir þjóðlíf vort frá Kaupmannahöfn kynslóð eftir kynslóð á síðustu öld, er alkunnug. En áðr en öldin endaði er líka þar á hinum hærri stöðum kristindómrinn viðrkenndr og virtr, og áhrif þeirra skoðanaskifta þegar farin að ná til Íslands, sem meðal annars kemr fram í því, að nú má þó benda þar á menntaða menn í veraldlegum embættum, jafnvel hinum æðri, þótt ekki sé margir, sem ekki álíta það fyrir neðan sig að hlynna að kirkjunni og taka málstað kristindómsins opinberlega bæði í ræðu og riti.

Ekki má heldr gleyma sunnudagsskóla-starfseminni, sem nú er haldið uppi víðsvegar í löndum prótestanta,

lang-helzt þó hjá Bretum og Ameríkumönnum. Líka þar er einn ljómandi ávöxtr, sem aðallega hefir sprottið fram á trúarlífsakri kristinnar kirkju á nítjándu öldinni. Svo hefir aftr sunnudagsskólinn getið af sér hinn ýmiskonar ungmenna-félagskap innan kristinna safnaða, þar á meðal bandalögin lútersku, sem líka eru í síðustu tíðinni, en þótt í miklum veikleika sé, búin að ná sér niðri í kirkjulífi Vestr-Íslendinga. Vér getum nú naumast hugsað oss kristinn söfnuð sunnudagsskólalausan. Svo sterkt hald er sú stofnan kristindómslífinu til eflingar búin að ná á almenningsmeðvitundinni á þessari tíð. En þá ber þess að minnast, að vafalaust miklu meiri hluti þeirra, er kenna á þeim skólum, er kvenfólk. Og að mörgu öðru leyti eru konur, yngri og eldri, orðnar með í hinni kristilegu starfsemi, og sumsstaðar greinilega á undan karlmönnunum. Ekki að eins kvenfélög í flestum söfnuðum, þar allsstaðar sem kirkjan, eins og hér, er sjálfstjórnandi, óháð ríkinu, heldr líka margr stór-víðtækr kvenfélagskapr víða, sem stefnir í þá átt að útbreiða guðs ríki. Það spáir meir en litlu góðu, að kvenþjóðin kristna er farin að eiga svo mikinn beinan þátt í sögu guðs ríkis víðsvegar um lönd.

Líknarstarfsemi aldarinnar liðnu hefir farið sívaxandi. Hún er nú orðin svo víðtæk, að undrum sætir, þegar borið er saman við ástandið í menntalöndum heimsins fyrir hundrað árum. Vitanlega er það ekki kirkjan, sem heldr allri þeirri starfsemi uppi, mjög fjarri því, en hitt er víst, að hún er að lang-mestu leyti af kristilegri rót runnin, annaðhvort beinlínis eða óbeinlínis ávöxtr fagnaðarboðskaparins um Jesúm Krist.

Kærleiksbandið milli trúaðra manna í hinum ýmsu kristnu kirkjuflokkum hefir þrátt fyrir allt, sem á milli ber, aldrei áðr í sögunni verið eins sterkt og nú við þessi síðustu aldamót. Sérkenni flokkanna hafa ekki verið þurrkuð út: Trúarjátningarnar gömlu haldast óbreyttar og eru hafðar í heiðri. En af því að meiri áherzla hefir verði lögð á sannkristið líf en jafnaðarlega á hinum fyrri öldum, hefir í augum kristins fólks meir gætt þess, er allir lærisveinar Jesú hafa sameiginlegt hver með öðrum í játning trúarinnar, en afbrigðanna á trúarjátningum þeirra.

Þegar liðna öldin dó, skildi hún dóttur sinni, hinni nýfæddu öld, allt þetta, sem nú hefir verið talið, og margt fleira dýrmætt, eftir í arf. Ungbarnið, nýja öldin, á nú öll þessi miklu gæði í eigu sinni. Það spáir meir en litlu góðu um það, hvað úr barninu muni verða, eða hvernig nýja öldin muni leiðast út.

Aldamóta-teiknin eru, að því er kristindóminn snertir, stórkostlega fagnaðarrík.

Oss öllum er óhætt að ganga inn í tuttugustu öldina vonglöð og sigri hrósandi í Jesú nafni.

# Blómstr-fræin

(Líkingarmálssaga, sænsk að uppruna)

Garðyrkjumaðr einn hafði safnað feikna-miklum forða af allra handa blómstr-fræi í stóra kassa. Kassarnir voru margvíslega hólfaðir sundr, og í hólfunum var frætegundunum vandlega niðr raðað og hver tegund nafngreind. Mestallt fræið var smágjört og veikburða, þótt skapnaðr þess og litr væri breytilegr, — sumt eins og smá sandkorn. En frækorn allra tegundanna voru gædd skynjanda viti og gátu látið hvert öðru í ljósi hugsanir sínar. Þau höfðu samræður um marga hluti alveg eins og vér gjörum í þessum málskrafsheimi.

En með því þau höfðu aldrei komið út úr híbýlum sínum, kössum garðyrkjumannsins, gátu þau með engu móti skilið, hvernig högum var háttað í heiminum fyrir utan. Engu að síðr töluðu þó mörg þeirra um slíkt með eins mikilli fullvissu eins og hefði þau fengið fræðslu um alla hluti út í yztu æsar.

Sum þeirra beittu öllu hugsunarafli sínu til þess að svara ýmsum mikilsvarðandi spurningum, sem jafnt snerta fræ og menn. “Hvað erum vér?” — spurðu þau hvert annað. “Hvað verðr af oss síðar meir? Erum vér að eins líkamlegar smáagnir? Eða er ef til vill í oss hið innra hulið afl, leyndar-

dómsfullt líf, sem vér fáum ekki skilið og skynsemishugsan vorri er ofvaxið að rannsaka?"

Þau vissu það, að innan skemmra eða lengra tíma myndi þau verða flutt burt úr þáverandi bústöðum þeirra og lögð niðr í kalda jörðina til þess að rotna þar. Þau gátu á hverri stundu búizt við því, vesalingarnir, sem var farið að þykja svo hjartanlega vænt hverjum um aðra — og svo stóð nú reyndar á fyrir mörgum —, að sjá garðyrkjumanninn koma til þess að sundra þeim og láta þessi ægilegu örlög á þeim lenda. En merkilegt er það, að einmitt þau af frækornunum, sem töldu sig öllum vitrari, hirtu minnst um, hvað við tæki fyrir sér, — létu sem sér stæði algjörlega á sama, hvernig fara kynni. Spurningin um það, hvort þeirra biði algjör dauði eða ekki, var þeim lítils virði, að því er virtist. Sum lýstu jafnvel yfir því opinberlega, að það, sem þeim geðjaðist bezt að, væri fullvissan um ævarandi gjöreyðing. "Tilvera eilífs lífs" — sagði einn af þessum spekingum —, "það að geta aldrei dáið — það er ef til vill hræðilegasta hugsanin, sem ískalt ímyndunaraflið getr látið verða til!" Önnur frækorn komu með þá staðhæfing í nafni "vísindanna", og kváðu hana "ómótmælanlega og margsannaða", að einstaklingseðli fræs gæti með engu móti haldizt eftir að fræið væri orðið uppleyst; engin skynsemi gædd og upplýst vera gæti eitt augnablik látið sér detta önnur eins fásinna í hug. Var unnt að koma með nokkurt andmæli, sem dygði, gegn þessum vísindalegu fullyrðingum? Þessir hálærðu vitringar, sem út í æsar höfðu rannsakað alla eðlisfræðislega og efnafræðislega leyndardóma í fræheiminum, þóttust geta sannað, að eins víst og tvisvar tveir eru fjórir, eins víst lægi að eins rotnan fyrir frækornunum; og svo var þetta enn frekar rökstutt með löngum og snjöllum ræðum úr sömu átt.

Fjöl-mörg frækorn létu sannfærast af þessum háfleygu yfirlýsingum; og með því þau þorðu nú ekki lengr að trúa á lífstilveru eftir dauðann, þá beygðu þau sig fyrir forlaganauðsyninni og lifðu eins og þeir, sem enga von hafa.

En fáein frækorn, fjólufræ, sóleyjarfræ og aðrar skógarblóma-tegundir, kváðu það upp í heyranda hljóði, að hvað sem öllum vísindum liði væri þau um það fullviss — heilbrigð

skynsemi sagði þeim það —, að í hinu forgengilega hismi líkama þeirra væri fólginn vísir lífstilveru, er fyri þeim lægi eftir dauðann. Þeim var reyndar að sjálfsögðu það ofvaxið, að gjöra nákvæmlega grein fyrir eðli þessa nýja lífs eða því, á hvern hátt þau ætti að lifna aftr við eftir rotnanina. Það alt var þeim ekki full-ljóst. En þau höfðu vafalaust, óskeikanlegt hugboð um hreinna loft, bjartara ljós, sælla líf, sem þeim væri fyrirbúið. Og þeim var óhugsanlegt, að það hugboð reyndist tál. Þau trúðu á tilveru hluta, sem auga þeirra ekki hafði enn séð og eyra þeirra ekki enn neitt heyrt til.

"Þetta er ekki annað en fagr draumr án nokkurs veruleika" — sögðu vitringarnir, glottandi. "Þessar æstu ímyndanir geta dugað yðr, einfeldningunum. Vér, sem upplýsing höfum fengið, viljum ekki að ásettu ráði svifta yðr þessum heilaspuna, úr því hann virðist vera yðr til ánægju. En vér, hin stóru sólarblómsfræ — vér *vitum,* hvers virði slíkir draumórar eru, og viljum vera lausir við þá. Það má *sanna,* að ekkert, sem í oss er, lifir eftir eyðing líkamans, og þetta líf vort hér á eingöngu rót sína að rekja til jarðneskra efna, sem runnið hafa saman um stund, en eiga svo fyrir sér að leysast sundr aftr innan skamms. Trú yðar er heimska."

Frækornin litlu trúuðu, sem alls ekki létu hina vantrúuðu vitringa telja sér hughvarf, höfðu félagskap sín á milli til þess að minna hvert annað á hina sameiginlegu von þeirra. Og til svo mikillar huggunar urðu þeim félagsfundir þeirra, að mörg þeirra þráðu jafnvel þá stund, er garðyrkjumaðrinn kæmi til þess að taka þau og gróðursetja þau í jörðinni.

Loks upprann sá dagr frækornunum öllum. Húsbóndi þeirra kom, og þau urðu að láta flytja sig burt úr húsnæðinu notalega í kössunum og sökkva sér niðr í kalda og hráslagafulla moldina í garði einum stórum. En hin litlu fjólufræ og sóleyjarfræ kenndu ekki neins kvíða, er þau voru látin niðr í hálf-opna leirgröfina. Hin sæla von, sem hjá þeim var innan brjósts, hélt huga þeirra uppi, og þau sögðu hvert við annað, er þau kvöddust að skilnaði: "Í guðs friði! Innan skamms mætumst vér aftr." — "Já, vér munum aftr sjást" — heyrðust önnur frækorn segja, er þau hurfu undir moldar-ábreiðunni, sem ofan á þau var látin. Og sum bættu við sigri hrósandi:

"Og Salómon í allri sinni dýrð var ekki svo skrýddr eins og vér munum verða í fylling tímans."

Vantrúaðir vitringar, hálærðir heimspekingar, kaldlyndir kæruleysingjar, hin meiri háttar fræ og minni háttar fræin — allt hvarf á sínum tíma ofan í svarta, kalda jörðina.

Dagarnir liðu, vetrardagar kaldra krapahríða, næðandi vinda og æðandi storma. Sólin kom aftr í ljós með sí-vaxanda afli. Jörðin, sem lá í dvala, tók smásaman að vermast af sólargeislunum. Enn sást þó ekkert merki þess, að breyting væri að verða, enginn vísir til lífs, engin upprisa eða hreyfing.

Svo vantrúar-boðberarnir höfðu þá haft satt að mæla! Því frækornin öll höfðu greinilega horfið í moldinni, þar sem þau voru grafin.

En eftir er að sjá, hvað fram kemr "í fylling tímans" undir hinni bláu himinhvelfing í hinu tæra lofti og hinum milda vorblæ. Hvílík gleði og sæla þá! Nýjar engilfagrar verur birtast þá. Skepnan endrfædd. Hvílík opinberan! Þarna sérðu frækornin litlu dökku, lítilmótlegu, sem áðr voru. Hvílík ummyndan! "Líttu á mig!" — segir fjólan í lágum róm við sóleyjuna. "Þekkirðu mig? Eg kannast vel við þig. Þú ert systkini mitt, sóley. Við erum enn þær sömu sem við vorum, og þó ekki eins og áðr. Gef mér morgunkoss upprisunnar." Og hinir angandi blómstrbikarar þeirra beygðu sig hvor að öðrum. Eilífðarblóm ljómandi í fegurð morgunroðans, kattaraugu, rósir og liljur — öll þessi blóm eru þar, hvert um sig með sínum glitrandi sérkennum, vegsamleg gjörð fyrir opinberan hins hulda lífskjarna, sem læknum hefir ekki tekist að finna með líkskurðarhnífum sínum né náttúrufræðingum með stækkunarglerum sínum.

Nætrgalinn syngr. Lækjarbuldrið heyrist. Sólin glampar á grænu laufskrúði. Döggin dreifir út demantskenndum dropum yfir dúnmjúka gras-ábreiðu grundarinnar. Fiðrildin líða suðandi milli blómanna. Hvílíkr unaðr! Hvílík dýrð! Blómin öll hafa hneigt höfuð sín til þess að biðjast fyrir, full af fagnanda þakklæti út af því að hafa þegið alla þessa margföldu blessan. Þau finna til þess, að garðyrkjumaðrinn mikli er með þeim og er með þeim fagnandi út af hlutskifti

þeirra. Og fullvissan um það, að þau eru honum velþóknanleg, er mesta fagnaðarefnið þeirra.

Hvað skyldi sjálfbirgingarnir litlu, sem áðr voru svo upp með sér út af "lærdómi" sínum, nú hafa hugsað? Eg veit það ekki. Getið þér ímyndað yðr það?

# Íslenzka þjóðin og kirkjufélagið

Svo hugsa eg sérstaklega til vorrar eigin kæru litlu þjóðar og kirkjufélagsins íslenzka hér. Eg hugsa jafnt um megin-hluta þjóðar vorrar, þann sem enn á heima á Íslandi, eins og um það brot af henni, sem dreift er víðsvegar út um heimsálfu þessa, hér nyðra í Canada, og fyrir sunnan "línuna" í Bandaríkjunum. Fámennasta þjóðin af öllum þeim í heiminum, sem kallaðar eru menntaðar, erum vér Íslendingar vafalaust. Og til kristinna þjóða teljumst vér vitanlega. En nær er mér að halda, að hvergi sé tiltölulega eins mikið um andlega sundrung, óeining, flokkadrátt, ósamlyndi eins og einmitt hjá oss, — hvergi því vissulega meir áríðanda að beðið sé til drottins heitt og hjartanlega, títt og sterklega upp yfir þjóðarheildlnni íslenzku allri með þessi orð Jesú í huganum: "svo að þeir sé eitt" — "svo að allir sé eitt". Gætið, kærir tilheyrendr, að því, hvað stjórnmálunum á Íslandi líðr nú einmitt á yfirstandandi tíð. Eins og hér í landi voru þar fyrir skemmstu tveir andstæðir stjórnmálaflokkar, hvor um sig með sérstakri stefnuskrá (eða prógrammi" — eins og oftast er kallað). Það að þeir, sem slíka sundrleita flokka skipa, berjast hvorir á móti öðrum er í alla staði eðlilegt og óaðfinnanlegt, svo framarlega sem drengilega er barist fyrir því, er hvorir mennirnir um sig eftir beztu vitund telja sannleik, réttlæti og blessan fyrir land og lýð. En nú vill svo til, að skoðanir beggja flokkanna um aðal-málið, sem ágreiningnum hafði valdið og flokkaskiftingunni hafði ráðið, sameinast. Að sjálfsögðu hefði mennirnir, sem flokkana höfðu áðr skipað, þá einnig átt

að sameinast. En það verðr ekki, því miðr. Sundrungin eyðist ekki. Flokkaskiftingin heldr áfram, og verðr verri, ískyggilegri og ömurlegri en nokkurn tíma áðr, því nú er þar ekki lengr barizt um málefni, heldr um menn — eða með öðrum orðum um völdin, það, hverjir í næstu framtíð eigi að ráða. Þetta er skuggsjá nútíðarþjóðlífsins íslenzka, og í þeirri skuggsjá opinberast ekki að eins eitt aðal-meinið, sem þjóðlífið á Íslandi hefir til brunns að bera, heldr og það, sem hörmulega almennt gengr að oss Vestr-Íslendingum og fremr flestu eða öllu öðru stendr kirkjulega félagskapnum vor á meðal fyrir þrifum einmitt nú. Þetta er eld gamalt íslenzkt þjóðernismein, og liggja margar orsakir til þess, að það hefir svo stórkostlega magnazt hjá oss í liðinni tíð, — orsakir, sem nú er ekki tími til að rekja eða sérstaklega að gjöra grein fyrir. En víst er um það, að þá er kirkjufélag þetta myndaðist nú fyrir 18 árum eða vel það, þá vakti það fyrir oss, að sundrungar-tilhneigingin væri sorglega rík í þjóðernislegu eðli voru og að lang-hættast væri við því, að á því skeri strandaði kirkjuskipið vort litla íslenzka, sem vér þá með aðstoð drottins og samkvæmt bending hans vorum að hrinda frá landi. Með tilliti til þess gáfum vér væntanlegu trúmála-tímariti voru, sem ákveðið var til þess að verða málgagn kirkjufélags þessa, nafnið *Sameiningin*. Að öðru leyti skal eg ekkert tala um það blað. Það á ekki við, þar sem eg hefi verið svo mikið við það riðinn. En það hlýt eg að segja, að það var fyrst framan af og lengi fram eftir ráðandi gleðilega mikill einingarandi að minnsta kosti á meðal prestanna í kirkjufélagi þessu og þeirra leikmanna, sem helzt stóðu fyrir kirkjumálunum. Það ber nú miklu meira á óeining, sundrlyndi, flokkadrætti vor á meðal. Og fyrir þá sök er samvinna vor nú orðin erviðari. Þetta þarf að læknast. Og það getr með guðs hjálp læknazt. Frelsarinn kallar oss hingað á þetta kirkjuþing til þess, að þessi sjúkdómr læknist. Hann er læknirinn, óyggjandi, almáttugr, nærgætinn, algóðr læknir. Allt er undir því komið, að vér, sjúklingarnir, syndararnir stórseku, leggjum oss í auðmýkt hjartanlegrar iðrunar og biðjandi trúar undir hina blessuðu læknishönd hans. "Helga þú þá í þínum sannleika; þitt orð er sannleikr" — segir hann í hinni dýrðlegu bæn

við föðurinn. Um það biðr hann enn uppi yfir oss í himninum. Í þessu, sem hér er tekið fram af honum sjálfum biðjanda, er fólgin lækningin — lækning sundrungar-sjúkdómsins eins og allra annara andlegra og kirkjulegra sjúkdóma. Þetta er hin eina sanna og óyggjndi undirstaða sameiningar vorrar í trúnni og lífinu. Margt annað hefir verið reynt víðsvegar um lönd til þess að framleiða kirkjulega eining, tengja menn kirkjunnar saman, styðja félagslíf þeirra; en það hefir allt bilað og brugðizt. Ekkert komið að haldi nema þetta — að menn legði sig undir hönd drottins og léti hann svo helga sig í sannleikanum, sannleika hans eigin orðs. Með því einu móti geta hinar syndsamlegu sérskoðanir, óeinlægnin, eigingirnin og allt annað illt, sem leiða vill til sundrungar í kirkjunni, eyðzt og dáið út í mannshjartanu. Það kostar vitanlega sársauka að ganga undir þessa lækning, hina drottinlegu helgan í orðinu, sem er skilyrðið fyrir því, að lærisveinarnir verði eitt. Þetta er sjálfsafneitan, sannkölluð fórnargjörð. En höfum allir hug til þess að þola þann sársauka í Jesú nafni, kirkjunnar velferðar vegna og hinnar persónulegu sáluhjálpar vorrar vegna. Og göngum svo inn í helgidóm bænar frelsarans biðjandi fyrir sjálfum oss um það sama sem vér heyrum hann biðja um. Og er vér nú krjúpum niðr við kvöldmáltíðarborðið, festum þá biðjandi huga vorn við þessi orð drottins Jesú: "svo að allir sé eitt."

# Snjór

er einkennisbúningur vetrarins.

Kuldalegr þykir hann. Hinsvegar þó vitanlegt og margreynt, að jörðin með hinu fölnaða, uppvisna, sofanda jurtalífi sínu, er margfalt betr farin, er hún hefir yfir sig fengið samfellda snjóábreiðu, en meðan hún helzt ber. Það er einmitt snjórinn, sem svo blessunarlega ver jörðina fyrir vetrarkuldanum.

Í annan stað er loftið miklu heilsusamlegra á vetrum, er snjór liggr stöðugt á jörðu, en þá er hún er snjólaus. Loftið vitanlega þá svo hreint. Svo lítið af ryki og sóttnæmi í loftinu þá.

Ekki er það hending tóm, að skaparinn hefir látið snjóinn vera eins litan og hann er — hvítan. Sá litr er frábær vörn gegn ofrmagni bæði sumarhita og vetrarkulda. Hvíti litrinn brýtr straum hita og kulda. Þetta útaf fyrir sig gefr þeim öllum, er fyrir því hafa opin augu, hvöt til þakklætis og lofgjörðar drottni alvitrum og gæzkuríkum til handa.

Enn er eitt, sem kristið fólk allt ætti að muna eftir og íhuga sér til trúarstyrkingar: Í þeim löndum á jörðinni, sem mikið hafa af vetrarríki í náttúrunni að segja og snjó, taka margar skepnur, bæði ferfætlingar og fuglar, er þar eiga stöðugt heima, einkennilegum stakkaskiftum. Hin loðna yfirhöfn, sem dýr þau ganga í, breytir lit. Hún er dökk að sumarlagi, en verðr með vetri komanda hvít eins og snjórinn. Stöku dýr aftr á móti, eins og ísbirnir, sem árið um kring hafast við í alhvítri vetrarnáttúru, halda stöðugt sama lit — hvíta litnum. En það, að þau að því er til litarins kemr líta út eins og umheimr þeirra, er þeim skiljanlega frábær vörn gegn nálega óteljandi óvinum, sem stöðugt eru að ofsækja þau og leitast við að ná lífi þeirra. Einnig í þessu birtist speki og gæzka skaparans, — svo nærgætinn kærleikr af hans hálfu þessum lítilmótlegu einstaklingum í ríki náttúrunnar til handa, að vert væri fyrir alla útaf því að falla fram fyrir hátign hans í lotningarfullri tilbeiðslu.

Og ætti þá sannarlega sérhver lærisveinn lausnara vors Jesú Krists að minnast þessarra orða hans: "Eru ekki tveir spörvar seldir fyrir einn smápening? — og ekki fellr (þó) einn þeirra til jarðar án vilja föður yðar; en jafnvel öll höfuðhár yðar eru talin. Óttizt því ekki; þér eruð meira verðir en margir smáfuglar." (Matt. 10, 28—31). Þar sem guð almáttugr sér svo vel fyrir skepnum náttúrunnar, ber svo nákvæmlega umhyggju fyrir lífi jurta og dýra eins og nú er sýnt og svo skýrt blasir við að vetrarlagi, hvort myndi hann þá ekki því fremr hafa bæði vilja og mátt til að fæða og klæða oss mennina, sem hann hefir skapað í eigin mynd sinni?

Ekki aðeins sumarið, meðan það stendr yfir, heldr einnig vetrinn komandi og líðandi, minnir oss alla á það, að oss er í Jesú nafni í öllum greinum óhætt að trúa föður vorum á himnum fyrir lífi voru.

Og vetrinn minnir jafnvel enn betr á þetta en sumarið.

# Bandaríkjaforsetinn skotinn

Nýkomin er til vor hin voðalega frétt um banatilræðið í fyrra dag við McKinley, forseta Bandaríkjanna, einn hinn mesta ágætismann samtíðarinnar, einhvern allra bezta þjóðhöfðingja, sem uppi hefir verið á vorum mannsaldri, og þótt miklu lengra sé leitað. Þvílíkt slys! Þvílíkt sorgarslag fyrir ástvini hans, land hans og lýð, — og fyrir allt almennilegt fólk í öðrum löndum og ríkjum! Og þvílík synd! Þvílíkt ofrmagn mannvonzkunnar hjá vesalmenni því, er illverkið drýgði, og mannhópi þeim öllum, er í laumi stendr þar á bak við! Hárin hafa risið á höfði manna þúsundum og milíónum saman út um allan heim út af fregninni um þetta djöfullega níðingsverk. Hvernig víkr því við, að annað eins skuli geta komið fyrir — og það í því landi, þar sem menntanin stendr einna hæst í heimi, hagsæld almennings í svo góðu lagi, að aldrei hefir í neinu landi áðr fyrr verið eins,

framfarirnar nærri því óviðjafnanlegar, mannfrelsið nálega takmarkalaust? Kristið er landið kallað, og líklega eins vel kristið í raun og veru og nokkurt annað land. Og maðrinn, sem með þessu móti er reynt til að deyða, eins mikið afbragð sem stjórnari og eins göfugr að mannkostum og allir hafa hátíðlega kannast við. Hví gat þá annað eins óhæfuverk, annað eins allsherjar skelfingar-atvik, komið fyrir?

Hér fá allir séð svart á hvítu — það má nú lesa það um allan heim —, hvað syndin getr verið syndug, hvað syndug hún er í innsta eðli sínu, — nákvæmlega eins og heilög ritning vor og Jesús Kristr lýsir henni.

Flokkr "anarkista" stendr á bak við hið hryllilega ódáðaverk, hinn ógeðslegi, samvizkulausi myrkramanna--hópr, sem sett hefir sér það mark og mið að kollvarpa öllu lögbundnu fólkslífi, afnema alla stjórn og öll yfirvöld, jafna allt í mannheimi með jörðu, gjöra ríki og lönd að einu allsherjar moldarflagi. En af hverju stafar þetta syndsamlega óvit, þessi æðandi, eyðandi ónáttúra? Af óánægju og öfund. — Þetta eru menn, sem brenna af óánægju með hin jarðnesku kjör sín, og af öfund við aðra menn, þá alla, sem betr líðr í jarðneskum efnum, eða sem þeir ímynda sér að eigi í því tilliti betra en þeir.

Svona á að launa þeim mönnum í stjórnum landanna, sem alla sína krafta leggja fram til þess að styðja heill almennings, alla sína vitsmuni til þess að koma því skipulagi á mannfélagið, að allir geti sem bezt notið sín!

Þetta er vanþakklæti — heimsins, nútíðarinnar, vanþakklæti í svörtustu mynd þess.

Er nú ekki öllum augsýnilegt, hvað þeir eru að vinna nær og fjær oss, sem með öllu móti eru að spana fólk upp gegn yfirmönnum þess, kveikja eld óánægju og öfundar í sálum þeirra, er sæti eiga á óæðra bekk mannfélagsins, innræta fátæklingum óvild og hatr til þeirra, sem hafa auð fjár, án alls tillits til þess, hvort sá auðr hefir fengizt með réttu móti eða röngu, eða hvort honum hefir verið varið vel eða illa?

Hver getr hjálpað í neyðinni? Hver huggað í sorginni? Hver frelsað frá syndinni. Hver varnað því hræðilega heims-

hruni, sem hinir æðisgengnu æsingamenn eru að að vinna? — Að eins einn — guðmaðrinn krossfesti og upprisni, Jesús Kristr, mannkynsfrelsarinn. — Taki því allir undir hið biðjanda sársauka-ákall í guðspjallinu: Jesú meistari, miskunna þú oss!

# Klettr aldanna

Drottinn Jesús, hinn krossfesti og upprisni, er mannkynsfrelsarinn og um leið konungr áranna og aldanna. Að því leyti, sem hann fær yfirráðin hér í heimi, blessast mannkynssagan. — Tíminn breytist. Allt er á fleygiferð. Kynslóðir hníga og hverfa, og aðrar nýjar koma fram á sjónarsviðinu. Mennirnir eldast mjög fljótt. Og margir, jafnvel flestir, eru hnignir til moldar áðr en ellin kemr. Ljósin jarðnesku blikna. Blómin jarðnesku fölna og falla í duftið. Minnismörkin, sem mannshöndin hefir reist upp hér á jörðinni, hversu mikilfengleg, glæsileg og ramgjör sem þau eru, fyrnast, molna upp, falla í rústir og eyðast. Ríkin jarðnesku kollvarpast. Einnig stórvirkin andlegu, sem liggja eftir spekingana mannlegu, missa með tímanum gildi sitt, — verða að þoka fyrir öðru nýju. Heimrinn brunar áfram, fjarlægist þau minnismörk, vex burt frá þeim. Móða tímans fellr yfir þau. Þau gleymast, hverfa inn í þokuna. Allt hið jarðneska er forgengilegleikanum háð. En Jesús Kristr er hinn sami í gær og í dag og að eilífu. Tíminn sópar öllu burt nema því, sem er í hans skjóli, nýtr verndar hans, þiggr blessan hans. Því að hann er frelsarinn — mannkynsfrelsarinn, einstaklingsfrelsarinn.

"Hann er sá steinn, sem þér byggingarsmiðir einskis möttuð, en er nú orðinn að hyrningarsteini" — segir Pétr postuli um Jesúm við hin kirkjulegu yfirvöld Gyðinga í Jerúsalem (Pg. 4, 11). Samkvæmt gamla testamentis spádómunum um Messías (Sálm. 118, 22 og Esaj. 28, 16) lýsir Jesús sjálfr yfir því, að hann sé slíkr steinn (Matt. 21, 42). Hann

er sá steinn, sem öllum er óhætt að standa á og byggja á allt líf sitt, vonir sínar, verk sín, bænir sínar. Hyrningarsteinn kirkjunnar, undirstöðusteinn sannleikans og sáluhjálparinnar. Bjarg, sem stendr stöðugt í ölduróti tímans. Klettr aldanna. Eilíft bjarg.

"Eg stend á þér, Jesús, mín hjálpræðishella,
—segir skáldið*)—
hæðandi' að óvinafylkingum þeim,
á mig sem herjuðu flatan að fella
og fjötraðan draga í kvalanna heim.
Ef þú mig fordæmir, hrekkvísa hjarta,
herrann er meiri, — sá upp reis af gröf;
skóf hann burt tölur míns skuldabréfs svarta
og skenkti mér kvittan að eilífri gjöf."

Í 31. Davíðs sálmi koma fyrir þessi bænarorð: "Vertu mér öruggt vígi, bjarg mér til frelsunar." Og í 26. kap. í spádómsbók Esajasar stendr þetta: "Treystu drottni æ og ætíð, því drottinn guð er eilíft bjarg." Hvorttveggja þetta þýðir gjörvöll kristnin réttilega upp á Jesúm. Út af þessum texta orkti Toplady sálminn *Rock of Age* ("Bjargið alda, borgin mín" eða "Hellubjarg og borgin mín"), einhvern frægasta og dýrmætasta kristna sálminn, sem kveðinn hefir verið á enskri tungu.

Margt í líkingarmáli heilagrar ritningar ber það með sér, að lýðr drottins hinn útvaldi, sem tók við opinberaninni guðlegu bæði á gamla og nýja testamentis tíðinni, bjó í fjöllóttu landi. Meðal annars það, að drottinn er nefndr klettr eða bjarg. Allt slíkt líkingarmál minnir oss mjög eðlilega og oft með öllu ósjálfrátt á hið fjöllótta föðurland vort — Ísland. Ýms voði stendr þar eins og í öllum slíkum löndum í sambandi við fjalla-náttúruna. Meðal annars snjóflóðin og skriðuhlaupin. Það hvorttveggja er geigvænlegr náttúru-atburðr. Þegar snjór hleðst niðr hið efra í hinum snarbröttu fjallshlíðum dag eftir dag og viku eftir viku, þá verðr það snjómagn stundum svo mikið, að það getr ekki haldið sér kyrru, þolir

*) Hjálmar Jónsson í "Vonarhlátr hins trúaða."

ekki sinn eigin þunga, heldr hrapar niðr með ógurlegum hraða og hinu mesta eyðileggingarafli. Tekr sig oft upp í einu augnabliki, algjörlega óvæntu, efst upp í fjallsbrún og þeytist áfram niðr allar brekkur nálega eins og fallbyssuskot, en æ þyngra og þyngra, víðtækara og víðtækara, eftir því, sem neðar dregr, og þar af leiðanda með sívaxanda hraða — þangað til komið er niðr á jafnsléttu. Og stundum fer flóðið enn langa leið eftir að þangað er komið, breiðir sig út yfir svo eða svo stórt svæði á undirlendinu. Á mjög líkan hátt myndast skriðuhlaupin — af of miklu vatns-samsafni í rigningatíð í hinum lausa jarðvegi fjallahlíðanna. Voða-aflið, sem náttúran býr yfir, birtist í mesta máta stórkostlegt við slík tækifæri. Og tjónið, sem slíkar náttúru-byltingar valda, er einatt afar mikið, hryllilegt, grátlegt — landspjöll, eignamissir, manntjón. En hinsvegar kemr það og all-oft fyrir, að mannslífin, mannvirkin og eignir manna bjargast, frelsast, þá er svona lagaðr voði er á ferðinni, á dásamlegan hátt, eins og fyrir yfirnáttúrlegt kraftaverk. Frelsandi hönd drottins iðulega augsýnileg og áþreifanleg í slíkum eyðileggingar-áföllum. Flóðið eða hlaupið klofnar oft á miðri leið. Stefna þess breytist. Það rennr áfram í tveimr örmum úr því; og eftir því, sem armarnir fara lengra, fjarlægjast þeir hvor annan og skilja þannig eftir á milli sín svo eða svo stór svæði ósnortin, óskemmt af byltingnuni. Inni í voðanum, umkringt af dauðanum í þessari sérstögu mynd hans, er allt þar óhult.

Hvað er það, sem olli þessu frelsunar-kraftaverki? Hvað var það, sem klauf flóðið? — Einhver jarðföst, óbifanleg mishæð í fjallshlíðinni — bjarg, klettr. Tilsýndar bar, ef til vill, lítið eða ekkert á þeim kletti. Hann var lágr og lítill fyrirferðar. Hann stóð, ef til vill, naumast upp úr flóðinu. En hann var langtum sterkari og stóð miklu fastar í jörðinni en svo, að flóðaflið fengi þokað honum úr stað. Og af því að hann lét ekki undan varð hann til þess að brjóta strauminn, kljúfa flóðið, breyta stefnu þess, veikja afl þess, dreifa því, — framleiða kraftaverk líknar og frelsunar í dómsdagseyðileggingunni miðri.

Slíkr klettr í syndaflóðssögu mannkynsins og í sorgaflóðssögu þess er Jesús Kristr.

Þér, hinir kristnu lesendr blaðs þessa! Hugsið um liðnu árin öll, sem þér munið eftir í æfisögu yðar, eða hafið heyrt eða lesið um í mannkynssögunni þar á undan. Hugsið um mótlæti liðinnar tíðar, sorgir liðinnar tíðar, freistingar liðinnar tíðar, syndir liðinnar tíðar — í yðar æfisögu eða annarra kristinna manna.

Það kom allt þetta stundum, jafnvel oft, sem steypiflóð, kalt, heljarþungt, voðalegt snjóflóð og veltist yfir yðr eða aðra. Aðdragandi þess var, ef til vill, langr, þótt stundum væri ómögulegt að segja, hvað langr hann var. Upptökin voru einhversstaðar uppi í þokunni. En áðr en nokkurn varði sáuð þér mótlætið koma og stefna beint á yðr. Sorgin streymdi að yðr í hræðilegum flóðöldum. Þér kennduð sterkra freistinga, og það ekki að eins samfara mótlætinu, heldr líka, og það jafnvel enn þá fremr, í meðlætinu. Þær sóttu að yðr með heljarafli. Stundum veittuð þér þó freistingunum enga verulega eftirtekt fyrr en eftir á, þá er þér voruð ornir syndfallnir menn og láguð flatir undir þunga yðar eigin synda. Þetta er ekki að eins yðar reynd. Aðrir menn hafa reynt hið sama. Sumir meira. Sumir minna. Allir eitthvað. Það hafið þér heyrt. Það hafið þér lesið. Þér vitið það. En þér vitið meira um það mál, eða getið vitað. Ef þér í sannleika eruð lærisveinar Jesú Krists, þá vitið þér, að allar þessar flóðöldur, sem streymt hafa inn í æfisögur yðar, hafa brotnað á honum. Fyrir trúna á hann, samlífið með honum, kom til yðar huggun í mótlætinu, gleði í sorginni, styrkr til að veita viðnám í freistingunum, guðleg fyrirgefning, þá er syndin — yðar eigin synd — lagðist yfir yðr hrellandi. Jesús klauf flóðið, sem stefndi á yðr. Þér hjálpuðust af úr voðanum fyrir þá sök, að hann tók við straumþunganum. Hann var bjargið í fjallshlíðinni, hjálpræðisklettrinn yðar. Á bak við hann stóðuð þér og fyrir þá sök var yðr borgið.

Ekki hafa allir persónulega reynt þetta. Því er nú verr. Margir eru vantrúaðir og margir eiga að eins dauða trú, sem kölluð er kristin, í eigu sinni. En þótt svo sé, þá eiga þeir þó líka kost á því að vita um þessa blessan, sem æfinlega er samfara sannkristinni trú. Öllum slíkum auðgefið að sannfærast um það, að Jesús er slíkt frelsunarbjarg þeim öllum,

sem binda við hann ástfóstr og lifa í trúnni á hann. Það geta allir séð, að þetta allt í einstaklingslífinu og mannkynssögunni, sem hér á undan hefir verið líkt við snjóflóð, hefir brotnað á honum og er stöðugt að brotna á honum.

Mótlætið er minna í heiminum síðan hann kom hér til sögunnar en áðr. Mótlætið er minna í löndunum, sem fengið hafa yfir sig ljósbirtu kristindómsorðsins, en hinum, — miklu minna. En hitt er þó meira um vert í þessu sambandi, að sama mótlætið er eins og allt annað, þá er það kemr niðr á kristnum manni og þá er það kemr niðr á ókristnum manni, — manni, sem lifir í guði, og manni, sem lifir fyrir utan guð. Og vitanlega er það sitt hvað, að syrgja trúaðr og syrgja vantrúaðr, — að syrgja í Jesú nafni og syrgja fyrir utan nafn hans. Og myndi nokkuð nálgast það að verða eins sterk vörn gegn því að falla fyrir syndinni á tíma freistinganna eins og það að hugsa trúaðr til Jesú? — Ekkert. — Og hvar er fullvissa um fyrirgefning syndanna, fullnægjandi fyrir mannssálina iðrandi og samvizkuna ákærandi, fordæmandi — nema í trúnni á Jesúm Krist, krossfestan og frá dauðum upprisinn? — Hvergi.

Hann kom í fylling tímans í heim þennan, inn í mannkynssöguna, til þess að vera bjarg aldanna, hjálpræðishella syndugra manna, varnarklettr og ásteytingarsteinn til þess að taka á móti öllum hinum ægilegu flóðöldum mannlegs lífs. Yfir honum nýfæddum sést vofa ægilegt mótlætisflóð og syndaflóð. Það kemr ofan af efsta fjalltindi í þjóðlífi landsins helga. Heródes konungr sendir út þjóna sína til að deyða hann — ungbarnið. En þau Jósef og María eru eftir guðlegri bending flúin burt með hann áðr. Það flóð snertir hann ekki. Það var teikn þess, að hann myndi kljúfa strauminn síðar meir. Enginn hefir verið annar eins mótlætismaðr. Með mesta heljarþunga sínum dundi mótlætið yfir hann. Syndir vorar bar hann — gjörvalla mannkynssyndina. Og ekki að gleyma freistingarsögunni hans. Þvílíkt stríð! Þvílík stórstraumsflóð myrkra-aflanna, sem yfir hann gengu vor vegna! En hann vann sigr, dýrðlegan sigr. Bjarg aldanna bifaðist ekki.

Öllum skal borgið í ókominni tíð — um tíma og eilífð —, ef þeir taka sér stöðu á bak við þetta bjarg. Og þeir skulu

ekki að eins sjálfir bjargast þar af, heldr skal lífsstarfinu þeirra einnig vera borgið. "Sælir eru hinir framliðnu, þeir, sem í drottni eru dánir; — — þeirra verk fylgja þeim" (Op. 14, 13). Í mesta máta raunalegt er að hugsa um það, að allt, sem sá maðrinn er að vinna að og berjast fyrir á hinni jarðnesku æfi hans hér, skuli geta misheppnazt og orðið að engu. En til þess þarf ekki að koma. Einskis manns æfistarf þarf að lenda í flóði eyðileggingarinnar. Verkunum öllum, sem hér í tímanum eru unnin í skjóli eilífðarbjargsins Jesú Krists, skal ávalt borgið, og þau skulu fylgja mönnum inn í dýrðarríki guðs á himnum.

# Íslands þúsand ár

*Prédikun er sr. Jón Bjarnason flutti á þúsund ára þjóðhátíð Íslendinga, 2. ágúst, 1874, í Milwaukee, Wisconsin.*

BÆN

Drottinn guð, þú eilífa athvarf syndugra manna frá kyni til kyns, vertu oss, sem hér stöndum frammi fyrir þinni ósýnilegri, heilagri hátign í Jesú nafni, náðugr og miskunnsamr. Aumkast yfir oss þín veik og vanmáttug börn. Helga þér hjörtu vor á þessari stundu, að vér fáum lofað þig og vegsamað á þann hátt, sem þér er þóknanlegt. — Vér viljum á þessari stundu sérstaklega lofa þig og vegsama fyrir allt það góða, sem þú fyr og síðar hefir látið vorri elskuðu ættjörðu í té á hennar þúsund ára æfiskeiði, sem nú er útrunnið. Vér erum sjálfir dupt og aska og höfum ekkert nema syndina af sjálfum oss. Vér erum aumir útlagar þínir sakir syndugra hugrenninga og saurugra orða og gjörða og fáum ekki litið til himins og ekki dirfzt að hugsa til vors rétta föðurlands, nema í trausti vorrar kristilegu trúar og vonar. Það er sú eina arfleifð, sem vér höfum tekið með oss að heiman frá vorri fjarlægu íslenzku fósturjörð, sú eina auðlegð, sem vér biðjum þig fyrir Jesúm Krist að láta fylgja oss til þín inn í eilífðina. Lof og dýrð sé þér, drottinn; eilífar þakkir séu þér, Jesús Kristr, fyrir þennan fjársjóð, sem þú lézt ættjörð vora veita oss, og sem gengið hefir í arf til feðra vorra og mæðra frá kyni til kyns. Eilíflega sértu vegsamaðr, drottinn, fyrir það ljós, sem þú í öndverðu kveiktir heima á fósturjörðu vorri og sem makt myrkranna öld eptir öld aldrei hefir tekizt að útslökkva. Ódauðlegar þakkir sé þér fyrir það líf, sem allajafna hefir hjá oss bærzt jafnvel mitt í dauðanum. Blessuð sé sú von, sá forsmekkur eilífrar sælu, sem þú hefir hresst og huggað, glatt og endurnært hina beygðu, þjökuðu þjóð vora með á hennar þunga krossferli. Vér þökkum þér, drottinn, einnig fyrir þær hörmungar og hrellingar, sem gengið hafa yfir land vort frá því fyrsta þú af eilífri speki þinni gafst feðrum vorum það til eignar og

aðsetrs. Blessaðr sértu fyrir alt blítt og strítt, sem þú hefir sent þjóð vorri í hin umliðnu þúsund ár; en sér í lagi viljum vér vegsama þitt nafn fyrir það, að þú hefir gefið oss og þjóð vorri, hinni minnstu af þjóðunum, endurlausnarann Jesúm Krist, að hann fái frelsað oss, allslausa af öllu góðu, frá andlegum og eilífum dauða, sem vér eigum kost á, eftir jarðneska eymd og útlegð, að safnast saman hjá þér í dýrðinni, til þess þar ásamt öllum útvöldum að halda heilaga fagnaðarhátíð um alla eilífð. Blessa oss þessa náðarstund, að vér fáum framborið þína dýrð. Gleð hjörtu vor í dag með þínum himneska fögnuði og stattu hjá oss, að vér ekki föllum í freistni. Bænheyr oss fyrir Jesúm Krist, endurlausnara vorn. Amen.

TEXTI:

*Drottinn! Þú varst vort athvarf frá kyni til kyns. Áður en fjöllin fæddust og þú tilbjóst jörðina og heiminn, já, frá eilífð til eilífðar ertu guð. Þú gjörir manninn að dupti og segir: Komið aptur, þér mannanna börn! Því þúsund ár eru fyrir þínum augum sem dagurinn í gær, þá hann er liðinn, og eins og næturvaka.*—Sálm. 90, 1-4.

*Kenn oss að telja vora daga, að vér verðum forsjálir. Snú þér til vor Drottinn! hversu lengi (viltu vera reiður). Aumkvastu yfir þína þjóna. Metta oss skjótt með þinni miskunn, svo munum vér fagna og gleðja oss alla daga vors lífs. Gleð oss nú eins marga daga og þú hefir oss beygt, eins mörg ár og vér höfum séð ógæfuna. Lát þína þjóna sjá þitt verk og þeirra börn þína dýrð. Drottinn, vors guðs, góðgirni veri yfir oss og staðfesti verk vorra handa; já, lát þér þóknast að staðfesta verkin vorra handa.*

Upplesinn texti gefur oss sérstaklega tilefni til að vegsama eilífa náð og almáttka varðveizlu himnaföðrsins á börnum sínum; en hann minnir oss jafnframt á vora eigin eymd, á allan þann krossbrð og mæðu, sem syndin hefir áskapað undanförnum æfidögum vorum. Hér erum vér hátíðlega minntir á, að gefa drottni einum dýrðina, að fela oss auðmjúkir og iðrandi, biðjandi og trúandi hans heilagri hátign á vald.

Hin lofsyngjandi og biðjandi orð, er texti vor hefir inni að halda, eru eignuð guðsmanninum Mósesi. Hin mikla guðs hetja stóð eflaust, eins og líka ritningin gefur í skyn, guði nær en allir aðrir leiðtogar Gyðingalýðs eptir hans daga; enginn mun því á dögum hins gamla testamentis hafa haft opnari augu en hann fyrir dýrð og vegsemd guðs, fyrir öllum hans óendanlegu og óumræðilegu eiginlegleikum; en þá er og ekki að furða, þótt hann, ef til vill, næmar en nokkur annar fyndi til mannlegs ófullkomlegleika, mannkynsins allsherjar syndaeymdar og óláns. Móses hafði líka á sinni merkilegu og makalausu æfi eigi aðeins þreifað á dýrð og dásemdum drottins, heldur einnig næsta átakanlega orðið að reyna vanmátt og vesöld, flokkadrátt og félagsleysi, svik og þrællyndi sinnar eigin þjóðar, Ísraelslýðs, sem þó, eins og kunnugt er, fremr öllum öðrum þjóðum stóð undir vernd og varðveizlu hins almáttuga. Það var Móses, sem undir verndarvæng drottins losaði lýðinn undan ánauðaroki Egypta; það var hann, sem með lögmáli hins réttláta, en jafnframt með fyrirheitum hins náðarríka guðs endrskapaði, uppyngdi og lífgaði hina djúpt föllnu, fyrirlitnu og hálfdauðu þjóð sína; það var hann, sem í 40 ár var að brjótast með Ísraelslýð í gegn um eyðimerkr Arabíu og átti allan þann tíma að stríða við vantrú, varmennsku og upphlaupsanda síns eigin fólks, eigi síðr en við rángjarna og slæga framandi fjandmenn; það var að lokum Móses, sem undir andlát sitt aðeins auðnaðist að líta inn í hið fyrirheitna land þjóðar sinnar, endimark hinnar löngu vegferðar, án þess að mega stíga þangað fótum sínum. Alt hans líf var stöðugt trúarstríð, kröptugur reynsluskóli, sem að einu leyti daglega sýndi honum dásemdir hins eilífa og hins vegar eymd og niðurlæging jafnvel guðs útvöldu þjóðar. Út úr slíkum skóla, er sálmur sá genginn, er texti vor er tekinn úr. Þar tilbiður guðsmaðrinn eilíft vísdómsfullt almætti guðs og biðr í auðmýkt hina himnesku hátign, að aumkast yfir aum og umkomulaus börn mannanna hér í tímans byltingum, — biðr um náð í stað reiði, gleði í stað margra undangenginna sorgardaga, um evangelíum í stað lögmáls.

"Þúsund ár eru fyrir þínum augum, drottinn, eins og dagrinn í gær, þá hann er liðinn, og eins og næturvaka."

Þessi orð textans minna oss á það einstaklega atvik, sem á þessum stað og þessari stund hefir samansafnað oss, örfáum og fátækum Íslendingum, í framandi landi og heimsálfu, fjarri vorri afskekktu, elskuðu ættjörð, í því skyni að minnast með sameiginlegri lofgjörð og þakklæti á þá náð og trúfesti, sem drottinn var himneskr faðir, faðir alheimsins, faðir þjóðanna, faðir hinna einstöku sálna, hefir látið Íslandi í té í öll þau þúsund ár, sem nú teljast liðin frá bygging þess. Nú er gleðidagr og þakklætisdagr yfir allt Ísland; nú stíga heitar bænir frá öllum íslenzkum hjörtum til hins eilífa og almáttuga; nú er tilefni til að biðja í Jesú nafni, að biðja fyrir öllum mönnum, og sér í lagi fyrir þjóð vorri og öllum þeim andlegu hreyfingum, sem bærast í skauti hennar, að þær megi bera kristilegan og himneskan og heilagan ávöxt. Nú er vonartími fyrir þjóð vora; nú ættu allir Íslendingar að vera fúsir á að trúa fyrirheitum kristindómsins oss til handa um fullkomnun, framför og blessun á hinum ókomnu öldum. Nú ætti kærleikslunderni Jesú Krists að uppfylla sálir vorar, svo að öll vor gleði og von og trú, allr kraptr vilja vors, öll vor andlega viðleitni stefni til guðs ríkis og hans heilaga réttlætis.

Í Jesú nafni viljum vér leitast við að vegsama drottin fyrir miskunn þá, sem hann hefir auðsýnt þjóð vorri í þessi umliðnu þúsund ár. Í því skyni viljum vér samkvæmt því, sem textinn gefur oss tilefni til, leitast við að sýna, að vort fámenna íslenzka þjóðfélag hefir — á líkan hátt og Ísraelslýðr til forna — sérstaklega staðið undir vernd og varðveizlu drottins, þar sem hans eilíf miskunn hefir borið oss óeydda út úr syndaflóði umliðinna þúsund ára.

*"Drottinn var athvarf Íslands frá kyni til kyns í öll þessi þúsund ár"* — þetta sé upphaf og endi hugleiðinga vorra við þetta hátíðlega tækifæri. Himneski faðir, helga þú og hreinsa sérhverja hugsun vora og innblás og forklára sérhvert orð vort, sjálfum þér til dýrðar, og oss til andlegs yndis og blessunar. Bænheyr það, þú almáttki kærleikr, í Jesú nafni. Amen.

Þá er vér athugum aðalatriðin í þúsund ára sögu þjóðar vorrar, munum vér komast að raun um, að hún — að sínu leyti eins og fornsaga Gyðinga — er rituð með guðs fingri

frá upphafi allt fram á þennan dag, því saga vor í heild sinni er í rauninni eitt stórmikið, guðdómlegt dásemdarverk. Vér vitum það fullvel, að vér heyrum til einhverju hinu fámennasta og fátækasta þjóðfélagi, sem til er í hinum menntaða heimi, að ættjörð vor, Ísland, er eflaust hið gæðaminnsta og harðasta land, sem menntað mannfólk byggir, að eymd og bágindi, stríð og barátta hefir einkennt mestan hluta sögu vorrar. Það er og vitanlegt, að velflestir þeirra Íslendinga, sem hér hafa safnazt saman, hafa flúið hingað í fjarlæga heimsálfu heimanað undan ýmsum þeim annmörkum og örðugleikum, er eigi þótti lengr við mega una. Allt um það erum vér saman komnir rétt eins og útlagar á eyðimörku til þess með hrærðum hjörtum að minnast vorrar íslenzku ættjarðar og lofa guð fyrir þúsund ára þrekmikla baráttu feðra vorra og frænda. — "Drottinn var athvarf Íslands þjóðar frá kyni til kyns." — Jafnvel áðr en kristin trú var prédikuð forfeðrum vorum getum vér með fyllsta rétti sagt, að drottinn hafi beinlínis látið til sín taka í sögu þjóðarinnar. Að vísu sendi guð engan Móses eða Jósúa til þess með harðri hendi að reka feðralýð vorn inn í það land, sem forsjónin hafði þeim fyrirhugað; að vísu var land það, sem þjóð vorri var úthlutað, ekkert Kanaan með tilliti til landkosta og náttúrugæða; að vísu hafði drottinn aldrei hátíðlega lýst yfir því, að hann hefði sér á parti útvalið sér þjóð vora til eignar og uppáhalds; — en það var drottinn vor guð, hann, sem er frá eilífð til eilífðar, sem á hinni myrku heiðindómsöld stýrði frjálsum fótmálum forfeðranna burtu frá fornum ættstöðvum til hins afskekkta og ísi þakta eylands; það var drottinn, sem hafði fyrirbúið þeim og niðjum þeirra þennan einkennilega áfangastað; þar skyldi heiðindómr og harðneskja þeirrar kynslóðar hníga fyrir hinum allt sigrandi kærleiks og friðar anda Jesú Krists; þar skyldi víkingalýðrinn hætta að trúa á mátt sinn og megin og eptir því sem tímar liðu fram æ áþreifanlegar finna til vanmáttar síns andspænis almáttkri náð hins heilaga og réttláta. Það er og drottinn sjálfr, sem með sögu þessara þúsund Íslands ára hefir sýnt oss fram á, að hann hefir allan þennan tíma búið á meðal vor, þótt hann af speki einatt hafi orðið að hirta oss harðlega fyrir syndir vorar og svívirðingar. Eins og

kunnugt er höfðu forfeðr vorir átt rúma öld aðsetr á ættjörðu vorri áður en kristin trú var þar pédikuð. Sú öld var mátulegr undirbúningstími handa landslýðnum undir evangelíum hins krossfesta, hentugr tími, af drottni ætlaðr til að spekja hjörtu og vekja í þeim löngun eptir lausnarorði Jesú Krists. Þótt myrkr heiðninnar grúfði yfir feðrum vorum, átti þó þessi heiðna öld sína kyrlátu postula og prédikara, sem höfðu hugboð um ýms gleðileg sannindi kristindómsins og hugguðu sig við þau í lífi og dauða. Eða hvað eigum vér að segja um þann heiðingja, sem deyjandi biðr guð að fyrirgefa banamönnum sínum? eða hann, sem þann eina guð vildi dýrka, sem sólina hefði skapað, sem tilbiðr í dauðanum föðr ljóssins og biðr hann lýsa anda sínum í dauðans myrkrum? Hvað var athvarf slíkra heiðingja nema drottinn einn, sá sami drottinn, sem Jesús Kristur í eigin persónu hefir opinberað oss niðjum þeirra? Eins og vér lesum í upphafsorðum Jóhannesar guðspjalls, að skinið hafi ljós í myrkrunum, þegar fyrir líkamlega opinberun endurlausnarans í heiminum, eins getum vér með fyllsta rétti heimfært þessi orð upp á heiðindóms-öld þjóðar vorrar. Að vísu var það ljós, er hjá oss skein í myrkrunum, sá morgunbjarmi, er boðaði komu dagsins eða hinnar kristnu aldar, engan veginn nægilegr til þess að endurskapa hinn heiðna landslýð til lifandi vonar og trúar. Það megnar að eins fullkomin opinberun Jesú Krists, hans alfullkomna evangelíum. Allt fyrir það varð þetta til þess, að dagr kristninnar upp rann skjótar og friðsamlegar yfir Íslandi, þá er fylling tímans var komin, en yfir önnr lönd um þær mundir.

En hafi drottinn verið athvarf þjóðar vorrar á hinni stórskornu og hrikalegu heiðindómsöld, þá er auðvitað, að kristindómrinn færði fólk enn nær himninum. Þar var hið sanna ljós, og eilíf lífsins uppspretta. Skoðum lífið, sem upprann með orði Jesú Krists á ættjörð vorri. Rennum augum vorum yfir afreksverk forfeðra vorra á hinum frjálsu fyrstu öldum kristindómsins. Skoðum, hvað liggr eptir þennan fáliðaða frelsishóp, sem lifði á hinni afskektu eyju norðr í höfum. Það voru Íslendingar, forfeður vorir, sem jafnvel þegar í heiðni — einir allra þjóða á þeim tímum — sköpuðu sér þá stjórnarskipun, sem fremstu þjóðir jarðarinnar nú á tímum

af alefli leitast við að koma á og endrskapa hjá sér, stjórnarskipun, sem er byggð á viðurkenning almenns kristilegs mannfrelsis, stjórnarskipun, sem hvetr hvert mannsbarn jafnt til frjálsrar atorku og manndáðar, stjórnarskipun, sem í aðalatriðum sínum betr en nokkr önnur fær samrýmzt við allsherjar helgunaranda kristindómsins, stjórnarskipun, sem hina menntuðu fornöld mannkynsins aðeins óraði fyrir að væri hin bezta og hlyti að komast á. Það voru Íslendingar, sem smám saman söfnuðu saman, frumsmíðuðu og fastsettu þau lög, er menntuðustu menn heimsins nú á dögum aldrei þykjast fá oflofað, sem síðan að mörgu leyti hafa lifnað upp í nýrri mynd í ýmsum voldugustu þjóðfélögum heimsins, lög, sem voru fóturinn undir frjálsri og kristilegri þjóðstjórn. Það voru Íslendingar, sem drottinn veitti þann heiður endr fyrir löngu, að finna þá heimsálfu, sem nú er bústaður vor, er hér höfum safnazt saman. Er það ekki merkilegt, að vor litla feðraþjóð skuli af drottni vera útvalin, til að komast fyrst allra menntraðra þjóða til þessa fjarlæga meginlands, sem nú er orðið annað aðal-aðsetur kristilegrar kirkju og heimsmenningarinnar? Eða var það ekki drottinn, sem leiddi farmenn forfeðra vorra yfir hið mikla haf upp að ströndum þessarar miklu heimsálfu, eins og hann nú hefir stýrt hingað göngu vor, fárra, fátækra niðja þeirra, eptir svo margar aldir? Hver nema drottinn guð gjörir manninn að dupti og segir: Komið aptur, þér mannanna börn? Líkamir hinna fornu vegmóðu farmanna fornaldar vorrar, sem fyrstir fundu þetta land, eru nú dupt og hafa hvílt í duptinu í allar þessar mörgu horfnu aldir; en drottinn kallar á ný til ættjarðar vorrar, Íslands, kallar með almættisorði, er allt verðr að hlýða: Komið aptr, þér mannanna börn. Í drottins augum eru þúsund ár, óra-tímabil í sögu þjóðanna, eins og dagurinn í gær, þá hann er liðinn, og eins og nætrvaka. Í drottins augum hafa því forfeðr vorir, þeir er fyrstir fundu þennan nýja heim mannkynsins, lifað sem í gær í landi þessu, og vér, sem staðnæmzt höfum í álfu þessari, eigum að vekja upp aptr minningu þeirra meðal hins nú lifanda landslýðs og með kristilegu hjarta og dagfari reyna til að fegra hana og forklára. Drottinn gefi oss náð til þess fyrir Jesúm Krist. — En vér skulum halda áfram að rekja spor

forfeðranna á hinum frjálsu framfaraöldum vorum. Það voru Íslendingar, sem æ því meir sem lengr leið á þetta frelsistímabil vort söfnuðu sér andlegum fjársjóðum vísinda og menningar. Með kristindóminum rann upp andleg blómaöld og gullöld yfir Ísland. Meðan aðrar þjóðir sváfu nálega um alla Norðurálfu heimsins og nærri því kepptust við að týna öllu andlegu lífi, meðan kristindómrinn þornaði upp meðal þjóðanna fyrir sakir sviksamlegrar eigingirni þeirra, sem útbreiðsla orðsins var á hendr falin, meðan sérhver þjóðtunga var einskis virt, og allt það litla, sem fært var í letr, var skráð á útlendri, út dáinni tungu, sem öll alþýða manna ekki skildi, — einmitt á sama tíma tóku feðr vorir að rita sín frægu sagnaverk á hinni kjarnmiklu tungu, er vér enn tölum óbreytta; og frá þeirra ritum eingöngu er öll sú þekking runnin, sem menn nú á tímum hafa á þessum liðnu öldum, eigi aðeins að því er snertir Ísland, heldur og öll Norðurlönd og þær þjóðir og lönd, sem stóðu við þau í nokkru sambandi. Þessi fornu rit eru hinn eini lykill, sem til er, að lífi fjölmargra þjóða á hinni myrku miðöld mannkynsins. Það er og þessum ritum að þakka, að vér nú í dag vegsömum forsjón drottins fyrir það, að þjóð vor lifir enn eptir þúsund ár. Þau fræða oss um baráttu kristindómsins til forna bæði í þjóðfélagi voru í þess heild, og hinum einstöku sálum þess. Þau eru í vissum skilningi drottins dómsatkvæði yfir hinum horfnu kynslóðum, að því leyti sem þau hafa sannleik sögunnar ómengaðan í sér geymdan, því drottinn stýrir atburðum þjóða og einstaklinga og lætr þeirra eigin æfisögu birtast sem þeirra dómabók. — Hverjum heyrir nú til dýrðin nema drottni? hverjum lofgjörðin og þakklætið fyrir allt það gleðilega og góða, sem afrekað er meðal þjóðanna, hverjum nema drottni allsherjar, honum, sem var guð áðr en jörðin var til og fjöllin fæddust? Og til hvers minnumst vér á andlegan og veraldlegan framgang feðra vorra við þetta tækifæri, nema til þess að lofa guð, sem með kristindóminum glæddi svo blómlega andlegt þjóðernislíf í landi voru á vorri fornu frelsisöld. Lof og dýrð sé þér, drottinn, fyrir upphefð og ljóma fornaldar vorrar. Blessuð sé minning alls hins fagra og háleita og kristilega í fornsögu þjóðar vorrar.

Vér erum ávalt fúsastir á að rifja upp fyrir oss frægðarferil feðra vorra, en vér viljum síðr dvelja við íhugun hins miklu lengri tíma þjóðarsögu vorrar, sem tók við eptir að sjálfstæð stjórn og frelsi var hrifið oss úr höndum. Það er og að nokkru leyti eðlilegt, því vér viljum ávallt helzt hvíla hugann við hin björtu augnablik undangenginnar æfi. Ljóshliðar lífsins skína og því skærar sem þær lifa lengr í endurminningunni. Skuggarnir í horfnu mannlífi á frægri frelsisöld hverfa að miklu leyti í spegli sögunnar, eða líta að minnsta kosti út í augum fjarlægs áhorfanda glæsilegri en átt hefir sér stað í raun og veru. En merkilegt er það, að líti menn yfir leiksvið liðinnar sögu, í því skyni að leita þar að dásemdum drottins, þá er opt eins og hönd hans sé auðsæjust á mæðu- og mótgangs-, eymdar- og ólánstímabilum þjóðanna, því þá er eins og það liggi enn ljósar í augum uppi en ella, að það er guð einn, sem allt ljós og allt líf og alla blessun skapar hér á jörðu, að hann einn er athvarf hins mædda mannkyns frá einni kynslóð til annarar. Á auðsældar- upphefðaröldum þjóðanna — allt eins og einstaklinganna — liggr hinni léttúðugu kynslóð svo opt og iðulega við, að gleyma því að gefa guði dýrðina, að tileinka sjálfri sér alla frægðina, heppnina og hagsældina. Það er eins og engum detti þá annað í hug, en að mennirnir framkvæmi allt, stýri öllu, skapi söguna. Það er eins og guðs gæti þá ekki eins bersýnilega fyrir frelsisframkvæmdum mannanna. Þess vegna verða hinir svo kölluðu vondu dagar að koma eigi aðeins yfir einstakar sálir, heldr og yfir þjóðirnar, þau árin, þær aldirnar, er vér segjum um, að þær líki oss ekki, hin sannkölluðu krosstímabil þjóðanna. Þá er hönd drottins augsýnilega á lopti, eigi einungis til að hirta og hegna, heldur og jafnframt til að hugga og friða, hjúkra og endurnæra. Þá sést krosstákn endurlausnarans skýrt á söguhimninum, þótt hann að öðru leyti sé myrkvaðr dimmum sorgarskýjum. — Það á ekki við — við þetta tækifæri —, að ganga einstaklega í gegn um apturfarartímabil ættjarðar vorrar eða að rekja eymdarferil hennar í margar aldir eptir að hnignun þjóðlífs vors var komin á hæsta stig. Vér viljum ekki sérstaklega minnast á fjörbrot þjóðarinnar um langan aldr, á nærri ósjálfráða baráttu hennar gegn eyðileggjandi áhrifum

útlendrar, óvitrlegrar harðstjórnar; en þess viljum vér með fögnuði minnast, hvernig guð, vor himneskr faðir, hefir haldið hlífiskildi yfir forfeðrum vorum á öllum þeim mótgangs öldum, sem upprunnu yfir Ísland eptir að fylling vorrar fornu frægðar var dofnuð. Vér viljum með hjartanlegu þakklæti til guðs minnast þess, að hans kristileg kirkja að mörgu leyti blómgaðist mitt á eymdaröldum vorum, að orðið drottins vors Jesú Krists varð til þess að varðveita þjóðtungu vora, mál hjartna vorra, óbreytt og óafbakað, að ýmsir orðsins þjónar kveiktu innilega ást í hjörtum landslýðsins fyrst og fremst á hinni andlegu ósýnilegu ættjörð vorri á himnum, en jafnframt því á vorri fátæku jarðnesku fósturjörð. Hve nær á Íslands æfi hefir, má eg spyrja, drottni verið gefin dýrðin eins óskert eins og á neyðaröld þjóðarinnr? Hve nær hefir hinn krossfesti endurlausnari verið nær hjörtum manna en einmitt á því tímabili? Hve nær hefir píslarsaga frelsarans verið dýrðlegri en einmitt þá, þegar píslarsaga þjóðarinnar stóð sem hæst? Hve nær hefir heilagr andi talað út af munni guðs þjóna, ef eigi hans, sem bezt hefir sungið hinum krossfesta dýrð af skáldum vorum? eða hins mikla prédikara, sem allajafna, lífs og liðinn, hefir hrópað svo hátt í hinni íslenzku eyðimörk, að hver sem eyru hefir haft að heyra, hann hefir hlotið að heyra það kröptuga lífsins orð, sem hann flutti þjóðinni? Voru ekki þessir og þeim líkir postular dýrðleg ljós, er þau skinu í myrkrunum? Voru ekki þessir menn verkfæri drottins til að viðhalda kristninni í landinu, meðan allt annað virtist vera að eyðast og tortýmast? Var þjóðinni nokkurn tíma kröptugar kennt að telja sína daga, að hún yrði forsjál til hins eilífa lífsins, en einmitt á þessum mæðutíma? — En drottinn talaði og til landslýðsins eigi aðeins í sínu lögmáls og náðarorði, heldr lét hann jafnframt aptr og aptr höfuðskepnr náttúrunnar hrópa á hina þjáðu krossins kynslóð. Vér vitum allir meira eða minna um þau eldgos, jarðskjálfta, vatnsflóð, hallæri og hungursneyð, sem öld eftir öld hafa dunið yfir Ísland, að ýms héruð þess jafnvel hafa verið rænd og fólk þaðan hernumið af hálfviltum víkingum, að megnar drepsóttir fyr og síðar hafa geysað yfir landið. Er þá furða, þótt þjóðin hafi einatt kveinað með guðsmanni

Gyðinga í texta vorum: "Snú þér til vor, drottinn; hversu lengi viltu vera reiðr? aumkastu yfir þjóð þína." Og vissulega hefir drottinn heyrt neyðarkvein lýðsins; vissulega hefir hann aumkazt yfir aumingja Ísland; vissulega hefir drottinn gjört almættisverk á þjóðinni, er hann hefir leyft henni að líta upp úr eymd sinni og inngefið henni áræði til að hefja höfuð sitt upp úr margreyndum mótlætingum. Að þjóð vor skuli ekki fyrir löngu vera eydd og afmáð, það er stórkostlegt kraftaverk í sögu þjóðanna, er ber þess ljósan vott, — eins og eg fyr hefi á vikið —, að drottinn, almáttugr og náðarríkr drottinn, hefir verið vort eina athvarf frá kyni til kyns. Þú, drottinn, gjörir manninn að dupti og segir: Komið aptr, þér mannanna börn. Að dupti hefir þú, drottinn, gjört vora frægu forfeður; í duptinu hvíldi um langan tíma frelsisöld vor falin; en á síðustu öld vorra þúsund ára kallar þú hinn forna lífsanda þjóðarinnar fram úr duptinu. Þú segir: Komið aptr, þér Íslands börn, fram á leiksvið mannkynsins. Takið enn á ný þátt í lífshreyfingum þjóðanna; útbreiðið himnaríki; setjið eigi lengr ljós yðar undir mæliker; gjörið yðr jörðina undirgefna, og látið hana eigi lengr drottna yfir yðr. Lítið upp úr duptinu og dauðans legrúmi til að skoða mitt verk og mína dýrð, til þess í mínu nafni að rísa upp til nýs lífs, nýrra framkvæmda, nýrrar náðarvinnu í mínum víðlenda víngarði. — Hver er sá Íslendingr nú uppi, að ekki hafi iðulega hljómað slíkar raddir í eyrum hans? Hverjum dylst það, að drottinn er að vekja þjóð vora til endurnýjungar og nýrrar upphefðar, þótt hægt fari framfarir vorar í einu sem öðru? Að vísu vitum vér það, að því er miður, að margr hver sefr enn eða að minnsta kosti svalar sér með fornum draumum, horfir aptr á bak, en ekki áfram, vill ekkert gjöra sjálfr, en heimtar, að guð gjöri allt, öldungis eins og hinir óstýrilátu Ísraelsmenn undir forustu Mósesar. Oss er það kunnugt, að ósamlyndi og flokkadráttr hefir eins og hertekið þjóð vora jafnvel nú á upprisumorgni hennar, svo að stundum virðist ein höndin rífa það niðr, sem önnr uppbyggir. Vér vitum það, að víða er kristindómr vorrar aldar kaldr og kraptlítill, að holdlegt sinnuleysi og léttúð á allt of víða heima í þjóðfélagi voru, að óstjórn, leti, vanhirða og kveifarleg munaðarfýsn hefir gagntekið allt of marga af

börnum þjóðarinnar. Hins vegar erum vér farnir að venjast því, að ýmsir af frændþjóðum vorum líti á oss næsta smáum augum, á líkan hátt og Egyptar á hina undirokuðu Ísraelsmenn til forna. Allt þetta ætti þó ekki að gjöra oss vonlausa um viðreisn þjóðar vorrar, því hróp drottins til vor í sögu þessara síðustu tíma, hans bendingar í náttúrunni, hans fyrirheit í náðarorði lausnarans ættu að uppfylla hjörtu vor með von og trú, — von um það, að honum sé alvara, að vera framvegis athvarf vort, að hann héreptir vilji gleðja oss eins marga daga eins og hann hefir oss beygt, eins mörg ár, eins margar aldir og vér höfum séð ógæfu, — og trú á hans eilífa góðgirni, sem fyrir Jesúm Krist daglega staðfestir öll þau verk vorra handa, sem unnin eru í hans nafni og hans ótta, — honum til dýrðar, en oss og bræðrum vorum til sálarheilla.

Vér erum sannfærðir um, að drottinn kallar ekki til ónýtis til þjóðar vorrar nú á hennar þúsund ára afmæli: Komið aptr, þér mannanna börn. Rís upp aptr Íslands lýðr og starfa í krapti kristindómsins að þínu uppyngda ætlunarverki. Vertu enn á ný ljós, þótt lítið sé, á meðal þjóðanna, skær stjarna á himni sögunnar, stjarna, sem lánar alla sína birtu frá sólu réttlætisins, drottni vorum Jesú Kristi. Láttu þúsund ára sögu, ríka af himneskum táknum og stórmerkjum, kenna þér, að telja þá daga, þau ár, þær aldir, sem enn kunna eptir að vera, huldar skýi hins ókomna, að þú verðir forsjáll til hins andlega og eilífa lífsins. Lær þú af því, sem þú hefir liðið, að lifa framvegis í Jesú nafni, í fastri trú og trausti til hans náðar og í krapti hans kærleika, svo að hvert eitt Íslands barn geti með gleði gengið til hvíldar, jafnóðum og þau leggja sín lúin bein í duptið og röddin hrópar af himnum ofan í hinnsta sinn á hinni jarðnesku æfi þeirra: "Komið aptr, þér mannanna börn." — Komið í það ríki, sem öllu mannkyni, þjóðunum, hinum einstöku sálum er fyrirbúið frá upphafi fyrir Jesúm Krist.

Eg vil vona og óska, að þeir fáu Íslendingar, sem hér eru saman komnir til þess í fyrsta sinni í þessu landi sameiginlega að vegsama drottin, álíti ekki orð þessi sér alveg óviðkomandi, þótt forsjónin hafi flutt oss langt burtu frá ættjörð vorri. Eg vil ekki geta þess til, að nokkr hér sé kærulaus

um ættjörð sína eða kærleikslaus til þess eina þjóðfélags, sem hann hefir haft afskipti af og alið allan aldur sinn hjá þangað til nú fyrir skemmstu. Vér ættum ekki að vera komnir hingað til þess að skjóta oss undan skyldum vorum við þá þjóð, sem drottinn hefir tengt oss við helgum og háleitum ætternisböndum. Hver, sem gleymir ættjörðu sinni eða þykist yfir það hafinn, að varðveita það af þjóðerni sínu, sem gott er og guðdómlegt, af þeirri ástæðu að hann er staddr í framandi landi og leitar sér þar lífsviðrværis, það gengr næst því að hann gleymi guði. Það er stutt stig og fljótstigið frá því að kasta þjóðerni sínu til þess að kasta feðratrú sinni. Lítum til Gyðingaþjóðar. Hvenær var þjóðerni þeirra hætta búin, að trú þeirra væri ekki jafnframt í veði? Þess vegna voru allir þeirra spámenn, allir guðs miklu sendiboðar meðal þeirra, kröptugir þjóðernisprédikarar um leið og þeir héldu helga og háleita vörn uppi fyrir hinni opinberuðu trú. Lítum lengra: lítum til lausnara mannkynsins, drottins vors Jesú Krists. Hvern hefir nokkurn tíma tekið eins sárt til þjóðar sinnar eins og hans heilaga og blíða kærleikshjarta? Hann grætur yfir Jerúsalem, og þau helgu tár, sem hann þá felldi, eru óafmáanlegt innsigli þeirrar ástar og tryggðar, sem hann bar í brjósti sérstaklega til sinnar þjóðar; því jafnvel þótt ætlunarverk hans væri með lífi sínu og dauða að endurleysa eigi að eins hinn útvalda Ísraelslýð, heldr og gjörvallt hið synduga mannkyn, þá ber þetta atvik úr æfi hans eins og líka hans eigin orð þess vott, að hann fyrst og fremst var sendur til týndra sauða af húsi Ísraels. Þaðan skyldi kristindómrinn upp renna yfir þjóðirnar með sinni allsherjar náð og blessun. Sönn kristileg ættjarðarást fyllir ekki hjartað með fyrirlitningu á öðrum þjóðum en sinni eigin; Hún blindar ekki augun fyrir yfirburðum útlendinga í svo mörgu tilliti, né fyrir sinni eigin eymd, ókostum og menntunarskorti. Slíkt er engin ættjarðarást, allra sízt í kristilegum skilningi. Slíkt er öfugr, heiðinglegr, heimskulegr og hættulegr hugsunarháttr, sem dregr niðr alla sanna þjóðernistilfinningu og hefir visnun og dauða sérhvers þjóðernis í för með sér.

Rísum því upp einnig vér, fámenn og fátæk Íslands börn, sem hér erum saman söfnuð — rísum upp á þúsund

ára afmæli vorrar elskuðu ættjarðar og sofum ekki hér í syndum vorum. Áköllum drottin fyrir Jesúm Krist um náð til þess að starfa ötullega og ótrautt honum til dýrðar, þjóð vorri til sóma og sjálfum oss til sálarheilla. Biðjum guð um nýjan dug til nýrra framkvæmda á þeim vegum, sem honum þóknast að leiða oss. Biðjum fyrst og fremst um opin augu til að sjá eymd vora og óvirðing, eigi að eins andspænis mönnum, heldur einkum og sér í lagi frammi fyrir hinum heilaga og réttláta. Biðjum um styrk trúarinnar, hreinnar og lifandi trúar, er auðsýnir sig í kröptugu, kærleiksfullu kristilegu líferni. Biðjum drottin að úthella sinni blessun yfir Ísland og sérhverja sál af þjóð vorri; biðjum um frið, heilagan, himneskan frið, handa oss og öllum sálum í lífi og dauða — í Jesú nafni. Amen.

BÆN

Dýrð sé guði föður, syni og heilögum anda, sem var frá upphafi, sem er og verðr til eilífðar! Friðr drottins vors Jesú Krists sé með oss öllum. Hugga þú, góði guð, alla þá, sem sjúkir og sorgmæddir eru, hvort sem þeir eru fjær eða nær. Varðveittu þína kristni bæði heima á fósturjörðu vorri og hvarvetna um heiminn, og gef öllum þjóðum náð til að þekkja þig og þann, sem þú sendir, Jesúm Krist. Haltu framvegis eins og að undanförnu þinni almáttugu verndarhendi yfir ættjörðu vorri, Íslandi, og blessa öll þess börn á ókomnum tíma, stundlegri og eilífri blessun. Gleð þú hér eptir þjóð vora, drottinn, eins marga daga og þér hefir þóknazt, að beygja hana, eins mörg ár og hún hefir séð ógæfu. Kveik þú himneskan eld í hjörtum vor Íslendinga, hvort sem vér dveljum heima eða utan ættjarðar vorrar, svo að kristilegt þrek, bindindissemi, drenglyndi, hreinskilni, einurð og óeigingirni, — sannr kristilegr kærleiki, marki hvert vort fótmál. Drag þú sálir vor allra til þín, drottinn, og lát oss fyrir Jesúm Krist í dauðanum upprenna eilífa himinsins sælu. Blessa landstjórnina heima á Íslandi. Blessa alla vora ættingja og ástvini þar og annarsstaðar. Blessa einnig þetta land og þessa þjóð, ríkisstjórn og forseta Bandaríkjanna í Vesturheimi. Gefðu þeim og oss öllum náð, frið og blessun og allt, sem miðar til vorrar tímanlegu og eilífu farsældar. Amen; í Jesú nafni: amen.

# Uppgangan á ey eilífðarinnar

Kristnir menn! Látið orð drottins Jesú standa. Svo framarlega sem þér viðrkennið hann sem eilífðarkonunginn eða játið sjálfa yðr kristna menn, er það sjálfsögð skylda yðar allra að láta allt hans orð standa. Ef hann, eins og vér játum með gjörvallri kristninni, er það, sem hann sagðist vera, sá, er allt hefir valdið bæði á himni og jörðu, þá getr enginn annað en látið orðið hans standa, hversu mjög sem margan kynni að langa til að það stæði ekki. Þótt reynt væri að strika yfir það eða skafa það út, gjöra það að engu, þá kæmi það allt af út jafn-harðan, stæði allt af sem óafmáanlegt eilífðarorð. Þennan minn vitnisburð staðfestir Jesús Kristur sjálfur í niðurlagi guðspjallsins fyrir daginn í dag. Þar kemr hann með þessi sterku orð: "Himinn og jörð munu líða undir lok, en mín orð skulu ekki undir lok líða." Þetta, að orðið drottins skuli standa, er ekki að eins minn vitnisburðr, heldr líka vitnisburðr eilífðarkonungsins sjálfs. Það hefði býsna litla þýðing, þótt eg bæri kristindómsorðinu þennan vitnisburð að eins frá sjálfum mér eða í nafni einhvers annars ófullkomins og syndugs manns. Minn persónulegan vitnisburð, ef hann ber það með sér, að hann er að eins minn eða einhvers annars ófullkomins manns, má ævinlega, þegar um annað eins efni er að ræða, vefengja. En komi eg eða einhver annar maðr með vitnisburð trúmálum viðvíkjandi, sem hefir innsigli drottins vors Jesú Krists á sér, þá eruð allir þér, sem kallið yðr kristna menn, skyldugir til að beygja yðr fyrir þeim vitnisburði og veita honum lotningarfult samþykki. Það eru nú reynar fleiri skyldir til að taka slíkan vitnisburð gildan. Allir undantekningarlaust eru til þess skyldir. Því ef Jesús Kristr, eins og vér vitum, er eilífðarkonungrinn, sá, er fylling guðdómsins hefir í sinni eigin persónu, þá kemr að því fyr eða síðar, að allir hljóta að beygja sig fyrir honum og þá um leið nauðugir viljugir samsinna öllu, sem hann hefir vitnað, vitnisburði hans um sjálfan sig, vitnisburð hans um ríkið hans, vitnisburð hans um orðið hans og allt hið heilaga biblíuorð. Svo að allir, ekki að

eins kristnir menn, heldr líka allir aðrir eru í rauninni skyldugir til að samþykkja það, að það orð, sem hér er um að ræða, skuli standa. En svo lengi sem einhver ekki hefir lagt sig undir vald frelsarans Jesú, ekki fengist til að gjöra trúarjátning kristilegrar kirkju að sinni eigin, er til ónýtis að minna hann á það, að hann sé skyldr til að beygja sig undir orðið, sem til vor er komið frá Jesú eða af honum staðfest. Hafi Jesús Kristr haldið til hans innreið sína, boðað honum eða látið boða honum sig sem hinn guðlega frelsanda og fyrirgefanda kærleik, en hann svo bannað honum inngöngu til sín, hleypt slagbrandi fyrir dyr hjarta síns, rekið andann drottins frá sér, þá auðvitað ber hann fullkomna ábyrgð á þessari sinni vantrú; en svo lengi sem sú vantrú stendr yfir er það þýðingarlaust, að nokkr kirkjunnar maðr fari að halda því fram við hann, að hann sé skyldr til að láta kristindómsorðið standa. Hann sér ekki þá skyldu sína fyr en hann hefir sannfærst um það, að Jesús er það, sem hann sagðist vera. Og þá sannfæring fær hann ekki fyr en hann hefir lært að þekkja sig sem auman syndara frammi fyrir guði, séð og þreifað á því, að syndin hans er í raun og veru synd, að syndin hans er ákaflega syndug. Þá fyrst, ef þetta hepnast, er skilyrði fengið fyrir því, að hreistr vantrúarinnar falli af augum hans, svo að Jesús dyljist honum ekki lengr eins og hinn almáttugi og kærleiksfulli eilífðarkonungr. Hin sjúka og syndmædda sál á vanalega ekki mjög erfitt með að trúa. Henni veitir yfir höfuð að tala mjög létt að sjá með augum trúarinnar hinn alstaðar nálæga, en ósýnilega eilífðarkonung og mannkynsfrelsara Jesúm. Og þegar augu syndugs manns á þennan hátt hafa opnast fyrir drotni Jesú Kristi, þá er það um leið runnið upp fyrir honum, að orðið hans, þetta göfuga guðs orð, sem hann ýmist sjálfr talaði, meðan hann dvaldi hér á jörðinni í manndómsniðrlæging sinni, eða sjálfur hátíðlega staðfesti, er eilífur, óhagganlegr, guðlegr sannleiki. Fyrir þeim manni, sem ekki veit af sér sem kristnum manni eða ekki trúir á Jesúm Krist, er það, að hann hefir talað þetta orð eða staðfest þetta orð, engin sönnun fyrir því, að þetta sama orð sé sannleikr. Svo við hann er ekki til neins að segja, að hann sé skyldugr að láta þetta orð standa. En við kristinn mann er sjálfsagt

að segja þetta, sjálfsagt að minna hann á þá heilögu skyldu sína, að bera lotning fyrir orðinu drottins eins og því, er hefir ævarandi gildi, er hann sem kristinn maðr hlýtr að beygja sig fyrir í auðmýkt trúaðs hjarta. Og það er einmitt það, sem eg nú út af niðrlagi guðspjalls vors vildi alvarlega brýna fyrir öllum safnaðarlýð vorum.

Einhver kynni að vilja segja: Það ætti sannarlega ekki að þurfa að brýna þetta fyrir neinum þeim manni, er kallar sig kristinn eða stendr í kristnum söfnuði; því hvað liggr í því að játa sig vera kristinn mann og heyra til söfnuði, er stendr á trúarjátning kirkju vorrar sem sínum grundvelli, ef ekki það að trúa á Jesúm Krist, sem andlegan konung sinn og drottin, ef ekki það að trúa guðspjallaorðinu, sem hann hefir talað, gamlatestamentisorðinu, sem hann hefir staðfest, hinu postullega orði, sem innblásið er af þeim anda, er hann samkvæmt fyrirheiti sínu sendi lærisveinum sínum, — að trúa á allt þetta orð sem eilífan, guðlegan sannleik? Segði einhver þetta, þá hlytum vér að segja þar til hjartanlegt já og amen. Það ætti ekki að þurfa að brýna fyrir slíkum mönnum með kristnu nafni annað eins sjálfsagt atriði eins og það, að þeir eigi að láta biblíuorðið standa. En það þarf að brýna það fyrir þeim engu að síðr. Það er enginn sá trúarsannleikr, til að ekki þurfi að margbrýna hann fyrir kirkjunnar eigin fólki. Menn eru nú einu sinni svo veikir í andlegum efnum, að það er sífeld hætta fyrir því, að þeir falli frá sínum eigin grundvallarsetningum, komist jafnvel löngu áðr en þeir vita af svo og svo langt burtu frá sinni eigin trú. Og því meiri sem freistingin er á þeim og þeim tímanum til að sleppa einhverju sannleiksatriði úr hinni kristnu trú, því meiri og brýnni er þörfin einmitt þá á því, að þetta sama atriði sé iðulega brýnt fyrir lýð kirkjunnar. Og ekki dylst mér það, að nú er einmitt sá tími fyrir kirkjulýð Íslendinga, er samfara er mjög sterk freisting til að fara með orð heilagrar ritningar eins og væri það ófullkomið mannorð. Regluleg vantrúaralda gengr yfir þjóð vora á þessum síðustu tímum. Þjóðin hefir verið svo óheppin, að mentaninni, sem henni hefir boðist nú all-lengi, hefir fylgt svo langtum meira af vantrú heldr en trú. Gegn um meira hluta sinna skólagengnu manna er þjóðinni beinlínis eða

óbeinlínis talin trú um það, að allr hinn mentaði heimr sé ýmist horfinn eða sé nú óðum að hverfa frá kenning þeirri, er kristin kirkja hefir meðferðis. Hitt hefir alþýða Íslendinga svo sorglega lítið fengið að heyra, að þrátt fyrir alla nútíðarinnar vantrú hefir kristileg kirkja aldrei síðan á fyrstu öldum haft eins mikinn framgang í heiminum eins og einmitt á vorum mannsaldri, orðið drottins, þetta vort gamla biblíuorð, aldrei síðan á postulatíðinni eins áþreifanlega og dýrðlega opinberað hið endrfæðanda og helganda afl, sem í því býr, aldrei dregið að sér eins stóra mannhópa og innblásið þeim heilagan kærleiksanda — eins og einmitt á vorri tíð. Það fer að verða grunsamt fyrir þeirri alþýðu, sem frá hálfu mentamanna sinna fær að eins að heyra hið fyrra, en er látin ófróð um hið síðara, að boðskaprinn, sem kirkjan hennar kemr með, sé í raun og veru ekki óyggjandi sannleikr. Það fer að verða freisting fyrir almenning, þá er svona stendr á, að draga ýmislegt af þessari kristindómskenning í efa. Vanþörf getr því naumast verið á þessum tíma að brýna það fyrir safnaðarlýð vorum, að láta ekki vantrúna, sem hjá oss er í loftinu, grafa grundvöllinn undan trúnni á frelsarann og hans orð. Því fleiri öfl, sem hleypt er á stað til þess að veikja lotning alþýðu fyrir kristindóminum, frelsaranum, biblíunni, því fleiri, sem til sín láta heyra í ræðu eða riti léttúðugt óvirðingartal um hjartað í hinum kristna barnalærdómi vorum, því augsýnilegra og árþeifanlegra sem fráfallið meðal fólks vors verðr frá hinni kristnu feðratrú vorri, — því sterkari og heilagri verðr hvötin fyrir oss til þess að vitna fyrir öllum, er til vor heyra, um þann sannleik, að Jesús Kristr er hinn eilífi og guðlegi konungr, og að úr því að hann er konungr vor, úr því vér játum trú á hann, þá hlýtr líka alt orðið hans að standa, hafa ævaranda gildi fyrir gjörvalt mannkyn.

Og svo kem eg þá aftr til þín, kristni söfnuðr, með þennan vitnisburð Jesú Krists í niðrlagi guðspjallsins fyrir daginn í dag: "Himinn og jörð munu líða undir lok, en mín orð skulu ekki undir lok líða." Mér skilst Jesús hafi sagt það, sem hann segir hér, til þess að þessi hátíðlega yfirlýsing hans skyldi ávalt af kirkju hans verða dregin fram, í hvert skifti sem að kristnu fólki sækja freistingar í þá átt,

að rýra gildi hins kristilega trúarorðs og gjöra ekki meira úr því en hverju ófullkomnu, óáreiðanlegu manna-orði. Það er auðséð, að það liggr framúrskarandi áherzla á þessari yfirlýsing Jesú hér. Hann er í ræðu sinni á undan að boða ógrleg voðatíðindi. Hann er að lýsa allsherjar byltingunni síðast við endalok tímans, þegar allt hið jarðneska og allt hið sýnilega fellr saman í rústir. Hann horfir á hinn síðasta tíma og sér, hvernig öll þessi stórkostlega heimsvél gliðnar sundr. Náttúruöflin hætta að vinna, og svo ferst allt það, er þau hafa sett í gang og haldið uppi. Ein stórkostleg, hræðileg allsherjar eyðilegging, sem hrífr með sér allt hið sýnilega og jarðneska og leggr það í rústir. Þetta dómadagsundr horfir Jesús á. Hið framsýna, guðlega auga hans dregr það fast að sér. Og svo lýsir hann því með hinum guðlegu spádómsorðum nákvæmlega eins og hann sá það, segir, að þetta ægilega undr vofi yfir heimstilverunni þessari. Og svo endar hann þennan mikla spádóm sinn með hinum áminnstu orðum: "Himin og jörð munu líða undir lok, en mín orð skulu ekki undir lok líða." Fagnaðarboðskaprinn, sem hann leggr fram um leið og hann svona átakanlega segir það fyrir, að gjörvöll tilveran, hin jarðneska, muni farast, er þessi: Hans orð, orðið, sem hann hefir talað, orðið, sem hann gefr lærisveinahópi sínum í heimanmund, hið heilaga frelsisorð, sem hann úr eilífðinni hefir flutt þessum synduga, stríðanda ósjálfbjarga vesalings mannheimi, það skal standa stöðugt. Það skal lýsa mönnum í myrkri dauðans. Það skal reynast eilíf huggunaruppspretta, þegar allar aðrar huggunarlindir eru uppþornaðar. Það skal vera þeim friðanda ljós úr eilífðinni, þegar hin náttúrlegu ljós öll blikna eða slokna, þegar hin ægilegu teikn birtast á sólu, tungli og stjörnum undir heimslok. Það er margt voðalegt í þessum spádómi, sem Jesús kemr hér með, um hina síðustu allsherjar byltingu. Allr boðskapr um forgengilegleik, eyðilegging og dauða er hræðilegr. En þegar það með guðlegri vissu og guðlegu valdi er sagt fyrir, að öll veröldin skuli slitna sundr og hrynja til grunna, þá tekr sá eyðileggingarboðskapr út yfir allt annað hræðsluefni. Ekkert orð er til nógu sterkt í neinu jarðarinnar tungumáli til að lýsa því, hve undr skelfilegt slíkt getr verið. Mér kemr til hugar nú hinn

óskaplegi voði, sem dundi yfir bæ einn í Pennsylvaníu árið 1889, þegar heilt stórt stöðuvatn í einni svipan úthelti sér yfir hvamminn eða dalinn, sem bærinn stóð í, sópaði bústöðum mörg þúsund manna burt, tók með sér óheyrilega mörg mannslíf, breytti stóru, fögru og blómlegu héraði í eins konar hryllilegan kirkjugarð, ægilegan svartan dauðans akr. Það fór hrollr í gegn um oss alla, er vér heyrðum eða lásum þessa voðalegu frétt, þótt vér værum í þúsund mílna fjarlægð frá stöðvum þeirrar eyðileggingar. Hugsið yðr, að einhver, sem þér fyllilega tryðuð, segjum guð almáttugr sjálfr, hvíslaði því að yðr, hverjum fyrir sig, að svipuð eyðilegging myndi dynja yfir þennan stað í nótt eða á næsta degi. Hvort myndi ekki þá ógrleg dauða-angist grípa sálir yðar? Mynduð þér ekki hver um sig standa angdofa af hinum yfirvofandi voða? Myndi ekki allir verða orðlausir af ótta? Og nú segir Jesús Kristr í ræðu þeirri, sem guðspjall vort er tekið úr, fyrir eyðilegging, sem segja má að sé óendanlega miklu stórkostlegri en þetta, er þegar var bent á. Sú eyðilegging nær út yfir himin og jörð. Öll veröldin engist sundr og saman fyrir augum Jesú í reglulegum dauðateygjum. Slík býsn! Slíkt hræðilegt undur! Alt hið jarðneska og sýnilega, náttúran öll, er að farast. Andspænis slíkri sýn er þó sannarlega þörf á huggun. Veikt vesalings mannshjartað þarf á guðlegum gleðiboðskap að halda, þegar minna er um að vera, minni skelfing á ferðinni en það, sem hér er sýnt og sagt fyrir. Er ekkert til, sem stendur kyrt og óhagganlegt í þessari allsherjar bylting og eyðilegging? Er enginn fastr blettr, sem mannssálin geti flúið á í þessum voða? eða öllu heldr áðr en þennan voða ber að höndum? Jú, guði sé lof, slíkur blettur er til. Þangað er mannssálinni angistarfullri óhætt að flýja, og þar getr hún haldið sér dauðahaldi, á hverju sem gengr. Guðs orð, orðið mannkynsfrelsarans, orðið eilífðarkonungsins Jesú, vort blessað biblíuorð stendr stöðugt. Það er hinn fasti og óhagganlegi blettr, sem öllum er óhætt að standa á, þegar öldr eyðileggingarinnar velta sér yfir hinn jarðneska mannheim. Þegar gjörvöll tilvera þessa heims er orðin eins og eyðimörkin Sahara, nei, enn þá miklu hræðilegri dauðans eyðimörk, þá stendr ofr lítil smáey upp úr því dauðans og eyðileggingarinnar hafi, og sá litli

fasti blettr er guðs orð, orðið, sem Jesú Kristr kallar sitt. — Geta allir komist fyrir á þeim litla bletti? Rúmar sú litla ey öll hin óteljandi mannanna börn, sem frelsast vilja upp á þau skilyrði, sem eilífðarkonungrinn hefir sett? Já, vinir mínir, því að það er hið lifanda eilífðarbjarg, þessi litli depill. Hún sýnist að eins tilsýndar smá, þessi ey, sem Jesú bendir á sem fastan punkt, hin andlega ey, sem í sýning hans rís upp úr hafi þessarar allsherjar eyðileggingar. Þegar maðr hefir tekið sér stöðu á þessum bletti, sem frá jarðnesku sjónarsviði sýnist svo undur lítill, þá fær hann allt annað ummál. Hann verður þá svo stór, að ekkert mannlegt auga sér út yfir hann. Hann verðr að heilli veröld. Það er eilífðin sjálf, sem maðr þá hefir undir fótum sér. Og hann bifast ekki, sá grundvöllr. Eyðileggingin nær ekki þangað. Maðr stendr á bjargi eilífðarinnar. Og á því bjargi er rúm fyrir alla.

Kristnir menn! Er nú ekki orðið drottins orðið stórt? En ekki hefi eg í þessari lýsing gjört það stærra en það er. Jesús Kristr segir sjálfr, að það sé svona stórt, — stórt eins og eilífðin; því þessi eru ummæli hans: "Himinn og jörð munu líða undir lok, en mín orð skulu ekki undir lok líða." Haldið þér þá ekki, að það standi í rauninni eins fyrir því, þó allir vorir vantrúarmenn reyni til að skafa það út, fyrst Jesús segir, að það skuli standa, á hverju sem gangi? Og haldið þér ekki líka, að það sé nú algjör óhæfa fyrir þá, sem á annað borð segjast trúa á Jesúm Krist, að láta vantrúarfreistarana, sem fyrir manni verða, koma sér til að stinga þessu eða þessu í eilífðarorðinu hans undir stól? Það er sumt í orðinu, sem Jesús kallar sitt, býsna óaðgengilegt. Allur þessi undarlegi spádómr hans um dómsdag er þungskilinn, sumt í honum, ef til vill, alveg óskiljanlegt. Og eins óaðgengilegt er margt annað í guðs orði. Væri allt guðs orð svona erfitt viðreignar eða hart aðgöngu, þá væri, liggr mér við að segja, fullkomin ástæða til að fælast það algjörlega. En það er tiltölulega lítill hluti af guðs orði, sem svo er. Víðast hvar er guðs orð aðgengilegt fyrir hvern smælingja, hvern einfeldning, hvert barn. — Eg líkti guðs orði rétt áðan við ey, sem stendr upp úr eyðimörk eða hafi dauðans. Og eg sagði, að maðr hefði þar fastan grundvöll undir fótum

sér, af því að maðr stæði þar á bjargi eilífðarinnar. Höldum oss við þessa samlíkingu um stund. Guðs orð er eilífðin sjálf, standandi hér fyrir augum manna eins og ey upp úr hafi tímans og þess forgengilegleika, sem tímanum er samfara og ófráskiljanlegr. Þótt vér séum í sannleika kristnir menn, þá — svo lengi sem vér berum þennan dauðans líkama, svo lengi sem vér erum börn tímans, með fjötrum forgengilegleikans á oss — eigum vér nú ekki algjörlega heima á þessari eilífðarey. Það er naumast nema á helgustu bænarstundum vorum, að oss getr fundist, að vér með öllu því, sem í oss er, eigum þar heima. Mikill hluti af sjálfum oss finnr sig staddan í hafi tímans, lengra eða skemra burtu frá þessari eilífðarey. Vér vitum svo undr vel, að vér oftast nær erum að miklu leyti fyrir utan þessa ey, horfum einatt á hana eins og álengdar. Með öðrum orðum: Vér dveljum ekki nema tiltölulega lítinn hluta af hinni jarðnesku ævitíð vorri með hugann beinlínis í guðs orði. Meiri hluti tímans gengur fyrir flestum í það að hugsa um sitt daglegt brauð og vinna fyrir því. Svo þótt vér leitum sálum vorum hvíldar í guðs orði, dveljum við það í bænum vorum, sækjum þangað styrk í freistingunum og annari baráttu lífsins, þá heldr tíminn oss að miklu leyti utan við orðið drottins. En það þýðir sama sem þessi eilífðarey væri að eins álengdar. Og nú skal eg segja yðr, hvað vantrúarfreistarinn gjörir. Hann gjörir það jafnt hvort heldr hann rís upp í vorum eigin innra manni eða vér mætum honum til vor komanda utan að. Hann leiðir mann að eynni, en gætir þess vandlega, að koma þar að henni, sem ómögulegt er upp á hana að komast, þar sem hún er girt hömrum, þar sem ekkert er sýnilegt nema ófær hengiflug. Og svo hvíslar hann að þeim, sem hefir látið hann leiða sig þangað: "Á þessa ey vísar kirkjan þér eins og guðlegt athvarf fyrir sál þína, þreytta og mædda af striti tímans. En nú sér þú sjálfur, hvílík svikaráðlegging það er. Því eins og þú nú hefir sannfærst um er þessi svo kallaði griðastaður alveg óaðgengilegur. Hér eru tómar dauðans ófærur. Það er betra að berast fyrir í eyðimörkinni en reyna að fara að klifrast upp slíkar ófærur." Hið þungskilda eða óskiljanlega í guðs orði, hið harða og hræðilega í guðs orði — það eru nú flugin og ófærurnar, sem freistarinn er svo

fús til að benda mönnum á og leiða þá að í þessari eilífðarey, er við oss blasir hér í tímans eyðimörk. Með því að ota að mannssálinni því, sem erfiðast, óskiljanlegast, leyndardómsfyllst og mest fráfælanda er í guðs orði, en láta allt hitt, sem opið liggr fyrir hverju barni, vera hulið og gleymt, getr freistara vantrúarinnar tekist að fleka margan mann, koma inn hjá mönnum óbeit og ótrú á gjörvallri opinberan kristindómsins.

Góðir vinir, það er háski fyrir kristinn mann að vera allt af að einblína á hið ýmsa, sem örðugast er viðreignar í guðs orði, að vera sí og æ að brjóta heilann um leyndardómana í opinberaninni, sem aldrei hefir verið til ætlast, að yrði mannlegri skynsemi skiljanlegir hér í tímanum, en sleppa nálega öllu hinu, — láta vera að hugsa um sína synd, láta það, sem biblíuorðið hefir um hana að segja mestmegnis fara fram hjá sér, ganga fram hjá þeim boðskap, sem býður öllum syndmæddum sálum fyrirgefning og náð guðs fyrir Jesúm Krist, öllum mótlætismönnunum og sorgarbörnunum huggun og frið, öllum, sem eru að berjast við dauðann, eilíft líf, — en halda í þess stað huga sínum föstum við óskiljanlegustu ráðgátr heimstilverunnar eða opinberunarinnar, t. a. m. upptök hins illa, eðli guðlegrar þrenningar, það, hvernig Jesús Kristr hafi getað verið bæði guð og maðr, það, hvernig í kraftaverkunum liggi, það, hvernig dauðir menn geti risið upp, það, hvernig eigi að samríma eilífðardóminn drottins við alvizku hans og kærleika, og margt fleira þvílíkt. Það er vegrinn til þess að leiðast alveg burt frá guðs orði, láta fyrirberast í vantrúarinnar eyðimörk. Að ganga þannig að guðs orði er hið sama sem að búast til uppgöngu á eyju eilífðarinnar, þar sem hún er lukt hömrum, þar sem fyrir eru tóm ógeng hengiflug, og komast svo aldrei upp. Nei, syndugur maðr, gakk þú að guðs orði, þar sem það er aðgengilegt fyrir hvern smælingja, hvern veikasta mannsfót, hvert barn. Veldu þér það af guðs orði til þess að hugsa um á undan öllu öðru, sem þegar frá upphafi mælir með sér fyrir hvers manns samvizku, upplýsir á augabragði hverja einustu sál, er hungrar og þyrstir eftir frelsisljósi drottins, fullnægir undir eins hverju mannshjarta, er í alvöru leitar eftir guði og sinni eigin sáluhjálp. Veldu þér annað eins orð í hinni kristilegu

opinberan til þess að láta huga þinn dvelja við eins og þetta af munni frelsarans: "Komið til mín, allir þér, sem erviðið og þunga eru hlaðnir; eg vil gefa yðr hvíld" (Matt. 11, 28). Guðs orð er fult af slíkum fagnaðarboðskap, sem hvert barnið getr hiklaust móti tekið. Á slíkum lágum og aðgengilegum stöðum er öllum mönnum auðgefið að komast upp á þessa eilífðarinnar ey í tímans eyðimörk. Og með því móti komast menn fram hjá öllum ófærunum og hamraflugunum, án þess að verða fyrir nokkurri hættu eða nokkrum baga. Þessi flug og þessar ófærur í guðs orði verða þá að eins til þess, að viðhalda auðmýkt og lotning í mannshjartanu fyrir honum, eilífðarkonunginum, sem hefir gefið börnum tímans þetta orð hins eilífa lífs. — Það kemr að því, að guðs börn fá að skilja alla leyndardómana drottins bæði í heimstilverunni og opinberaninni, að þau geta fundið fótum sínum færan veg gegnum flugin og ófærurnar. En sú stund er enn þá ekki komin. Og svo bíða þau auðmjúk og lotningarfull þeirrar stundar, haldandi sér niðri á hinum lágu stöðum, látandi sér nægja það í orði drottins, sem er við hæfi barnanna, vitandi það, að enn er að eins aðventutíð, undirbúningstími undir hina himnesku jólahátíð eilífðarinnar, þá er allt verðr í eilífu ljósi.

Það var einu sinni maðr, léttr í lund, en laus í ráði, ekki vondr maðr, eftir því sem kallað er, en maðr, sem skorti alla eiginlega alvöru. Hann virtist lengi framan af svo sem ekkert hafa sinnt kristindóminum, nema þá er hann fekk tækifæri til að komast í kappræðr um hitt og annað í leyndardómum hans. En löngu eftir að hann varð fullorðinn virtist hann fara að dragast að kristindóminum, fara að hugsa heilmikið um það mál. Hann fór í vöxt, þessi samdráttr mannsins og kristindómsorðsins. Svo kom að því, að hann hugði sig hafa snúist algjörlega frá heiminum til guðs, á sama hátt og Meþodistar vanalega tala um afturhvarf. Hann taldi víst, að mörg regluleg kraftaverk hefði komið fram við sig. Hann virtist vera með lífi og sál í guðs orði. En þar var sá hængur á, að hann fremr öllu öðru gaf sig við því, að brjóta heilann um það, sem leyndardómsfyllst er í guðs orði, beit sig fastan í því, sem torskildast og erviðast er í spádómum bæði gamla og nýja testamentisins, vildi endilega fá allt slíkt

útskýrt og þóttist jafnvel sjálfr geta gjört það allt skiljanlegt. Hann tók að sér að kenna börnum kristin fræði. En þá var það segin saga, að alt af skyldi hann lenda í spádómunum, fara að prédika um þann eða þann leyndardóminn. Allt hans tal um andleg efni varð að einhverri óskiljanlegri dulspeki, sem þó átti að gjöra allt hið óskiljanlegasta skiljanlegt. Tímarnir liðu. Kristindómsáhugi mannsins fór að dofna. Hann drógst hægt og hægt út úr kirkjunni. Og svo allt í einu, áður en nokkurn varir, er hann orðinn ákafr áhangandi vantrúarflokks nokkurs, sem hafði sett sér það mark og mið, að taka alla lotning burt frá almenningi fyrir orði hinnar kristnu opinberunar, gjöra það að ófullkomnu mannaorði og Jesúm Krist, sem þetta orð er frá eða af honum innsiglað, að tómum manni. Það segir ekki meira af þessum manni. Sagan skilr við hann í þeim félagsskap, utan kirkju, eiganda í kappræðum við alla, sem til þess fengust, um trúarbrögðin og leyndardómana í tilverunni. — Kærir tilheyrendr, svona er ávalt hætt við að fari, þegar menn ekki vilja ganga að guðs orði eins og börn, heldr eins og heimspekingar, ekki fást til þess að leita uppgöngu á ey eilífðarinnar, þar sem hún er lægst, heldr ganga fram hjá öllum þeim stöðum, og fara að klifrast upp í flugin og ófærurnar. Þeir hrapa niðr eins og Faeþón í ævintýrinu, þegar hann í heimskulegri ofdirfsku tók upp á því að setjast í vagn sólarguðsins og aka honum upp á eigin býti yfir hvelfing himinsins. Hestarnir fældust og hinn æðsti guð, Seifur eða Júpíter, lét elding slá hann niðr í fljót eitt hér niðri í mannheimum. Þannig er ávalt hætt við að fari fyrir þeim, sem með spekingssvip ræðr að guðs orði, þar sem það er háfleygast og leyndardómsfyllst, en fæst ekki til að ganga að því í auðmýkt, þar sem það liggr lágt og er einnig börnunum aðgengilegt. Og fljótið, sem mönnum er svo hætt við að falla í og drukna í, ef þeir fara svona gálauslega og glæfralega að ráði sínu, er dauðamóða vantrúarinnar.

Og lítið nú að endingu yfir guðspjall dagsins. Meiri hluti þess er myrkr, þungskilinn leyndardómr, sem ekki heldr er neitt undarlegt, þar sem Jesús sjálfr er þar að lýsa hinni síðustu allsherjar bylting, þegar allt hið sýnilega og jarðneska, himinn og jörð, ferst við endalok tímans. Það er

einn af hinum erviðustu, háfleygustu og óskiljanlegustu köflum í guðs orði. Ekki gat mér komið til hugar að fara að gjöra yðr þetta skiljanlegt, sem ævinlega verðr mannlegri skynsemi ofvaxið hér í tímanum og eingöngu getr orðið meðtekið með trú, trú þeirra manna, sem persónulega hafa lært að þekkja Jesúm Krist eins og sinn eigin frelsara og drottin. En eitt gjörði eg. Eg gekk að einum punkti textans, sem aðgengilegri er en allt hitt, svo auðveldr, að þar getr hver smælinginn komist að. Það var þetta niðurlag guðspjallsins: "Himinn og jörð munu líða undir lok, en mín orð skulu ekki undir lok líða." Á þessum lága stað erum vér svo komnir fram hjá öllum leyndardóms-ófærunum upp á eilífðarinnar ey, inn í hjartað á þessu há-alvarlega og mikilfenglega aðventuguðspjalli. Hjartað er þetta: Orðið eilífðarkonungsins Jesú með þess einfalda barnamáli og með þess háfleygu og djúpsettu leyndardómum stendr sem guðlegr sannleikr bæði í lífi og dauða, bæði um tíma og eilífð. — Prófið, margprófið sannleik þessa orðs með því að ganga að því þar sem það talar á máli barnanna, og gangið að því eins og börn, auðmjúk börn hins himneska föður, með löngun eftir ljósi eilífðarinnar yfir sálir yðar, eins og börnin hlakka til jólaljóssins. Þá munuð þér ekki framar hneykslast á hinu ýmsa, sem í þessu sama orði er óskiljanlegt, heldur en börnin á leyndardómi jólaguðspjallsins.

# Sjóferð lærisveinanna

Eitt heimsfrægt enskt skáld hefir verið kallað skáld hafsins. Það var Byron lávarður, sem andaðist í Grikklandi, að eins 36 ára gamall, árið 1824. Skáld hafsins hefir hann verið nefndr aðallega fyrir þá sök, að hann, eftir því sem kemr fram í kvæðum hans, sýnist hafa haft svo merkilega opið auga fyrir hinu dularfulla eðli hafsins, svo framúrskarandi gáfu til að lesa úr hinum guðlegu teiknum, eilífðarmerkjunum, sem hin undarlega stórkostlega, dýrðlega höfuðskepna, er vér köllum haf, sí og æ, ár og síð og alla tíð, ber utan á sér. Og samfara þessari gáfu til að ráða hinar leyndardómsfullu rúnir, sem hönd guðs almáttugs frá upphafi hefir á hafið ritað, bar maðr þessi svo ákaflega heita ást í brjósti sér til hafsins, elskaði það eins og sinn augastein, nærri því tilbað það eins og guðlega veru. Það er eins og hann hafi frá upphafi ævinnar verið trúlofaðr hafinu, og með fullum rétti má segja, að með lífi sínu og skáldskap sínum hafi hann vígt sjálfan sig í andlegt hjónaband með hafinu. Líf hans var eins og eftirmynd af ókyrru, öldurísanda, öldurjúkanda, óskiljanlegu, ægilegu hafi. Og hann undi sér betr við hafið en á nokkrum öðrum stað í náttúrunni. Hefði hann verið uppi á víkingaöldinni svo kölluðu áður en kristindómurinn kom til sögunnar á norðurlöndum, þá hefði hann að sjálfsögðu verið sjóvíkingur — segja þeir, er bezt hafa rannsakað skáldskap hans og sögu. Ég skal hér tilfæra nokkur brot úr óð hans til hafsins í hinni íslenzku þýðing eftir Mattías Jochumsson. Í upphafi kvæðisins kemst hann svo að orði:

"Ég uni vel um eyðiskóga göng,
en yndi' og líf ég finn við hafsins strönd.
Mér býður mar með þungum þrumusöng
að þiggja heimboð, sem er laust við bönd".

Seinna í kvæðinu stendur þetta:

"Streym, streym þú, ægir ógnum blái,—streym!"
sem agnir berðu þúsund — þúsund fley.
Menn herja lönd, en ramman ránarheim
ei ræna menn; þú einn og fleiri ei
átt allan val, og ei sést fis né hey
af ofsa mannsins, nema sjálfs hans hræ,
er sogast hann við dapurt dauða-vei,
sem dropi týnist eða hagl af snæ,
án klukknahljóms, án hjúps, án nafns — í sæ".

Og enn síðar í kvæðinu segir svo:

"Hátignar spegill, haf, sem alvalds-mynd
á hafrokslöðri bálar; alla tíð
kyrt eða kvikt, — við kælu, storm og vind,
við klaka heimskauts eða brunastríð, —
bláólga botnlaus, veglaus, fimbulfríð!
eilífðar ímynd, hástóll kristalls hreinn
hins hæsta guðs! — Þín afgrunn fæddu víð
frumbýsnir heims; — þinn hring þú dregur beinn
um jörðu, jörmungandur, ómælandi, einn!
Og eg hef' unnað þér, ó, ægir hár!
frá æskustund eg vaggað hef' mér dátt
sem bóla þér á brjósti."

Þér hafið nú heyrt játning skálds þessa um það, hve vel hann undi við hafið og hve heitt hann unni hafinu. Hann sá þar svo skýrt almætti guðs. Hann sá þar svo greinilega ímynd eilífðarinnar. Hann sá þar með opnum augum myndina af sjálfum sér, hjartað sitt og lífið sitt með öllum þess leyndardómsfulla öldugangi. Hafið var fyrir honum áreiðanleg og fullkomin guðleg opinberan lífsins — mannlífsins yfir höfuð að tala, lífsins og dauðans, sköpunarinnar og eyðileggingarinnar, tímans og eilífðarinnar. En þó að hann með sínu opna skáldauga læsi svo vel úr þessum rúnum, er hönd skaparans hefir ritað eða mótað á hafið, þá var þó eitt, sem hann ekki sýnist hafa haft gáfu til að finna út úr þeim leyndardómum. Þá rún, sem á máli kristindómsins heitir *náð*, sýnist hann ekki hafa komið auga á meðal teikna þeirra,

er guð almáttugr í og með hinum rísandi og hnígandi öldum hafsins hefir frá öndverðu lagt fram fyrir mannleg augu. Eða ef hann kom auga á þá rún, þá hafði hann ekki gáfu til að lesa úr henni. Og hann hafði ekki þá gáfu fyrir þá sök, að hann hafði einhvern veginn ekki lund til að líta á tilveruna, hvorki hið leyndardómsfulla haf né annað, með kristnum trúaraugum. Hann lét yfir höfuð kristindóminn með hans ljósi og ráðning á gátum tilverunnar eiga sig. En svo er það þá einnig víst, að þó að hann gjörði þessa játning, að hann yndi sér við hafið og elskaði það, var hann þó alla daga mjög fjarri því, að geta drukkið inn í sig eða lesið inn í sig fullkomið yndi og fullkominn frið, himneskt guðs barna yndi og himneskan guðs barna frið, út af skoðan sinni á hafinu.

Fagurt er hafið — það er satt, þegar það breiðir sig út fyrir augum vorum eins og skínandi, rennsléttr spegilflötr. Hátignarfult er það ævinlega, bæði í blíðviðri og stormi. Ímynd eilífðarinnar er það ævinlega, þar sem það endalaust vefur sig utan um löndin. En þegar það æðir í storminum með sínu mesta eyðileggingarafli, þá er það ógrlegt, — einhver sú hræðilegasta og huggunarlausasta ímynd dauðans, sem til getur verið. Og það unir engin mannssál við hafið sem eftirmynd af lífinu, af tímanum og eilífðinni, þegar sú ægilega mynd þess blasir við, svo framarlega sem ekki sést þar jafnframt eitthvert yfirnáttúrlegt merki upp á hina frelsandi náð hins almáttuga. "Um hafið lá þín leið og þinn stígr um mikið vatn, og þín spor sáust ekki" — segir sálmaskáldið í Ísrael við guð (Sálm. 77, 19). En eftir að Jesús Kristr hefir dvalið á jarðríki má með fyllsta rétti segja, að spor guðs sem hins frelsanda kærleika megi rekja hvarvetna, einnig í gegnum hinar æðandi öldr úthafsins.

Eg hætti nú að hugsa og tala um lávarðinn enska, sem nefndur hefir verið skáld hafsins; en hugsa í hans stað um lávarð eilífðarinnar, sem gefið hefir oss guðspjallið um sjóferð lærisveinanna á Genesaretvatninu. Því að þar er nokkuð óendanlega miklu meira en sá, er skáldskap getr dregið út úr hafinu. "Einu sinni voru tveir málarar" — segir Henry Drummond —, "er gjörðu sína myndina hvor til þess að sýna, hvaða hugmynd þeir hefði um *hvíld*. Annar kaus sér

til þess kyrrlátt, einmana vatn uppi á afskektum fjallöræfum. En hinn dró upp dynjandi foss, með grannvaxinni björk, er laut fram yfir froðuna í fossinum. Í kverk einni á einni greininni, sem lá við að væri vot af ýring úr fossinum, sat rauðbrystingur í hreiðri sínu. Hin myndin sýndi að eins *kyrð*, en þessi *hvíld*. Því að í hvíldinni er jafnan tvent: kyrð og kraftur, þögn og órói, sköpun og eyðing, öruggleiki og ótti. Þannig var hún hjá Kristi." Þetta er vel sagt af hinum skozka rithöfundi. En aldrei sýnir frelsarinn átakanlegri mynd af hvíld,—himneskri, heilagri hvíld,—heldr en þar sem vér í gegnum guðsjpall þessa dags horfum á hann sofanda svo, vært og rótt í bátnum á Genesaretvatninu þrátt fyrir það, að stormurinn æddi og öldurnar gengi yfir hið veika far og ógnuðu öllum, sem á því voru, með bráðum bana. Þar sé eg þann, sem er hin fullkomna ímynd hinnar guðlegu hvíldar, en líka þann, sem getr gefið öllum mönnum alveg sams konar hvíld. Hér er hinn eini, sem getr látið hafið, hið ægilega haf í miðjum öldudganginum og storminum, flytja þeim, sem staddir eru í lífsins sjóferð, huggunarríkan, himneskan boðskap um guðs kærleika. Eg sé í Jesú Kristi ekki að eins skáld hafsins og spámann hafsins, heldr líka þann, sem allt hafið, náttúrunnar haf, lífsins haf dauðans haf, tímans haf, eilífðarinnar haf, hefir í hendi sinni, máttugr og fús til þess að frelsa alla sína lærisveina, alla synduga menn, úr sjávarháska. — Þegar þér, kærir tilheyrendr, hugsið um lífið, yðar eigið líf, eins og sjóferð yfir hættufullt, hræðilegt dauðans úthaf, munið þá eftir för lærisveinanna í óveðrinu og öldudganginum á Genesaretvatninu forðum og hinum heilaga frelsara, sem þeir höfðu hjá sér innanborðs. Minnist þess þá, að þegar þeir í þeim voða hrópuðu til hans og báðu hann um hjálp og vernd, þá hastaði hann óðar á storminn og sjóinn og lét verða blíða logn. Upp frá þeirri stund undu þeir sér vissulega margfalt betr við sjóinn en nokkurn tíma lávarðrinn enski. Og áreiðanlega er það guðs vilji, að þér allir skuluð hafa sömu reynslu eins og þessir fyrstu lærisveinar Jesú.

"Forðum, drottinn, fljótin klaufstu sundur;
flýðu bylgjur við þau tákn og undur.

Enn þú hastar harmabylgjur á;
hrökkva þær í burt við skipan þá."—

"Forðum lá þín leið um hafið djúpa;
lézt þú öldur dularspor þín hjúpa.
Enn ert þú á ævisjó oss hjá,
oft þótt vér ei spor þín megum sjá"

Þegar vér fyrir eigin lífsreynslu í samlífi með Jesú Kristi höfum lært að rekja spor guðs gegnum hafið og yfir hafið, þá verður ekki lengr neinn örðugleiki á því fyrir oss að una sér við hafið í enn þá miklu æðra skilningi en Byron lávarðr sagði, að hann yndi sér við hafið.

"Jesús sté á skip og lærisveinar hans með honum" — segir í upphafi guðspjalls vors. "Gjörði þá svo mikið hafrót, að skipið huldist af bylgjunum." Það lítr út fyrir eftir þessu orðalagi hjá guðspjallamanninum, að nærri því undir eins og þessir lærisveinar voru stignir með Jesú á skip hafi hvass stormr tekið að blása, og að hið veika far hafi þegar svo að segja frá fyrstu stund legið undir áföllum. Og rétt á eftir kemur skýrt fram, hvílíkr ótti greip hjörtu þessara ístöðulitlu manna, er þarna voru með Jesú úti á vatninu í storminum og ölduganginum. — Í kyrru og fögru veðri er Genesaretvatnið eitthvert friðsælasta og inndælasta stöðuvatn, sem til er á yfirborði jarðarinnar. Og einkum í fornöld hlýtr það að hafa verið svo, þá er Galíleuströndin með sinni miklu frjósemi og miklu náttúrudýrð, hinum þéttsettu blómlegu borgum og öðrum mannvirkjum menntalífsins speglaðist í vatnsfletinum. En af því að fjallmyndanin á þessum stöðvum er eins og hún er, einkum á austurströnd vatnsins, sem veit á móti Galíleuhéraði, þá er sú fegurð og friðsæld fjarskalega stopul. Fjöllin ná þeim megin fast niðr að vatninu, býsna há og snarbrött gegnumskorin af djúpum gljúfrum eða dalagjótum. Áður en nokkurn varir, geta bál hvassir stormar, voðasterkir fellibyljir tekið að blása úr því eða því skarði fjallgirðingarinnar. Og þá rísa að sjálfsögðu himinháar öldr á vatnsfletinum svo að segja á svipstundu. Vatnið allt þvert og endilangt uppæst, rjúkanda, æðanda. Þá hlýtr að vera geigvænlegt að líta út á

vatnið, en einkum þó voðalegt að vera þar staddr úti á smábáti, eins og lærisveinarnir í þetta sinn. — Lítið í anda, vinir mínir, út til sjávar, út á eitthvert stöðuvatnið eða hafið, þegar þannig lagaðr voði er þar á ferðinni. Allt af er ný og ný fregn að koma til vor um hætturnar og slysin á hafinu. Ein slík utan af Atlantshafi ómar nú í eyrum mér, því atburðrinn, sem hún segir frá, er að eins fárra daga gamall. Stórskip eitt þýzkt rakst á annað skip í ósjó og æðanda stormi. Hið fyrr nefnda skip, sem hafði til flutnings hátt á fjórða hundrað farþega, laskaðist svo stórvægilega, að það sökk eftir örskamma stund. En áður en það sekkr, stendr yfir skelfileg barátta af hálfu skipverja fyrir lífinu, barátta, sem fyrir öllum þorranum reynist algjörlega árangrslaus. Einn bátrinn eftir annan er látinn út í hafrótið, troðfullur af fólki. Ofur lítil lífsvon fáein augnablik, en svo berst alt í kaf, sekkr í dauðadjúpið. Aðeins tveir tugir manna bjargast með mestu nauðum. Önnur eins harmasaga frá hafinu eins og þessi herðir óneitanlega meira en lítið á lexíu guðspjalls vors. — Eg minnist nú svo vel hættulegrar sjóferðar einnar yfir sama úthafið, er eg tók þátt í fyrir nokkrum árum. Það ryfjast upp fyrir mér mínar hugsanir þá. Aldrei hafði eg áðr eins vel skilið guðspjallið fyrir daginn í dag, söguna um lærisveina Jesú, er þeir lágu undir áföllum á Genesaretvatninu. — Hugsið yður, bræður og systur, að þér væruð líka stödd úti á hafi í viðlíka sjávarháska. Og hugsið í sambandi við það um það, sem þessi sjóferð lærisveinanna til forna á gjörvallri ævi kristinnar kirkju hefir rétt að sjálfsögðu verið látin tákna: veika lærisveina Krists á öllum tímum stadda í mótlætisbaráttu þeirri, er þeim er búin hér í heimi, þeirri angist, er þeir verða gegn um að ganga — líka eftir að þeir eru orðnir farþegar með frelsaranum, stundum einmitt út af því, að þeir hafa tekið sér far á skipinu hans.

Lífið — mannlífið yfir höfuð — er eins og tvísýn, oft hræðileg sjóferð. Öldur mótlætisins ganga einatt yfir menn, hræðilegar, þungar eins og eilífðin. En, vinir mínir, hvílíkr munur á því, þá er svo á stendur, að vita af guðlegum frelsara hjá sér innanborðs, og hinu, að vita af engu þvílíku hjálpræði, engri slíkri frelsisvon, — hafa engu að treysta nema

blindum, dauðum náttúruöflunum og sínum eigin mætti, eða réttara sagt: sínum eigin vanmætti! Hvílíkur óendanlegur munur í nauðum lífs og dauða að vera kristinn maðr og hinu að vera kristindómslaus! Hátíðlega skulum vér að vísu, sem trúum á Jesúm, játa, að það hefir orðið næsta lítið úr oss, þegar fyrir alvöru hefir blásið á móti oss á ævi vorri af stormi mótlætisins. Vér könnumst fyllilega við það, hvað það er að vera staddr í andlegum sjávarháska. Vér tileinkum oss algjörlega angistarhróp lærisveinanna: "Hjálpa þú oss, herra; vér forgöngum!" Vér vitum, sumir hverjir að minsta kosti, hvað það er að horfa framan í dauðann, kvíðandi, kveinandi. Vér vitum, hve undr lítið getr orðið úr lærisveinstrúnni, þegar reynslan er sem hörðust. En alt fyrir það játum vér þó hátíðlega, að fagnaðarerindið um Jesúm Krist, fagnaðarefni vort veikra lærisveina hans, er meira virði en öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð. Ef vér mistum það, ef það væri frá oss tekið, þá vitum vér, að vér myndum með engu móti fá afborið hin þungu áföll mótlætisins, verða algjörlega að engu. Eg er viss um, að hver einasti einn yðar, sem hafið af nokkurri verulegri mótlætisreynslu að segja, og eigið nokkra ögn af kristilegri trú innan brjósts, getið ekki annað en gjört þessa játning að yðar játning. En í annan stað þori eg að ábyrgjast, að fremr öllu öðru voru það þó einmitt hinir dimmu mótlætisdagar lífsins, raunatíðirnar sáru á ævi þinni, er sannfærðu þig, sem ert annaðhvort veikur eða sterkur lærisveinn Jesú Krists hins krossfesta, um hið óviðjafnanlega verðmæti kristindóms-opinberunarinnar og kristnu trúarinnar.

Ekki skal eg gjöra neina tilraun til að leysa þá ráðgátu, hvers vegna hin jarðneska tilvera, sem hið veika mannlíf kemr inn í við fæðinguna, er svo hættufull, svo stormasöm og jafnvel hræðileg eins og hún vitanlega er, — hvers vegna guð almáttugr hefir ekki látið heim þennan vera blíðari og bjartari og gleðilegri en hann yfir höfuð að tala reynist. Spekingrinn leysir þá ráðgátu eins lítið eins og hinn mesti einfeldningur. Það má segja hið sama um storm- og öldugang mótlætinganna í mannlegu lífi hér á jörðinni eins og um vindinn, sem blæs í náttúrunni. Enginn veit, hvaðan hann kemr eða hvert hann fer. Kristindómrinn hefir aldrei

ætlað sér að leysa þá ráðgátu. En á þá huggun, sem kristindómrinn kemr með til mannanna barna, hræddra og kvíðandi úti á þessu ólganda hafi tilverunnar, vildi eg, kærir tilheyrendur, minna yður alla. En hún er þetta: Vér eigum kost á að ákalla almáttugan frelsara, þegar öldurnar rísa og stormrinn æðir. Vér höfum vissu um það, að hann heyrir til vor, þegar vér köllum á hann, og að hann yfirgefr aldrei, hvorki í lífi né dauða, þann, sem biðjandi varpar sér á hans miskunnararma, — að öllum er óhætt, sem setja von sína til hans, á hverju sem gengur. — Það ganga sumir menn roggnir og reigingslegir á meðlætisdögum ævinnar og þykjast geta fært öllum mannheimi sanninn fyrir því, að boðskapr kristindómsins sé ekki annað en bábilja. Þeir þykjast hafa lesið bók náttúrunnar svo vel ofan í kjölinn, að þeir hafi fengið vissu um það, að biblían sé að eins mannaverk, meira eða minna ófullkomið og óáreiðanlegt, að Jesú Kristr hafi ekki verið annað en takmarkaðr maðr, að bænin sé þýðingarlaus, og að hinn kristni barnalærdómr vor yfir höfuð sé aðallega samsafn af hjátrúarævintýrum. Slíkar raddir hefir hver einasti fullorðinn Íslendingur nú í seinni tíð marg-oft heyrt. Bókmenntirnar íslenzku hafa sérstaklega nú upp á síðkastið tekið til að bergmála þennan vantrúarboðskap. Og með honum er verið að reyna til að brjóta niðr kirkju vora, varna því, að fólk vort haldi áfram að vera með í uppbygging sinnar eigin kirkju. En taki nú allir eftir. Þagna ekki flestar slíkar raddir hjá mönnum, þegar öldur dauðans eru að ríða yfir þá? Hafið þér heyrt nokkrn mann segja, þá er lífsfar hans lá undir áföllum og dauðinn gægðist inn fyrir borðstokkinn: "Kristindómrinn er ósannindi, vantrúin er sannleikr?" Hafið þér heyrt nokkurn mann, sem vissi fyrir víst, að hann var á leiðinni til Getsemane, staðhæfa, að kristna trúin væri til ills og bölvunar, hrósa fagnandi sigri yfir því, að boðskapr vantrúarinnar væri til blessunar? Þér hafið aldrei heyrt og munuð aldrei heyra neitt þvílíkt. En aftr á móti hafið þér hvað eftir annað átt kost á að heyra, og munuð, svo framarlega sem ævi yðar er ekki þegar úti, enn marg-oft eiga kost á að heyra sterka vitnisburði frá mönnum, sem legið hafa eða liggja undir áföllum, mönnum, sem gengið höfðu í gegn um þungar raunir, sannkallaða

píslarsögu, um það, að evangelíum kristindómsins sé blessaðr, guðlegr sannleikr. Og þá hafið þér ástæðu til að lofa og vegsama guðlega forsjón fyrir það, að ekki er ávalt blíða logn og sólskin á sjóferð lífsins, — getið líka þakkað guði fyrir það, sem náttúrlegum tilfinningum vorum er sárast af öllu. Þegar fyrir alvöru fer að dimma í lofti stormar mótlætisins teknir að blása og öldur dauðans að rísa á mannlífshafinu, þá hættir vantrúin að minsta kosti að guðlasta, og þá fer trúin í sálum lærisveina Jesú, þótt undur veik kunni að vera, í heilagri alvöru að biðja til drottins.

En, segir þú, efasama sál, þó að lærisveinarnir fengi blessaða áheyrn, fullnægjandi bænheyrslu, þegar þeir í storminum og dauðahættunni úti á Genesaretvatninu forðum hrópuðu biðjandi til drottins, þá eru svo margir nú, sem í nauðum sínum hrópa til frelsarans og virðast enga áheyrn fá. Það sýnist aldrei koma logn. Það sjást iðulega engin merki þess, að slíkar bænir séu heyrðar. Og hvar er þá kristindómshuggunin? Eg leyfi mér að svara upp á þessa athugasemd og þessa spurning efans með því að geta um atvik nokkurt, sem kom fyrir á áðr nefndri sjóferð minni yfir Atlantshaf. Eg fekk þá nokkurskonar viðbót við guðspjallssöguna um lærisveinana í storminum á Genesaretvatni. Langa-lengi, dag eftir dag og nótt eftir nótt, og jafnvel viku eftir viku, höfðum vér verið úti í æðanda ofveðri og rjúkanda ósjó. Skip vort huldist oft bókstaflega af bylgjunum. Loksins slotaði þó veðrinu, en einmitt þetta veðrslot hafði það í för með sér, að vér frusum inni og gátum ekki í samfelda fimm sólarhringa hreyft oss neitt áfram fyrir ís. Og þann ís braut ekki upp fyrr en nýr stormur tók til að blása; og þá fyrst gátum vér haldið ferð vorri áfram. — Alveg eins er eg viss um að fyrir mörgum hefir farið í andlegu tilliti. Þeir sneru sér til drottins í mótlætinu og beiddust þess að þeim stormi mætti slota, að drotni mætti þóknast að láta koma logn. Og svo kom logn. En svo veit eg og, að þegar logn var komið, frusu margir inni. Það kom kuldadeyfð yfir sálir þeirra. Þeir hættu að biðja. Hið andlega líf þeirra visnaði upp, og varð svo að segja að engu. Eg hefi með eigin augum séð eigi fáa frjósa andlega inni á þennan hátt. Og eg er dauðhræddr um, að einhverjir, sem

nú líðr vel í veraldlegu tilliti, sé einmitt hér á vorum stöðvum að frjósa andlega inni. Eg finn, hve sjálfum mér er hætt að þessu leyti í hvert skifti, sem ekkert amar að í mínum lífskjörum. Svo eg skal engum lá, þótt eg taki eftir því, að meðlætið sé orðið honum andlegr farartálmi. En áminna vil eg í drottins nafni alla, sem svo er komið fyrir, að beita allri orku til að biðja frelsarann að halda sér vakanda á hinum svo kölluðu góðu dögum og varna því með sínum hlýja kærleik, að þeir frjósi nokkurn tíma til fulls og alls inni. Og biðja vilda eg drottinn minn, þótt fremr sé eg nú hræddr við mótlætið, að láta heldr nýja og nýja storma yfir mig blása, heldr en að mitt lífsfar frjósi alveg inni á dauðans stöðvum.

Og nú að lokum eina huggun fyrir oss, menn kirkjunnar, í hinni andlegu félagsbaráttu vorri. Kirkja drottins Jesú í heild sinni er og verðr ávalt hér í heimi stríðandi kirkja, andlegt far fyrir lærisveina hans til þess að flytjast farsællega á yfir heimshafið, en vel að merkja ekki í logni og ládeyðu heldr í stormi. Og að því, er snertir oss íslenzka kirkjumenn, þá erum vér nú sérstaklega á þessum tíma farnir að geta borið um það af persónulegri reynslu, hvað það er að vera úti í stormi. Stormrinn blæs. Hann tók fyrir alvöru að blása, þegar vér tilknúðir af drotni sjálfum drógum upp hið hreina merki kristnu trúarinnar. Guð er ekki í storminum. Hann er aldrei í slíkum stormi. Synd vantrúarinnar er í þeim stormi. En hvað um það: guð ræðr þeim stormi. Hann leyfir að hann blási yfir oss og kirkju vora. Og meðan sá stormr blæs, mun kirkja vor, hin drottinlega örk, sem vér höfum tekið oss far með, aldrei frjósa inni.

# Nætrdýrðin

"Hversu marga himinrós
hylur dagsins bjarta ljós!
Alt eins lífið ótal hnoss
eflaust byrgir fyrir oss."

Finnst yður, kærir tilheyrendr, það ekki býsna-djörf hugsan, sem skáldið, Mattías Jochumsson, tekr fram í þessari stöku? — fyrst sú hugsan, að dagsljósið hylji marga himinrós, og svo hin hugsanin, að lífið eflaust byrgi fyrir oss ótal hnoss. Eru ekki kenningarnar, sem hér eru fram settar, þvert á móti því, sem í fljótu bragði eða fyrsta áliti virðist vera sannleikr og jafnaðarlega í daglega lífinu er gengið að vísu að sé sannleikr? Sýnist ekki eðlilegast, að dagsljósið, hið glóanda sólarljós, varpi birtu yfir allt? Sýnist það sennilegt eða eðlilegt, að hið bjarta ljós dagsins hylji nokkrn hlut? En engu að síðr er það þó satt, að til er nokkuð, sem dagsljósið hylr eða gjörir ósýnilegt. Það er til nokkuð í náttúrunni, sem hverfr fyrir mannlegu auga, þegar sólin er komin upp. Og þetta í náttúrunni, sem þannig hylst af dagsljósinu, sem þannig verðr ósýnilegt af sólarbirtunni, það er vissulega ekkert smáræði. Það er öll dýrðin á festing himinsins, sem mannsaugað sér meðan dimm nóttin stendr yfir. Það er allr sá stjörnuher, sem náttmyrkrið opinberar mannlegum augum á himninum. Það er allr hinn dýrðlegi stjörnuhiminn, allt það undra-samsafn af tindrandi stjörnum, sem skína inn í augu dauðlegra manna hér á jörðinni eina öldina eftir aðra, en að eins meðan nóttin stendr yfir. Það hverfr allt í dagsbirtunni, þetta. En þegar dagrinn er á enda og nóttin með sinni dimmu skýlu hefir breiðst út yfir lög og láð, þá birtast stjörnurnar á himninum óteljandi, eins og eins mörg eilífðarljós, og gjöra himinhvelfinguna að eins konar ómælilegum, óskiljanlegum, aðdáanlegum, guðlegum rósareit. Hinar ýmsu stjörnuþyrpingar birtast jarðnesku mannsauganu eins og himneskir blómknappar, leiftrandi, tindrandi, logandi. "Stjarna er stjörnu bjartari"; bjarminn

stjarnanna óendanlega margbreytilegur. Það er eins og himininn sé, þegar heiðskír nótt er komin, orðin að yfirnáttúrlegum, guðlegum akri, og blómin, sem sjást á þeim akri, skínandi í allt öðruvísi tilbreyting, enn þá miklu dýrðlegri litbreyting en þekkist í blómreitunum hér niðri á jörðinni. Allan þann blómreit með hinum óteljandi silfruðu, gyltu, himnesku rósum hylur dagsbirtan fyrir augum vorum. En nóttin opinberar hann allan, sýnir oss alla þessa himnesku dýrð. Og sú sýn, þessi dýrðlega sýn, sem þannig blasir við oss í nætrdimmunni, hún er fjarskalega víðtæk. Hún nær út yfir allt það í sköpunarverkinu, eða hinni takmarkalausu náttúru guðs, sem er fyrir ofan oss, uppi yfir höfðum vorum. Í dagsbirtunni sjáum vér tiltölulega undurstutt inn í þá óviðjafnanlegu uppheimsvíðáttu, inn í það himneska dýrðardjúp. Vér sjáum að eins bláa eða gráa himinhvelfing fyrir ofan oss þá. Birtan, sem þá lýsir jörðinni, byrgir allar stjörnurnar, hylr himinrósirnar algjörlega. Og þótt bjart sé hér niðri á jörðinni á daginn, þá er það nú samt ekki nema undur-lítill hluti af jörðinni, sem vér höfum fyrir innan vorn sjóndeildarhring þá; það liggr við, að hann sé alveg hverfandi, nærri því óendanlega lítill. Í samanburði við sjóndeildarhring heiðskírrar nætr verðr sjóndeildarhringr hins bjartasta dags nálega að engu. Það er sama hlutfallið á milli þessara tveggja sjóndeildarhringa eins og á milli tímans og eilífðarinnar.

En svo kemur hin síðari hugsun skáldsins í hinni tilfærðu stöku:

"Alt eins lífið ótal hnoss
eflaust byrgir fyrir oss."

Það er álíka djörf hugsan, það, eins og hin fyrri. Lífið byrgir svo og svo mikið af sannkölluðum hnossum, óendanlega mikið af inndælu, himnesku ágæti. Heill heimr af hnossum, af því bezta, sem til er, er hulinn af lífinu. Lífið sjálft skyggir á það, sem bezt er í tilverunni. Það er stór hugsan, það. Og sú stóra og djarfa og djúpa hugsan kemr með ekki að eins sannleika, heldr líka með æðsta sannleikann, — sannleika, sem nær neðst úr undirdjúpunum efst

upp í dýrðarhimin guðs eða öllu heldr: sem nær efst að ofan frá hásæti hins almáttuga kærleika neðst í undirdjúpin. Hvort sem skáldið hefir af því vitað eða ekki, þá hefir hann hér komið með kjarnann allan í kristindómsopinberaninni. Hann hefir komið með þann óviðjafnanlega háa og djúpa sannleika, sem hið mikla guðspjall fyrir daginn í dag, föstudaginn langa, píslarsagan og dauðasagan mannkynsfrelsarans Jesú Krists, svo áþreifanlega opinberar og hefir mótað í trúarmeðvitund allra kristinna manna.

Í dauðasögu Jesú Krists sjáum vér svo óendanlega mikið af himneskri dýrð, sem vér aldrei hefðum átt kost á að sjá, ef oss vantaði þá dauðasögu. Vér hugsum um hann í dag dáinn eða deyjanda. Í lífinu var hann mikill, göfugr, guðlegr, tilbeiðsluverðr; en svona mikill og tilbeiðsluverðr eins og hann birtist nú, á sínum dauðadegi, hefir hann aldrei áðr verið. Eða þótt hann í rauninni hafi ávalt verið hinn sami, sé ævinlega, frá eilífð til eilífðar, hinn sami, þá sjáum vér þó fyrst veru hans fullkomlega eins og hún ávalt var, eins og hún ávalt er, þegar hann er að skilja við þetta jarðneska líf, stríða út hið ógrlega þunga og sára stríð við dauðann. Vér verðum að játa, að ævisagan hans, áðr en hann gekk út í dauðann, svo fögur og óviðjafnanleg sem hún er, birti oss þó ekki kærleikseðli hans nema ófullkomlega. En í dauða hans opinberast það í sinni fylling. Lífið hans byrgði, ef eg má leyfa mér að taka svo til orða, fyrir mestu kærleiksdýrðina hans, þá himnesku dýrðarfylling, sem kemr svo skýrt fram í sögunni, þessari miklu og óviðjafnanlegu, um hans píslir og dauða. Frá að eins jarðnesku sjónarmiði skoðað hverfr Jesús út í biksvart náttmyrkr um leið og hann gengur út í sína píslarsögu. Þótt ævi hans öll þar á undan væri ein samanhangandi niðrlæging, þá var hann þó allt fram að þeirri stund tiltölulega staddr í dagsbirtunni í samanburði við það dimma dauðamyrkr, er þá tók við fyrir honum. En þegar þetta dimma dauðamyrkr er dottið á, þá opinberast meiri dýrð yfir honum heldr en nokkurn tíma áðr, meðan hann stóð uppi í dagsbirtunni. Nætrdýrðin hans og dauðadýrðin yfirgnæfir algjörlega alla hans fyrri dýrð. Hann bað líka rétt áðr en píslarsaga hans hófst: "Faðir, tíminn er kominn. Gjör nú son þinn dýrðlegan, svo að sonrinn einnig

gjöri þig dýrðlegan" (Jóh. 17, 1). Hann bað svona yfir kvöldmáltíðarborðinu á skírdagskvöld, er hann stóð þar ferðbúinn fram á móti nóttinni, út í dauðann. Og sú bæn var heyrð. Því frá guðlegu sjónarmiði birti fyrst þá algjörlega yfir Jesú. Öll hin jarðneska dýrð hverfr þá auðvitað, en hin himneska dýrð leiftrar umhverfis Jesúm eftir þetta, hvar sem hann er staddr: í Getsemane, frammi fyrir Kaífasi og prestaráði Gyðinga, frammi fyrir Pílatusi, á krossinum. Þegar vér erum í huganum staddir hjá Jesú í píslum hans og dauða, þá er eins og öll sú jarðneska dýrð, sem í dagsljósinu birtist fyrir augum vorum, sé með öllu horfin, sé ekki framar til. En allt fyrir það höfum vér grætt svo óendanlega miklu meira en vér höfum mist. Hún rís upp, þessi píslarsaga, og breiðist út eins og óendanleg himinhvelfing uppi yfir höfðum vorum. Og þegar vér á dimmri nótt, með hina miklu dauðahugsan í sálum vorum, lítum upp, þá blikar á þeirri hvelfing ein stjarnan annari bjartari. Hún er orðin, þessi mikla, guðlega píslar- og dauðasaga Jesú, að inndælum, skínanda stjörnuhimni. Og svo dýrðlegr sem hinn náttúrlegi stjörnuhiminn birtist fyrir augum vorum, þegar það, sem í eiginlegum skilningi er kallað dagsljós, er gengið undir og regluleg nótt er komin með sinn náttúrlega skugga, þá er þó hinn andlegi stjörnuhiminn, sá er með píslarsögu Jesú er hvolft yfir sálir vorar, enn þá miklu dýrðlegri, þeim mun dýrðlegri, sem hinn andlegi heimur er hinum líkamlega heimi æðri, þeim mun dýrðlegri, sem hið andlega líf er æðra og göfugra en þetta náttúrlega líkamslíf. Fyrst þá, er vér látum sálir vorar hvíla hjá Jesú líðanda, deyjanda, dánum, sjáum vér fylling hins guðlega kærleika, sem hann var kominn til að opinbera. Næturdýrðin í ævisögu Jesú, það er að segja sú dýrð, sem opinberast í píslum hans og dauða, yfirgnæfir alla þá dýrð, sem áður birtist í ævisögu hans, meðan hann — andlega talað — var staddr í dagsbirtu lífsins. Fyrir þessa himnesku og huggunarríku næturdýrð í ævi Jesú, hans dauðadýrð, eigum vér að þakka guði almáttugum sérstaklega í dag. Fyrir þann guðlega kærleiksbjarma, sem leiftrar út úr píslarsögu Jesú, þakkar gjörvöll kristnin hinum eilífa föðr ljósanna á föstudaginn langa.

Það er naumast unnt að hugsa um dauða Jesú, mannkyns-

frelsarans, svo að maðr út af þeirri hugsan leiðist ekki til hugsunar um dauðann almennt, sinn eiginn dauða og dauða annara manna. Enda getr sú hugsan, hin almenna dauðahugsan, orðið til þess — að minsta kosti fyrir kristnum manni—, að skýra hugsanina um Jesú dauða talsvert. Hin almenna dauðahugsan og þessi sérstaklega um dauða Jesú skýra í rauninni hvor aðra. Vér höfum séð, hvernig hið dýrðlegasta hjá Jesú birtist fyrst í dauðasögu hans. En er það að sínu leyti ekki alveg eins, þá er hugsanin um dauða þess eða þess mannsins, sem vér að einhverju leyti höfum þekkt hefir fyllt sálir vorar? Kemr það ekki þá fram, að lífið hefir að undanförnu, eins og skáldið segir, byrgt fyrir oss ótal hnoss, svo og svo mikið ágæti hinum látna manni tilheyranda, sem nú fyrst við dauða hans birtist fullkomlega? Enginn veit, hvað átt hefir, fyrr en mist hefir — segir máltækið. Og það máltæki er reglulegt kristið spakmæli. Var barnið þitt, faðir eða móðir, nokkurn tíma eins inndælt og elskulegt í huga þínum eins og eftir að þú varst orðinn fyrir þeirri þungu raun, að sjá það deyjanda eða dáið? Þú misstir vin, einhvern fullorðinn vin. Dauðinn lagði hann lík. Þú fylgdir honum til grafar. Þú stóðst með dauðahugsanina yfir moldum hans. Það varð dimmt fyrir augum þér; því tárin hrundu ótt og títt og byrgðu nærri því alla útsýn til hins jarðneska lífs. Þú stóðst uppi syrgjandi og saknandi eins og á nóttu. Um hinn látna varstu að hugsa. Var hann ekki dýrmætari maðr og vinr þá en nokkru sinni áðr? Urðu ekki mannkostirnir hans fyrir hugskotssjón þinni meiri og göfugri og elskulegri en þér höfðu sýnst þeir meðan hann stóð með þér uppi í lífinu? Og sástu ekki nýja kosti, ný andleg hnoss, nýtt ágæti hjá honum nú í náttmyrkrinu, í dauðadimmunni, sem þú aldrei hefðir komið auga á áðr? Þú sást stundum ýmsa ókosti hjá honum meðan hann lifði. En varð ekki tiltölulega undur-lítið úr þeim nú? Eða hurfu þeir ekki jafnvel fyrir þinni sálarsjón með öllu eftir að svona var komið? Og ef til vill hefir þú einhvern tíma átt óvin, sem nú er látinn, á undan þér horfinn inn í eilífðina. Þú sást meðan hann var á lífi fáa eða enga eiginlega mannkosti hjá honum. Nú hugsar þú til hans látins. Breyttist ekki skoðan þín á honum dálítið? — Meir en dálítið? Breyttist hún ekki

jafnvel til stórra muna? Fórstu ekki við hugsanina um hann burt farinn að sjá ýmsa kosti, ýmsa góða eiginlegleika hjá honum, sem þú gazt áðr alls ekki komið auga á? Og fóru ekki þeir ókostir, sem hann hafði eða sem þér fanst hann hefði, um leið talsvert að minka? Með öðrum orðum: Sástu hann ekki í öðru ljósi en áðr? — Vera má, að dauðahugsanin gjöri einatt mannkosti hjá þeim eða þeim látnum manni stærri og fleiri en þeir í raun og veru voru. Það er enginn vafi á því, að svo er all-oft. En skyldi það álit á hinum látna ekki vera réttara, göfugra, líkara því, hvernig guð almáttugr lítr á mennina, heldr en það, sem þú áðr hafðir meðan þér sýndist allt hið góða hjá manninum svo tiltölulega undur-lítið, en hitt tiltölulega svo undur-stórt? — Og nú einmitt sé eg eina stjörnu fyrstu stærðar skína á himni píslarsögunnar. Það er fyrsta orðið frelsarans á krossinum, þetta óendanlega kærleiksfulla bænarorð: "Faðir, fyrirgef þeim, því þeir vita ekki, hvað þeir gjöra". Þar sést, hverjum augum hann, sem er ljómi guðs dýrðar og ímynd hans veru, lítr á hina svörtu hlið á sálarlífi manna. Og taki maðr, eins og auðvitað allir kristnir menn gjöra, þessi fyrirbænarorð Jesú eins og æðstu fyrirmynd þess, hvernig líta skal á ókostina og ódygðirnar hjá náunga sínum, með hverjum augum líta skal á hina siðferðislegu eymd annara manna, þeirra veikleik, þeirra synd, þeirra svörtu bletti, þá liggr opið, að hún er göfugri, réttari og guðlegri, sú skoðunin, sem lætur allt það stækka í lífi annara manna, sem er gott, en hitt, sem því er gagnstætt, minka, heldur en sú skoðun, sem dregr dul á hið góða, en lítr á hið illa í stækkunargleri. — Og nú hefi eg sýnt, að dauðahugsanin kemr með þessa göfugu og guðlegu skoðan á kostum og göllum náungans. Svo það er enginn vafi á því, að dauðinn, dauðahugsanin, sýnir kristnum manni mannlífið og manneðlið í meira ljósi, göfugra ljósi, blíðara ljósi, bjartara ljósi, heldr en hann hafði meðan dauðinn var fjarri huga hans og hann að eins var að hugsa um lífið, þetta jarðneska líf.

Það er eins og vér séum staddir við útför Jesú í dag — á föstudaginn langa. Passíusálmrinn 49., sá út af greftran frelsarans, og sá, sem eg í barnæsku lærði að skoða sem sérstaklega tilheyranda þessum næst-seinasta degi föstunnar,

leiðir huga minn að gröf hans. Eg dreg mig inn í hóp hinna syrgjandi ástvina hans. Hóprinn er nú orðinn undur-lítill. Sumir þeirra, sem hvað mest elskuðu hann, eru flúnir burt, voru komnir í felur áðr en hann var kominn út í sárasta dauðastríðið á krossinum og þorðu nú hvergi að koma nærri dauða- og greftrunarstöðvunum. Þeir harma hann einhversstaðar í afkima. Eg sé enga við útförina nema dálítinn hóp grátandi kvenna, sem, þótt þær líklega áðr hafi virst veikari, máttminni, til að stríða og líða með Jesú og út af honum, heldr en hinir eiginlegu lærisveinar hans, halda nú einar út, hverfa ekki frá honum fyrr en hann liggr í sinni gröf. Jú, auk þeirra, þessara óskiljanlegu þrautseigu, kærleiksríku kvenna, sé eg tvo menn, tvo karlmenn, sem hjartanlega elskuðu hinn látna guðmann. Að eins á laun höfðu þeir heyrt Jesú til að undanförnu. Þeir stóðu hátt í mannfélaginu og þorðu ekki opinberlega að ganga inn í hóp alþýðumannanna, sem honum fylgdu, þorðu ekki opinberlega að játa trú sína á hann. Svo veik var trúin þeirra þá. Það voru þeir Nikódemus og Jósef frá Arematía. En nú er hann dáinn. Og um hið guðlega ljós, sem var yfir honum, skein út úr hverju orði hans í hans dauðasögu, um það vissu þeir án efa. Dauðinn hans dró þá að sér með enn þá sterkara afli en lífið hans hafði gjört. Aldrei höfðu þeir eins mikið elskað hann eins og einmitt nú. Og sú aukna elska á honum gefr þeim hug, — hug til þess að láta trúna sína á honum opinberlega koma í ljós, Þeir sýna hana með því að biðja um líkama hans og með þeim merkjum elsku og lotningar honum til handa, sem þeir létu í ljósi með því sjálfir að greftra hann svo veglega. Aldrei höfðu þeir litið persónu hans í svo björtu ljósi eins og nú á þessari greftrunarstund. Orðin hans, verkin hans, lífið hans allt frá fyrri tíð — það fekk nú alt yfir sig í huga þeirra nýtt ljós. Og dauðasaga Jesú, þessi óviðjafnanlega guðlega píslarsaga, sem nú var nýenduð, hafði komið með þetta ljós. Og þó að telja megi víst, að konurnar, þessar veiku, en þó undr sterku konur, sem voru við greftranina staddar og sáu, hvernig hann var lagðr í steinþróna, gröfina, hafi vafalaust grátið heitum sorgartárum á þeirri stund, þá er hitt líka ekki síðr víst, að sama ljósið hefir tindrað á þeim tárum. Á allt hið fyrra líf hans horfðu

þær nú með tárvotum augum í því ljósi. — Eg stend nú í anda við gröf Jesú með alla söguna um píslir hans og dauða í huganum. En hvað allt honum tilheyrandi birtist nú í nýju ljósi! Þessi hans dauðasaga, svona alveg einstakleg um allan heimsins aldr, — hún sýnir mér fyrst til fulls, hver og hvílíkr hann var, hvað öll hans æfisaga eiginlega þýddi, til hvers hann aðallega var sendr niðr í mannheiminn. Hún varpar alveg nýju ljósi yfir þessa guðlegu persónu, og ekki að eins yfir persónu hans, heldr líka yfir alla gamla-testamentis spádómana um hann, og alla nýja-testamentis-prédikanina út af honum, orðin hans um sjálfan sig áðr og orð postulanna um hann síðar. Eg sé, að eg stend við gröf guðs sonar, hans, sem af himnum var sendr til þess að líða og deyja fyrir synd mannkynsins. Eg heyri vitnisburð hundraðshöfðingjans, er stóð gegnt krossi Jesú og sá, hvernig hann dó, hina hátíðlegu yfirlýsing þess heiðna hermanns og hinna allra, er með honum voru: "Sannarlega var þessi maðr guðs sonr". Og hjarta mitt og höfuð segir hiklaust til þess já og amen. Eg sé nú allt frelsisráð guðs syndugu mannkyni til handa. Eg sé nú undrdjúp guðs kærleika. Eg sé, hvílík alvara hinum himneska föðr er með að líkna hinni fráföllnu kynslóð mannanna, þar sem hann lætr sitt eigið hjarta í persónu Jesú Krists ganga allar þessar skelfilegu píslir í gegn. Eg hafði eiginlega enga hugmynd um það, hvílík elska guðs var og er til syndugra manna, mín og allra annara, fyrr en eg heyrði og hugsaði um þessa dýrðlegu píslar- og dauðasögu Jesú.

Vér höfum á þessum föstutíma aftur og aftur út af ýmsum guðs orðum píslarsögunnar, sem fyrir oss hafa legið, fengið tækifæri til að hugsa um vonzku þeirra manna, sem leiddu allar þessar ógurlegu kvalir yfir Jesúm. Eg vil nú, er eg á föstudaginn langa í anda stend við gröf Jesú, sem minnst hugsa um þá mannvonzku, en í þess stað hugsa um hinn óendanlega kærleik hins eina mikla, sem allt þetta leið. Það guðlega kærleiksundur vil eg hugsa um, af því líka það blasir svo óviðjafnanlega vel við nú einmitt í píslarsögulok á hans dauðadegi, nú einmitt, er eg hugsa um hann nýlátinn og nýlagðan í sína gröf. — Píslarsaga Jesú hefir tvær hliðar, eins og reyndar öll hans æfisaga. Öðrum megin ræður

mannleg vonzka, jafnvel djöfulleg vonzka, mannhatur, guðshatur, forherðing, þeirra allra, er heimtuðu hann kvalinn og líflátinn og unnu að þeim kvölum og því lífláti með köldu blóði. Sú hlið er svört, biksvört. Hinum megin ræður hinn frelsandi föðurkærleikur guðs, óendanleg guðleg elska, sem allt leggur í sölurnar til þess að bjarga hinni syndugu kynslóð mannanna í heild sinni og hverjum mannlegum einstaklingi. Yfir þeirri hliðinni er tóm birta, meiri birta en hið bjartasta dagsljós, birta frá eilífðarhimni guðs. Það er sú hliðin, sem eg nú aðallega er að hugsa um, Hin hliðin, dimma hliðin, hverfur, eða eg vil sem allra minnst á hana líta nú. Enda minna hin áður tilfærðu fyrirbænarorð Jesú á krossinum: "Faðir, fyrirgef þeim, því þeir vita ekki, hvað þeir gjöra", oss alla á það, að þegar vér hugsum um hann deyjanda, þá hæfir ekki, að vér leggjum nema tiltölulega litla áherzlu á vonzku syndaranna, einnig þá vonzku, sem negldi hann á krossinn. Og svo kemur annað orð frá Jesú á krossinum líka, milt og blítt miskunnarorð, og minnir oss á hið sama, þetta orð hans til hins biðjanda og deyjanda ræningja: "Í dag skaltu vera með mér í paradís". Það orð prédikar oss hið sama, þann dýrmæta sannleik kristindómsopinberunarinnar, að fyrir hann, sem á þessa miklu dauðahátíð gjörvallrar kristninnar, föstudaginn langa, geti hin mesta og þyngsta og svartasta synd orðið fyrirgefin, eða með öðrum orðum: að allir, sem vilja láta Jesúm frelsa sig, skuli frelsast. Svo hin svarta hlið, syndahliðin, á píslarsögu Jesú Krists, hverfr nú til stórra muna fyrir oss; — hin guðlega kærleikshlið á þeirri sömu sögu byrgir að miklu leyti fyrir hana. Á hana vil eg horfa nú, þegar eg frá gröf Jesú á þessari angurblíðu hátíðarstund lít til baka yfir alt hið hræðilega og grátlega, sem Jesús gekk í gegn um þennan síðasta sólarhring hinnar jarðnesku ævi sinnar.

Eitt stór-skáld kristninnar frá löngu liðinni öld kemst svo að orði út af Jesú líðanda og deyjanda:

"Hver má hugsa' um þjáning þessa,  
þeim hún ei sé tárapressa,  
þó að sekur þyldi neyð?

En hér leið hinn allra bezti.
Augu mín og hjarta bresti?
Sjálfur heilagleikinn leið."

Og enn fremur segir hann:

"Vor guð sjálfur varð að gjalda
veraldarinnar sekt margfalda,
sár þolandi brigsl og bönd.
Loksins sá, er líf nam skapa,
lífi hlaut og vildi tapa.
Lífshertoginn uppgaf önd."

Og svo biðr hann fyrir sjálfum sér út af þessu kærleiksundri:

"Geti' eg krafti' af guðdóms hreinum
geisla þínum staðist einum,
sæti Jesú, send mér hann.
Heilags fullur yls og anda,
elskublossann þig steikjanda
gef eg finni gjörvallan."

Er það ekki fögr og mikilfeng hugsan — þetta um einn einasta geisla af guðdómi Jesú? Einn einasti slíkr geisli hafandi í sér kraft nægilegan til þess að frelsa sálu syndugs manns — er það ekki djörf hugsan? En það, sem bezt er við hana er það, að hún er sönn hugsan, sannkristileg, guðleg trúarhugsan. — Þær eru óteljandi stjörnurnar, sem tindra á næturhimni píslarsögunnar. Og upp í þann alstirnda himin lítum vér nú. Það stafar geisli niðr til vor af hverri einstakri stjörnu. Og einn slíkr geisli nægir til þess að mannssálin, ef hún að eins meðtekr hann, frelsist frá allri sinni synd. Ræninginn, sem í dauða sínum leitaði biðjandi til Jesú, meðtók einn slíkan geisla, og fyrir hann leið sál hans frelsuð og friðuð inn í eilífðina.

Meðtakið þá, syndugir menn allir, að minnsta kosti einn slíkan geisla inn í sálir yðar áðr en þessi dauðahátíð frelsarans er alveg á enda. Sjáið um, að hinir frelsandi geislar

frá stjörnuhimni píslarsögunnar verði ekki allir horfnir úr sálum yðar, þegar þér sjálfir gangið út í dauðann. Búið svo um hið andlega líf yðar, meðan enn þá er tími til, að þegar þér sjálfir eruð að stríða við dauðann, þá getið þér með trúuðum augum horft upp í þann kærleikshimin guðs, sem píslarsaga Jesú sýnir oss, og svo í hans nafni og fyrir hans dauða lokað augunum eins og góð guðs börn, sem eru að sofna sælum svefni.

# Sumarið borið út

Matt. 28:11-15.
(Þriðja sd. eftir páska)

Áðr en eg fer að tala um efni hins upplesna guðspjallskafla sem eg hefi valið mér fyrir texta nú, skal eg minna á aðalefnið í hinu fastákveðna, gamla guðspjalli fyrir daginn í dag. Það er partr af skilnaðarræðu þeirri hinni miklu, sem frelsarinn flutti lærisveinum sínum á skírdagskvöld í kvöldmáltíðarsalnum í Jerúsalem. Og í þeim ræðuparti boðar hann þeim fyrst það, er fyrir þá hlaut að vera mjög ógeðfeld og fráfælandi tíðindi, það, að hann, hinn dýrmæti ástvinr, meistarinn og lífsleiðtoginn þeirra, yrði tekinn burt frá þeim, og það með, að sú skilnaðarstund væri svo að kalla komin. Þetta var hryggðarboðskapr, og hann ákaflega mikill. En þeim var nauðsyn að fá hann til sín og verða honum handgengnir áðr en það hryggilega atvik kom fyrir. Þeir þurftu að ganga úr skugga um það nú, að skilnaðurinn við hann væri óhjákvæmilegur og vofði þá einmitt yfir. En aðalatriðið fyrir Jesú er þó ekki það, heldr að koma með fagnaðarsboðskap til þeirra í sambandi við burtför hans, svo mikinn fagnaðarboðskap, að hann gjörði meira en vega upp á móti hinni hryggilegu hugsan um skilnaðinn? Og sá sérstaki fagnaðarboðskapur var þá í því fólginn, að hann ætlaði ekki að skilja við þá fyrir fullt og allt. Þótt hann nú væri að fara frá þeim, og þótt sú burtför að sjálfsögðu myndi verða

þeim til sárrar sorgar, þá skyldu þeir — og það rétt bráðum — sjá hann aftr. Það skyldi aftr fyrir þeim og honum verða samfundir og með þeim samfundum gleðin aftr koma til þeirra, enn þá miklu fullkomnar en áðr, gleði, sem aldrei yrði frá þeim tekin, svo víðtæk gleði, að allar áhyggjuspurningarnar, sem nú hreyfðu sér í sálum þeirra, skyldi þá verða orðnar að engu. Guðspjallið byrjar með þessum orðum: 'Innan skamms munuð þér ekki sjá mig, og innan skamms munuð þér sjá mig aftur." Og svo er áframhald guðspjallsins alt til enda prédikan út af þessum orðum, svo hjartnæm, angurblíð og huggunarrík eins og nokkr prédikan getr mest verið, — prédikan Jesú um hryggð lærisveinanna, sem bráðum muni snúast í fögnuð. Burtför hans frá lærisveinunum var ganga hans út í píslarsöguna og dauðann á krossinum. Það var í mesta máta grátlegt atvik fyrir elskandi lærisveinahjörtun. En innan skamms skyldi sorgin þeirra frá þeim tekin, því innan skamms, á þriðja degi eftir dauða hans, skyldi hann rísa upp og birtast hinum niðrbrotnu, dauðhryggu ástvinum sínum sem dýrðlegr sigrvegari dauðans og gjörvallra myrkra-aflanna. Og þegar það undr allra undra væri komið fram og orðið andleg eign þeirra, þá myndi þeir fagna og fögnuðrinn þeirra myndi verða svo mikill, að þaðan í frá myndi þeir, á hverju sem gengi í lífi þeirra, verða lofsyngjandi og sigrihrósandi menn, og ekki að eins þeir sjálfir, þessir upphaflegu vottar að upprisu Jesú, heldr líka óteljandi aðrir meðal samtíðarmanna þeirra og meðal allra ókominna kynslóða víðsvegar um heim allt til enda veraldar. Það skyldi streyma allsherjar sigrihrósandi fögnuður út frá þessum mönnum, sem kjörnir voru til þess heiðrs að vera persónulegir vottar að upprisu Jesú, frá lífi þeirra og boðskap þeirra, inn í mannkynssöguna, og út af þeim allsherjar-fögnuði skyldi smámsaman mannkynssagan taka jafnvel ennþá meiri stakkaskifti en verða á ári hverju í náttúrunni, þegar vetrinn er hjá liðinn og sumarið gengið í garð. Þeir allir, sem með trúuðum hjörtum hafa veitt þessum boðskap postulanna um upprisu Jesú Krists viðtöku, þeir allir, hvar sem þeir eiga heima á hveli jarðarinnar, hafa fengið yfir sig andlegt sumar, eins víst og sumarið í náttúrunni kemr ávalt yfir oss norðrbúa um

þetta leyti árs. Og þeir allir eru, þrátt fyrir allt og allt, sem að kann að vera, þrátt fyrir allt hrygðarefnið, sem mætir þeim, og allar þeirra hrygðartilfinningar, og jafnvel í opnum dauðanum, lofsyngjandi sigrihrósandi menn í voninni.

Lítið í almanakið íslenzka og athugið orðið, sem stendr í svigum fyrir aftan nafnið á deginum í dag, þriðja sunnudegi eftir páska. Þar stendur: Jubilate. Það er latínskt orð or merkir "lofsyngið." Það er hið fornkirkjulega nafn á þessum drottins degi. Það er hið gamla inngangsorð guðsþjónustunnar í hinum kristnu söfnuðum fornkirkjunnar á þessum degi, bergmál af upphafi 66. Davíðs sálms, er svo hljóðar:

"Öll jörðin fagni fyrir guði;
syngið lof til dýrðar hans nafni;
víðfrægið hans lof."

En orsökin til þess að þessi lofgjörðaráskoran tók til að bergmála í hjarta kristins safnaðar einmitt á þessum degi var fagnaðarboðskaprinn út af hinni væntanlegu upprisu Jesú, sem hann leggr fram fyrir hina kvíðandi og hræddu lærisveina sína í guðspjalli dagsins.

Upprisan frelsarans — það er mesta fagnaðarefnið, sem til er, ævinlegt lofsöngsefni fyrir alla trúaða kristna menn, ævinlegt umhugsunarefni fyrir trúna í lærisveinssálunum. En sérstaklega beinir hin vorglaða tíð ársins, páskatíðin, sálum vorum að því umhugsunarefni. Textinn, sem eg lagði fram á undan þessari prédikan, er líka beinlínis heyrandi til sögunni um upprisu Jesú og stendur þannig í nánu sambandi við fagnaðarefni það, sem hann sjálfr flytr lærisveinunum í hinu vanalega guðspjalli þessa dags. En þó að guðspjallskafli textans heyri upprisusögunni til, þá bendir hann þó alls ekki í fagnaðaráttina, heldr þvert á móti. Sú saga bendir á menn, sem fyrir sjálfa sig og marga marga aðra tóku burt mesta fagnaðarefnið, sem til er; bendir á menn, sem í staðinn fyrir að beygja sig í auðmýkt hjartans, iðran og trú fyrir hinu huggunarríka undri upprisunnar finna upp ráð til þess að láta það líta út eins og sagan um það undr væri ekki annað en lygasamsetningr eftir lærisveina Jesú.

Sagan bendir til manna, sem vinna að því af öllum mætti, að bera út hið andlega sumar, sem Jesús með upprisu sinni lét streyma inn í heiminn, bera það út úr húsum sínum og hjörtum, og, ef unnt væri, allra annara. Og síðustu orðin í þeirri sögu benda á, að þeim hafi að allmiklu leyti tekist þetta. Að því, er þá sjálfa snerti, tókst þeim það algjörlega. En líka að því er snerti marga aðra, hryggilega marga aðra. Fjandmenn Jesú til forna breiða út þá lygasögu meðal fólks síns, Gyðinga, að Jesús hafi aldrei upprisið. Og svo og svo margir trúðu þeirri lygasögu á þeim tíma, er Matteus postuli, sem segir frá þessu, ritar guðspjall sitt. Þetta er það, sem liggr í niðrlagsorðum textans: "Og þessi orðrómr barst út meðal Gyðinga allt til þessa dags."

Upprisa Jesú er marg-staðfest söguatvik, svo sterklega staðfest, að ef þeim atburði ætti að geta orðið neitað, þá mætti eins vel neita hverju einasta atviki í mannkynssögu liðinnar tíðar. Engum með fullu viti gæti því komið í hug að véfengja þennan lang-stórkostlegasta og gleðilegasta atburð, sem komið hefir fyrir hér í heimi, ef ekki væri þar um yfirnáttúrlegt undr að ræða, — og í annan stað, — og það er nú í rauninni langtum þýðingarmeira í þessu sambandi, — ef menn ekki með trúnni á þann atburð yrði skyldaðir til að viðrkenna kristindóminn í heild sinni sem eilífan sannleika og þá um leið að leggja sjálfa sig undir vilja og stjórn Jesú Krists. Mennirnir, sem spunnu upp þá óguðlegu lygasögu, að Jesús hefði aldrei upprisið, voru frá upphafi mjög ólíklegir til þess að trúa upprisu Jesú. Það voru sömu mennirnir eins og þeir, er fyrir því höfðu gengist að fá Jesúm krossfestan og deyddan. Það voru hinir vantrúuðu sadúsear með þeim Hannasi og Kaífasi í broddi fylkingar, únítarar þeirrar aldar í þjóðfélagi Gyðinga. Þeir höfðu gjört það að meginatriði í trúarkenning sinni, að enginn andi eða engill væri til, engin upprisa, ekkert eilíft líf, — ekkert, sem vanalega er kallað yfirnáttúrlegt. Slíkir menn eru ekki líklegir til að trúa Jesú upprisu. En þó var það vissulega ekki það, sem reið baggamuninn fyrir þeim. Því þess konar fólk er oft býsna-fljótt til að fallast á hitt og annað, sem alls ekki getr náttúrlegt kallast. Aðalatriðið fyrir þeim var það, að þeir sáu, að ef þeir játuðu því, að

Jesús hefði risið upp frá dauðum, þá var með því af þeim sjálfum viðrkennt, að framkoma þeirra gegn Jesú áðr hefði verið óguðlegt athæfi. Og að gjöra slíka auðmýkjandi játning sjálfum sér viðvíkjandi, til þess höfðu þeir engan hug, engan vilja. Að halda áfram í vantrúnni líka eftir að þeir vissu um upprisu Jesú gaf þeim frá þeirra sjónarmiði rétt til þess að halda áfram forhertu syndalífi. Þess vegna taka þeir þetta ráð, að láta ekki sannfærast af hinum óviðjafnanlega atburði, er þeim vitanlega gjörðist á páskadagsmorguninn, og breiða síðan þau ósannindi út meðal Gyðinga, að Jesús hefði aldrei upprisið.

Eg ætla nú með tilliti til þessa lygaorðróms, sem vantrúin enn þá heldr uppi í heiminum, að benda yðr, tilheyrendr góðir, á vitnisburðina um upprisu Jesú, sem fyrir oss liggja í nýja-testamentis ritningunum. Og er þá fyrst að minnast þess, að ekki einn einasti af lærisveinum Jesú eða ástvinum hafði nokkra von um það, að hann myndi upprísa. Þeir voru allir eins vissir um það, að með dauða hans hefði þeir algjörlega misst hann frá sér fyrir þetta líf. Þó að hann áður hefði iðulega sagt þeim það fyrir, að hann myndi upprísa, og meira að segja beinlínis tiltekið, hvað löngum tíma eftir andlát sitt þetta fagnaðarríka undr myndi að höndum bera, þá skildist þeim alls ekki sá boðskapur, þegar hann var borinn fram; og eftir að hinn hræðilegi endir, sem píslarsagan hafði, var kominn, var fyrir þeim eins og þeir aldrei hefði heyrt þann boðskap. Þeir trúðu honum ekki og höfðu þar af leiðanda allsendis enga von, töldu alveg víst, að allt væri þá úti. Þess vegna voru þeir svo dauðhryggir. Að eins elskan til meistarans krossfesta, syrgjandi elskan án trúar og vonar, lifir þá í sálum þeirra. Í því ástandi voru þeir allir áður en sól upprisunnar rann þeim upp og hreif þá þvert á móti öllum þeirra ímyndunum út úr hinu skelfilega andlega náttmyrkri. Þessi sannfæring þeirra allra um það, að allt væri óhjákvæmilega úti með dauða Jesú, — það er sálarfræðileg sönnun fyrir því, að vissan, sem þeir síðar fengu um það, að Jesús væri upprisinn, getur ómögulega hafa verið ímyndan ein, heldur vissa, sem byggðist á orðnum atburði. Það trúði enginn þeirra á upprisuna fyrr en þeir, ef svo mætti að orði kveða, neyddust til þess. Að sjálfu upprisu-undrinu

var enginn sjónarvottur, því einu mennirnir, sem staddir voru hjá gröf Jesú á því augnabliki, er hann reis upp, voru hermennirnir rómversku, sem Pílatus hafði lánað æðstu prestum Gyðinga til þess að gæta grafarinnar, og þeir höfðu af hræðslu fallið í dá eins og örendir, þegar hinn himneski sendiboði, engill drottins, samfara hinum yfirnáttúrlega jarðskjálfta, birtist þeim og velti steininum frá dyrum legstaðarins. Og meðan þeir lágu í því dái, reis hinn krossfesti guðs sonur upp úr gröfinni. Skömmu síðar komu konurnar, sem ætluðu að smyrja lík meistarans og með því veita honum síðasta vott elsku sinnar, til grafarinnar; en þá var gröfin opin og líkið horfið. En þeim birtist engill, sem boðar þau tíðindi, að Jesús sé upprisinn, og býður þeim jafnframt að flytja lærisveinunum þennan boðskap. Þær hlýða því boði tafarlaust, og tveir af lærisveiunum, þeir Pétur og Jóhannes, skunda óðar til grafarinnar. Þeir sáu, að vitnisburður kvennanna var sannur, sáu líkklæðin liggjandi í grafarþrónni, og annar þeirra að minsta kosti, Jóhannes, og ef til vill Pétur líka, trúðu þá, þótt þeir enn naumast þyrði að trúa. En enn þá hefir enginn séð hann upprisinn. Og trúin, hjá þeim fáu, sem hún hafði lifnað hjá við þessi atvik, var svo lítil og veik, að hún hefði óðar dáið út aftur, ef meiri og fullkomnari vissa ekki hefði fengist. En svo fæst hún þá einnig fyrir marg-endurteknar og margvíslegar persónulegar opinberanir hins upprisna Jesú sjálfs þeim til handa. Allur tíminn, sem líður frá páskum til uppstigningardags, er tími slíkra opinberana. Á þeim fjörutíu sólarhringum birtist Jesús lærisveinum sínum hvað eftir annað og gefur þeim með því tækifæri til þess að eignast svo fullkomna trúarvissu um hinn óviðjafnanlega fagnaðartburð, upprisuna, að engin vissa um nokkurn hlut getur meiri til verið í nokkurri mannssál, enda birtast þeir allir, eftir að þeir höfðu eignast þessa vissu, eins og nýir menn, — þeir, mennirnir, sem áður höfðu verið svo undrveikir og svo að kalla algjörlega orðnir að engu, svo sterkir menn andlega, að úr þessu hafa þeir í sér mátt til að ganga fagnandi og fyrir fram sigrihrósandi út í þá stórkostlegustu baráttu, sem nokkurn tíma hefir verið háð af syndugum mönnum hér í heimi. Hin andlega upprisa þeirra manna allra, sem varð á þessu tímbili, er svo full-

komin sönnun, sem hugsast getr, fyrir því, að Jesús í raun og veru hafi risið upp frá dauðum.

Af opinberunum hins upprisna Jesú, sem lærisveinunum veittust á þessu tímabili, eru að eins nokkrar, sem sérstaklega er sagt frá í nýja-testamentinu. Þær eru tíu að tölu, og eftir því, sem næst verður komist, í þeirri röð, sem eg nú skal skýra frá.

Fyrst er það opinberanin, sem Maríu frá Magdala veittist snemma á páskadag. Þrátt fyrir vitnisburð engilsins var hún enn hrædd og þorði ekki að trúa. Ein síns liðs birtist hún aftr við gröfina og er þá grátandi. Þá sér hún þar í gröfinni tvo engla, sem ávörpuðu hana og spurðu, hví hún gréti. Hún svaraði: "Af því búið er að taka burt drottinn minn, og eg veit ekki, hvar hann hefir verið lagður." Og er hún í sama bili leit aftur fyrir sig, sá hún mann, sem hún hugði vera vörð grasgarðsins, þar sem gröfin lá. Og þegar líka hann spurði hana, hvers vegna hún gréti og að hverjum hún væri að leita, hugsaði hún, að þessi maðr hefði tekið líkið, og bað hann að segja sér, hvar hann hefði lagt það, svo að hún gæti sótt það. Þá heyrði hún manninn ávarpa sig með nafni: "María!" og þá kannaðist hún við rödd og persónu meistarans Jesú. Hún flýtti sér samkvæmt boði Jesú til lærisveinanna og lét þá, hrifin af sælum fögnuði, vita, að hún hefði séð drottinn og að hann hefði við sig talað.

Næst og rétt á eftir þessari fyrstu opinberan lætur hinn upprisni Jesús hinar konurnar líka sjá sig. Hann mætir þeim, er þær ganga burt frá gröfinni, heilsar upp á þær og segir: "Sælar verið þér!" Og þær gengu til hans, föðmuðu fætur hans og veittu honum lotning.

Þriðja opinberanin veitist Pétri. Hennar er minst að eins með fám orðum af Lúkasi (24, 34) og af Páli postula (1. Kor. 15, 5). En frá hinum sérstöku atvikum við þá opinberan er ekkert skýrt á hvorugum staðnum. Og þess hefir verið til getið, að hún hafi verið veitt honum af svo persónulegum ástæðum, að ekki hafi þótt við eiga að skýra nákvæmar frá henni.

Fjórða opinberanin er sú, að hinum tveim lærisveinum veitist að kvöldi páskadagsins í þorpinu Emmaus, nokkrar mílur fyrir utan Jerúsalem, eftir að Jesús, þeim óþekktr,

hafði slegist í för þeirra fótgangandi út þangað, talað við þá um sorgarefnið, sem þeir voru að hugsa um og virða sameiginlega fyrir sér, og síðan gengið með þeim inn í þorpið, og sezt þar að máltíð með þeim. Sú saga sýnir betur en nokkuð annað, hvernig ástatt var fyrir öllum ástvinum Jesú, eftir að þeir höfðu misst hann frá sér í dauðann og þangað til þeir sannfærðust um upprisu hans. Þegar hann blessaði yfir brauðið við þessa ógleymanlegu máltíð í Emmaus, þá opnuðust augu þeirra, svo þeir þekktu hann. En þá hvarf hann þeim. Þeir flýttu sér fagnandi inn í höfuðborgina og fluttu hinum bræðrunum þessi tíðindi. En þá eru þeir líka búnir að fá sömu gleðifregnina úr annari átt og segja við hina tvo: "Drottinn er sannarlega upprisinn og hefir birzt Símoni."

En seinna um kvöldið sama kemr fyrir fimmta opinberanin. Og hún veitist tíu af postulunum ásamt svo og svo mörgum öðrum lærisveinum, sem með þeim voru saman safnaðir í herbergi einu í Jerúsalem fyrir lokuðum dyrum af ótta fyrir Gyðingum. Hann birtist þar allt í einu, ávarpar þá með hinni inndælu kveðju: "Friður sé með yðr!" sýnir þeim hendr sínar og síðu með merkjunum eftir krossfestinguna og spjótstunguna, lætr þá þreifa á sér, neytir fæðu að þeim ásjáandi, blæs á þá og býður þeim gjöf heilags anda, og gefr þeim vald til að boða mönnum fyrirgefning syndanna.

Viku síðar, næsta sunnudag á eftir, kemr sjötta opinberanin fyrir, og hún veitist sömu mönnunum á sama staðnum, en líka ellefta postulanum, Tómasi, sem ekki var viðstaddr, þegar drottinn kom að læstum dyrum til þeirra hinna á páskadagskvöldið. Og sú opinberan er augsýnilega langhelzt vegna Tómasar, lærisveinsins, sem örðugast allra átti með að trúa hinu mikla fagnaðarefni. En þegar hann loks fyrir þessa opinberan sannfærðist, þá hafa um leið augu hans opnast fyrir því, er síðan varð aðalatriðið í trúarkenning allra Jesú lærisveina, að Jesús, hinn krossfesti og upprisni, væri guð. Hann segir þá við meistarann í undran og tilbeiðslu: "Drottinn minn og guð minn!"

Sjöunda opinberanin er sú, sem veittist hinum sjö mönnum úr hópi lærisveinanna við strönd Genesaretvatns í Galí-

leu. Henni var samfara yfirnáttúrlegr fiskafli þar í vatninu og síðan máltíð á ströndinni. Og þá var það, að Jesús átti hið hjartnæma samtal við Pétr, hlustaði á hina þreföldu játning þess lærisveins um elsku hans sér til handa, tók hann opinberlega til náðar, setti hann aftr í heiðurssæti það meðal lærisveinanna, sem hann sökum afneitunarinnar á skírdgskvöld gat virzt hafa fyrirgjört algjörlega, en lét hann jafnframt vita um píslarvættisdauðann, sem á sínum tíma lægi fyrir honum.

Ef til vill tafarlaust á eftir þessum atburði, en að minnsta kosti mjög skömmu síðar, kemr fyrir áttunda opinberanin. Og það er á fjalli einu ónefndu í sama héraði — Galíleu. Og þá eru þar með postulunum meir en fimm hundruð aðrir lærisveinar viðstaddir. Sumir eru enn efablandnir, en sá efi hefir þá eflaust algjörlega horfið. Við það tækifæri kemur hinn upprisni með þessa yfirlýsing sjálfum sér viðvíkjandi: "Mér er gefið allt vald, bæði á himni og jörð," — og þetta boð til lærisveinanna allra: "Farið og gjörið allar þjóðir að lærisveinum, skírandi þá til nafns föðrsins og sonarins og heilags anda." — Þegar Páll postuli meir en tveim áruatugum síðar minnist þessa atburðar, þá segir hann, að flestir þessara fimm hundruð bræðra sé enn á lífi, en að sumir sé sofnaðir.

Níundu opinberunarinnar er að eins lauslega getið af sama postula, í 15. kapítula fyrra bréfsins til Korintumanna, rétt á eftir að hann hefir minnst hinna fimm hundruð bræðra. Og þessi eru orð hans: "*Þar eftir birtist hann Jakobi,* síðan öllum postulunum. Síðast allra opinberaðist hann einnig mér, eins og ótímabærum burði." Það er Jakob, forstöðumaður safnaðarins í Jerúsalem, er síðar varð, sem hér er átt við, bróðir drottins — eins og hann líka er nefndr, höfundr Jakobsbréfs.

Og þá er að eins eftir tíunda opinberanin, hin síðasta þeirra opinberana, er um er getið í nýja testamentinu á þessari vortíð á ævi lærisveinanna, sem liggr á milli páskadagsins og uppstigningardagsins. Og þessi tíunda og seinasta er einmitt sú, er endaði með himnaförinni. En um hana ætla eg ekkert frekar að tala nú.

Af yfirliti þessu yfir hinar ýmsu opinberanir Jesú á þessu sérstaka tímabili geta allir séð, að upprisu-undrið er

svo sterklega vottfastur atburður eins og mest má verða. En þrátt fyrir alla þessa vitnisburði hefir þeim orðróm verið leyft að berast út, að upprisan hafi aldrei átt sér stað. Og meðan kristin kirkja samkvæmt þessum vitnisburðum og með tilliti til hinnar andlegu upprisu, sem orðið hefir hvarvetna í lífi manna, þar sem þessum vitnisburðum hefir verið trúað, öld eftir öld boðar syndugum mönnum náð og fyrirgefning og hið eilífa líf í Jesú nafni, heldr vantrúin áfram að prédika mönnum lygaorðróminn gamla um það, að Jesús hafi aldrei upprisið, og notar hann eðlilega sem sönnun fyrir því, að kristindómrinn í heild sinni sé markleysa ein, — en jafnframt sem ástæðu fyrir því, að öllum sé óhætt að skjóta sér undan hinum siðferðilegu kröfum um iðran og afturhvarf, auðmýkt og helgan, sem koma til hvers einasta manns úr kristindómsáttinni.

Athugið nú, samkvæmt texta vorum, hvernig þessi sérstaki orðrómur, sem ævinlega er aðaltextinn fyrir prédikan vantrúarinnar, var til kominn. Þegar varðmennirnir við gröfina röknuðu við úr dái því, er þeir höfðu fallið í um leið og frelsarinn reis upp, og sáu, hvað orðið var, gengu þeir inn í borgina, og nokkrir þeirra fóru á fund æðstu prestanna og skýrðu þeim frá atburðinum. Það voru mikil og óvænt tíðindi fyrir þá eigi síðr en tíðindin um hið sama, sem konurnar sama morguninn fluttu lærisveinunum. En þó að lærisveinunum gengi seint og erfitt að trúa, þá gengu þessir fjandmenn Jesú undir eins úr skugga um það, að tíðindi þessi væri sönn. Þeir mundu miklu betur en lærisveinarnir eftir því, að Jesús hafði sagt það fyrir, að hann myndi upprísa. Og þegar þeir heyra það, sem varðmennirnir bera fram, eru þeir í engum vafa um, að sá spádómur Jesú hafi rætzt. Hefði þeir treyst sér að véfengja sögu varðmannanna, þá er enginn vafi á því, að þeir hefðu kært þá fyrir landsstjóranum og séð um, að hann léti refsa þeim harðlega. Það sýnist hafa komið fát á æðstu prestana, þegar þeir fengu þessi tíðindi. Þeir vita, hvar sannleikrinn liggr, en af því að sá sannleikr var þeim ógeðfeldari en allt annað, þá er fyrir þá áríðanda, að aftra útbreiðslu hans, þagga hann niðr, — ef unnt væri, deyða hann. Þeir ganga tafarlaust á ráðstefnu, og kom sér þar saman um að múta hermönnunum rómversku

til að segja, að þeir hafi sofnað á verði um nóttina og á meðan hafi lærisveinar Jesú komið og stolið líkinu. Það var allmikil áhætta fyrir varðmennina, að gjöra eins og æðstu prestarnir vildu. Því það lá vanalega dauðahegning við, ef hermenn sofnuðu á verði, eftir rómverskum lögum. En bæði var það, að féð, sem þeim var boðið, var mikið, og í annan stað lofuðu prestarnir því, að ef hin sanna saga bærist til eyrna landsstjórans, þá skyldi þeir sefa hann og gjöra varðmennina áhyggjulausa. Pílatus hafði orð á sér fyrir það, að það væri óhætt að bjóða honum mútu. Og að líkindum höfðu þeir þetta á bak við eyrað, þegar þeir kváðust mundu geta sefað hann, ef sannleikrinn yrði honum kunnr. Hermennirnir þágu mútuna og gjörðu sem þeim var sagt. Þannig hófst sagan um það, að Jesús hefði aldrei upp risið. "Og þessi orðrómr barst út meðal Gyðinga allt til þessa dags" — segir guðspjallamaðrinn.

Hugsið, góðir tilheyrendr, alvarlega um þennan orðróm, sem þannig var kveiktr í Gyðinga-mannfélaginu forðum, til þess út af honum að sjá sannleikann allan, sem liggr í þessum orðum, er rituð standa í 3. kapítula Jakobsbréfs: "Sjá, í hversu miklum skógi lítill neisti getur kveikt!" Það er mannstungan, að því leyti, sem hún lætr vanheilög, ljúgandi orð út frá sér ganga, sem hér er átt við; enda er áframhald þessara orða postulans þetta: "Tungan er og eldr, heimr fullr ranglætis." Hvað stórkostleg eyðilegging sú er, sem ein slík synd, lygin, getr komið til leiðar manna á meðal, sést víst aldrei eins ægilega vel eins og á sögunni um þennan orðróm, sem nefndr er í textanum. Því þessi orðrómr á eins langa sögu í heiminum eins og kristindómrinn,—sannleikrinn guðlegi og huggunarríki, sem með þessu móti átti að eyða og deyða. Og saga orðrómsins, ævisaga hans í mannkynssögunni, — það er hvorki meira né minna en saga vantrúarinnar, sagan um myrkraöflin í opinberri eða leynilegri baráttu á móti frelsiserindi kristinnar trúar víðsvegar um heim allt fram á þennan dag. Það er hryggileg eyðileggingarsaga. Allir, sem hafa risið upp á móti kristindóminum, hafa öld eftir öld hent gamla gyðinglega lygaorðróminn á lofti og ritað þann boðskap, sem í honum felst, á merki sitt: "Jesús hefir ekki risið upp frá dauðum. Sagan um upprisu hans er

að eins ævintýri, hjátrú, sem ekki á við neinn sannleik að styðjast." Og þegar þessum boðskap, þessum orðróm, var trúað, þá hafði kristindómrinn í heild sinni alls ekkert gildi framar fyrir þeim mönnum. Gyðingar kveiktu orðróminn fyrst upp, en hann barst smámsaman frá þeim út um allan heim. Það var alstaðar móttækileiki fyrir hann, þar sem menn voru ófáanlegir til að ganga að hinum siðferðislegu kröfum, sem kristindómrinn kemr ævinlega með til allra manna. Allir slíkir gleyptu bókstaflega við orðróm þessum eins og hverju óviðjafnanlegu evangelíi, enda er það sterkasta vopnið í höndum vantrúarinnar í öllum áttum heims enn í dag.

Eg leyfi mér í sambandi við þennan orðróm að minna á ævintýrið um Gyðinginn ganganda, sem gengr í ýmsum myndum nálega um öll lönd. Ein útgáfa þess ævintýris er í aðalatriðunum svona: Það var maðr einn af Gyðingakyni í Jerúsalem, sem Ahasverus hét, á þeim tíma, er píslarsaga Jesú gjörðist. Þegar Jesús var á krossgöngunni út til Golgata, lá leiðin fram hjá húsi hans, og nam hann þar dauðþreyttr staðar allra-snöggvast til að hvíla sig og studdi sig við dyrastaf hússins. En húseigandinn stjakaði við honum og skipaði honum burt. Þá á frelsarinn að hafa sagt: "Eg mun standa kyrr og hvílast, en þú skalt fara og vera á gangi allt til hins síðasta dags." Upp frá þeirri stundu gat maðr þessi hvergi haldið kyrru fyrir og flakkaði og flakkar enn borg úr borg og land úr landi heimsendanna á milli, og getr aldrei dáið. — Þetta ævintýri minnir sterklega á orðróminn syndsamlega og hryggilega, sem nefndr er í texta vorum, því á bak við þann orðróm stendr hin mikla synd, sem Gyðingaþjóðin drýgði í móti frelsaranum og sannleikanum og sjálfri sér, synd vantrúarinnar, sem krossfesti Jesúm, og gjörði síðan það, sem hún gat, til þess að aftra því, að fagnaðarerindið um upprisu hans yrði viðrkent sem sannleikr. Þetta er Gyðingrinn gangandi. Og hann hefir heimsótt vora þjóð eins og allar aðrar þjóðir, sem til sín hafa fengið sáluhjálparorð kristindómsins. Og hann hefir vafalaust aldrei eins augsýnilega verið á ferðinni eins og einmitt á vorri tíð. En það er heilög skylda allra kristinna manna að hjálpa honum til að geta fengið hvíld, hjálpa honum til að deyja. Hann

deyr hjá öllum þeim, sem í fullri hjartans alvöru ganga Jesú á hönd, helga honum lífið sitt, og láta orðið hans vera ljós á sínum vegum og lampa sinna fóta.

En á eitt er enn að minnast. Það bar ekkert á Gyðingnum ganganda framan af í sögu kristninnar. Æventýrið um hann sýnist ekki hafa komið upp fyrr en einhvern tíma á miðöldunum, en seinna varð það alheimseign. Og lygasagan um það, að Jesús hefði aldrei upprisið, komst ekki í hámæli fyrr en svo og svo löngu eftir að hún var búin til. Hún fór framan af huldu höfði. Vitnisburðirnir mörgu hinna áreiðanlegu sjónar- og heyrnarvotta að opinberunum hins upprisna voru svo sterkir, að meðan þeir menn allir eða flestir voru á lífi, var nálega óhugsanlegt, að þeim yrði hrundið eða þeir gjörðir að ósannindum í augum manna þeirra, sem á annað borð viðurkendu nokkuð yfirnáttúrlegt í tilverunni. En því lengr sem frá leið, því meira tækifæri hafði lygasagan til að gjöra sig trúanlega. Og svo fór hún þá smámsaman að verða opinber orðrómr, sem allt af dreifðist meir og meir út. En nákvæmlega eins hafa menn allt af farið að, þegar þeir hafa verið að kveikja upp einhvern lygaorðróm og lagt kapp á að sjá honum farborða. Menn sögðu ósannindin ekki upphátt, eða að minsta kosti ekki þar, sem líkr voru fyrir því, að þeim yrði hrundið. Menn byrjuðu oftast að eins með dylgjum, ef á annað borð var upphátt talað, en sáu um, að dylgjurnar skildist, þó að ekki yrði neitt á þeim haft, og örðugt eða ómögulegt væri að mótmæla þeim. Og allt af urðu einhverjir til að trúa þessu rósamáli og færa tíðindin, sem það innihélt, úr líkingarbúningnum. Og þar með var þá og þegar orðinn úr þessu reglulegr orðrómr, sem dreifðist svo og svo langt út, sannleikanum til niðurdreps eða að minnsta kosti til ákaflega mikils hnekkis, og ef til vill mörgum góðum manni til stór-mikils andlegs sársauka og nálega óbætanlegs tjóns. Hafi allir það hugfast, hve óheyrilega mikið skaðræði getr leitt af öllum slíkum tungunnar syndum. Hve einstök slík synd getr orðið Gyðingrinn gangandi í nýrri útgáfu. Og hann kemr lifandi fram á dómsdegi, sá gangandi Gyðingr, og hrópar harðan drottinlegan dóm yfir þeim manni, sem upphaflega hleypti honum á stað, nema því að eins að sá hinn sami maðr, meðan náðartíminn stendr yfir, hafi gjört

hjartanlega iðran og yfirbót í nafni hins krossfesta og upprisna Jesú Krists.

Orðrómrinn, sem æðstu prestar Gyðinga hleyptu á gang út á meðal almennings þjóðar sinnar, um það, að Jesús hefði aldrei upp risið, þýddi sama sem andlegan eld til eyðileggingar gjörvöllum sannindum kristinnar trúar. Hvar sem þeim orðróm var trúað, þar var engin von um það, að nein kristindómsplanta gæti sprottið upp á akri mannlegs lífs. Eða ef orðrómrinn næði sér niðri hjá mönnum eftir að búið var að sá hinu andlega fræi kristindómsorðsins og það komið upp og orðið að svo og svo þroskuðum gróðri, þá myndi hjá þeim sömu mönnum allt það líf, allr sá andlegi gróðr, visna upp og deyja. Því upprisa Jesú staðfestir kristindómsopinberanina alla eins og guðlegan sannleik. Og þegar sú staðfesting er orðin að engu í hugum manna, þá er fyrir þeim kristindómrinn orðinn að engu, eða þó í rauninni minna en ekki neitt, verra en ekki neitt: — svik og tál. — En muni nú allir eftir því, að allir kristnir menn hafa heilaga skyldu til að láta persónulegan vitnisburð út ganga frá sér til staðfestingar, að Jesús Kristr sé sannarlega frá dauðum upprisinn. Lífið þeirra daglega á að vera slíkur vitnisburðr, — syndhatanda líf, sannleikselskanda líf, sjálfsafneitunarinnar líf, kærleikans líf, — líf, sem ber þess merki, að andleg upprisa hafi hjá þeim fram farið, sé stöðugt að fara fram. Hin ljúgandi orð bera ekki vott um það. En ekki að eins tungunnar syndir koma hér til greina, heldr líka öll önnur syndaþjónusta. Alt slíkt háttalag hjá mönnum með kristnu nafni styðr orðróminn, sem forðum var kveiktr meðal Gyðinga, um það, að upprisa Jesú væri ósannindi.

Látið í guðs bænum, allir þér, sem kallið yðr kristna menn, lífið yðar ekki vera þannig lagað, að það styðji vantrúna í þeirri staðhæfing, að þessi lygaorðrómr sé sannr, heldr þannig, að það styðji vitnisburði postulanna og guðspjallamannanna um það, að Jesús sé í sannleika upprisinn og að öllum þar af leiðanda sé óhætt að trúa huggunarorðum kristindómsins í lífi og dauða.

# Þýðing upprisunnar

Lúk. 24:13-35.

Páskahátíðin er komin, og með henni oss öllum enn einu sinni á hinni jarðnesku æfi vorri upprunninn hinn dýrðlegasti, bjartasti, fagnaðarríkasti dagr, sem til er á árinu. Hann er svo bjartr, þessi hátíðardagr, að þó himininn á þeim degi eðlilega, eins og á öllum öðrum dögum, geti á þeim eða þeim staðnum verið hulinn þykkum skýflóka, allt loftið alskýjað, þá geta samt augu vor horft í gegn um hina skýjuðu hvelfing, horft út fyrir gjörvalla heimsvíðáttuna, burt úr tímanum og inn í hina endalausu eilífð, og þar sigrihrósandi og vonglaðir skoðað guðs dýrð. Hann er svo einkennilega bjartr, þessi blessaði drottins dagr, að þó að kvöldsett verði á honum, eins og öllum öðrum dögum, og nóttin að honum útlíðanda, eins og á hverjum öðrum ársins sólarhring, breiði sig út yfir láð og lög, þá er vanalegr, tilsettr tími er kominn, þá getr mannsaugað eins fyrir því horft út fyrir öll jarðnesk endimörk og í tilbeiðslu og lofsyngjanda þakklæti séð guð almáttugan hátt, hátt uppi í hans eilífu dýrð. Hún er svo einkennileg og einstakleg, birtan, sem skín út frá páskahátíðinni og sem guð hefir klætt hana í eins og annað fat, að fyrir þá birtu getr jafnvel hin dimma nótt í náttúrunni og mannlífinu orðið sem dagr, ljómandi sólskinsdagr. Og það er meira að segja fyrir ljósið, er leiftrar út frá páskahátíðinni, einatt auðveldara frá myrkum mannlífsstöðvum, úr dimmu jarðnesku náttmyrkrinu, að sjá og skoða hina guðlegu dýrð inni í eilífðinni, heldr en um hádag eða þá er ekki ber neinn skugga yfir jarðlífstilveruna, þar sem maðr er staddr. Það er andleg birta, guðs eigin kærleiksbirta, sem páskahátíðin æfinlega kemr með, og oss er aldrei eins auðgefið að taka eftir henni eins og eftir að degi er tekið að halla, nóttin tekin til að umkringja mann, og hið náttúrlega sólarljós þannig ekki að neinu leyti getr villt fyrir. Það er mannssálinni ósjálfrátt að fælast myrkrið í náttúrunni. Litlu blessuð börnin fara að gráta, ef þau eru skilin ein eftir í myrkrinu. Og þó er oss öllum hitt enn meira kunnugt, að

þá er nótt verðr í voru eigin lífi, þá er mótlæti og kross steðjar að, sál vor stödd mitt uppi í sinni píslarsögu, vill þessi sama vesalings sál fyllast ótta og angist. En samt stendr hitt eins guðlega og gleðilega fast fyrir því, að aldrei tökum vér eins vel eftir hinu bjarta fagnaðarefni, sem ár og síð og alla tíð streymir út frá páskahátíðinni, eins og einmitt á slíkum dimmum mótlætis-nóttum í vorri eigin æfisögu. Eða ef einhverjir í hópi minna núverandi tilheyrenda hafa ekki sjálfir enn upplifað neina þvílíka nótt, ekki enn sjálfir neitt verulega haft að segja af mótlæti, þjáningum eða sorg, þá, til þess að ganga úr skugga um það, sem eg sagði, líti þeir í kring um sig og athugi, hvort það muni ekki fremr hafa verið á hinum dimmu en björtu tíðum æfinnar, fremr í mótlætinu en í meðlætinu, að þeir menn, sem nú hafa næmast auga fyrir hinni himnesku dýrð guðs, lærðu að meta og elska hið yfirnáttúrlega ljós, sem páskahátíðinni tilheyrir og er henni æfinlega samferða. Gangið til allra þeirra manna, sem þér þekkið bezt kristna, mezt með hugann á himnum, næst guði í gjörvöllu lífi sínu, og munið þér sannfærast um, að það var langhelzt á hinni dimmu raunatíð þrenginganna, að birtan frá páskaevangelíi kristilegrar kirkju skein inn í sálir þeirra með sínum fullkomna guðlega ljóma. — Fjarri sé því, að eg með allan minn margreynda veikleik, að því er til trúarinnar kemr, láti mér detta í hug að fara að prédika sjálfan mig; en það skal eg engu að síðr segja nú, með hinn himneska gleðiboðskap páskahátíðarinnar í huga mér, að eg get hiklaust vitnað það af eigin lífsreynslu frammi fyrir öllum þessum söfnuði, að dýrðin drottins guðs almáttugs, sem opinberaðist og streymdi inn í hinn jarðneska mannheim með undri hins fyrsta kristna páskadags, sést fyrst með sinni fegrstu og fullkomnustu birtu, þá er mannssálin er stödd í skuggadal dauðans. Og er eg hugsa um þetta með lofgjörð í hjartanu fyrir þá náð, að hafa á hinni dimmustu mótlætisnótt séð sól hins eilífa frelsanda kærleika roða á fjöllunum framundan mér í tímanum, þá skal eg láta vera að telja það neitt óheppilegt eða illa við eiganda, að vér í þetta skifti minna eigin kringumstæðna vegna höldum vora aðalpáskguðsþjónustu að kvöldi dags í staðinn fyrir að morgni, eins og vanalegt er út

af því ógleymanlega atviki, að páskadagsundrið, upprisan drottins vors Jesú Krists, var samfara upprennandi sólu þennan fyrsta mikla drottins dag. Það var að kvöldi þess dags, að hin inndæla angrblíða páskalexía gjörðist, sem eg hefi fyrir texta. Það var á hinu fyrsta páskadagskvöldi í sögu kristilegrar kirkju, að frelsarinn nýupprisinn slóst í för með hinum tveimr lærisveinum sínum, er þeir á milli ótta og vonar, hins hræðilegasta ótta og hinnar gleðilegustu vonar sem hér um bil er unnt að hugsa sér, ráfuðu fótgangandi út úr hinni helgu borg, þar sem hin mikla harmsaga hafði svo nýlega gjörzt, til hins litla þorps þar úti á landsbyggðinni. Hann gefr sig á tal við þá um hið óskiljanlega sorgarefni, sem fyllti huga þeirra og sem þeir höfðu sjálfir verið að skoða hvor með öðrum; en þeir þekktu hann ekki. Það var unaðsfullt aðdráttarafl í orðum hins óþekkta manns, og þótt hann ávítaði þá fyrir fávizku og trúartregðu, þá brunnu samt hjörtu þeirra af einhverri slíkri sælutilfinning mitt í sorginni, að það var eins og guð almáttugr friðarins og huggunarinnar og vonarinnar eilífi drottinn, væri þarna hjá þeim — eins og hann líka í sannleika var, þótt augu þeirra væri svo haldin, að þeir um hríð gátu eigi þekkt hann. Aldrei fyr á jarðríki höfðu eyru dauðlegra manna heyrt eins fagnaðarríka og vonarfulla prédikan og þá, er hinn óþekkti samferðamaðr boðaði þessum tveim. Aldrei fyr hafði þvílíkt ljós ljómað út frá ritningum gamla testamentisins svo að segja frá upphafi til enda eins og nú, er hann, þessi óþekkti maðr, fór að tala. Aldrei höfðu spádómar hinna miklu guðsmanna frá liðnum öldum um hinn fyrirheitna Messías legið eins opnir fyrir leitandi og náðarþurfa mannssálum eins og í þetta skifti, er hann útlagði fyrir þeim þessar helgu ritningar. Við orð hans í þetta sinn var eins og allr sá spámannlegi boðskapr ummyndaðist gjörsamlega, svo að nálega hvert orð og hver lína varð að himneskri, guðlegri svalalind, þar sem sá boðskapr áðr, er hann í huga þeirra var settr í samband við hina hræðilegu nýafstöðnu harmsögu, hina grátlegu píslarsögu lærimeistara þeirra, Jesú frá Nazaret, nálega hafði tekið frá þeim alla von, rétt eins og varpað þeim út á andlega dauðans eyðimörk. Þvílík orð! Þvílík biblíuþýðing! þvílík blessuð ummyndan á hinu sárasta sorgarefni til inn-

dælustu fagnaðartíðinda! Þvílík huggun; Þvílíkt ljós yfir almyrkvaða tilveruna! Þvílík himnesk sending, að fá annan eins mann í för með sér einmitt þá, er elskandi, áhyggjufullum, syrgjandi, dauðhræddum mannshjörtunum lá svo mikið á! — Áðr en þeir vita af, eru þeir komnir fast að þorpinu, sem þeir ætluðu til. En hve undr fljótt hafði tíminn liðið, og nú verða þeir að missa hann, því það leit út fyrir að hann ætlaði lengra. Það var farið að verða kvöldsett, og hið vaxanda rökkr minnti þá óðar aftr á sorgarefnið mikla. Það hafði þennan örstutta tíma, sem hann var með þeim, fengið yfir sig blessaða huggunarbirtu, en sú birta myndi með nóttinni upprennandi brátt hverfa aftr, rétt eins og þegar stjörnuhrap verðr, óðar en hann væri burtu frá þeim. Og svo kemr þá bæn þeirra til hans svo undr náttúrlega: "Vertu hjá oss, því að kvölda tekr og á daginn líðr." Hún var þeim veitt, þessi bæn. Hann fór með þeim inn í þorpið, settist til borðs með þeim, og er hann blessaði brauðið við máltíð þessa, braut það og deildi því meðal þeirra, opnuðust augu þeirra, svo þeir þekktu hann. Nú er þeim óhætt, þó að hann skilji við þá líkamlega, því að nú er albjart orðið í sálum þeirra. Sól réttlætisins er þeim fyrir fullt og fast upprunnin og sendir héðan í frá sína mildu vonargeisla inn í sálir þeirra. Þeir hræðast eigi lengr myrkrið og nóttina, er, samkvæmt því, er hinn krossfesti og upprisni frelsari hafði sagt fyrir, lá fyrir þeim öllum, lærisveinunum, meðan þeir voru að grundvalla ríki hans í heiminum. Í sólarljósi upprisunnar sáu þeir hann veranda með sér andlega allt til enda, eins og hann á þessu fyrsta páskadagskvöldi hafði verið þeim samferða milli Jerúsalem og Emmaus, þó að þeir þá ekki þekktu hann. Með sólarljós upprisunnar yfir sálum sínum geta þeir allir, lærisveinarnir, í voninni sigrihrósandi, þá er tíminn er kominn, gengið fram á móti heimsmyrkrinu og inn í það, hvervetna heilsandi upp á frelsisþurfa, syndum og sorgum hlaðna menn með hinni fagnaðarríkustu kveðju, er heyrzt hefir á jarðríki: 'Drottinn er sannarlega upprisinn!"

Eg byrjaði mál mitt með að segja, að í dag væri dýrðlegasti, bjartasti og fagnaðarríkasti dagrinn á árshringnum, og svo hefi eg gjört almenna grein fyrir því, hvers vegna

dagr þessi má skoðast þannig. Það er upprisuevangelíum mannkynsfrelsarans Jesú Krists, sem gjört hefir þennan hátíðardag að hinum mikla drottinsdegi, konunginum á meðal allra ársins daga, virku daganna, sunnudaganna og allra annara hátíðardaga. Ef vér, eins og svo vel á við, viljum líkja hinum ýmsu drottinsdögum og öðrum kristilegum hátíðum ársins við fjallhnúka, er vísa upp frá láglendi jarðarinnar, það er að segja láglendi því, sem vér erum staddir á meðan vér á hinum svokölluðu virku dögum stöndum mitt uppi í líkamlegri vinnu vorri fyrir daglegu brauði, — þá er þennan mikla drottinsdag, páskadaginn, að skoða sem himingnæfanda fjalltind, sem nær hátt upp yfir alla hina fjallhnúkana, rétt eins og einn heimsfrægr tindr í Himalajafjöllum gnæfir upp yfir hverja einustu aðra nýpu í því stórkostlegasta og hátignarlegasta fjallakerfi á gjörvallri jörðinni. Það er bjart uppi á öllum þessum andlegu fjöllum tímans — sunnudögunum og öðrum kristilegum hátíðardögum, — bjart fyrir þá sök, að það eru stöðugir guðsþjónustudagar víðsvegar um hinn kristna heim, dagar, sem sérstaklega eru helgaðir boðskap hins kristilega fagnaðarerindis, dagar, sem friðað er um af frelsisorði drottins, svo að þreyttar og mæddar sálir syndugra manna geta þá fullkomlega notið hinnar blessuðu hvíldar í guði. En páskadagrinn er að því leyti frábrugðinn öllum hinum sunnudögunum og hátíðardögunum, að frá honum einum fá þeir allir hina himnesku birtu sína, rétt eins og pláneturnar í sólkerfi voru frá hinni sameiginlegu sól þeirra. Hann er faðir þeirra allra. Hann úthellir sínu bjarta ljósi yfir þá alla. Hugsið yðr allrasnöggvast, að páskadagrinn með sínum inndæla boðskap um upprisuna drottins Jesú væri allt í einu horfinn burt úr jarðlífstilverunni og kristilegri kirkju. Það myndi þýða nákvæmlega hið sama fyrir oss kristna menn og mannheiminn í heild sinni eins og ef sól vor hin náttúrlega væri tekin burt af himninum. Það yrði aldimmt þá á jarðríki. Það yrði andlegr dauði, þar sem nú er kristilegt líf. Dagrinn, sem hófst hér niðri í lágum jarðarbyggðum með frelsara heimsins, drottni Jesú Kristi, yrði að nótt, jafn-dimmri dauðanótt og grúfði yfir löndum og þjóðum á hinum fornu heiðindómsöldum og grúfir enn yfir hvervetna þar sem hinn krossfesti

og upprisni Jesús er mannssálunum enn óþekktr. Hvað var það, sem hinir tveir lærisveinar texta vors á kvöldi þessa hátíðardags kviðu svo sárlega fyrir og fylltust þvílíkrar angistar út af, áðr en hinn óþekkti maðr slóst í för með þeim þar á landsbyggðinni fyrir utan Jerúsalem? Þeir kviðu fyrir því, að sú blessuð sólarbirta, sem þeir fengu yfir sálir sínar um leið og þeir í trú, von og kærleika gengu Jesú á hönd sem lærisveinar hans, en sem þeir misstu á svo grátlegan hátt við dauða hans, myndi aldrei aftr yfir þá geta komið. Þeir kviðu fyrir nótt vonleysisins, sem óumflýjanlega hefði af því leitt, hefði frelsarinn þeirra og vor aldrei upprisið frá dauðum. Og þessari sömu örvæntingarnótt mættum vér allir með gjörvallri kristninni kvíða og kveina út af, svo framarlega sem vantrúnni og kristindómshatrinu tækist að slökkva hið guðlega ljós, sem upprisuevangelíum páskahátíðarinnar forðum kveikti hér á jarðríki og nú eftir allar þessar mörgu aldir lýsir inn í sálir milíóna af mönnum víðsvegar um löndin með sömu blessaðri vonarbirtunni eins og í hinum upphaflega smáhópi Jesú lærisveina, þá hvað glaðast, er öll önnur ljós eru útslokknuð.

Það er stundum spurt að því, hvað í trúarlegu tilliti útheimtist til þess að geta verið kristinn maðr; því það er oftast gengið út frá því, eins og líka rétt er, að þó að sá eða sá maðrinn hafi rangan skilning á ýmsu í guðs orði biblíunnar og kristindómsins, hafi að einhverju leyti villzt á ýmsum atriðum trúarlærdóms vors, þá hljóti hann þó að geta verið kristinn maðr. Auðvitað munu allir vel uppfræddir kristnir menn hafa hugmynd um það, að nálega hver minnsta afbökun á hinu opinberaða orði drottins geti, ef illa er með farið, orðið til þess, að sá maðr, sem slíkt á heima hjá, missi sinn kristindóm, verði viðskila við frelsarann, hætti að vera kristinn maðr. En um slíkt er eiginlega ekki að ræða í þessu sambandi, heldr um hitt, hvað það sé, sem undir öllum kringumstæðum þarf að vera trúarleg eign hvers einasta manns til þess hann í sannleika megi kristinn nefnast. Það er sama sem að spyrja, hvað sé aðalatriði kristinnar trúar, og um leið undirstaðan undir gjörvallri kristindómskenningunni. Það liggr aldrei nær að athuga þetta en einmitt á vorri kristilegu páskahátíð, með því að hátíð þessi sjálf

kemr beinlínis með svarið. Upprisan drottins vors Jesú Krists, það er hún, sem frá upphafi hefir verið meginatriði kristinnar trúar og æfinlega mun verða. Það er upprisan frelsarans, sem gjörvallr trúarlærdómr kristilegrar kirkju hvílir á eins og ómissandi guðlegri undirstöðu. Það er upprisan drottins Jesú, sem innsiglar guðs orð allt í heilagri ritning vorri frá fyrstu bók Mósesar í gamla testamentinu til Opinberunarbókarinnar í nýja testamentinu og staðfestir það sem eilífan, óhagganlegan, guðlegan sannleika. Það er upprisan drottins Jesú, sem til daganna enda lætr hið spámannlega orð frá aðventutíð hins gamla sáttmála fá yfir sig sömu guðlegu sannleiks-birtuna eins og það fékk yfir sig fyrir trúarsjón hinna tveggja á páskadagsgöngu þeirra, eftir að hinn upprisni sjálfr hafði slegizt í för með þeim og tók til að útskýra þetta sama guðs orð. Fyrir upprisuna drottins varð hin grátlega píslarsaga Jesú að eilífum gleðiboðskap og guðlegri huggunarlind fyrir allar syndum og sorgum hlaðnar mannssálir. Án upprisunnar hefði gjörvallt guðs orð heilagrar ritningar reynzt tál, gjörvöll hin helga saga trúar vorrar reynzt tál, allt líf spámannanna og postulanna reynzt tál, og það, sem mestu, öllu, varðar — gjörvallt líf frelsarans sjálfs, öll hans kenning, allar bænir hans, öll hans fyrirheit, öll hans kvöl og allr hans óumræðilegi kærleikr til vor syndugra manna — allt, allt orðið hið sárgrætilegasta tál, sem saga mannkynsins á til í eigu sinni. Allt, sem vér köllum heilagt og guðlegt, félli og yrði eilíflega að engu, ef upprisan frelsara vors sannaðist að vera ósannindi, eins og vantrúin er að reyna til að slá föstu í meðvitund manna. Og þess vegna vitnar líka Páll postuli (í 1. Kor. 15): "Ef Kristr er ekki upprisinn, þá er kenning vor ónýt og trú yðar líka ónýt. En vér reynumst þá og ljúgvottar guðs, þar eð vér höfum vitnað um guð, að hann hafi uppvakið Krist, er hann ekki hefir uppvakið."

Hún var þeim öllum postulunum, upprisan drottins vors, aðalsönnunin og hið guðlega innsigli þess, að það trúarinnar orð, sem þeir í Jesú nafni prédikuðu bæði Gyðingum og Grikkjum og létu svo síðast flestallir lífið fyrir, væri heilagr sannleikr frá guði. Og hið sama innsigli mun þetta undr allra guðlegra undra halda áfram að vera svo lengi sem

talin verða aldir og ár hér í tímnum. Þessvegna, þegar postularnir að heilögum anda fengnum yfir sálir sínar á hvítasunnunni hófu sína kristindómsprédikan fyrir hinum ýmsu þjóðum eða mannflokkum heimsins, þá var það upprisan drottins vors Jesú Krists, sem þeir á undan öllu létu vera sitt prédikunarefni. Því eins og það var upprisan, sem sjálfum þeim hafði fært heim sanninn um það, að hinn elskaði meistari þeirra hefði verið og væri sá Messías, sem um var spáð í hinum helgu ritningum guðs útvöldu þjóðar, eins boðuðu þeir tilheyrendum sínum, hvar sem þeir voru að prédika, þetta mikla undr páskahátíðarinnar sem hina algildu sönnun fyrir því, að með hinum krossfesta Jesú frá Nazaret hefði mannkynið allt í heild sinni eins og líka hver einstök mannssál eignast guðlegan frelsara frá syndinni, dauðanum og djöflinum. Til að sannfærast um það, að svona mikla áherzlu lögðu postularnir á upprisu-undrið, þarf ekki annað en líta nálega hvar sem vill í bréf þau, er eftir postulana liggja í nýja testamentinu. Eg hefi þegar tilfært hin sterku orð Páls postula úr hinu fyrra bréfi hans til Korinþumanna, og ætla eg í þetta skipti að láta það nægja. Þar á móti skal eg í þessu sambandi minna á það, þótt eg búist við að það sé flestum í söfnuði þessum kunnugt, að sú kristilega hátíðin, sem til varð í kirkju drottins á undan öllum öðrum, var einmitt þessi, er vér höldum í dag. Og er hún var til orðin, þá smámsaman fæddust út af henni allar hinar kristilegu hátíðirnar á árshringnum, fyrir utan alla hina svo kölluðu drottins daga ársins, sem þá líka í fullkomnum og eiginlegum skilningi gátu heitið sunnudagar.

Allt þetta, sem eg nú hefi tekið fram, sýnir nægilega, að evangelíum páskadagsins ber réttilega að skoða sem hið mikla meginatriði hins kristilega trúarlærdóms. Vér getum líkt hinum ýmsu trúaratriðum kristindómsins við limina á mannlegum líkama, og bendir þá samlíking sú á þann mikilsverða sannleik, sem reyndar því miðr oft vill gleymast jafnvel innan sjálfrar kirkjunnar, að hinir einstöku lærdómar trúar vorrar standa í lifanda sambandi hver við annan, svo að sé einhver einn slíkr lærdómr látinn falla burt úr trúarmeðvitund vorri eða sé strykaðr út úr trúarjátningunni, þá þýðir það nákvæmlega hið sama eins og ef einhver limr,

fótr eða hönd, væri höggvinn af líkama vorum. Það er ekki sagt, að líkaminn missti lífið fyrir það, þótt vér værum þannig limlestir. Það lifa margir, þótt þeir verði fyrir þessu, en þeir lifa að eins sem fatlaðir menn. Og eins eru líka innan kirkju drottins til svo eða svo margir andlega fatlaðir menn út af því, að þeir hafa skorið burt úr trúarmeðvitund sinni eitt eða fleiri trúaratriði, sem í nánu lífssambandi standa við hið kristilega fagnaðarerindi í þess fullkomnu heild. Og aftr er vert að muna eftir því, að eins og á stundum ekki þarf annað en litla nálarstungu einhversstaðar á mannlegum líkama til þess að af því verði bráðdrepandi dauðamein, eins þarf einatt ekki nema smáafbökun á einhverju guðs orði kristilegrar opinberunar til þess að undirgrafa trúarlífið gjörsamlega og framleiða þar ólæknanda andlegan sjúkdóm og dauða. Það getr þannig farið illa fyrir þér, maðr, ef þú á þennan hátt meiðir eða særir kristnu trúna þína. Enginn sér þar algjörlega fyrir afleiðingarnar nema hinn alltsjáandi guð einn. En hitt á hverjum kristnum manni að vera auðséð, að láti einhver hið huggunarríka undr Krists upprisu týnast burt úr meðvitund trúar sinnar, slái einhver stryki vantrúarinnar yfir vort blessað páskaevangelíum, þá þýðir það í andlegu tilliti hið sama fyrir hann eins og það myndi þýða fyrir líkamlegt líf hans, ef stungið væri spjóti í hjarta hans eða kúlu skotið í gegnum heila hans. Því að það sem heilinn og hjartað er á meðal limanna eða líffæranna á mannlegum líkama, það er upprisan drottins vors Jesú Krists á meðal hinna ýmsu trúarlærdóma kristilegrar kirkju.

Svo prófi þá hver einstakr yðar, sem hingað hefir leitað í drottins hús á þessu páskadagskvöldi, trúna sína og hinar andlegu ástæður sínar með upprisu-evangelíinu drottins vors og frelsara. Ef þú í trú og ást heldr þessu evangelíi föstu í sálu þinni, þá skal myrkr syndarinnar, dauðans og grafarinnar ekki verða þér hræðilegt, því þú átt þá í andlegri eigu þinni ljós, sem þér er óhætt með að ganga út í dimma nóttina, og það skal verða himnesk friðandi birta yfir jafnvel þyngstu lífsreynslunni í þinni eigin æfisögu og yfir öllum þínum sárustu raunaspurningum. En sé þetta evangelíum farið, rekið á dyr eða glatað, úr sálu þinni, þá er öll þín trú

þar með orðin að engu, og jafnvel það, er þú telr þína æðstu lífsgleði, áðr en minnst varir orðið þitt hræðilegasta og sárgrætilegasta sorgarefni.

Rétt í því frelsarinn gaf upp andann á krossi sínum á Golgata, heyrðu þeir, sem umhverfis krossinn stóðu, þessi orð af vörum hans: Það er fullkomnað. Enginn skildi þá, hvað í þeim orðum lá. Þau sýndust þá að eins þýða það, að nú væri loksins þessar ógrlegu kvalir á enda. En eftir að páskaundrið var framkomið og ástvinir hins krossfesta höfðu fengið ljós upprisunnar yfir sálir sínar, fengu þeir hinn rétta og fullkomna skilning á þeim dularfullu orðum. Allt, sem um hinn fyrirheitna Messías hafði í Ísrael verið spáð í gegnum allar gamla testamentis-aldirnar, öll fyrirheitin frá almáttugum guði um sending mannkynsfrelsara í fylling tímans, öll hin helga saga guðs útvöldu þjóðar, allt hið guðlega vonarorð hinna fornu, helgu ritninga og spámannlegu sendiboða — allt var það nú í dauða Jesú á guðlegan hátt staðfest og í hverju einasta smáatriði fullkomnað. Nú loksins sást það til fulls, hvert allt þetta mikla og leyndardómsfulla í hinni heilögu sögu hafði stefnt. Það var nú guðleg birta yfir því öllu saman. Ljósið frá hinni opnuðu gröf drottins streymdi til baka yfir allar hinar liðnu aldirnar. Og er það ljós hafði kveikt verið af hendi hins almáttuga, þá var sem upprisuundrið sjálft bergmálaði þetta sama andláts orð frá hinum deyjanda mannkynsfrelsara: "Það er fullkomnað." Og bergmálið ómaði um leið sem spádómr, náandi út yfir allar ókomnar aldir, boðandi það, að þá er upprisu-evangelíið ljómaði í hjörtum trúaðra, þá myndi guð kærleikans líta svo á sem allt það, er lögmál drottins heimtar af syndugum manni, væri fullkomnað fyrir hans sakir, er fyrir syndugt mannkyn dó heilögum dauða á krossins tré á Golgata.

Eg líkti hinum kristilegu helgidögum vorum áðan við fjöllin á yfirborði jarðarinnar og páskahátíðinni við þann fjalltind, er hæst gnæfir í loft upp af öllum vorum jarðnesku fjöllum. Á þeim göfuga og guðlega fjalltindi guðs erum vér þá staddir nú við þessa páskaguðsþjónustu vora. Eitt göfugt trúarskáld í landi vors mikla Lúters, Karl Gerok, sem nú fyrir skömmu er látinn, hefir meðal sinna mörgu dýrðlegu kristindómsljóða orkt heilan flokk söngva út af ýmsum hinna

frægu fjalla, er nefnd eru í heilagri ritning sem helgar stöðvar guðlegra viðburða í sögu hinnar kristilegu opinberunar. Af slíkum háum helgistöðum skal eg nú að eins minna á Sínaí, þar sem Móses tók við lögmáli guðs, Nebó, þaðan er sami mikli guðsmaðrinn fékk að renna augum yfir landið fyrirheitna rétt áðr en hann andaðist, Tabor, þar sem Jesús ummyndaðist fyrir augum kærustu lærisveina sinna svo klæði hans urðu björt eins og snjór og andlit hans ljómaði í himneskri dýrð, hið ónefnda fjall, þar sem Jesús hélt sína ógleymanlegu fjallræðu, hið ónefnda fjall, þar sem hann var heila nótt á bæn til guðs. Golgata, þar sem hann hékk á krossinum og gaf upp andann, og Olíufjallið, þar sem hann á pálmadagsinnreið sinni til Jerúsalem grét yfir ókomnum örlögum borgarinnar, og þaðan er hann allra síðast, þá fyrir upprisuna dýrðlegr orðinn, sté upp til himins í viðrvist lærisveina sinna fagnandi og skýið tók hann frá augum þeirra. Frá hinum andlega fjalltindi, sem vér nú erum staddir á út af upprisu-evangelíinu frelsara vors Jesú Krists, getum vér í einu horft yfir alla þessa og alla aðra háa staði í æfisögu Jesú og hinni helgu sögu yfir höfuð að tala. Dýrð guðs er yfir þeim öllum, þá er á þá er horft í ljósi Jesú upprisu. Og um leið færast allir slíkir helgistaðir trúuðum mannsaugunum nær og nær, þar til þeir jafnvel rétt eins og renna saman í eitt, svo að hinar himingnæfandi andlegu stöðvar, þar sem vér erum staddir á þessu háheilaga kvöldi og sem upprisuevangelíum hins krossfesta Jesú Krists hefir látið verða til, eru undir eins fyrir sjálfa oss orðnar að nýju Sínaí, þar sem gjörvallt kærleikslögmál guðs blasir við oss í sinni vormildu dýrð, að nýju Nebó með óhindruðu útsýni inn í hið fyrirheitna land vort á himnum, að nýju Tabor, þar sem allt hið sorglega og erviða í vorri eigin æfisögu birtist augum vorum svo gleðilega ummyndað og heimsins grátlegasta sorgarsaga orðin að heimsins mesta gleðiboðskap, og enn fremr að nýju Golgata, en hinar dimmu dauðastöðvar þar eru nú orðnar að björtu höfuðbóli lífs og vonar. Ef tárin koma fram í augu vor út af hinu ýmsa grátlega í jarðlífshögum vorum, þá er enn fremr sem vér séum með Jesú staddir á fjallinu, þar sem hann grét yfir Jerúsalem; en fjallið breytist óðar í heilagt Olíufjall uppstigningarinnar. Í upp-

risuljósi drottins Jesú þorna sorgartárin brátt og vér förum ósjálfrátt fagnandi að mæna til himins og sálir vorar stíga með honum tilbiðjandi upp þangað, þar sem vér fyrir hans náð vitum að er vort rétta föðurland. Og svo verðr oss áþreifanlegt, að vér erum staddir á prédikunarfjallinu drottins, því það óma nú í eyrum vorum óteljandi raddir, sem boða oss, syndugum og náðarþurfa, blíðan boðskap guðlegrar fyrirgefningar og miskunnar. "Þegar eg verð hafinn frá jörðu, mun eg draga alla til mín" — segir Jesús (Jóh. 12, 32). Allir hinir lágu staðir guðsbarna lyftast með þeim sjálfum upp og verða í ljósi Jesú upprisu að dýrðlegum hæðum, sem svo jafnskjótt færast nær hinu andlega fjalli, sem vér erum staddir á á páskadaginn, og renna óðar saman við það. Og út frá allri þessari inndælu opinberan getr þá hið andlega háfjall, sem páskadags guðsjallið hefir látið rísa upp frá jarðlífsláglendinu og flogið með öll guðsbörn upp á, ekki annað en breytast í virkilegt bænarfjall fyrir hvern einasta kristinn mann. Með öll hin mildiríku fyrirheit hinna heilögu biblíuorða guðs í upprisuljósi páskaevangelíisins getr jafnvel hin veikasta trú og hið brothættasta mannshjarta ekki látið vera að biðja heitt og átakanlega fyrir sér og sínum, mannfélaginu sínu og kirkjunni sinni, og jafnvel fyrir syndugum og stríðanda mannheiminum öllum í einni heild — biðja með tilliti til myrkursins og kvöldskugganna á hinu jarðneska raunalandi líkt og hinir tveir lærisveinar texta vors á kvöldi hins fyrsta páskadags — biðja til Jesú út af óttanum fyrir því að verða undir dimma nóttina viðskila við hann: Vertu hjá oss, því að kvölda tekr og á deginn líðr!

Ef þér, syndugir menn, hafið hann, hinn upprisna frelsara, sjálfan með á pílagrímsförinni, sem eftir er, þá skal sú ferð heppnast, og hvorki kross né kvöl, hvorki sorg né mæða, hvorki sjúkdómr né fátækt, hvorki dauðinn né grafarmyrkrið verða yðr til vansælu eða farartálma. Með upprisuljósið drottins yfir sálum yðar skulu allar ófærur þessa jarðneska lífs verða að færum og farsælum brautum til eilífs lífs.

# Jón Bjarnason: tvö bréf

## Til Helga Hálfdánarsonar

I.

Decorah, Iowa, 15. jan. 1874.

Háttvirti, elskulegi vin!

Aðr en eg skildi við yðr, hafði eg heitið því, að láta yðr með nokkrum línum vita um hagi mína eftir að eg væri kominn hingað vestr. Það finn eg mér bæði ljúft og skylt að efna; og eftir því sem nú stendr á högum mínum er eg frá minni eigin hálfu neyddr til — ef nauðung skyldi kalla—, að tala við yðr fáein orð. Eg ætla að byrja miða þennan með því að óska yðr og öllum yðar gæfusams og gleðilegs nýárs, og það gjöri eg af hjarta. Af bréfum frá mér og konu minni, sem munu hafa komið til Reykjavíkr, með seinustu ferð póstskipsins í haust, hafið þér líklega frétt, að við komumst eftir fremr langa og leiðinlega ferð á land í heimsálfu þessari 27. sept.; þá lenti skip það, er við fluttumst á, í Point Leví, smábæ einum á syðri bakka Lórenzfljóts, andspænis Quebec. Þaðan fórum við með járnbraut næstu nótt til Montreal, sem er mikil borg við sömu á og að miklu leyti byggð af Frökkum. Komum við þar á sunnudagsmorgun og urðum því að bíða þar á hóteli einu til mánudags. Næsta dag héldum við áfram ferðinni, og komum þó ei fyr en 2. okt. árdegis til Milwaukee. Þar hittum við ýmsa landa og dvöldum hjá þeim til 8. s. m. Héldum við þá suðr til St. Louis, í gegnum Chicagó, þá miklu og margkynjuðu borg. Til St. Louis komum við 9. kl. nál. 11 um kvöldið, og gistum þar á þýzku hótelli, og vorum þar vel "trekt upp." Pál Þorláksson náðum við svo í næsta morgun. Hann kom okkur fyrir hjá konu kennara eins við skóla þar, fyrst um sinn. Sá hinn sami kennari, hafði Páll ritað mér, átti tal við okkr, en nú var hann í Evrópu: Norvegi og Þýzkalandi, í trúar- eða kirkjuerindum fyrir þessa svo kölluðu "norsk-lúthersku sýnódu", sem eg er kominn í tæri við. Þessi norska sýnóda er sátt og sammála við hina þýzku Missouri-sýnódu, sem

prestaskóli sá (Concordia University) heyrir til, er Páll Þorl. gengr á. Þessvegna hafa þessar kirkjudeildir slegið sér saman að því leyti, að auk þýzku stúdentanna ganga líka norsku stúdentarnir, er gengið hafa gegnum undirbúningsskóla norsku sýnódunnar hér í Decorah ("The Norwegian Lutheran College"). Þessi kennari (prófessor Schmidt), er við gistum hjá — eða konu hans — hefir allt þangað til í fyrra verið kennari við skólann hérna í Decorah; hann er þýzkur maðr, en er fyrir löngu af verunni hér orðinn "norrænaður". Þegar við komum vissi Páll ekki fyrir víst, hvað af okkur átti að gjöra: hvort við framvegis skyldum búa þarna hjá Schmidt eða fara eitthvað annað. Ritaði hann því formanni norsku sýnódunnar, Preus að nafni; en hann var þá sem oft í vísitazíuferð, svo ekkert svar kom. Þá reit hann presti einum hér í Decorah, Koren að nafni, sem hann var búinn að fá vitneskju um, að ætti eitthvað að fá með mig að gjöra. Fékk hann ekki svar frá honum fyr en eftir æði tíma, því einnig þessi klerkr var á ferðalagi. Loksins kom þó svar frá honum svo hljóðandi, að eg ætti að koma til hans ásamt konu minni. Þannig héldum við burt frá St. Louis um kvöldið 2. nóv. Var okkr ráðlagt að fara ekki með járnbraut, heldr með gufuskipi upp eftir Mississippi, og hugðu menn (einmitt norsku stúdentarnir við skólann), að sú ferð mundi ekki vera meir en 3 daga; en það fór öðru vísi, því að við komumst ekki hingað fyr en 13. s. m. Þessi tafsama ferð kom að nokkru leyti af því, að eitt skip þeirra, sem við fluttumst með, laskaðist, svo það varð að snúa aftr, en setja "passagera" í land og láta þá bíða nokkra daga eftir næsta skipi. Áin var líka orðin grunn og mjög vatnslítil af langvinnum þurkum, svo að stundum stóð allt grunn. Ekki þurftum við þó að kvarta um illa aðbúð á þessari skipsferð eins og á Atlantzhafi. Hér var allt svo elegant og íburðarmikið, að fram úr hófi keyrir. Þó urðum við fegin að sjá fyrir endann á þessari ferð. Koren prestr tók einkar vel á móti okkr og hefir síðan veitt okkr miðdegisverð hjá sér, en húsnæði gott þar í nánd ásamt því, sem við þurfum, t. a. m. eldivið, og það, sem við þurftum til snæðings kvölds og morguns. Í því tilliti getum við því verið vel ánægð; því hann hefir mjög látið sér ant um, að okkr skorti engan líkamlegan hlut,

sem við þurfum á að halda. Fáeinum dögum eftir að við komum, átti Koren ásamt 3 öðrum prestvígðum sýnódumönnum (þ. e. forstöðumanni skólans hér og 2 öðrum þar til heyrandi) með mér svo kallað "colloqvium" eða trúarsamtal, sem fyrir er skipað meðal þeirra og á að miða til þess, að þeir geti kynnt sér, ef hlutaðeigandi hefir aðrar trúarskoðanir en þeir. Þetta colloqvium var næsta formelt og *overfladiskt.* Minntust þeir þar við mig á fáein trúaratriði, helzt á ýms þau, er þá greinir á við ýms önnr lútersk kirkjufélög norsk hér í Ameríku. Fanst þeim þá, að eg mundi vera sammála við sig í öllu verulegu. En skömmu síðar þóttist Koren sjá, að eg væri ekki nógu hreinn í trúnni, og átti endr og sinnum tal við mig út af slíkum efnum. Fann eg það fljótt, að hann er einstrengilegri og ófrjálslyndari og jafnvel "fanatiskari" í trúarefnum en nokkr annar maðr, sem eg fyr hefi kynnst, og líka merkti eg það að hans skoðanir yfir höfuð eru skoðanir allrar sýnódunnar. Þannig álítr hann og yfir höfuð þetta kirkjufélag, að ekkert sé gott og gilt, allt fordæmanlegt og bölvað, sem ekki er alveg eftir orðum Lúters og hinna ströngustu Lúterana eftir hans dag. Trúarjátningum lútersku kirkjunnar fylgja þeir náttúrlega fast fram, en þeir ganga líka talsvert lengra, og hafa samið og samþykkt nákvæmar reglr fyrir flestum atriðum trúarinnar — miklu takmarkaðri en í symbolunum —, líka reglr fyrir réttri útskýring ritningarinnar, tínda saman úr fornlúterskum guðfræðisritum, sem hver prestr er skyldr til að fylgja í einu og öllu. Að Lúter hafi verið "infallibilis" uppástanda þeir ekki í orðum, en það er auðséð, að þeir hjartanlega trúa því og breyta rækilega þar eftir; þessvegna citera þeir hann á prédikunarstólnum sem álíka auctoritas eins og ritninguna. Symbola setja þeir í raun réttri ofar en ritninguna, því þeir heimta, að gengið sé út frá því sem gefnu, að hvert orð í þeim sé sem ritningarinnar. Þeir segjast fylgja þeim "qvia cum sacra scriptura consentiunt", ekki "qvia et quatenus". Þannig fylgja þeir því fast fram, að páfinn sé antikristrinn, af því það stendr í sumum játn. lútersku kirkjunnar og Lúter uppástóð að svo væri. Í því skyni er í einni opinberri kirkjubæn þeirra kafli, þar sem þess er beðið til guðs, að hann vilji troða páfann í Róm undir fótunum o. s. frv., sem

eg álít "blasfemí" og kristilegt hneyksli, hvað sem svo Lúter sagði í sinni tíð. Líka framfylgja þeir því, að ritningin sé inspíreruð upp á þann eldgamla orþódoxismi-máta, nl. að hvert orð sé þar eins bókstaflega ritað af heil. anda, eins og eg nú rita bréf þetta; ennfremr að ritningin *öll* sé ljós og skiljanleg ("klar"); ennfremr að allt eigi að skilja eftir orðunum. Af þessu síðasta uppástandi leiðir það, að þeir álíta náttúrufræði og stjörnufræði óguðleg vísindi, með því að þau, að þeirra ætlan, verða eigi samrýmd við bókstaf biblíunnar. Þannig hefir það verið uppástaðið hér í sýnódunni og að minnsta kosti gat eg heyrt það á Páli Þorlákssyni í haust, að hann var þeirrar skoðunar, að sólin gengi kringum jörðina, o. s. frv. Ýms casuistisk spursmál hefir verið umræða um meðal sýnódupresta á þeirra árlegu og missirislegu samkomum, og hefir resultatið oft verið undarlega villandi að minni skoðun. Um það leyti ófriðurinn mikli stóð yfir út af þrælamálinu, gáfu klerkar norsku sýnódunnar sig í að grenslast eftir, hver lærdómr ritningarinnar væri í þeirri grein. Varð það niðurstaðan, að þrælahald væri *ekki* syndsamlegt eftir ritningunni. Hafa þeir síðan haldið því fram af alefli, með því líka Missouri-sýnódan uppástóð það líka, en norska sýnódan kennir allt eftir henni. Centrum þeirrar sýnódu er háskólinn eða réttara prestaskólinn Concordia í St. Louis, en sú borg liggur í Missouri, sem var þrælaríki. Og þá er auðsætt hvernig skoðun þessi kom upp meðal klerkanna. Helzti maðr sýnódu þeirrar, og sem allir munu dansa eftir bæði hér og þar, er forstöðumaður skólans, Walter að nafni, höfundr að þýzkri húspostillu, og fl., eflaust gáfumaðr og að vissu leyti lærðr vel, en sjálfsagt ákaflega "ensidig". Hann er höfundr þessarar sterku "polemikr"-stefnu, sem geisar jafnvel meðal þynningja norsku sýnódunnar eins og logi yfir akr. Lærðir eru þeir hér að ætlan minni engir af Norðmönnum, nema ef það á að kallast lærdómr, að þeir kunna vel utan að allar sínar dogmatisku reglr, sem þeir hafa safnað samn úr fornlúterskum ritum, og eru orðin þau takmörk, er ekki má yfir fara. Exegetik þeirra er vitlaus og einhæf, enda taka þeir ekki notice af neinu nema því, sem rígbindr sig við hinn fornlúterska bókstaf. Af nýjari guðfræðisritum hafa þeir nálega ekkert, því þeir — mér liggr

við að segja — trúa á þá rétttrúuðu gömlu doðranta, sem þeir fá hjá antikvörum í Evrópu, en annars ekki, því nýjar útgáfr eru ekki til af þessum gömlu skrjóðum, af því enginn fylgir þeim lengr svo bókstaflega í Evrópu, sem ekki er von, þar sem svo ótalmargt betra og critiskara hefir verið præsenterað á seinni tímum. Segi eg þetta ekki af því, að eg hafi ekki alla respect fyrir þeim gömlu herrum, t. d. Chemnitz og Gerhard, en eg álít það vera *hlœgilegt,* að fyrirlíta allt hið marga góða, sem á síðari öldum hefir verið ritað í guðfræði. Til merkis um, hvað mjög þeir "útrera" sína kenningu get eg þess, að deila hefir verið meðal þeirra um það, hvort leyfilegt væri að taka rentr af lánsfé, og var það, að minnsta kosti um tíma, álitið rétttrúað, að rentr væru andstæðar kristindóminum. Þeir hanga í einstökum orðum ritningarinnar og bíta sig þar fasta og uppástanda í ósköpum, að sín ætlan sé hin eina rétta, jafnvel hin eina sanna og sáluhjálplega. Til dæmis upp á, hvað vel þeir nota biblíuna, skal eg geta þess, að á sunnudaginn var (1. e. þr.) prédikaði Larsen forstöðumaður skólans hér út af hlýðni barna við foreldra sína. Minntist hann þá þess, að í orðskviðum Salómons stæði, að augu þess manns, er væri óhlýðinn foreldrum sínum, skyldu hrafnar og ernir kroppa úr. Því til skýringar gat hann þess, að hótanir guðs kæmu ekki ávalt fram, sem kæmi af guðs langlundargeði við mennina, en þó hefðu menn "Syn for Sagn" á stundum: Þannig hefði ekki fyrir alllöngu hér í Ameríku maðr einn komið til prests síns, sem hann sagði hefði verið rétttrúaðr, og þar af réð eg, að hann hlýtr að hafa verið af norsku sýnódunni (því hún ein er að þeirra áliti hin sanna og rétta og fullkomna), og beðið hann um að gefa sig í hjónaband með unnustu sinni, fátækri stúlku. Prestrinn spurði, hvort foreldrar hans væru því samþykk; maðrinn sagði "nei", því föðr sínum þætti stúlkan svo fátæk. Þá gef eg ykkr heldr ekki saman, sagði prestr, að minnsta kosti ekki fyr en eg hefi talað við föðr þinn og reynt að fá samþykki hans. Með það var maðrinn þó ekki ánægðr, beið því ekki boðanna, heldr fór til annars prests (sem Larsen kallaði Sektprest) og fékk vígslu hans; gekk svo triumpherandi heim fram hjá húsi prestsins síns. En svo dó þessi maðr — eg veit ekki hvað löngu síðar — á þann

hátt, að hann druknaði í á einni. Lengi var leitað eftir líkinu og loks fannst það hjá eik nokkri, og þar var krummi að kroppa úr því augun. Þetta sagði Larsen væri augljós hefnd drottins og bókstafleg uppfylling hótunarorða þeirra, sem standa í orðskviðunum. Þetta kalla eg nú stórkostlegt hneyksli að brúka biblíuna þannig. Líka gat hann þess í þeirri ræðu að Kristr hafi höggið timbr, klofið brenni og sótt vatn meðan hann var í foreldrahúsum. Þetta þykir mér nú fremr "plat". Yfir höfuð eru þeir afar þunnir ræðumenn víst flestir. Í desember samdi eg nokkrar prédikanir eftir áskorun Korens og fékk honum á eftir til skoðunar, eftir ósk hans. Bað hann mig þá enn að semja eina (1. sd. e. þr.) til þess að flytja hana á eftir opinberlega. Gekkst eg undir það. Samdi eg ræðuna og áleit hana viðunanlega eftir því sem mér er lagið. Bað hann mig svo að sýna hana Larsen, forstöðumanni skólans hér og þjónandi presti að kirkju safnaðarins hér í bænum, því þar átti eg að flytja hana. Las eg hana upp fyrir Larsen, og er hann hafði hlýtt á hana til enda, kvað hann upp þann dóm, að ræðan hefði *svo mikla trúarvillu* inni að halda, að það dygði ekki að flytja hana. Gat hann þess um leið, að hinar fyrri ræður, er eg hafði samið, gætu vel verið eftir Tyrkja og heiðingja, svo lausar væru þær við allan kristindóm. — Þennan sama dóm endurtók Koren seinna við mig og það með enn harðari orðum. Vel veit eg það, að mér er í mörgu ábótavant, en þennan dóm get eg ekki vel gengið inn á. Ef guð lofar, skal eg seinna senda yður ræðu þá, er mér var meinað að halda. En helzta trúarvillan, sem þeir fundu í þessari ræðu, á að liggja í þessum orðum, er eg að gamni mínu tilfæri hér orðrétt. Ræðuthemaið er: "Vor Livs Opgave at lede efter Herren"; tala eg um það, að vér eigum að leita drottins í "musterinu", fyrst og fremst í kirkjunni í guðs orði og sakram.; þar næst einnig utan kirkju í *heiminum*: guðs opinberun í náttúrunni og að heiminn ætti að skoða sem guðs musteri, og loksins í *sjálfum oss*, því vér værum guðs musteri. Og að lyktum bæti eg við þessum orðum: "Men medens vi saaledes hele vort Liv igjennem leder efter Herren indeni os, i hans eget Tempel, medens vi i ydmyg Andagt beder ham ikke at forlade os, men bestandig boe hos os, lader os ikke glemme

vore Brödre og Söstre rundt omkring os, vore Medmennesker hist og her i den vide Verden. Lader os komme ihu, at ogsaa de ere Guds Templer, at ogsaa de paa samme Maade som vi ere bestemte til að bære den hellige Aand i deres Hjerter, at ogsaa dem vil Frelseren före til de saliges Himmel. Lader os da agsaa i blandt dem lede efter Herren. Lader os ære alt det gode og christelige, som vi opdager i deres Opförsel som en hellig Frugt af det guddommelige Sædekorn, der er nedlagt í deres Hjerter. Lader os elske og ynde alt det gode og guddommelige, alt det ædle og ophöjede, alt det skjönne og himmelske, alt det rene og christelige, som aabenbares i vore Medmennesker, disse Guds levende Templer, som ere opstaaede vidt og bredt i Verden. Jo mere vi forfærdes over Syndens Herredömme her paa Jorden, desto större Grund have vi til at glæde os over de guddommelige Frugter, som trives iblandt os, desto större Anledning til at takke og lovsynge Frelseren for det Liv, som han af sin Naade bestandig lader modnes her i Dödens Land." Svona hljóða þessi ásteytingarorð eftir mig. Að þau séu ókristileg, get eg ekki séð af þeim rökum, sem borin hafa verið fram. Fyrst um sinn ætla eg mér ekki að semja fleiri ræður; nóg er komið í fordæminguna, þó að ekki bæti eg við það. Það er ýmislegt, sem þeir vilja eg afsverji af mínum fyrri skoðunum, en eg pótestera. Eg átti tal við Larsen á jóladaginn — því hann var þá að reyna að laga mínar trúarskoðanir — um ýmislegt exegetiskt, sem hann útleggr öðru vísi en eg get aðhyllst. (Reyndar má hver hafa sínar skoðanir fyrir mér, en eg vil ekki taka við neinum skoðunum upp á Commandó). Það var t. a. m. í guðsp. á 2. sd. í aðd. Þar vill hann endilega að *eingöngu* sé talað um Krists komu til dómsins á efsta degi. Eg held mér þar til *yðar skýringar,* sem hinnar einu, er getr komist að, nl. að líka sé talað um Krists andl. komu eða endrkomu hans í óeiginlegum skilningi, þ. e. um opinberun valds og dýrðar hans í útbreiðslu og áhrifum ríkis hans (ennfr. skýr. yðar við Maths. 24, 29 sqq.). Að þetta hlýtur að vera svo, sýnir í Lúk, 21, 32 og í Math. hið tilsvarandi 24, 34, þar sem *genea* hlýtur að þýða generatio eða þeir, sem þá voru uppi, eftir réttri málvenju, en ekki eins og Larsen útleggur: Gyðing-

arnir. Sú skýring, sem eg gaf, sagði hann gæti ekki átt sér stað. Eg sagði, að þannig væri það þó útlagt af ýmsum, auk þess, sem mér fyndist það alveg rétt. "Nei," sagði hann, þeir sem svo útlegðu hlytu að vera "Guds Fjender" — því prótesteraði eg á móti — eða þá "taabelige Mennesker". Svona eru allar þeirra skoðanir herfilega einhæfar, og slíkr Intolerance keyrir beint fram úr hófi. Eg ber meira traust til *yðar* en nokkrs annars í trúmálum og veit vel, að þér eruð mjög svo fastheldinn við allar fornar skoðanir, sem geta staðist. Þegar nú mínar skoðanir eru fordæmdar, þær einmitt, sem eg veit fyrir víst, að þér hafið framfylgt og mýmargir aðrir, fyr og síðar, þá þykist eg vera ranglega ákærðr. Nú langar mig ósköp til að heyra yðar videtur. Þér megið gjarnan finna að við mig. Mín ætlun er og hefir verið sú, að víkja ekki frá minni sannfæringu, né dæma það fyrir villu, sem eg hefi aðhyllst eftir ítarlega yfirvegun, hvað sem það kostar. Mér er dauðilla við allar trúardeilr og eg ætla ekkert við þetta kirkjufélag að eiga, fái eg ekki að vera í friði. Veröldin er nógu stór samt, þó eg festist ekki hér. Mér líkar sem sagt fremr illa enn sem komið er við kirkjudeild þessa, en það kann að lagast, ellegar eg hverf burtu, sem þeim er held eg ekki um. Eg kvíði engu meðan heilsan er góð, bæði mín og konu minnar. En illt þykir mér í framandi landi að verða Íslandi til minnkunar. Verst er að vera bókalaus, eins og eg er hér nærri því. Eg hefi því miðr næsta lítið af mínum collegiis, því að eg hafði lánað næsta mikið af þeim norðr í land í fyrra og vegna klaufaskapar af póstvæseninu íslenzka komu þau eigi í tæka tíð til Rvíkr áðr en eg fór. En nú vona eg, að eg fái þær í vor. Þó hefi eg "exegesis" yðar yfir Matth. og Jóhannes. Líka hefi eg samanburð Melsteðs, sem mér hefir hvorttveggja verið til stuðnings; ennfremur allar þær ritgjörðir, sem eg samdi á prestaskólanum, ásamt athugasemdum, sem eg seinna hafði gjört við þær. Líka hefi eg hjá mér fyrirlestrinn yðar yfir pastoral theologiuna og Olshausens commentar yfir guðspjöllin og Acta. Fúslega vildi eg heyra yðar skoðun á "inspiration" og "perspicuitas" ritningarinnar, því að þau atriði hefi eg aldrei haft ástæðu til að heyra útlistuð af yðr. Melsteðs skoðun er hér dæmd argasta trúarvilla og mín

náttúrl. líka. Mér þykir illt að standa einn uppi vopnalítill móti æstum guðfræðingaher, sem lítr út fyrir að ekki vilji taka ástæðum, heldr heimta aðeins að maðr trúi í blindni. Það er annars engin furða, þó að mínar ræðr þyki lítt kristilegar, þegar t. a. m. Wallins prédikanir hér eru álitnar hálfheiðnar, Ingemann ekki kristilegt sálmaskáld og Balles lærdómsbók hneyksli í kirkjunni, ekki að tala um Mynster, Clausen og Martensen. Hér er almennt brúkuð við guðsþjónustr hin gamla Guldbergs sálmabók, sem þér eflaust þekkið vel. Það er bók, sem mér lízt ekki á — í formlegu tilliti er hún varla betri en grallarinn okkar gamli. Nú hafa þeir þó samið eða safnað til nýrrar sálmabókar, því í þessari Guldbergs-bók er svo margt af rationalistiskum sálmum, en upp í þessa nýju taka þeir allrahanda gömul skrípi að búningnum til, t. a. m. "Aleneste Gud i Himmerig", óbreyttan, og "Guds Godhed vil vi prise" dto. og fjölda annara eins, þó leitun sé á einni einustu strohpu mál- og metrisk-réttri í öllum sálminum. Svo mikil "mani" er hjá þeim í allt hið gamla, að þeir álíta *blasfemí* að fá þessar ófrýnilegu útleggingar í annað betra form. Hátíð er íslenzka sálmabókin nýja hjá þessari eymd. Söngrinn í kirkjunni hér er líka hálfaumr, og hefi eg nú aðeins verið í tveim hinna allra helztu. Hvergi eru enn komin orgel, en það er ekki von á ekki lengri tíma. Nálega 90 prestar munu vera í þessari sýnódu hingað og þangað út um Bandaríkin, flestir þó í Wisconsin, Iowa, Illinois og Minnesota. Sýnódan gefr hér út kirkjulegt tímarit í Decorah, er nú kemr út einu sinni í viku, þunnt og lélegt að minni ætlan. Í skóla þeirra hér eru um 180 lærisveinar, en fæstir þeirra ljúka sér af, sumir hætta í miðju kafi, og margir ganga hinn svo kallaða praktiska veg, þ. e. lesa hvorki latínu né grísku, en verða skólakennarar hér og hvar í söfnuðunum eða fara líka til St. Louis og studera þar tvö ár til að verða þar prestar (lítt lærðir náttúrlega). Auk þessarar norsku sýnódu eru til í Ameríku þrjú Skandinavisk kirkjufélög, sem sýnódan sífelt liggr í bitru og hatrsfullu stríði við: "den norsk-danske Conferense", sem hefir skóla í Minneapolis í Minnesota, "Augustana Sýnódan" (mestmegnis svensk) og "Ellingianerne" (norsk). Líklegt þykir mér, að öll þessi kirkjufélög séu meir eða minna veil og

sjálfsagt fanatisk og "ensidig". Slíkt myndast eðlilega þar sem trúar-Indifferentsen er á aðra síðuna. En allt um þetta er Ameríka af guði gjörð einstaklega vel úr garði, og óskaplegr munr held eg að sé að búa hér fyrir þann, sem búinn er að koma sér niðr eða á voru elskaða ættlandi. Eg ætla nú að enda þennan miða, sem er hroðað af og skömm að bjóða elskuðum kennara sínum. Fyrirgefið allan minn ófullkomlegleika nú eins og fyr. Eg trúi yðr fyrir öllu því, sem eg hefi látið í þessa bréfsómynd, og bið yðr geyma það flest allt eingöngu hjá yðr, því að sumt af því má alls ekki berast út, t. a. m. histórían úr prédikun Larsens o. s. frv. Eg bið yðr bera þeim meðkennendum yðar, kennrum mínum, Sigurði Melsteð og séra Hannesi, mína hjartans kveðju, og gjarnan megið þér segja þeim, að vel má svo fara, að eg verði orsök til þess, að prestaskólinn í Rvík verði fyrir lasti, en það er alveg á móti vilja mínum. — Eg kann yðr einlægt þakklæti fyrir allt, sem eg hefi getað af yðr lært fyr og síðar og mun ávalt geyma minningu yðar með hjartanlegri virðingu og elsku. Guð almáttugur gefi yðr og öllum yðar æfinlega farsæld og blessun. Með kærri kveðju frá konu minni til yðar og konu yðar, er eg sem fyr yðar elskandi

*Jón Bjarnason.*

29. jan. 1874. — Eg má til að bæta enn við fám orðum. Nú í viku hefir hér verið prestastefna sýnódunnar, er þeir kalla conferense. Byrjaði hún 22. þ. m. og var slitið í gær. Voru saman komnir eitthvað milli 30 og 40 klerkar og ræddu þeir með sér ýms málefni, er þeir interessera sig fyrir. Þó eg ekki hafi enn gengið í þeirra félag af ástæðum þeim, sem eg þegar hefi getið, var mér þó boðið að hlýða á umræðrnar, er stóðu yfir daglega frá kl. 9—12 og 3—6, og þar að auki prívat fundi á kvöldin 2—3 stundir, sem eg var ekki á. Helzta mál, sem þar var rætt, var: afturhvarfið, ekki urðu menn þar á eitt sáttir, enda fannst mér þeir vel flestir tala "svart". Þeir ganga náttúrlega langtum lengra í sínum dogmatisku distinctionum en biblían; en allt á að vera svo hárrétttrúað, og jafnaðarlega lesa þeir sínu máli til sönnunar langar klausr úr ritum Lúters eða hans nánustu eftirmanna, því ekkert annað hafa þeir í hávegum. Á þessari conferense

var prófessor Schmidt frá St. Louis, er eg fyr hefi um getið. Hann er mælskr maðr mjög og kveðr að honum meira í öllum dogmatiskum "debat" en nokkrum öðrum. En hann er líka eflaust fjarskalega "ensidig" rétt eins og hinir. Ekki líkaði honum — sagði hann — við guðfræðingana merkustu í Noregi, það er að segja sem theologa, t. a. m. Johnson og Caspari, sem hann kyntist í sumar, og yfir höfuð álítr hann, að lúterska eigi þar ekki heima, eins og náttúrlega hvergi í Evrópu! Þeir guðfræðingar ignorera alveg hér um bil hvert eitt og einasta vísindalegt guðfræðirit frá þessari öld. Strax eftir að eg kom hingað, spurði eg Koren, hvernig honum líkaði Olshausens commentar. Jú, hann áleit hann þá rétttrúaðan. En þegar eg seinna vildi sýna honum hans Opfattelse af Inspirationinni, þá var Olshausen orðinn svo rationalistiskr, að hann vildi ekki heyra neitt, hvað hann segir í þessu efni. Sömuleiðis — og þó miklu sterkar — "anbefalaði" hann mér Philippis Dogmatik. Hún átti þá að vera sú eina rétttrúaða bók í þeirri grein frá síðari tímum. Eg lánaði því þessa bók hjá kennara einum hér við skólann, til að athuga hvað hann kenndi um Inspiration ritningarinnar o. fl. Til minnar furðu sé eg þá, að Philippi hefir alls ekki sýnódutrú í þessu efni. Hann gjörir mun á "*Wörter*inspiration" og "*Wort*inspiration' ritningarinnar. Hinni fyrri hafnar hann um leið og hann ver hina síðari. Kennari einn hér við skólann, prófessor Landmark, norskr philolog (hinn eini maður af mentuðum Norðmönnum hér, sem eg hefi kynnst), sem alveg er laus við hina ógurlegu "Ensidighed" sýnódumanna, og sem ásamt konu sinni hefir verið okkr svo makalaust góðr og þægilegr), spurði nú meðan stóð á Conferense, prófessor Schmidt, hvaða exegese frá síðari tímum hann vildi helzt "anbefale". Schmidt svaraði fyrst með því að segja, að það væri komið undir því, hvort hann ætti við historisk-philologisk eða dogmatisk Exegese. Landmark hélt nú, að hin dogmatiska gæti ekki verið sönn, nema að hún væri byggð á hinni fyrnefndu. Loksins fékk hann út úr Schmidt, að Philippis commentar yfir Rómverjabréfið væri hið *einasta* í exegetiskri Litteratur hinna síðari tíma, sem mætti nota. Sjálfir duga þeir ekki til að producera neitt nýtt og þessvegna hafa þeir enga aðra guðfræðis-Litteratur

en Lúters verk og hinna ströngustu lútersku guðfræðinga á rammorþódoxiu-tímabilinu eftir hans daga. Það er einkennilegt að þeir vanrækja nærri því allar greinar guðfræðinnar nema domatikina og studium hennar er nú svo ensidigt, eins og þegar er sagt. Moral "anerkjende" þeir ekki sem vísindagrein í guðfræðinni, af því hinir fornu Lúteranar hafa ekki gjört það. Prestr einn kom hér um daginn inn til mín meðan á Conferensen stóð, sem eg hafði ofrlítið kynnst áðr. Ósjálfrátt komst eg í hnakkarifrildi við hann út úr trúarefnum eða kirkjumálefnum. Hann var að hefja kenningu sýnódunnar yfir skýin, og mér varð þá á að segja, að kenning hennar væri að vísu efalaust hálútersk, en eg ímyndaði mér þó, að henni gæti skeikað í ýmsum smáatriðum, og þessvegna yrði hún að vera auðmjúk og fordæma ekki allt of mjög öll önnur lútersk félög fyrir það þó þau greindi á við sýnóduna í ýmsu smávegis. Út af þessu varð hann óðr og uppvægr, en eg var einmitt, þegar maðrinn kom inn til mín, að lesa skýringu þá, sem eg hefi í collegíi eftir yður í Matt. 16, 18 og sömuleiðis í Olshausen, til samanburðar við það, sem sýnódan í sínum "rette Regler for Skriftens Udlæggelse" segir um þennan stað. Þar stendr meðal annars: "Naar de (þ. e. Katholikerne) siger, at Christus har erklæret Petrus for Klippe, saa fordreje de Herrens Ord. 'Petrus' betyder ikke en Klippe, men en Klippemand" o. s. frv. Því til sönnunar að sýnódan ekki í öllu væri fullkomin í "trúnni", benti eg nú klerknum á þetta, og vildi í því skyni sýna honum, hvað stæði í frumtextanum gríska. Náunginn sagðist nú reyndar ekki skilja grísku, því hann er einn af hinum praktisku prestlingum frá St. Louis, en samt uppástóð hann óðr og uppvægr, að *petros* annaðhvort væri adj.(!) eða í öllu falli ekki sama sem *petra*. Eg sagði honum, eg hefði einmitt daginn áður flett orðinu upp í tveim grískum orðabókum hjá prófessor Landmark og þar væri það útlagt með klettr eða steinn (=*petra*). Þá sagðist hann bera fyrir sig menn, sem hlytu að hafa vitað hina réttu þýðingu orðsins. Ennfremr sagði hann mín útlegging væri katólskt "Kjætteri". Eg minntist þess við hann, að Matt. guðspjall mundi hafa verið frumritað á ebresku, og komst eg þá að því, að hann vissi ekki um það. Svo var

maðrinn ákafr og ofsafenginn, að eg hélt hreint að hann mundi eta mig. Eg minnist þessa að gamni mínu til að sýna yðr, hvílíkr er andi sýnóduprestanna. Eg er ekki þar með að lasta þá fyrir að þeir séu vondir menn. Eg held þvert á móti að þeir vandi líferni sitt mjög mikið, en þeirra vandlæting er eflaust ekki "með skynsemd". — Ekkert veit eg enn, hvernig málum mínum lýkur hér; en von hefi eg nú um, að það verði afgjört jafnvel í næstu viku, eftir því sem eg í dag heyrði eftir Koren. Eg ætla að halda mínu striki og ekki láta troða upp á mig neinu, sem ekki er mín sannfæring. Eg þykist því aðeins eiga skilið að heita kristinn eftir lúterskri Opfattelse, að eg ekki breyti á móti minni samvizku. Eg styrktist svo mikið í gær í skoðunum mínum við að lesa í fyrirlestrum yðar innanginn til Matteusar guðspjalls (sem þér lásuð fyrir, þegar eg var í prestaskólanum). Að vera *"meira orþodox"* en þér í mínum kenningum — ef nokkrar verða — get eg ekki leyft mér, hvað sem þeir segja. Gjörið nú svo vel, er þér ritið mér, sem mig sárlangar eftir sem allra fyrst, að segja mér: hverjar vísindalegar guðfræðibækur frá nýjari tímum þér álítið allra beztar. Eg er búinn að sjá, að ættu þeir hér kost á að lesa yðar exegese, þá mundu þeir finna þar margt fordæmingarvert, sem eg gæti tilgreint nákvæmar, ef tími og rúm leyfði. — Miðinn er úti. Fyrirgefið líka þennan "appendix". Verið æfinlega falinn Drottins varðveizlu af yðar elskandi lærisveini

*Jóni Bjarnasyni.*

## II.

Decorah, Iowa, 5. maí 1874.

Háttvirti elskul. vin!

Hjartans þökk fyrir bréf yðar úr fyrstu póstskipsferðinni. Nú þarf eg ekki lengr að liggja í trúardeilum við klerklýð norsku sýnódunnar. Í byrjun febrúarmánaðar hættu kunningjar mínir að troða að mér hinum ofsafengnu orþodoxistisku trúarskoðunum sínum. Þeir voru þá búnir að sjá það út, að öll þeirra ofstæki hreif ekkert á mig, og hafa síðan verið mér náðugir. Um það leyti báðu þeir mig að taka að mér tímakennslu nokkra hér í skóla þeirra, einkum

í latínu, og sú kennsla mín hefir þó fundið svo mikla velþóknan í þeirra augum, að þeir hafa nú nýlega boðið mér reglulegt kennaraembætti framvegis með viðunanlegum kjörum. Þessu boði hefi eg ásett mér að taka, en þó ætla eg aðeins að binda mig hér fyrir næsta ár, því öll hin andlega stefna klerkalýðs þessa líkar mér enn sem fyr herfilega sökum ófrelsis þeirra og fanatisku skoðana nálega á öllum hlutum. Verði landar hér vestra þá komnir svo langt, að prestr geti lifað af því, að þjóna þeim, þá tekst eg líklega það á hendr; en verði það ekki, þá hverf eg þó líklega héðan burt, því prestr í sýnódu þessari hefi eg fyrir löngu ásett mér aldrei að verða og það jafnvel þótt þeir kunni eitthvað að slaka til, og það er mín fasta sannfæring, að Íslendingar, sem hingað vestr flytjast, eigi að varast að gefa sig í þetta kirkjufélag. Páll Þorláksson hefir allt aðra skoðun á þessu en eg, því hann unir svo einstaklega vel hinum fornlútersku bókstafsrembingi klerkanna norsku. Við höfum verið að rífast bréflega í allan vetr, en afleiðingin verðr eflaust ekki önnur en sú, að hvor situr við sinn keip. Hann hefir nú einu sinni svo mikið traust á þessum andlegu leiðtogum lýðsins í sýnódunni, að eg held að það séu ekki tiltök að raska þeirri sterku sannfæringu hans. Allir aðrir af Íslendingum hér vestra, sem nokkuð hugsa, að undanteknum hans nánustu ættingjum, vilja af alhuga forðast sýnódumenn sem mest, og nú er þó komið svo langt, að þeir hafa útvalið tvo menn til að leita sér uppi hentugt landnámssvæði hér vestur frá. Þannig vona eg, að nýlenda íslenzk geti á komist innan skamms, og það álít eg lífsspursmál fyrir landa í nálega öllu tilliti. Hinir 2 landaleitarmenn, hugsa víst helzt til landtöku vestarlega í Iowa eða þá í Nebraska, þar sem að minnsta kosti að nokkru leyti væri gott og hentugt sauðland. — Eg kann yður mínar beztu þakkir fyrir hinar theologisku upplýsingar, sem þér nú sem fyr hafið verið svo góðr að gefa mér. Eg var í svo miklum vandræðum meðan ofsi klerkanna andspænis mér stóð sem hæst í vetr, einkum sakir þess, að eg var alveg bókalaus, en þessir obscurantar afneita öllum vísindalegum guðfræðisskoðunum í hjarta sínu, þó þeir opinberlega ekki ætíð dirfist að láta það í ljósi með skýrum orðum. Annars gef eg ekki túskilding fyrir þeirra guðfræðisvit, því auk

þess sem það er einstrenginslegt, ristir það sannarlega ekki djúpt. Eg er orðinn dauðleiðr á að heyra eins andlausar og smekklausar prédikanir sem þeirra. Það er annars mín föst sannfæring, að þeir principmæssigt haldi alþýðu í fáfræði; að þeir kunni að gera það "bona fide" má vera að satt sé. En stefna þessi er ekki réttlætt fyrir það, og eg geng að því vísu, að þeir fái einhverntíma að kenna á ófrelsisofsa sínum og læra betri "mores". Hið annað merkasta norska (líka með dönskum prestum í) kirkjufélag hér í Ameríku, *Conferensen,* sem svo er kölluð, hefir legið í vetr í grimmúðgasta rifrildi við sýnódu þessa út af trúarmálum. Geta Conference-menn þess í einni sinni blaðagrein, að þeir álíti sýnóduna papistiska, hierachiska, universalistiska etc., til skammar og svívirðingar fyrir hina lút. kirkju og hina norsku þjóð m. m. Sá, sem reit þessa grein, er norskr theolog, kennari við Conferense-skólann í Minneapolis, að nafni Oftedal, er kom frá Noregi í haust. Er margt í þeirri grein, þótt bitr sé, sem eg mundi geta undirskrifað. — Í austurríkjunum hafa margar blaðagreinar í vetur útkomið um Ísland, mest út af þúsund ára bygging þess, og svo er minnst á hinn fornízlenzka fund á Ameríku o. s. frv. Vísindamenn nokkrir þar eystra hafa líka gjört sér mikið far um að safna allskonr amerikanskri Literatur, til þess að senda upp til Íslands í sumar, til merkis um, að þeir í anda taki þátt í júbílhátíðinni heima. Jafnvel sýnódan norska kvað ætla að senda — sakir áskorana frá þessum mönnum — eitthvert samsafn af sinni kirkjulegu Forfattervirksomhed heim til Fróns, svo þá geta Íslendingar séð, hvernig klerklýð þessum er innan brjósts. — Jón Ólafsson er í góðu gengi hér, og hefir hann dálítið ritað hér í eitt norskt blað um Ísland.

Eg er orðinn naumt fyrir með bréfin til Íslands í þessa 3. póstskipsferð, og má því til að vera svona fáorðr í þetta sinn. Með kærri kveðju frá konu minni til ykkar hjóna enda eg miðann. Guð almáttugur farsæli yðr og gleðji æfinlega. Yðar elskandi

*Jón Bjarnason.*

Hvernig stendr á því, að ekki er gefin út árleg skýrsla um prestaskólann í Rvík? Það er svo leiðinl. að geta ekki

vísað þeim, sem vilja fræðast um hina íslenzku theologíu, á neitt íslenzkt rit (enn síðr útlenzkt), sem gefr hugmynd um, hvað þar er kent og hver er stefna í guðfræði vorri, eða hve margir þar studéra eða annað, sem hlýtr að vera interessant fyrir alla þá, sem hirða um hina ísl. þjóð.

Líkl. dvel eg með konu minni í Milwaukee í sumar í 2 mán. (júlí og ágúst) meðal landa. Mætti því adressera mín bréf: Care of Ólafr Ólafsson, Esq., 271 Milwaukee Street, Milwaukee, Wisconsin, etc.